# Kristilegra Trúarbragda

# Høfud-Lærdómar,

til

## almennilegrar uppbyggíngar.

Samanteknir af

Mag. Christjáni Basthólm,

Fyrrum Lærimeistara í Gudfrædinni, kónglegrar Hátignar Skripta-fødur og ædsta Hof-prédikara.

Á Íslendsku útlagdir af

Gudmundi Jónsyni,

Prófasti og Sóknarpresti til Stadarstadar og Búda í Snæfellsness Sýslu.

2. Utgáfa.

Videyar Klaustri, 1837.

Prentadir á Forlag Sekret. O. M. Stephensens, af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

# Innihaldid.



# 1. Kapítuli.

## Um skapada hluti, sem røksemdir um Guds tilveru.

Vor skilníngar-vit sannfæra oss eins ánægjanlega, ad adrar verur eru til í kríngum oss, sem vor egin medvitund segir oss, ad vér sjálfir erum til; ad vilja neita ødruhvørju þessu, væri fásinna, og ad vilja leida røk til þess fyrir vitfyrríngum, væri røksemd um eginn vitfyrríngskap.

Ef vér lyptum vorum augum upp frá jørdunni, sem vér á búum, til þess ómælanlega rúms, sem hana umkríngir, sjáum vér óteljandi fjølda af stjørnum, sem glampa lángt frá í náttmyrkrinu. Einfaldir álíta þær sem smá-ljós, er qveikt séu einasta til ad skémta augum vorum, ellegar kannské til ad vísa veg sjófarendum, hvørja eigingagnid lockad hefir út á trygdalaust djúp; stjørnu-spekíngurinn þará-mót, sem fer nockud lengra áfram í sinni eptirgrenslun, álítur hvørt eitt af þessum ljósum, sem sól. Hann telur þessar sólir, og hefir mikid fyrir ad telja þær; hann hugsar, ad nú hafi hann fundid þeirra tølu; en brádt verdur hann þess var, ad hann hefir dregid sig á tálar, og aldrei hefir hann ordid gladari vid ad sjá sig á tálar dreginn. Hann vopnar sín augu med kunstinni, strax uppstígur hann nockr-

ar millíónir mílur hærra í þann takmarkalausa geym, hann telur nú nýjar sólir, sem sveyma yfir sólum, eldhnetti yfir eldhnottum, og þó að þeir sýnist yfrið smáir í hans augum, þá er honum það einúngis rökfemd um þá ómælilegu fjarlægð, sem er á milli þeirra og hans auga.

Sá skynsamlega þeinkjandi fær ómögulega ímindað sér, að allar þessar sólir og eldhnettir séu einúngis til vegna vorrar litlu jarðar, sem varla er púnktur af því heila, varla dropi á móti sjáfar-hafinu. Þessi þánki væri eins heimskulegur, og ef ormurinn, sem skríður í duptinu, ímindaði sér, að heili jarðarhnötturinn væri einúngis til vegna hans. Hvörsu litlu skipti manneskjuna, þó á medal svo ótölulegs stjarna-skara, væri nockur hundruð fleiri edur færri? og hvað stoða þær stjörnur, hvörra ljós ecki gétur náð til vorrar jarðar vegna þeirra ómælilegu fjarlægðar? hvað stoða þær, sem með berum augum ecki kunna að uppgötvast? munu þær einúngis vera til þess vegna að skémta stjörnu-fróðum, er á næturnar vaka? og hvað margir eru þeir þá, sem vaka? sá, sem þenkir nockuð meir, enn sá eckért þenkjandi almúgi, fellur strax uppá þá tilgátu, og þessi tilgáta er líkleg, að hvör ein stjarna sé sól, að sérhvör sól, eins og vor, hafi sínar eigin veraldir, sem hún á að frjófga og upplýsa, að sérhvör verold hafi sína innbyggjara, líflausa og lifandi, skynlausa og skynjandi; því væru hinir síðari þar ecki, þá væru þessir eldhnettir með öllum þeirra verøldum gagnslausir. Enginn stór, enginn verðugur tilgángur kynni að uppnást með

þeim, einginn tilgángur, sem sambýdi stærd smíd-ísins.

Af þessum þánka verdur sá, sem fyrir sér virdir verkin Drottins, frá sér numinn af undrun, þó ecki væri meira enn vor sól, sem er, marg-þúsundsinnum stærri enn sú jörd, er vér ábúum, þó ecki væri meira enn þad ómælilega rúm, sem hennar veraldir inntaka, hvørjar í ópenkjanlegri fjærlægd hlaupa íkríngum hana, sem þeirra mid-púnkt; þó ecki væri meira enn þetta, þá væri þad yfrid nóg til ad uppvekja hjá oss þegjandi undrun. En hvørsu margar milliónir mílur eru frá vorri sólu til þeirrar næstu stjörnu? hvørsu margar frá henni til þeirrar fjærstædustu, sem þó sjest med berum augum? og hvørsu margar frá henni til hinna ótølulegu, sem einúngis med sjónar-pípum kunna ad uppgøtvast? vid þennann þánka søckvum vér í botnlaust afgrunn, afgrunn stærdarinnar, afgrunn fjærlægdarinnar, afgrunn fjøldans. Hvad, ef vér gjætum talid þessar sólir, talid þær veraldir, sem heyra til hvørri sólu, talid þá margbreyttu adgreindu sképnu-flocka, sem búa í hvørri verøldu, og þær einstöku verur útaf fyrir sig, sem heyra til hvorjum flocki!

En, vér þurfum ecki ad telja sólir, vega veraldir og mæla þeirra fjærveru til ad undrast stærd og margfjølda skapadra hluta; vér þurfum ecki med tilgátum ad hleypa oss út á svo tak-markalaust haf, látum oss einúngis nema stadar vid vorn sól-heim, og einkum vid þann hnott, er vér á búum. Lítid er! þad ad vísu, sem vér þeckjum af honum; en þetta litla þeckjum vér þó

med vísu, og þetta litla er nóg til að uppvekja hjá oss heilaga undrun, hvört heldur vér hugleiðum heimsins stærð, eður fjölda hans innbyggjara.

Ef vér hugleiðum stærð vors sólar-heims, hvörsu lítið kann hún að yfirgrípast af þeim lengst útsveymandi ímindunar-krapti! hvörsu augljóslega vitnar hann um það almætti, sem hann tilbjó! einúngis sú jörð, sem vér á búum, vitnar um þá veru, hvörrar kraptur er óendanlegur, hvörrar máttur er án takmarka. Vér kunnum ecki að hugleiða það víðáttusama sjáfar-haf, í hvörju hvalfiskarnir fela sig, þau ógnarlega stóru fjöll, sem fela sína tinda í skýjunum, og eru þó á móti jarðar-hnettinum ecki annað að reikna enn eins og ójöfnur, sem finnast á pipar-berinu; vér kunnum ecki að hugleiða allt þetta, án þess að falla í heilaga og þegjandi undrun yfir því almætti, sem grundvallaði þau, og þeim krapti, sem viðheldur þeim. Ef vér hugleiðum vora sólu, sem útbreiðir ljós og varma yfir vorn jarðarhnött; hvílíkt ómælilegt eld-haf, sem er mörgum þúsundsinnum stærri enn vor hnöttur? þó vor jarðarhnöttur bættist við hana, mundi það nærstum því eckért auka vöxt hennar; hvörsu óþeinkianleg er hennar fjærlægð frá jörðunni? eptir þeim besta reikníngi gétur fallstyckis-kúla, er með sama krapti héldi áfram ígégnum loptið í heil 24 ár, þó varla náð til hennar á þessum tíma. Hvörsu ótæmanlegar eru hennar nægtir af birtu og hita? hér um 6000 ár hefir hún ecki aflátið að úthella góðgjörðasömum eldstraumum yfir hennar veraldir,

og framheldur því sama enn nú, án þess að vér verðum varir við minnstu þurðu á hennar kroptum. Ef vér hugleiðum þær veraldir, sem hræra sig í kríngum vora sólu, er á vorum tímum teljast sjö, og af þessum hafa nockrar aptur aðrar smærri veraldir, sem hræra sig í kríngum þær; hvörr endanlegur skilníngur getur gripið þann geym, sem leið þeirra liggur um, og þann krapt, með hvörjum þær sveyma í hinu þunna lopti, án þess að þær annaðhvört sjálfar skeiki á þeirra rás, eða hindri hvör aðra í þeirra hræríngum?

En Skaparans almætti sjest ecki einíngis af því stóra, heldur ogsvo af því minna. Ecki útheimtist minni kraptur til að ninda sandkornið, heldur enn fjallið, til að skapa Mýfluguna, heldur enn að framleiða Fílinn. Vér erum svo gjarnir á að dæma um hvörn hlut í samanburði við sjálfa oss, og þaraf missir opt það undrunarverðasta verð sitt í vorum augum. Hvað er lítið? hvað er stórt? fyrir Marmara-búunum, sem eru þúsundsinnum minni enn Maurinn og ecki kunna að uppgötvast með berum augum, er Maurinn aptur Fíll, og sandkornið heilt fjall. Ef vér tökum það minnsta Skrið-qvikindi og uppleysum það í þess grófustu parta — því lengra ná vorir kraptar ecki — hvörsu margfaldir eru þess partar? hvörsu kunstug þess samansetníng? hvörr einn partur útheimtir almætti, og þeirra samansetníng væri ómoguleg án óendanlegs kraptar. Það minnsta Skor-qvikindi er allt eins stórt meistara-stycki þess óendanlega kraptar, er tilbjó það, sem sólin með öllum hennar fegurðar glansa. Það smærsta Skor-qvik-

indi er heil verøld, sama fegurð, sama orda, sami fullkomlegleiki, sama jafnvægi í øllum þessum pörtum. Vér skiljum alleins lítið þann krapt, er uppiheldur Mýflugunni á fluginu, sem þann, er við makt heldur veröldunum á þeirra rás. Hvað eitt er almættis djúp yfir hvörju vér einúngis kunnum að undrast, en ecki útgrunda það. Vér hugsum, að vér skiljum allt áður enn vér förum að þenkja, en strax sem vér erum farnir til þess, skiljum vér eckért, og því meira, sem vér þenkjum, þess minna skiljum vér.

Mun þá allt þetta vera orðið til af sjálfu sér? er það máské verkun hendíngar einnar? eður framleidt af leikspili hins dauða efnis? menn kynnu máské að falla uppá þennann heimskulega þánka, ef mean ecki í øllum hlutum yrðu varir við orðu, fegurð, fullkomlegleika og samstemmu, vísdómsfullann tilgáng, og hentug meðöl til að ná honum. Alla vega finnum vér óransakanlega djúpt vísdómsins, vísdóm í sképnanna fjölda, vísdóm í brúkun þeirra hentugustu meðala til framqvæmdar þessum tilgángi.

Vér viljum einúngis festa þánkana við þá jörð, sem vér byggjum. Hvörsu óendanlegar og óteljandi eru sképnurnar í þeirra margfalda mismun! hvörsu margar sveitir! hvörsu mörg kynferði! hvörsu margar tegundir af sképnum! loptið hefir sína innbyggjara, jörðin sína og hafið sína. Þeim skapandi vísdómi sýnist jafnvel rúmið oflítið: sérhvört dýr, sérhvört gras, sérhvörr steinn hlaut aptur að vera veröld fyrir þeirra ýmislegu innbyggjara.

Hvörsu kunstug og vísdómsfull er sú orða, í

hvørri sképnan er saman-blekkjud vid hina. Í allri náttúrunni finnum vér hvörgi brotid ýfirum þvert, edur stockid ýfir. Náttúrunni verdur skipt í þrjú ríki; Steina-ríkid, Grasa-ríkid og Dýra-ríkid, og öll þessi þrjú ríki eru ad sönnu verulega adgreind, en þó samtengd hvört vid annad med milli-verum, er sameina þau med þeim hætti, ad landamerkin eru nærstum því óþeckjanleg. Steina-ríkid er samtengt vid grasa-ríkid med sképnum sem hálfar eru steinn, en hálfar gras; Grasa-ríkid er aptur samtengt vid Dýra-ríkid med sképnum, sem hálfar eru gras, enn hálfar dýr; Dýra-ríkid og mannkynid mætast í þeim nafnkunnuga Apakétti Orang Outang, sem einúngis sýnist vanta málfærid, til þess hann sé allteins vel mannéskja, sem Hottintottarinn.

Hvörsu vísdómsfullar eru þær tröppur, á hvörjum sképnurnar stíga af einni tröppu fullkomlegleikans á adra? hvörsu óteljandi og óendanlega margfaldadar eru þær fullkomlegleikans tröppur, um hvörjar þær upphefja sig frá þeim dauda tilfinníngarlausa steini, til dýrsins, sem hefir náttúrlega tilfinníngu, og aptur frá því til þeirrar skynsamlega þenkjandi manneskju? já, eins og sképnurnar stíga í gégnum óteljandi hópa og radir frá einum fullkomlegleika til annars, svo hefir hvörr einn hópur af sképnum aptur sínar ýmislegar fullkomlegleika tröppur. Einn steininn er ágjætari enn annar, og einn málmurinn ágjætari enn hinn. Eitt grasid er ödru fegra, og eitt dýrid ödru fullkomnara. Sum dýr hafa einúngis eitt skilníngar-vit,

sum fimm, og hjá sumum er sama skilníngar-vitid fullkomnara enn hjá ødrum.

En þad, sem enn nú meir má sannfæra oss um þann óendanlega vísdóm, med hvørjum verøldin er løgud, eru þau ótéljandi augnamid og sá vísdómsfulli tilgángur, sem vér sjáum, ad er samfara øllum sképnum, og sérhvørjum þeirra parti. Þegar menn sjá dyr á húsi nockru, þá efast menn ecki um, ad þær hafi verid tilbúnar þar af ásettu rádi, til ad gánga í gégnum þær inní bygg̃ínguna; menn efast ecki um, ad gluggarnir séu til þess gjordir, ad þeir skuli bera birtuna inní húsid; og allteins kann madur ecki heldur ad efast um, ad sólin standi í midjunni á hennar verøldum, til ad útbreida yfir þær ljós og varma; ad jørdin veltist daglega kríngum sinn ás, svo ad allir hennar ábúar géti notid yls og birtu af sólunni; og, svo ad eg nidurstígi til hinna minni sképna, ad Kóngulóinn hafi þá medfæddu náttúru ad spinna vefinn til ad veida í honum sína brád; ad fuglinn hafi vængina til ad fljúga, og fiskurinn uggana til ad synda, og svo framv. En nú hefir hvør ein sképna sitt augna-mid og ákvørdun. Eckért í náttúrunni er ónýtt, eckért forgéfins. Maurinn, Mýflugan, sandkornid er allteins vigtugt í náttúrunni, sem þad ypparsta dýr, og madurinn, þess Herra. Þad er vor fávitska, sem er fyrir svørunum, þegar vér gjørum þessi heimsknlegu spursmál: hvartil þénar þessi sægur af Skor-qvikindum, sem ásækja oss med þeirra broddi, og auka oss

leidindi med þeirra sífelda saungli? hvartil stoda þau óteljandi orma - kyn, sem umróta og grafa sig nidur í jørdina? hvada gagn er ad þeim óteljandi audvirdilegu paunglum, sem dyljast á marar-botni, edur pløntunum, sem berum augum ósýnilegar, synda í loptinu? en þó ad þvílíkar sképnur séu ecki réttlínis manneskjunni til nota, kunna þær samt ad verda þad med medali. Sú sképna, sem oss er gagnlaus, er máské hin naudsynlegasta ødrum verum, er aptur péna oss til nytsemdar.

Ad þær smærstu ásamt med þeim stærstu sképnum séu vigtugar, þó vér ecki alltíd nógu gløggt sjáum þeirra vigtugleika, þeckjum vér sumpart þaraf, ad vér á hinum audvirdilegustu sképnum, þeirra mindun og samansetníngu finnum þann sama vísdóm og sømu kunst, sem á hinum ypparlegustu; brodddurinn á Mýflugunni, er allteins kunstuglega tilbúinn, sem raninn á Filnum; hvørsu vísdómslega eru þær skeidir innréttadar, sem hún stíngur honum í! sumpart kunnum vér ad álykta þad þaraf, ad í náttúrunni er med sømu umhyggju sjed fyrir þeirra lítilmótlegustu og fyrir vorum augum foraktanlegustu sképna vidurværi, sem fyrir þeim fegurstu og ypppurstu, sem vér høfum daglega gagn af. Og hvada skynsamlega ályktun skyldum vér draga héraf, ef ecki þessa, ad hvør ein sképna í náttúrunni hlýtur ad hafa sinn tilgáng og sína áqvørdun. Eckért er óþarft, eckért gagnslaust. Ef ein einasta tegund lidi undir lok í náttúrunni, mundi verøldin verda allteins ófullkomin,

sem sigur-verkid, er mundi hætta ad gánga, ef eitt einasta hjól væri tekid úr því.

Því meir, sem vér grenslumst eptir náttúrunnar leyndardómum, því framar komumst vér ad raun um, ad þessu er þannig varid. Óteljandi sképnur, er forfedur vorir hafa álitid einskisverdar, þykja oss markverdar; og óteljandi sképnur sem oss þykja engu nýtar, munu sídar verda markverdar fyrir vorum eptirkomendum. Vér drøgum þar af þá skynsamlegu ályktun, ad þær sképnur, sem vér enn þá ecki gjørla þeckjum, hafi engu ad sídur þeirra markverdann og vísdómsfullann tilgáng, þó vér þeckjum hann ecki. Enn þá óteljandi fægur af sképnum, sem uppfylla jørdina, hafid og loptid, svo óteljandi fjøldi af augnámidum og svo óteljandi fjøldi af medølum, med hvørjum augnamidin med þessar sképnur ega ad framqvæmast. Hvørsu óendanlegt og guddómlegt er allt þetta!

Engu minna vísdóms verdum vér varir í náttúrunnar smídi, þegar vér adgjætum þau óteljanlegu medøl, sem tilsett eru á vorum jardar-hnetti øllum sképnum til uppheldis, varnar og fjølgunar. Sérhvørt dýr finnur undir þess himinbelti þá fædu, sem best á vid þess náttúru; og sérhvørt dýr er gjædt þeirri medfæddri drift, ad útvelja af óteljandi margvíslegum lífsmedølum þad, sem best á vid þess náttúru og því verdur gott af. Sérhvørt dýr er útbúid med þeim medølum, sem eru þau hagqvæmustu til þess þad géti útvegad sér fædu og uppheldi. Þau kjøtetandi dýr hafa adrar tennur, og adrar þau, sem bíta gras. Sum dýr hljóta ad leita þeirra fædu í vatninu, ønnur

í loptinu, sum á jørdunni, önnur í jørdunni; og hvørs eins dýrs medfædd náttúra kénnir því ad uppleita og finna hana. Já, þegar öll náttúran, daud og dofin, liggur grafin undir vetrar-snjónum, hvørninn er þá sjed fyrir þeirra vidurværi? sum dýr, sem enn þá géta fundid sér nockurt lífsuppheldi, halda þeirra fulla fjöri og kröptum, önnur eru þannig sköpud, ad þau allann veturinn þurfa enga fædu; svita-holurnar apturlokast, meltingar-verkfærin hætta þeirra ervidi, líkaminn lætur eckért frá sér, og þarf því engann vidauka. Nockur liggja í dái, þau eru hálfdaud eins og náttúran; þau skortir eckért, þau finna ei heldur til neins skorts; ödrum vísar náttúran veg til mildari himinbelta, hvar þau finna þeirra födur ysirgnæfanlega. Og eins og sjed er fyrir fædu dýrsins, allteins og mannsins, svo er því einninn sjed fyrir læknisdómi í þess sjúkdómum. Dýrin hafa af fáum sjúkdómum ad segja (eg tala ecki um þau, hvørra náttúra skémmist í mannanna höndum) sérhvørt dýr finnur handa sér í náttúrunni ánægjanlegann læknisdóm, og af innplantadri drift veit ad leita hans.

Dýrid hefir ecki eins og manneskjan, skynbragd á ad velja sér sjálft klædi, og laga þau eptir himin-beltanna og vedur-áttunnar umbreytingum; þess vegna fædist sérhvørt dýr med þeirri skýlu, sem eptir þess náttúru er hentugust til ad vernda þad á móti loptsins og vedráttunnar ofríki, og eptir því sem ársins tímar umbreytast, umbreytist einninn þess skýla.

Sérhvørt dýr, og sérhvørt gras, er útbúid

med hæfilegleika til ad fjölga kyni sínu, og þeirra fjölgunar-hættir eru aptur allteins margvíslegir og þeirra náttúra. Hvörsu vísdómslega er í hjarta þess skynlausa og skynsemdarfulla dýrs innplöntud vidqvæm elska til þess únga afqvæmis! hvörsu vísdómslega er sérhvörs dýrs frjóssemi fastsett, eptir þess ágqvørdun og þeirri nytsemi, til hvörrar þad skal vera fyrir heiminn! þarfyrir er mikill sægur af skor-qvikindunum, ad fuglarnir, sem eru mannanna fæda, géti fundid þeirra ánægjanlegt vidurværi. Þeirra kyn-fjölgun eru samfara lystisemdir, og uppklakníng þeirra vanfæra afqvæmis er kryddud med yndæli. Þessar lystisemdir eru þeim uppørfan til ad uppfylla þeirra ágqvørdun, og laun fyrir þau, þegar þau uppfylla hana.

Sérhvört dýr er útbúid med naudsýnlegum vopnum sér til varnar. Öll náttúran liggur í stridi; eitt dýrid er annars óvinur, þar eitt dýrid er ætlad ødru til fædis. Af þessari ágqvørdun þeirra lifandi skepna kémur þad, ad svo miklu fleiri géta notid lífsins og þess yndælis. Ef eitt dýrid ecki þénadi ødru til fædis, þá gjæti ecki helmíngurinn af þeim verid til, því náttúran gjæti ecki fædt þau øll. En svo ad eitt kynid ecki aldeilis uppræti annad, þá er med addáanlegum hætti sjed fyrir naudsýnlegu jafnvægi í náttúrunni. Þarfyrir er sérhvört dýr útbúid med þeim naudsýnlegu vopnum til ad rádast á sinn óvin, og til ad verja sig fyrir honum. Og þau, sem ecki eru fær til stridsins eru þess fimari til flóttans.

Gétur madur hugleidt allt þetta, án þess ad finna sig sannfærdann um, ad sá vísdómur, sem

lætur sig í ljósi í heimsins byggíngu, er allteins óendanlegur, sem sá kraptur, er augljóslega sjest á hans sköpun og viðhaldi? og hvørja skynsamlega ályktun skyldi maður draga héraf, ef ekki þessa: að veröldin gétur ekki verið til af sjálfri sér, þar efnið ekki gétur framleidt sig sjálft; kann ekki heldur að vera þannig tilsett af hendíngu einni, þar hendíng og tilfelli géta ei breytt eptir vísdómi; heldur að hún sé framleidd og lögud af þvílíkri veru, sem er óendanleg bæði í krapti og í vísdómi.

En, eg veit þó hvað menn kunna að hafa hér á móti, og hvað margir hafa móti haft. Þetta gyldir, segja menn, þegar litið er yfir skapaða hluti í svip, þá sýnist allt svo fullkomið, svo vísdómsfullt; en hvørsu margt má hér ei undantaka, þegar menn grandgjæfilegar athuga heimsins einstöku parta. Hvørsu mikið ófullkomið finna menn ei allavega? hvørsu margar sképnur, sem sumpart eru ljótar, sumpart skaðlegar? hvørsu mørg øræfi og eyðimerkur? hvørsu mörg fen og foræði, er allt í einu veita gaungu-manninum bana og legstað? hvørsu margir þver-hnýptir hamrar skaga fram yfir höfuð ferðamannsins? hvørsu margar botnlausar gjár og brennusteins gryfjur, sem eru nógu víðar til að uppsvelgja heilar borgir? hvørsu opt belja vatnsflóðin ofan af fjöllunum niður í dalina, og þrífa með sér, eins og synda-flóð, bæi og tún og dýr og skóga og manneskjur? hvílík brennandi og eld-gjósandi fjöll, sem í þeirra inníblum geyma heilt haf af bræddum málmi, og láta hann flæða yfir heil héröð? hvílíkir óþecktir kraptar sundurbrjóta jarðar-svörðinn og grafa innbygg-

arana undir kofa = rústunnm? hvílík þyck af skruggum og eldíngum þrúngud ský umsveypa náttúruna, hrista hana svo mørgum mílum skiptir, og skjóta øllum lifandi sképnum skélk í bríngu? hvílíkur ótolulegur fægur af skadvænum skor = qvikindum, sem med þeirra fløgti fovnyrkva sólina, og uppeta jardarinnar gróda? hvørsu margar eitradar jurtir, sem straffa hvøru þann med daudanum, sem er svo óforsjáll ad smacka á þeim? hvørsu mørg glepsandi ráns = dýr, er ossækja manninn, þeirra ysirbodara?

Þegar menn athuga skapada hluti á þenna kant, þykjast menn ecki hafa svo mikla orsøk til ad dádst ad vísdóminum í heimsins byggíngu. En þad er einúngis vor vanvitska, sem hér uppsegir dóminn. Vér ættum miklu heldur ad dæma þannig: allstadar, svo lángt, sem vor þecking nær, finnum vér fegurd, ordu, samstemmu og fullkomlegleika, vísdómsfull augnamid og hentug medol til framqvæmdar þessum augnamidum, þess vegna hlýtur líka í þeim fáu-pørtum af því heila ad vera sama orda og fullkomlegleiki, jafnvel þó vér ecki sjáum þad gjørla. Þessi áiyktan væri skynsamleg, og stadfestist daglega af þeim, er ransaka náttúruna, er vid hvørt fótmál verda varir vid ordu, hvar þeir ádur þóktust einúngis sjá óordu, og sjá þar vísdóm og gjædsku, hvar þeir ádur sáu eckért. En menn eru svo vogadir ad snúa þessari álykiun vid, og dæma þannig: hér og þar sjáum vér engann tilgáng og engann vísdóm; í fáeinum pørtum sjáum vér engann vísdóm og engann fullkomlegleika; þess vegna er engin orda og enginn fullkomlegleiki í því heila; þess vegna er øll heimsins

bygging, að dóktudum öllum þeim vísdómi, sem svo auðsjáanlega blasir á móti hvörs manns augum, ekkért annað enn verkun af hendíngu og tilfallandi orsökum í náttúrunni.

En vér viljum ecki dvelja við þessa álygtun, hvörrar rángindi eru hvörjum sannsýnum dómara auðsjáanleg; vér viljum einúngis í stuttu máli víkja á þær mótsagnir, með hvörjum menn leitast við að niðra þeim vísdómi, er með svo fögrum geislum framskín af allri heimsins byggíngu — margar sképnur eru í kríngum oss, segja menn, sem lángt frá ecki eru fallegar, miklu heldur ljótar, — en, þó að vér raunar finndum þvílíkar sképnur, sem verðskulduðu þetta nafn; jafnvel þó mannanna álit sé yfrið misjafnt, að það sem einn dáist að, við því hryllir stundum annann; en eg gjöri við, að vér finndum þvílíkar sképnur, sem raunar forþéna þetta nafn; ber oss þá að lasta svo óendanlegann ríkdóm af fegurð, þó þar mættu finnast einhvörjar sképnur, sem værn ódásjálegri? ellegar egum vér að bera vatns-dropann saman við allt sjáfar hafið? hvað vitum vér, nema Skaparinn hafi innplantað hjá oss viðbjóð á vissum sképnum, svo vér ecki skyldum misbrúka þær oss til skaða? vitum vér ei, að oss ber ecki að dæma um fegurð smíðis-gripsins eptir hans einstöku pörtum? það sem er ljótt í pörtum, verður opt því fallegra þegar búið er að setja það saman. Skugginn er í sjálfum sér enginn prýði, og þó blandar málarinn skugganum saman við ljósu farfana, til þess að ljósið skuli sýnast þess fegra hjá því gagnstæða myrkri. Væru allar sképnur jafnfallegar, þá væri enginn fallegleiki

á því hella. Það er tilbreytnin og mismunurinn, það er sá, í gégnum óteljandi umbreytínga-tröppugáng uppstígandi fullkomlegleiki frá því ljóta til þess fullkomlega fallega, sem gjörir þá hærstu fegurð' á því heila. Loksins viljum vér enn nú bæta þessu við: að það er almenniIeg forsjálnis regla, að þegar tveir fullkomlegleikar ecki verda sameinadir, þá hlýtur sá minni að víkja fyrir þeim meira. Þegar fegurd hlutarins ecki gétur stadist med hans augnamidi, þá hlýtur fegurdin að setjast til sídu, svo augna-midid kunni að nást, hvarí hlutarins fullkomlegleiki eginlega er innifalinn. Tilgángurinn med húsid er, að það sé hentugt til íbúdar og haldi úti frosti og kulda; prýdi á húsinu er, að fagurt sé út að líta; en ef þessum tveimur augnamidum verdur ecki samankomid, viljum vér þá kalla þann forsjálann, er leggur sig undir vetrarkuldann, sumarhitann og óholla vinda, til að fara ecki á mis við prýdina. Vér gétum helmfært þessa samlíkíngu uppá náttúrunnar innréttíngu; vér fyrirhittum hér að sönnu ýmsa hluti, sem ecki eru fagrir heldur ljótir fyrir vorum augum: dýr, vid hvörra einúngis skapnadi oss hryllir; fuglar, hvörra skrækir skéra vor eyru; grös, vid hvörjum lyktina og smeckinn væmir; en hvad fylgir héraf annad enn þetta, að Skaparinn er alvís: hann fann stríd á milli fegurdar þessara sképna og þeirra fullkomlegleika, og eptir lögum hins fullkomnasta vísdóms setti hann til sídu fegurdina, til að ná fullkomlegleikanum.

Vér viljum med færri ordum svara hinum odrum mótsögnum — margir hlutir, segja menn,

eru ófullkomnir í náttúrunni — en er ecki mis-
munur á því, sem er ófullkomid, og því, sem er
midur fullkomid? grasid er ecki svo fullkomid, sem
dýrid, edur dýrid svo fullkomid, sem Moldvarpan,
edur Moldvarpan svo fullkomin, sem Apinn; því
þá værí grasid ecki gras, Skélfiskurinn ecki Skél-
fiskur, og Moldvarpan ecki Moldvarpa; þá hætti
mismunurinn og tilbreytnin, og undireins øll nátt-
úrunnar fegurd og fullkomlegleiki; en samt sem ád-
ur er hvør sképna í sinni tegund allteins fullkomin,
sem hin, þar hún er hæfileg til ad ná þeim tilgángi,
sem hún er tilætlud.

Vér qvørtum um svo margar eitradar jurt-
ir og grøs, sem hóta manneskjunni dauda, en —
brúkum vér þessar sképnur samqvæmt Skaparans
tilgángi, þá verda opt þessi grøs, sem vegna van-
brúkunarinnar eru orsøk til daudans, med þeirra
réttu brúkun óhult medal á móti daudanum.

Vér kløgum yfir þeim mørgu villu- og ráns-
dýrum, sem skélfa og hræda manneskjuna; en er
þad ei satt: ad af þeim grimmustu ránsdýrum fær
manneskjan þá bestu skinna-voru til skýlíngar á
móti vetrar-kuldanum? er þad ecki satt: ad þessi
dýr af náttúrlegri drift fordast þó optastnær mann-
eskjuna, og halda sig á óbygdum stødum? er þad
ecki satt: ad Skaparinn, sem lét oss fædast ver-
julausa, gaf oss skynsemina, er fær oss nóg vopn
í hendurnar til ad mótstanda þeirra áráfum.

Vér qvørtum yfir, ad svo margar plágur
séu í náttúrunni, svo mørg vatnsflód, eldgjósandi
fjøll, drepsótt, jardskjálftar, stormvindar, og adr-
ar fleiri, sem eydileggja manneskjurnar. Menn

þenkja, ad þvílíkt géti ecki stadist med heimsins fullkomlegleika, og eg þenki, ad ef þessar plágur væri ecki, þá mundi heimurinn vera ófullkominn. Í stadinn fyrir ad svara ollu þessu sérílagi, vil eg innibinda þad allt í almennilegu svari: handa hvorjum hefir Gud tilbúid heim þennann? handa saklausum, edur syndugum innbyggjurum? sé þad sídara satt, megum vér þá ei játa, ad heimur þessi er med vísdómi tilbúinn, ad allar þessar plágur horfa til ad efla hans tilgáng, og ad þær þess vegna heyra til heimsins fullkomlegleika? í heimi þessum búa skynsemdarfullar sképnur, sem ecki hafa hér þeirra sídurstu áqvørdun, sem hér nidri ega einúngis ad búa sig undir annann betri heim, og þó med ollu þeirra hjarta eru fjøtradar vid jørdina, eins og þær ættu hér æfinléga vid ad vera; þessvegna hlýtur eitthvad ógédfeldt ad vera í heiminum, er dempi þeirra ofmiklu elsku til þess jardneska, og snúi þeirra þaunkum og óskum til þess fullkomnara heims, hvar þeirra fødurland er. Í heimi þessum búa skynsamar sképnur, sem daglega setja sig upp á móti Skaparanum, vanbrúka hans velgjørnínga, og stælast upp vid hans mildari aga. Í þvílíkum heimi, hvar balstýrugir syndarar búa, hljóta þess vegna ad vera hegníngar, eldíngar, vatnsflód, stormvindar, jardskjálftar, húngurs-neyd, drepsótt og fjársýki hljóta ad vera réttlætisins verkfæri, til ad sannfæra manneskjurnar um, ad Gud er réttlátur, sem yfir þeim stjórnar.

Sé þad nú satt, ad allar þessar svo kølludu óordur séu naudsynlegar í heiminum, svo framt Skaparinn skal ná sínum tilgángi med heiminn

og hans innbyggjara, þá heyra þau til ordu og fullkomlegleika í þessum heimi, án þeirra mundi heimurinn ecki verda fullkomnari, heldur ófullkomnari. Tukthúsid væri ófullkomid, ef þad væri tilbúid eins og slotid. Heimur þessi mundi sömuleidis vera ófullkominn, ef ad straffi og aga væri ecki blandad saman vid Drottins velgjørnínga. Þad sídara lætur oss þreifa á hans gædsku, hid fyrra innplantar hjá oss heilagann ótta fyrir hans réttlæti. Bádar þessar hugar-hræríngar eru naudsynlegar fyrir syndugar skepnur, ef þær skulu leidast til þeirra rétta takmarks, og Guds tilgángur med þær uppfyllast. Þessar óreglur eru þess vegna svo lángt frá því ad vera røksemd á móti Skaparans tilveru, sem med vísdómi og gædsku hefir tilbúid heiminn, ad þær miklu framar stadfesta þennann sannleika.

Medal allra þeirra røksemda, er leiddar eru til þess, ad Gud sé til, er þess vegna, eptir mínum þaunkum, engin sterkari, engin auglјósari enn sú, sem dregin er af heiminum og hans løgum; af verkuminni álykta menn um orsøkina. Þegar vér sjáum hús, hvorsu stóra bresti sem þad hefur, edur skip, þó þad sé aldrei nema svo ófullkomid, þá hugsum vér strax til smidsins. Sá, sem vildi uppástanda, ad þvílík bygging hefdi mindast af því, ad hid dauda efni hefdi kastast þannig saman; sá, sem vildi uppástanda, ad kunstuglega tilbúinn himin- eda jardar-hnøttur hefdi ordid til af hendíngu, án þess ad nockurr verkmeistari hefdi lagt þar hendur á, af því smápartarnir hefdu þannig sameinast, þeim hinum sama mundu menn

án efa vísa til þess stadar, hvar dárarnir vardveitast, en hvört skal þá vísa þeim, sem uppástanda, ad himin og jörd med øllum þeirra ótølulegu innbyggjurum, á hvörjum svo mikid almætti, vísdómur og gjædska lætur sig í ljósi, ad þetta séu verkanir, tilfallandi verkanir þess dauda efnis, edur einberar hendíngar? vid þá, sem géta þenkt svo heimskulega, høfum vér eckért ad sýsla. Orsøkin til þeirra vitleysu, er framar í hjartanu, enn skilnínginum. Hjartad hlýtur ad læknast, ádur enn menn kunna ad hugsa til ad lækna skilníngin. Sá skynsamlega þeinkjandi þarf ecki heilann heim til ad komast til þeckíngar á Gudi og Skaparanum, Mýflugan einúngis er honum nóg til ad ødlast þessa sannfæríngu.

---

Pad er ecki nóg, þó vér af athugun skapadra hluta, lærum ad þeckja, ad ein guddómleg vera edur skapari er til; þeirra hugleidíng á ad uppvekja hjá oss heilaga undrun yfir Skaparans óendanlegleika, djúpa audmýkt, heilagann ótta, innilegann kjærleika. Þessar hugar-hræríngar ega ad upplífga hvørn þann, sem med skynsemi fyrir sér virdir Guds miklu dásemdar-verk.

Hvørsu ótølulegar eru Guds sképnur! hvørr gétur talid alla hans herskara, sem búa á jørdunni, fylla loptid og krokt er af í vøtnunum! hvørsu óendanlegur er sá geymur, sem innilykur allar veraldir! hvørsu detta hér í dá vor skilníngur og imindunar-kraptur! hvørsu ógripanleg eru øll Guds verk! vér sjáum einúngis yfirbordid; þad

innra er ætíð leyndardómur fyrir oss, vér sjáum verkunina; þær fyrstu hreck-fjaðrir eru oss ætíð huldar. Hvílíks óransakanlegs vísdóms verðum vér varir á þeim minnstu og þeim stærstu skepnum! sama vísdóms á skor-qvikindinu, sem fæðist að morgni, æxlar kyn sitt um middegið, og deyr að qvöldi, sem á Hvalfiskinum og Filnum. Værum vér þá ecki hinir tilfinníngarlausustu: af öllum Guðs skepnum, ef vér ecki findum hjá oss heilaga sinnisins upplyptíngu á meðal svo stórra dásemda? hvílíkt syndsamlegt tilfinníngarleysi! ónýtum vér ecki þar með alla Skaparans alvarlegustu viðleitni að gjöra oss athugasama um hans mikilleika? þegar vér með köldu blóði og dofnu hugskoti sjáum hans miklu dásemdir allt í kríngum oss, án þess að unna þeim svo mikils, sem vors athyglis, hvaða tilgángur kann að nást þar með? ecki Guðs dýrð, því hana sjáum vér ecki; geislar hans óendanlegu hátignar verma oss ecki; ecki vor egin farsæld; því hvaða farsæld gétum vér smackað, í Guðs stóru verkum, þegar vér ecki finnum hjá oss neina sinnisins upplyptíngu við þeirra skoðun? já, dýranna farsæld, sem eta, drecka, sjá, heyra, smacka, ylma, finna til, en ecki manneskjunnar farsæld, sem ætti að upphæckast af skynsamlegum hugleiðíngum og gøfgari hugarhræríngum.

Ef að vér nógu opt, nógu gaumgjæfilega og líflega athugudum Guðs stórmerki, hvørsu djúpt mundum vér þá auðmýkja oss fyrir allra hluta Skapara. Hvað erum vér, þegar vér berum oss saman við Skaparann? hvað er vor vísdómur,

em varla gétur samteingt tvø hugar=grip hvørt vid annad. á móti Guds óendanlega vísdómi, er sameinar allar sínar óteljandi verur, hvørjar í tilliti til þeirra náttúru, edlis og eginlegleika eru hvør annari svo ólíkar, og þó sameinar þær þannig, ad þar af kémur heilt, í hvørju orda, fullkomlegleiki og samstemma hefir. yfirhønd. Hvad er vor máttur á móti Guds óendanlega almætti, sem med bendíngu síns bjódandi vilja kallar veraldirnar fram af engu, og hrindir þeim aptur til baka í þeirra fyrsta Eckért. Hvad er vor þeckíng, hvørsu sljó, hvørsu myrk, hvørsu skammt nær hún? hvad vitum vér, utan þetta: ad vér vitum eckért? hvørsu mørg ár lída ecki, fyrrenn vér finnum einu einasta sannleika, fyrrenn vér høfum skilid hann svo vel, og þeckt hann svo greinilega, ad vér ecki framar óuadumst af efasemdum og mótsøgnum? og hvad er þá vor þeckíng á móti þeckíngu hins óendanlega, sem innibindur í sér allt þad takmarkalausa ríki allra møgulegra sanninda? hvad er vor þeckíng á móti alvitsku hins óendanlegá, sem med einu tilliti yfirskodar allar veraldir í øllu þeirra margfalda sambandi, fyrir hvørri eckért skridqvikindi er óþeckt, og eckért ar í sólar=geislanum ótalid? ef vér þannig nógu líflega settum oss fyrir sjónir Guds óendanlegleika, bærum hans almátt saman vid vorn vanmátt, hans ljós saman vid vort myrkur, hans vísdóm saman vid vora vanvitsku, hans Allt vid vort Eckért, hvørsu djúpt mundum vér þá audmýkja oss fyrir honum! hvørsu smáir mundum vér þá verda í vorum eigin augum! hvørsu

mundum vér þá sjálfast fyrir að leggja dóm á hans viðhöndlun við oss, hans álvktanir og hans vegi!

Ef að vér nógu opt hugleiddum Guðs stórmerki, hvílíkur ótti mundi oss þá standa af hans óendanlegu hátign! hvør er orsökin, að vér svo lítið óttumst þessa veru, af hvorrar bendíngu himnarnir bifast, og afgrunnið skélfur? orsökin er engin önnur enn þessi: að vér ecki nógu ydduglega hugleiðum hans miklu dásemdir í náttúrunni. Hvørsu skorinordt tala þær um hans réttlæti, stundum í hans yfirordulega, stundum í hans ordulega straffi. Þegar mordengillinn, vopnaður með drepsótt, flýtir sér borg úr borg, hús úr húsi, slítur børn úr mædra og ektamaka úr ektamaka örmum; þegar jarðskjálftinn, fljótur eins og eldíngin, fer øskrandi áfram í gégnum afgrunnið; þegar fastir turnar skjálfa fyrir hans tilkomu, fjøll niðursøckva í sjáfar-djúpið og sjáfar-afgrunnið aptur upphefur sig að fjøllum; þegar vér sjáum þessi merki Guðs réttlætis í náttúrunni, skyldum vér þá ei óttast hann? mun þann óendanlega máské vanta krapt til að leggja straffið á? hvørsu ljóslega tala hans miklu dásemdir í náttúrunni um hans ótakmarkaða almætti, í bylgjunum, í stormvindunum og í skruggu-eldinum, þegar hann á sínum þrumuvagni fer í gégnum skýin, vopnaður með logum. Ef vér nógu opt og líflega hugleiddum þessa Guðs hátign, mundum vér þá ecki miklu meir óttast þessa veru, mundum vér ecki sjálfast að styggja hann? hann, sem ecki þarf að kalla á drepsótt og jarðskjálfta, og vatnsflóð til að hyrta oss; í

hvørs hendi flugan og skrid-qvikindid eru nógu øblug til ad láta oss finna til hans reidi.

En Gud vill ad hans skynsemdarfullu skëpnur ecki einúngis óttist, heldur einninn elski sig, þess vegna tala allar hans dásemdir í náttúrunni med hárri raustu um elsku þeirra Skapara. Allt hvad vér sjáum kríngum oss, er minnis-teikn um Guds gjædsku. Vér sjálfir erum dásemdar-verk Guds elsku. Hvørsu kunstuglega er þessi jardneska bygging mindud af moldunni? hvørsu henntuglega er hvørr einn lidur og limur lagadur til sinna útréttínga? hvørsu mørg skilníngar-vit, hvørsu marga rennu-stocka óteljandi lystisemda hefir Gud tilbúid á líkama vorum, í gégnum hvørja øll náttúran líka sem veitist inn í vora sálu, og hrifur hana med sér til þúsundfaldrar meinlausrar gledi; og frá náttúrunnar gledi, sem er sú hreinasta og ágjætasta, er enginn útilokadur. Førumadurinn nýtur hennar allteins og hinn ríki, og sá, sem býr í moldar-kofanum, smackar hana máské enn þá hreinni og yfirfljótanlegri, heldur enn sá, sem situr í hallar hásætinu. Hvørsu óþacklátir og óverdugir værum vér þá, ef þessi Guds elska, sem vér smøckum í gégnum sérhvørt skilníngar-vit, smøckum daglega í náttúrunni, ecki uppvekti hjá oss innilega elsku til hans aptur á móti. Þá hid fyrsta, þegar vér erum oss medvitandi, ad vér elskum velgjørarann, géta hans velgjørníngar ordid oss ad velgjørníngum. Þegar náttúrunnar athugan uppvekur þessar hugar-hræríngar hjá oss, heilaga undrun yfir Guds hátign, djúpa audmýkt fyrir honum og innilegann kjær-

leika til hans, þá eblist Guðs tilgángur með hans dásemdar-verk, sem er viðfrægíng hans dýrðar og farsæld hans skynsemdarfullu sképna.

## 2. Kapítuli.

### Guð er einúngis einn.

Að mannkynsins ættar-stofnar, sem nutu uppfræðíngar af Guði sjálfum, hafi einúngis dýrkað einn einasta Guð, þar á er engin efi; en hvenær þeirra niðjar hafi fundið uppá að dýrka fleiri Guði, verður ecki með vissu sagt. Í Ritníngunni finnum vér eckért merki til, að manneskjurnar fyrir flóðið hafi verið hneigðar til afguða-dýrkunar. Kristur ásakar þá, sem lifðu fyrir flóðið, fyrir sællífi; en ecki fyrir afguða-dýrkun, Matth. 24, 37. 38. Þaraf fylgir að sönnu ecki, að þeir ei hafi verið afguða-dýrkarar, þó Kristur nefni það ecki; en, þar Ritníngin þegir um það, skyldast menn ecki til að trúa því. Þaramóti finna menn, að þeir ei laungu eptir flóðið hafa fallið til þessarar afguða-dýrkunar. Abraham fæddist 352 árum eptir flóðið, og hans ætt var þá þegar saurgud af afguða-dýrkun; en hvað laungu manneskjurnar fyrir þann tíma hafi verið farnar að gleyma þeim sanna Guði, og dýrka annarlega Guði, verður ecki sagt til vissu; og allteins lítið géta menn sagt með fullkominni vissu, hvör tegund af afguða-dýrkun hafi verið sú fyrsta, hvört það hefir verið tilbeiðsla sólarinnar og stjarnanna, ellegar framliðinna manna. Svo mikið er víst, að þær elðstu

Austurlanda þjódir hafa dýrkad eldinn, sem bílæti sólarinnar, hvaraf þad er líklegt, ad sólin hafi mjøg snemma, vegna hennar gódgjørdasemu verkana á jørdunni, verid tilbedin sem Gud; og þegar menn einusinni vóru farnir ad missa þá réttu þánka um þann sanna Gud, var sídan audveldt ad villast lengra út í vanþeckíngarinnar myrkur. Menn héldu nú ecki framar, ad einn Gud væri einfær um ad skipta sér af øllum hlutum og stjórna þeim, menn tóku sér þess vegna smámsaman eins marga Gudi, sem naudsynjarnar voru, er fyrir þurfti ad sjá, og partar af heiminum er stjórna þurfti. Þannig feck jørdin sína Gudi, sjórinn sína, vindarnir sína og svo framvegis. Sú virdíng, sem eptirkomendurnir høfdu fyrir þeirra framlidnu velgjørda mønnum, umbreyttist um sídir í afguda=dýrkun, svo ad menn reiknudu þá í Guda tølu, og væntu af þeim verndar og velgjørnínga, einninn eptir ad þeir vóru daudir. Í fyrstu uppreistu menn þeim einúngis Bautasteina ellegar smídudu eptir þeim bílæti; en um sídir hugsudu menn, ad sálir þeirra framlidnu byggi í þessum bílætum, og fóru því ad tilbidja sjálf bílætin. Menn fundu svo mikid gott, og svo mikid íllt í heiminum, en gátu ei fundid upprunann til hins sídara; þess vegna féllu menn brádlega uppá þann þánka, ad Gudirnir væru tvennslags, sumir gódir og sumir vondir: ad hinir fyrri væru høfundar þess góda, en hinir sídari þess vonda í heiminum.

Þannig féll manneskjan smámsaman, þegar hún týndi þeim réttu þaunkum um sannann Gud og hans óendanlegleika, á þá djúpustu vanþeckíngar

troppu, svo að Guðirnir vóru nærri því eins margir og skêpnurnar; allir hlutir urðu að Guði, utan Guð sjálfur; dýrin og grösin urðu jafnvel að Guðum, og af ritum fornaldar = manna má sjá, að guðatalan hefir stígið hêrum til 30,000. Að sönnu hafa fáeinir heiðnir Vísinda=menn sjeð, hvörsu heimskulegt þetta var; en þeir þorðu ei að finna að því; þessi afguða = dýrkan var fólksins átrúnaður, hvörn stjórnendurnir sjálfir annaðhvört hêldu sannann, eður af stjórnarstands klókindum tóku í forsvar, og afguða=dýrkanin útbreiddist þannig víðar og víðar um heiminn, þángað til hún um síðir innsveppaði allann jarðar=hnöttinn í því viðbjóðslegasta og skynsemdarfullum skêpnum ósæmilegasta myrkri.

Menn kynnu að sönnu hugsa, að skynseminnar ljós mundi vera ánægjanlegt til að fyrirbyggja, að þvílíkt myrkur ekki skyldi fá yfirhönd í heiminum, eður til að burtdrífa það, þó það hefði innsmeygt sêr. En, sumpart þeckjum vêr makt skilníngar = vitanna; manneskjan, eins og hún er af náttúrunni, vill hafa þann Guð, sem hún gétur sjeð og þreifað á; sumpart er allt það, sem skynsemin hêr gétur sagt oss, mikið veikt til að stríða á móti skilníngar=vitunum og þeirra makt, með hvörri þau setja sig á móti skynseminni. Svo mikið gjæti skynsemin kénnt, ef menn einúngis vildu hlusta eptir hennar raustu, að sú vera, sem menn kalla Guð, hlýtur að vera óendanleg vera, óendanleg í öllum sínum fullkomlegleikum; svo mikið gjæti skynsemin kénnt, að skêpnan og Skaparinn hljóta að vera verulega aðgreind, að mennirnir, hvörra gröf þeir

enn þá gátu sýnt, gátu ecki verid Gudir, eg ad dýrin, sem eru svo miklu óædri enn manneskjurnar, gátu enn sídur verid þad. Svo mikid gat skynsemin kénnt, ad þad mótsagdi sjálfu sér, ad skipta Gudunum í Yfir- og Undir-gudi, þar Undir-gudirnir, sem sjálfir standa undir ædri Gudum, ecki gátu verid þær fullkomnustu verur, ecki óendanlegir í þeirra náttúru, og þess vegna ei heldur Gudir. En hvørt þar ecki gjætu verid til fleiri Gudir, sem allir væru eins fullkomnir, eins óendanlegir í þeirra náttúru og þeirra eiginlegleikum, þad kénnir skynsemin ecki, eptir mínum þaunkum, allrasíst med hinni fullkomnustu vissu. Þad, sem hún gétur sagt oss hér um, er ecki stórt annad enn tilgátur, og þær røksemdir, hvar á þessar tilgátur eru bygdar, útheimta svo skarpann eptirþánka, ad almúginn, sem flest er af, gétur traudlega skilid þær.

Þad, sem skynsemin gétur med vissu sagt hérum, er án efa þetta, ad þar menn hljóta ad íminda sér Gud, sem þá veru, sem í hærsta máta hefir alla mogulega fullkomlegleika til ad bera, sem hlýtur ad vera óendanleg í sínum krapti, sínum vísdómi, sinni gædsku, þá hafa menn enga røksemd til ad medtaka fleiri Gudi, þared øll heimsins skøpun, stjórnun og vidhald skilst ánægjanlega af tilveru eins einasta Guds, og þess vegna ad medtaka fleiri Gudi, er ad medtaka meiníngu án ánægjanlegrar orsakar. Svo mikid segir skynsemin oss, og þetta má oss nægja, þar Ritníngin géfur oss fullkomna vissu hérum.

Þad er ein af Ritníngarinnar miklu velgjørdum, ad hún stadfestir þennann lærdóm, ad ecki sé utan einn einasti Gud til. Þessi lærdómur er med

greinilegum orðum útdreifður um allar bækur heilagrar Ritníngar: heyr þú, Israel! segir Móses, Drottinn vor Guð, Drottinn er einn, 5 Mós. 6. Þetta hefir þú séð, svo að þú vitir, að Drottinn er alleina Guð, og enginn annar, 5 Mós. 4. Esajas framfærir Guð þannig talandi: eg em hinn fyrsti og hinn sídasti, og enginn Guð er til annar enn eg, Es. 44. Sami lærdómur er staðfestur af Kristó, og víðar útbreiddur af hans Postulum. Þegar skriftlærður nockurr spurði Kristum: hvört að væri hið æðsta boðorð, svaraði hann: það æðsta boðorð af öllum er þetta: heyr þú Israel! Drottinn vor Guð, Drottinn er einn, Marc. 12. Þessi lærdómur gjørði verulegann greinar-mun á milli þeirra kristilegu Trúarbragða, svo vel sem Gyðínganna, og allra hinna annara heiðnu trúarbragða, sem á þeim tíma höfðu yfirhönd í heiminum, og enn þá útbreidist yfir mikinn hluta af jarðarhnettinum.

---

Svo sem þetta eru óneitanleg sannindi, að Guð er einúngis einn, svo fylgir þaraf að þessi eini Guð, hefir rétt til að heimta alla vora elsku, alla vora hlýðni og lotníngu. Þarfyrir samtengir Kristur í fyrrnefndum stað þennann lærdóm um Guðs einíngu við þessa kröfu: elska skaltu Drottinn Guð þinn af öllu hjarta-þínu, og allri sálu þinni, og af öllu þínu hugskoti og af öllum þínum kröptum. Þar Guð er einúngis einn, vill hann líka dýrkast einsamall: eg er Drottinn, segir hann, það er mitt nafn, og minn heiður vil eg

engum ødrum géfa, né mitt lof þeim útskornu bílætum (Skurdgodunum), Es. 42. Þennann glæp drýgjum vér ad sönnu ecki, vér tilbidjum ecki Gudi, vér leitum ecki athvarfs hjá þeim framlidnu dýrdlíngum, vér nidurkrjúpum ecki fyrir þeim bílætum sem vorar eigin hendur hafa tilbúid. Vér erum fyrir Guds nád adskildir frá þeim sofnudi, sem hefir uppreist Maríu bílæti á þeim stad, hvar Díanæ ádur stód, og Páls mindar-stólpa, þar sem Satúrní var fyrr uppreistur. En, erum vér þar fyrir hreinir af allri afguda-dýrkan? dýrkum vér þar fyrir ecki fleiri Gudi, heldur enn þann eina sanna Gud? fær Drottinn þar fyrir einsamall hjá oss þann ædsta kjærleika, þá ædstu lotníngu og þá ædstu hlýdni? edur, er þad ecki allt of satt: ad vér enn nú byggjum annarleg ølturu vid hlidina á Drottins altari?

Hvørt elskum vér meir, Skaparann edur sképnurnar? hvøru óttumst vér meir, mennina edur vorn ædsta Yfir-herra? hvørju hlýdum vér meir, Guds løgmáli, edur løgum vors spillta hjarta? ef vér látum reynsluna tala, þá gétum vér ecki eitt augnablik efast um, ad vér høfum allt eins marga Gudi, sem hlutirnir eru í kríngum oss, og girndirnar innvortis hjá oss, er hafa tekid vort hjarta til fánga, Vér erum þess vegna engu sídur afguda-dýrkarar enn hinir, er nidurkrjúpa fyrir sínum bílætum, og ákalla sína vardhalds-engla. Þegar vér elskum nockra mannesskju svo mjøg ad vér fyrir hennar skuld setjum til sídu þær vigtugustu skyldur, til hvørra eptirbreytíngar Guds elska ætti ad upperfa oss, þá

elskum vér manneskjunnar meir enn Gud, þá erum vér afguda-dýrkarar. Þegar vér, til ad ávinna hylli og forsvar hins mektuga, edur til ad sneida hjá oss óvild, sneidum oss vitnisburdi gódrar samvitsku, og ávinnum oss Guds straff; þá óttumst vér manneskjurnar meir enn Gud; þá erum vér afguda-dýrkarar. Þegar mannanna skipanir og Guds skipanir strída hvørjar á móti ødrum, svo þær kunna ei hvørutveggju ad uppfyllast, og vér setjum til sídu Guds skipanir, til ad uppfylla mannanna, þá hlýdum vér mønnunum meir enn Gudi, þá erum vér afguda-dýrkarar.

Vort egid hjarta med þeim girndum og tilhnegíngum, sem þad hefir mætur á, er sá helsti og hættulegasti afgud, fyrir hvørjum vér daglega brennum reykélsi, hvørs altari stendur vid hlidina á Herrans altari, og þad þækti jafnvel gott, ef Herrans altari stædi vid hlidina, og vér offrudum á því sama endrum og sinnum; en því er midur! ad vér sjaldan framberum þetta offur; sjaldan høfum vér dug til ad frambera þad, utan í þeim kríngumstædum þegar vor afgud sjer, ad hann þarf einkis í ad missa fyrir þad, og gefur þess vegna leyfi til þess. Í hvørt sinn, sem vér yfirtrodum Guds skipanir til ad uppfylla þad, sem vorar spilltu og óstýrilátu girndir af oss heimta, í hvørt sinn sem vér látum oss blinda af vorum skilníngar-vitum, trylla af vorum ímindunar-krapti, stjórna af vorum girndum og sinnis-hræríngum, svo ad vér fylgjum þeirra raustu, en apturlokum eyrunum fyrir Guds raustu, er kallar oss til

dygdar og réttlegs athæfis, þá erum vér sjálfir vor afgud, og vér erum afguda-dýrkarar; í stuttu máli: ef vér elskum, heidrum, hlýdum nockrum hlut meir enn Gudi, þá erum vér ecki sídur afguda-dýrkarar heldur enn Heidíngjarnir, og í Guds augliti allt eins svívirdilegir og þeir.

## 3. Kapítuli.

### Um Guds Eilífd.

Guds eilífd, edur sá óendanlegleiki í Gudi, eptir hvørjum hann hvørki hefir upphaf né enda, eptir hvørjum enginn tími hefir verid, á hvørjum Gud ecki var til, mun ei heldur verda nockur tími, þá hann hættir ad vera til, þessi Guds eginlegleiki er nærstum því sá ógrípanlegasti af øllum hans fullkomlegleikum. Ad Gud kunni ad vera til um alla eilífd, ad hann aldrei muni hætta ad vera til, þad gétum vér nockurnveginn skilid; því ad sú vera, sem einnsinni er til, kunni framvegis ad halda áfram ad vera til, þad gétum vér gripid; en ad vera til, án þess ad hafa upphaf, er djúp guddómsins, vid hvørt vora skynsemi sundlar; og þessi sama skynsemi, sem hverfur sjálfri sér, þá hún þenkir um eilífann Gud, hún kénnir oss þó sjálf, ad Gud hljóti naudsynlega ad vera eilífur. Þar fyrir hafa og skynsamir Heidíngjar séd þennann sannleika, ad Gud, í hid minnsta sá ædsti Gud, hlaut ad vera án upphafs og enda.

Guds eilífd innibindur eginlega þetta þrennt, nefnilega: ad sú hæsta vera er án upphafs og án

enda og án þess að hjá henni sé nockuð fyrr eður síðar; sérhvört af þessu sjer og staðfestir jafnvel skynsemin. — Jafnvel þó skynsemin ecki géti gripið, hvörninn Guð kunni að vera til, án þess að hafa upphaf, þá gétur hún þó gripið, að sú guddómlega vera ómøgulega gétur haft það; því eg vil gjøra við, að Guð hafi ecki verið til frá eilífð, að verið hafi sá tími, á hvörjum Guð ecki var til, tími, þá hann byrjaði að vera til, hvörninn er hann þá orðinn til? hefir hann sjálfur géfið sér sína tilveru? eður hefir ønnur vera géfið honum hana? í fyrra tilfelli frambera menn það, sem er fráleitt; því ef Guð skyldi sjálfur hafa átt að géfa sér sína tilveru, þá hefði hann hlotið að gjøra nockuð; en að nockur vera verki eða gjøri nockuð áður enn hún er til, það mótsegir sér sjálft. Og í síðara tilfelli, nefnilega: að ønnur vera háfi géfið Guði hans tilveru, þá er hann ecki Guð, heldur sú vera, sem gaf honum hana; því sú vera, sem gaf honum hans tilveru, hlyti þá að vera fullkomnari enn hann; og þessi vera hlýtur aptur að vera orðin til annaðhvört af sjálfri sér, eður framleidd af annari; sé hún til af sjálfri sér, þá er hún eilíf, þá er hún Guð; sé hún framleidd af annari veru, þá gjøri eg þá fyrri ályktun, eg geng svo lángt til baka, þángað til eg kém til hinnar fyrstu veru, sem er til af sjálfri sér, sem þess vegna hlýtur að vera til af sjálfri sér, frá eilífð, og þar fyrir einúngis að vera sannur Guð.

En þareð Guð er sú hæsta og fullkomnasta vera; þar hann hefir grundvøll sínnar tilveru í sjálfum sér, og ecki í neinni annari veru; þareð

hann þess vegna er til frá eilífð, þá hlýtur hann einninn að vera til án enda, um alla eilífð; því hvørr skyldi géta svipt hann hans tilveru? sú vera, sem gjæti svipt hann henni, hlyti þá að vera Guð, og hann ecki. Og þar grundvöllur hans tilveru er í honum sjálfum, þá er hans tilvera nauðsynleg, það er þess vegna allt eins ómøgulegt, að hann géti haft enda, sem að hann géti haft upphaf. Sá annar partur af Guðs eilífð, nefnilega: að hann væri án enda, er þess vegna allt eins vel þecktur af skinseminni, sem sá fyrri partur, að hann sé án upphafs.

Ritníngin styrkir skynsemina. Hún tilleggur Guði að vísu í nockrum støðum daga og ár; Daníel kallar Guð þann gamla af døgum, Dan. 7. Það heitir, að menn ecki kunni að ransaka Guðs áratølu, Job. 36. En hvørr er sá, er ecki sjái, að þvílík orðatiltæki hljóta að takast óeginlega, þau eru tekin til láns af barna-máli hins fyrsta heims aldurs. Með árum er mældur aldur skapaðra hluta, en ei hinnar óskøpuðu veru. Vort túngumál vantar orð til að útskíra eiginlegleika þess óendanlega; Ritníngin hlýtur þess vegna að taka sín orða-tiltæki til láns hjá því endanlega; en þá mega menn ei heldur taka þvílík orða-tiltæki blátt áfram eptir orðunum. Aðrar greinir heilagrar Ritníngar sýna greinilega, að þær ei mega takast þannig, þegar hún segir: að Guð sé til, ecki einúngis áður enn fjøllin urðu, og jørðin var skøpuð, heldur frá eilífð til eilífðar; að hans stóll standi støðugur; að hann blifi æfinlega; að himnarnir muni forgánga, en hann muni blífa; að himnarnir muni fyrnast sem fat, en hann muni

blífa hinn sami, og hans ár taki engann enda, Psálm. 93, 102.

Sá þriðji þánki, sem Guðs eilífð hefir í sér fólginn, er þessi: að í Guðs eilífð er ekkért fyrr eður síðar, svo sem í Guði eru engar umbreytíngar. Allar skapaðar verur eru umbreytíngum undirkastaðar; allir skapaðir hlutir eru þar fyrir á tímanum, og tíminn á hvörjum þeir eru, hefir sína parta. Menn gjöra mismun á þeim umliðna, nálæga og eptirkomandi tíma. Par géfst einn partur af tímanum, sem hefir verið, og er ecki framar; annar partur, sem nú er, og hefir ecki verið; þriðji partur, sem mun vera, en er ecki enn þá. Í Guði þarámóti er eckért umliðið, eckért nærverandi og eckért ókomið. Par sú óendanlega verà er aldéilis óumbreytanleg vera, þareð í Guði eru engar umbreytíngar, þár hann er, eins og Davíð ségir hér að framan: alltíð hinn sami, þá er í Guðs eilífð eckért fyrr eður seinna, það er: eckért umliðið, eckért nærverandi, eckért ókomið. Pað er þess vegna til að lempa sig eptir vorum veikleika, er ecki géfur sett sér eilífðina fyrir sjónir, nema undir þessum þremur aðgreindu tímans pörtum, að Ritníngin ségir um Guð: að hann sé sá, sem er, og sá, sem var, og sá, sem vera mun, Op. b. 1. Strax, sem maður í Guðs eilífð antekur nockuð fyrr eður síðar, þá hlýtur maður einninn að antaka það augnablik í Guðs tilveru, sem sé hið fyrsta, og þetta mótségir sér sjálft. Í Guði er þess vegna eckért fyrr eður síðar; í honum er enginn tími, þar hann er óendanlegur og óumbreytanlegur; enn tíminn er utan við Guð í sképnunum, sem eru endanlegar og umbreyt-

anlegar. Alíkt og turn, sem strídur straumur renn-ur framhjá; nockrir partar af honum eru framhjá farnir, og koma ecki framar til baka, nockrir snerta hann nú og renna skjótt framhjá, adrir koma og reka hina áfram; en þessi umbreytíng er utan vid turninn, turninn sjálfur stendur óumbreytanlegur. Þannig er Gud óumbreytanlegur í tímanum, ár fylgja á eptir árum, hundrad ár á eptir hundrad árum, þúsund ár á eptir þúsund árum, þau renna hvatlega í eilífdarinnar takmarkalausa haf; en hjá Gudi eru hvorki hundrud ár edur þúsund ár; ad lidnum heims øldrum er hann ecki eldri enn hann var fyrir þeirra upphaf.

Skynsemin hverfur sjálfri sér vid þennann þánka, og hún gétur þó ecki þenkt ødruvísi um þá óendanlegu og óumbreytanlegu veru. Þessi þánki um Guds eilífd stadfestist einninn af Ritníngunni: **Einn dagur**, segir **Pétur**, er fyrir Drottni, sem þúsund ár, og þúsund ár, sem einn dagur, 2 Pét. 3. Hjá Gudi er þess vegna enginn mismunur á þús-und árum og einum degi, þad eina er fyrir Gudi ecki lengra, og ecki styttra enn hid annad. Augna-blik og þúsund ár og heimsaldrar eru fyrir Gudi þad sama, og hvørsvegna? vegna þess, ad hjá Gudi er eckért fyrr edur sídar, sem hjá endanlegum skepn-um, engar umbreytíngar, af hvørjum sú eina fylgir eptir hina adra, hvar med tíminn áqvardast hjá endanlegum verum, sem eru umbreytíngum undir-kastadar. Einn dagur er fyrir Drottni, sem þús-und ár, og þúsund ár, sem einn dagur; því þúsund ár auka ad sønnu vid skepnanna aldur, en ecki vid Skaparans. Einn dagur er fyrir Drottni, sem

þúsund ár, og þúsund ár, sem einn dagur; því á þúsund árum sjer hann ecki meira enn á einum degi, og á einum degi sjer hann ecki minna enn á þúsund árum. Heil eilífð er fyrir hinum óendanlega eitt óskiptanlegt augnablik.

---

Hvílíkur óendanlegleiki í Guði! hvörsu lítt færir erum vér um að grípa hann! hvað erum vér, þegar vér hér berum oss saman við þá hæstu veru! vér, sem urðum til í gjær, og á morgun erum ei framar. Hvörsu hverfum vér í eilífðarinnar takmarkalausa svelg! sjálfur ímindunar-kraptsurinn gétur ecki náð hennar takmörkum. Þó vér í huganum leggjum hundrað ár við hundrað ár, og þúsund ár við þúsund ár, þá erum vér þó ecki einu fótmáli nær eilífðarinnar takmörkum. Þó vér hrúgum saman heims öldrum ofan á heims aldra, og einni millíón hundrað ára á aðra ofan, þó vér í huganum bætum þar við á ný eins mörgum millíónum af hundrað ára öldum, þá erum vér samt enn nú ecki einu fótmáli nær eilífðarinnar takmörkum. Í þessari óþenkjanlegu röð stendur þó sú óendanlega vera ætíð í miðjunni, og sjer heila eilífð fyrir framan, og aðra á bak við sig.

Já, einninn fyrir oss liggur heil eilífð í tilliti til vors ódauðlega anda! tilhugsan, fyrir hvörri sjálfur ímindunar-krapturinn fellur í svima; en undir eins þvílík tilhugsun, sem ætti að hafa kröptuga verkun í vorum hjörtum. Vor útgángur frá þessu lífi gétur orðið fyrir oss inngángur annað-

hvørt til eilífrar gleði, eður endalausrar eymdar. Hvílíkur þánki, sem er fullur af von og ótta! en ætíð kröptug upphvatan fyrir oss, að vér búum oss verðuglega undir þessi stóru umskipti, og helgum oss undir þá eilífð, sem vér erum til kallaðir, og sem vér á hvørju augnabliki nálægjumst.

Guð er eilífur, vér getum þess vegna ogsvo orðið eilífir, og vor farsæld getur varað eilíflega, því vor farsæld er í Guði. Hvørsu kröptug upphvatan fyrir oss til dygðarinnar og heilagleikans æfingar! hvørsu kröptug upphvatning til að hreinsa oss af allri saurgun holdsins og andans, og fullkomna vora helgun í Guðs ótta! þessi helgan, þessi hreinsan kostar stríð og ástundun og fyrirhöfn; en skyldum vér ecki vilja vinna það til sæluríkrar eilífðar að stríða fáein augnablik? skyldum vér ei geta stríðt um fá augna-blik til að bera kórónu um alla eilífð?—Guð er eilífur, vor eptirkomandi farsæld er einninn eilíf í honum. Hvørsu litils ættum vér þá að akta mótlæti þessara tíma, einninn þó það vari vikur og mánuði og ár? hvað er heill manns aldur annað enn púnktur, og þó varla sjnilegur púnktur, móti óþeinkjanlega lángri línu! hvílíka hugskotsins rósemi, hvílíka hugarhreysti, hvílíkann stöðugleika mundum vér finna hjá oss í lífsins margvíslegu beisku biltíngum, ef vér vduglega bærum tímann saman við eilífðina, hans skammvinnu hrigð saman við hennar varanlegu gleði; ef vér ætíð við hennar samanburð þenktum sem Páll: Vor hrigð, sem stundleg og létt er, veitir oss eilífa yfir allann máta vigtuga dýrð.

En, þar Guð er eilífur, gétur einninn vor eymd varað eilíflega; því þeśsi Guð gétur straff-að eilíflega, eilíflega gétur hann látið oss kénna á þeim óluckulegu afleiðíngum, sem vorar yfir-troðslur eptir sig leiða. Hvörsu skélfilegur þánki! hvörsu ógnarlegur ætti hann að vera þeim þver-skallaða syndara! og samt sofum vér svo rólega á backa þeśsa botnlausa afgrunns, eins og engin hætta væri á ferðum, jafnvel þó vér ecki vitum, nema vér á því eður því augnabliki kunnum að steypast niður í það sama; samt setjum vér oss í hættu að verða óluckulegir um alla eilífð, til að géta smackað lystisemdir nockra fárra augna-blika; hvílíkur dáraskapur! já, hvílík vitleysa! þér kristn-ir! tímans straumur ber yður daglega nær eilífð-arinnar takmarkalausa hafi! þér þeckið ecki það augna-blik, sem slær yður flötum. Verið þó einusinni forsjálir, hafið yðar lampa tendraða, verið reiðu-búnir undir það óvißa sem eptirkémur, verkið yðar sáluhjálp með ugga og ótta.

## 4. Kapítuli.

### Um Guðs Almætti.

Fyrir Guðs almætti skiljum vér þann óendan-lega krapt í Guði, með hvörjum hann gétur fram-qvæmt allt hvað hann vill, án fyrirhafnar, án mótstöðu, án hræríngar, án þreytu, á hvaða tíma, hvaða stað, með hvörjum hætti, sem hans vís-dómur álítur best. Þar með aðgreinist Guðs almætti frá kröptum skapaðra sképna. Þó vér gégnumgaungum með þaunkunum þá óendanlegu

röd af skepnum, frá steinínum til grassins, frá grasinu til dýrsins, frá dýrinu til manneskjunnar, og frá manneskjunni til engilsins, þá stíga að vísu kraptar þessara skepna, eins og þeirra flokkar, af einni fullkomlegleikans tröppu á aðra, en þar í eru þær allar hvör annari líkar, að þeirra kraptar eru endanlegir, að þær ekki géta gjört allt hvað þær vilja. Þeirra kraptar hafa þröngri takmörk heldur enn þeirra vilji.

Þessi takmörk finnur ekki almætti hins óendanlega. Guði er enginn hlutur ómögulegur, vóru engilsins orð við María, Lúc. 1. Eg veit, segir Davíð, að Drottinn er mikill, og að vor Drottinn er yfir öllum Guðum. Allt hvað hann vill gjörir hann á himnum og á jörðunni, í sjónum og í öllum djúpum, Ps. 135. Guð gjörir allt hvað hann vill, það kann ekki að segjast um neina skepnu. Sérhvör endanleg skepna kann að vilja allt, hvað hún gjörir, en engin endanleg vera gétur gjört allt hvað hún vill. Guð gjörir allt hvað hann vill; því hans almætti er ekki annað enn hans óendanlegi framqvæmdarsami vilji sjálfur. Vér gjörum mismun á mætti og vilja, því reynslan kénnir oss, að þessir tveir eginlegleikar eru aðgreindir hjá oss; vér sjáum daglega, að vor vilji nær lengra enn vorir kraptar. Þar fyrir verðum vér þess strax varir, að vor máttur til að framqvæma vorn vilja, er allt annað enn sjálfur viljinn, og vér dæmum venjulega um þá hærstu veru, eins og vér dæmum um sjálfa oss. Fyrir oss er því þannig varið, og hugsum þess vegna, að hjá Guði sé því eins

háttad; hjá oss er vilji og máttur sitt hvad, þar fyrir ályktum vér, ad hjá Gudi hljóti þad ad vera eins.

Vér gétum ecki sett oss fyrir sjónir neinn hærri og fullkomnari framqvæmdar-máta, enn þann, ad framqvæma med sínum einberum vilja; ad vilja ad heimurinn verdi til, og hann framkémur þá strax af engu; ad vilja, ad hann lídi undir lok, og hann þá strax hnígur til baka og verdur ad engu: þetta er hin allrahærsta trappa af fullkomlegleika, hin allrafullkomnasta framqvæmd, er vér gétum ímindad oss. Pared nú Gud er hin fullkomnasta vera, þá hlýtur hann ad framqvæma uppá þann fullkomnasta máta; oss ber þess vegna ad trúa því ad Guds almætti sé eckért annad enn hans óendanlegi framqvæmdarsami vilji, og Ritníngin stadfestir þessa trú. Pegar þeir tuttugu og fjórir Öldúngar tilbidja þad almætti, sem hefir framleidt alla hluti, þá vidurkénna þeir, ad allir hlutir séu ordnir til fyrir hans einsamann vilja: **Þú ert verdugur Drottinn vor Gud! ad medtaka dýrd og heidrun og krapt; því þú hefir alla hluti skapad, og fyrir þinn vilja urdu þeir og eru skapadir,** Opinb. b. 4. Pegar Móses setur oss fyrir sjónir Drottins almætti í heimsins sköpun, þá veit hann ecki verduglegar ad útskíra þetta skapandi almætti, enn undir bíläti einnar skipunar: **Gud sagdi: verdi ljós! Gud sagdi: verdi útþanin festíng! Gud sagdi: vøtnin undir himninum** safnist í einn stad! o. s. fr. 1. Mós. b. 1. Hvad er þessi skipun annad, enn Skaparans krøpt-

ugi, framqvæmdarsami vilji. Þessi vilji skapadi ljósid; þessi vilji skildi vøtnin frá þurrlendinu; þessi vilji gjordi jørdina frjóssama og fyllti sjóinn med lifandi sképnur. Og þessi sami framqvæmdarsami vilji í Gudi er þad, sem eptir Ritníngarinnar vitnisburdi enn nú vidheldur øllum skøpudum hlutum: hann, segir **Páll**, ber alla hluti med sínu krøptuga ordi, **Ebr.** 1. þad er: med þeim sama óendanlega framqvæmdarsama vilja, sem skapadi þá. Og þar þetta er óneitanlegt, ad sú óendanlega vera framqvæmir med sínum einsømlum vilja, þar þad er óneitanlegt, sem **Davíd** segir: hann talar, og þad skédur, hann skipar, og þad stendur þar, Ps. 33. þá þarf ecki margar røksemdir til ad sannfærast um, ad Gud framqvæmir alla hluti án fyrirhafnar, og án þreytu; til ad sannfærast um, ad heimsins Skapara kostadi þad allteins litla fyrirhøfn, ad skapa alla heims-bygdina, sem ad skapa mýfluguna, og þær sképnur, sem eru nockrum þúsundsinnum minni enn mýflugan.

Þetta er ad vísu afgrunn, vid hvørt vora skynsemi sundlar, botnlaust djúp, er vér ecki gétum útgrundad. Hvørninn sá óendanlegi eins ngis med því ad vilja, géti skapad, vidhaldid og gjørt ad engu, þad er leyndardómur, sem vér einúngis gétum ad dádst en ecki skilid. En þad gétum vér skilid, ad Guds almætti, í krapti af hans óendanlegleika, ecki gétur verid í ødru innifalid; þad gétum vér skilid, ad sá óendanlegi hlýtur í þessum, sem øllum ødrum sínum eginlegleikum, ad vera oss ógrípanlegur; þad gétum vér

skilið, að ef vér, sem erum endanlegir, gjætum skilið Guðs almætti, þá væri það ecki almætti. Vér finnum þó nockuð hjá sjálfum oss líkt þessum Guðs óendanlega framqvæmdarsama vilja, er vér köllum hans almætti. Vér skiljum einúngis ecki, hvørninn sú andlega vera, sem býr í oss, hrærir líkamann og stjórnar honum. Það sýnist, sem hvørein hræríng framqvæmist af einsømlum viljanum; undir eins og vér viljum, hrærir líkaminn sig á sama augnabliki, og uppá þann máta, sem vér viljum; og strax, sem vér viljum, er hann aptur kyrr, hvørt gétur skilið hvørninn þessu er háttað? en þar vér erum svo óskiljanlegir fyrir sjálfum oss, skyldum vér þá furða oss á því, þó vér ecki gétum skilið, hvørninn Guðs almætti framqvæmir alla hluti einúngis með því að vilja.

Eg hefi hér að framan í hinum fyrsta kapítula sýnt, að allir skapaðir hlutir bera ljóst vitni um Guðs óendanlega almætti. Þetta almætti lætur sig í ljósi á hinum minnstu sem á hinum stærstu skepnum, því þar þarf hann sama óendanlega krapt til að skapa sandkornið sem fjallið, arið í sólargeislanum, og sjálfa sólina. En, svo sem Guðs almætti sjest berlega af heimsins sköpun, svo lætur það sig engu síður í ljósi á viðhaldinu. Þar útheimtist allteins óendanlegur kraptur til að viðhalda heiminum, sem til að skapa hann í fyrstu. Þess vegna segir Postulinn: að hann beri alla hluti með sínu kröptuga orði. Hans kröptugi vilji, sem framleiddi náttúruna, er einn og hinn sami, sem enn þá viðheldur henni. Hvað gétur géfið oss hærri þánka um Guðs almætti, heldur enn sú hugleiðíng, að hann einúngis með sínum vilja viðheldur øllum

skøpudum hlutum? ad þær óteljandi sólir á himnúm eru enn nú vid lýdi eptir svo mørg þúsund ár, ad þær sveyma í hinu þunna lopti, ad þær med svo ótrúlegum flýtir hlaupa um þennann takmarkalausa geym, án þess, ad hindra hvør adra í þeirra rás, þetta er ad þacka Skaparans vidhaldandi vilja. Ad sólin í svo mørg þúsund ár, hefir útbreidt ljós og varma yfir heiminn, án þess ad missa neitt af sínum krapti, ad hún enn þá upprennur med sømu fegurd, og frjófgar jørdina med sama yl, afmarkar dag og nótt og alla ársins tíma med sinni gaungu, þad er ad þacka Skaparans vidhaldandi vilja. Ad jørdin enn þá med sama hasti veltist í kríngum sjálfa sig, og á sama tíma fullkomnar sitt hlaup á ári hvørju; ad hún árlega ber gras og gróda, og missir þó eckért af sinni frjófsemi; ad vatnid er enn þá eins yfirfljótanlegt, náttúran eins ørlát, ávextirnir eins vel smackandi; stutt ad segja, ad náttúrunni í engann máta fer aptur, þetta er allt ad þacka Skaparans vidhaldandi vilja.

Hvørt, sem vér rennum augum vorum, hvørt heldur til skøpunar-verksins edur vidhaldsins, sjáum vér svo stór dásemdar-verk Guds almættis, ad eg álít ónaudsynlegt ad leida hér til fleiri røk fyrir nockrum heilvita manni. En þó ad Guds almætti sé óendanlegt, þá géfast þó vissir hlutir, sem jafnvel sjálfu almættinu eru ómøgulegir. Eg hefi ádur sagt: ad Guds almætti sé sá óendanlegi kraptur í Gudi, eptir hvørjum hann gétur allt hvad hann vill, en Gud vill ecki þad, sem annadhvørt strídir á móti hans egin náttúru, edur hlutanna náttúru, þvílíkt gétur Gud ecki heldur gjørt.

Þó að Guðs kraptur sé óendanlegur, þá kann hann þó ecki að gjøra það, sem stríðir á móti hans egin náttúru, eður á móti ødrum hans fullkomlegleikum. Eptir þeim þaunkum, sem vér naudsynlega hljótum að gjøra oss um Guð, er hans almætti raunar ecki aðgreint frá hinum ødrum hans fullkomlegleikum; þeir géta þess vegna ecki stríðt, hvørr á móti ødrum; Guð kann þess vegna með sínu almætti ecki að gjøra annað enn það, sem staðist gétur með hans vísdómi, hans gjæðsku, hans heilagleika og réttlæti. Til dæmis að taka: einhvørr kynni að segja: að fyrst Guð er almáttugur, hefði hann gétað hindrað syndafallið, ef hann einúngis hefði viljað. Og eg svara þar til: að Guð kunni ecki að brúka hér sitt almætti, þar það stríddi á móti hans vísdómi, að hindra syndina með ómótstæðilegum krapti hjá manneskjunum, sem eptir þeirra náttúru vóru fríar, og ecki hefðu gétað sýnt neitt hlýðnis-merki, ef þær ecki hefðu mátt vera sjálfráðar, þó mønnum kynni að fljúga í hug, að Guð hefði kunnað að taka það fallna mannkyn til náðar án forlíkunarmeðals; þá svara eg: að Guð kann ecki að gjøra það, sem stríðir á móti hans heilagleika og réttlæti.

Allt eins lítið kann Guð, eptir sínu almætti að gjøra það, sem stríðir á móti hlutanna náttúru, og sem þess vegna í sjálfu sér er ómøgulegt. Guðs almætti nær einúngis til þeirra hluta, sem í sjálfum sér eru møgulegir. Guð kann, t. d. eptir sínu almætti að skapa ljósið af engu, og með því sama almætti að gjøra það aptur að engu; en það kann hann ei að gjøra eptir sínu almætti,

ad á sama stad sé bædi ljós og myrkur, bædi dagur og nótt undir eins. Gud gétur med sínu almætti skapad anda, hann gétur og med því sama almætti skapad líkama; en med sínu almætti gétur hann þó ecki þad gjört ad sami hluturinn sé bædi andi og líkami; því þad mótstrídir hlutanna náttúru og er í sjálfu sér ómøgulegt; allt eins ómøgulegt, sem ad gjøra þad, ad einn hlutur sé á sama tíma bædi til og ecki til, edur ad þad, sem gjørt er, sé ógjørt.

---

Vér þeckjum þá svo mikid um Guds almætti, sem vér af náttúrunnar og Ritningarinnar ávísun gétum um þad þeckt. Gud kann eptir sínu almætti ad gjøra allt, sem møgulegt er, þad er: sem ecki strídir annadhvørt á móti Guds egin náttúru edur hlutanna náttúru. Þessi lærdómur á ecki einúngis ad vera íhugunar-efni fyrir skilnínginn. Þessi þánki: Gud er almáttugur, sá Gud, undir hvørs stjórnun eg stend, í hvørs ríki eg er þegn, sá Gud, sem hefir skapad mig, og sem aptur gétur gjørt mig ad engu, hann er almáttugur, ætti ecki þessi þánki ad hafa krøptuga verkun til ad betra vorn vilja og vort hjarta? ótti og traust eru óneitanlega þær tvær hugar-hrærlngar, sem Guds almættis íhugan á af sér ad géta í hjørtum vorum. Þar Gud er almáttugur, þá gétur hann og látid yfir oss koma allt þad straff, sem hann hefir hótad sínum mótþróanlegu forokturum! þetta er orsøkin, hvar fyrir vér egum ad óttast hann. Og þar hann er almáttugur, þá gétur hann einninn efnt vid oss øll þau fyrirheit, er hann géfid hefir sínum

sonnu tilbidjendum. Þetta er orsökin, hvar fyrir vér egum ad treysta honum.

Hvad skyldum vér óttast, ef ecki Guds óendanlega almætti, sem enginn gétur umslúid edur móti stadid? þess vegna setur Gud sjálfur sínu fólki fyrir sjónir sitt almætti, þá hann vill koma því til ad óttast sig og hlýda sínum skipunum: viljid þér ecki óttast mig, segir Drottinn, og ecki skélfast fyrir mínu augliti? eg sem hefi sett sandinn til sjáfarins takmarka, med eilífu skicki, ad hann kann þar ecki yfir ad komast, Jer. 5. Mundu vor hjörtu svo þrátt setja sig upp á móti Gudi? mundum vér láta eptir oss hvörja eina girnd sem oss kémur í hug? mundum vér ecki skélfast ad uppegna Guds réttvísu reidi med vísvitandi syndum, med blóti, eidum og íllum munnsöfnudi, ef vér þenktum til Guds almættis, sem á einu auga=bragdi gétur tortýnt oss, og gjört oss óluckulega um tíma og eilífd? engin íhugan er kroptugri til ad hræda og skélfa þann ósvífa syndara, heldur enn sú, ad sá réttláti dómari, undir hvörs stjórnum vér stöndum, og hvörs lög annadhvört hljóta ad uppfyllast med hlýdninni, edur þeirra yfirtrodslu=menn straffast ad ödrum kosti, hefir óendanlegann krapt, og gétur med einsamalli bendíngu síns vilja refsad þeim þverbrotnu yfirtrodslu=mönnum sinna bodorda.

En, þessi sami þánki, sem er svo skélfilegur Guds óvinum, er hans vinum og sonnu tilbidjendum hinn gledilegasti. Hvör hætta gétur skélft, hvör neyd yfirbugad, hvörjir óvinir sigrad oss, þegar almáttugur Gud verndar og vakir yfir oss? fyrir hvörju skyldi sannkristinn madur hræddur vera, þeg=

ar auga Drottins vakir yfir honum, hans hønd leidbeinir honum, og hans armleggur forsvarar hann? svo segir Drottinn: sá ed þig hefir skapad, Jacob! og þig hefir giørt, Israel! óttast þú ecki, því eg hefi frelsad þig, eg hefi kallad þig med nafni, þú ert minn. Nær ed þú gengur ígégnum vøtnin, mun eg hjá þér vera, svo ad vatnsføllin skulu ecki dreckja þér; og þegar þú géngur í gégnum eldinn, skaltú ecki brenna, og eldsloginn skal ecki uppbrenna þig, því eg er Drottinn þinn Gud, Es. 43. Vér þurfum þá eckért meira enn þessa fullvissu, ad vér séum Guds vinir, til ad vera hughraustir í øllu lífsins andstreymi; eckért meira til ad upplífga vora von í mótlætinganna ádynjandi bylgjum; eckért meira til ad festa á atkér vorrar trúar, heldur enn þessa einu hugleidíngu, ad Gud, sem verndar oss og vardveitir, er almáttugur; þá kunnum vér ad segja med Postulanum Páli: hvørr vill skilja oss vid Guds elsku? hørmúng, edur mótlæti, ofsókn, eda húngur, klædleysi, eda háski, eda sverd? í øllu þessu fáum vér fullkominn sigur fyrir hann, er oss elskadi; því eg er viss um ad hvørki daudi né líf, hvørki englar né høfdíngja-stéttir, eda makt, hvørki nálægar né ókomnar mótlætíngar, eigi upphefd né nidurlæging, né nockur ønnur sképna fær oss skilid frá Guds kjærleika til vor, vegna Jesú Krists vors Drottins, Róm. 8.

## 5. Kap.

# 5. Kapítuli.

## Um Guðs Vísdóm.

Þessum stóra og tilbeiðsluverða Guðs eginlegleika er alla vega hrósað í Ritníngunni, og öll náttúran talar ljóslega um hann. Hjá honum er vísdómurinn og valdið, ráð og skilníngur, segir Job, Job. b. 12. Guðs nafn, segir Daníel, sé blessað frá eilífu til eilífðar; því vísdómurinn og styrkleikinn eru hans. Hann gèfur vísdóm þeim vísu, og þeim þekkíngu, sem þekkja skilníng; hann opinberar þá djúpu og leyndu hluti; hann veit, hvað í myrkrinu er, og ljósið býr hjá honum, Dan. 2. Postulinn Páll varð svo frá sèr numinn af hugleiðíngu Guðs vísdóms, að hann upphrópar þannig: ó! hvílíkt ómælanlegt djúp bæði Guðs vísdóms og þekkíngar! hversu óransakanlegir eru hans dómar og ófinnanlegir hans vegir! Róm. 11.

En, hvað þarf að leiða hèr mörg rök til af Ritníngunni, þar öll náttúran ber vitni um Guðs óendanlega vísdóm. Þetta vitni talar bæði til vorra skilníngar-vita og vorrar skynsemi, þess vegna vil eg láta það tala. Vèr köllum þann vísann, sem ætíð hefir þann besta tilgáng, og ætíð velur þau hentugustu meðöl til að framqvæma hann. Til vísdóms útheimtist þá tvennt; sá vísi hlýtur að hafa tilgáng, en þvílíkann tilgáng, sem er góður og nytsamlegur; sá vísi hlýtur þar næst að útvelja þau bestu og hentugustu meðök til að ná sínum góða og nytsamlega tilgángi. Þessi fullkomlegleiki hlýtur að vera hjá

Gudi, og þad í allrahærsta máta, þar Gud er óendanlegur; og allar skapadar sképnur bera ljóst vitni um þennann óransakanlega vísdóm. Hann er sá, segir Jeremías, sem gjørdi jørdina med sínum krapti, sem tilreiddi jardríkid med sínum vísdómi, og útbreiddi himininn med sínum skilníngi, Jer. 10. Ef vér einúngis vildum ljúka upp augum vorum, litast um og virda fyrir oss þau stóru dásemdarverk Guds vísdóms, þá mundum vér brádlega finna þad sama í náttúrunni, sem Jeremías; því øll náttúran hrópar til vor med hárri raustu: Gud er vís!

Jafnvel þó eg hafi hér ad framan talad um þann vísdóm, sem lætur sig í ljósi á øllum skøpudum sképnum, vona eg ad eugum þyki leidinlegt ad renna augum sínum í annad sinn yfir Guds handa-verk, edur sjái eptir þó hann virdi þad sama fyrir sér í tvær reisur. Hvílíkur óteljandi fjøldi af sképnum umkríngir oss, er allar prísa sinn Skapara og vegsama hans óendanlegu hátign! hvørsu margir flockar af sképnum, hvørsu margar tegundir í hvørjum flocki, hvørsu margar kynqvíslir í hvørri tegund, hvørsu margar einstakar sképnur í hvørri kynqvísl! nockrar sképnur búa á jørdunni, adrar í loptinu; nockrar fylla hafid; ødrum er ætladur samastadur í stødu-vøtnunum; nockrar uppihalda sér á sjáfar-botni; adrar hefja sig á flug upp úr sjónum; sumar lifa bædi á sjó og landi; sumar búa á jørdunni, og sumar í jørdunni; sumar hafa sitt adsetur í steinunum, og handa ødrum er eitt einasta blómstur nóg verøld.

Hvørsu ýmislegar eru allar þessar skèpnur í þeirra-edlis-háttum! hèr sje eg her af fljúgandi skèpnum, sem med vindsins fljótleika fara ígégnum loptid; þar aptur annann, sem varla gétur dregid sig áfram á jørdunni; hèr sje eg her af ormum, sem velta sèr í duptinu, en ad nockrum tíma lidnum fá vængi og slást í hóp med loptbúunum. Nockrar skèpnur lifa og hræra sig; adrar lifa og hreyfast ecki; nockrar hafa einúngis tilfinnínguna; adrar, sem fyrir utan tilfinnínguna, eru útbúnar med fleirum skilníngar-vitum, og enn þá adrar, sem umfram skilníngarvitin hafa þenkjandi sálir. Og hvad tølum vèr um grøsin? nockur vaxa á jørdunni, og hèr ega ønnur grøs heima á láglendinu, ønnur á fjøllunum; nockur vaxa í sjónum, og hèr vaxa sum á botninum sum ofan á sjónum. Loksins hefir óg loptid sín grøs, sem þar vaxa og finna vidurværi. Maklega kallast Skaparinn herskaranna Gud.

En, ef allar þessar skèpnur ecki hefdu þeirra ýmislegann tilgáng, þá mundu þær ad vísu vitna um Skaparans almætti, en ecki um hans vísdóm. En þar ed þeir, sem ransaka náttúruna, verda varir vid stóraun og gódann tilgáng med allar þessar skèpnur, sem uppfylla loptid, jørdina, hafid, vøtnin, árnar, fjøllin og dalina, sem eru hvør annari svo ólíkar ad skapnadi, náttúru og øllu edli, þá er skèpnanna fjøldi røksemd um Skaparans margfalda og óransakanlega vísdóm, sem hefir tilsett alla hluti med mælir, tølu og vigt, Vísdómsb. 11. Vid heimsins fyrstu grundvøllun hlýtur Skaparinn ecki einúngis ad hafa

tilbúid þessar ótölulegu sképnur, heldur og svo ad hafa fastsett töluna á þeirra afqvæmi. Þar fyrir sjáum vér, ad sumar sképnur eru seinni ad æxla kyn sitt, enn adrar fljótari, sumar frjófsamari enn adrar. Þetta getur ecki komid af hendíngu einni, heldur hángir þad af þeirri nidurskipun, sem Gud gjördi strax í öndverdu vid heimsins fyrstu grundvöllun. Hann tilsetti alla hluti med mælir, tölu og vigt, eptir þeim tilgángi, sem hann hafdi med hvörja sképnu, og eptir þeirri nytsemi, sem hún átti ad gjöra; því engin sképna, hvörki stór né lítil er án tilgángs edur án nytsemdar, heldur hefir hvör ein sína ávördun, sitt augnamid. Og öll þessi óteljandi augnamid sinna ótölulegu sképna hefir Skaparinn ecki einúngis fyrirsjed, heldur hefir hann fastsett þau, samtengt þau hvört vid annad, og hagad öllu svo, ad allar sképnur skyldu framqvæma hans sídasta einka-augnamid, sem er vidfrægíng hans hátignar, og farsæld hans skynsemdarfullu sképna. Hvörsu megum vér hér af heilagri undrun upphrópa: ó! hvílík djúpt audæfanna, bædi Guds speki og þeckíngar!

En svo sem til vísdóms útheimtist, ad tilgángurinn sé gódur og nytsamlegur, svo útheimtist líka, ad medölin, sem valin eru til ad efla þennann tilgáng, séu gód og hagqvæm. Í þessu tilliti talar og svo öll náttúran um Guds óendanlega vísdóm. Af óteljandi röksemdum, sem hér kynnu til ad leidast, vil eg einúngis tala um þau medöl, sem Skaparinn hefir ætlad öllum sínum lifandi sképnum til uppheldis; þessi hug-

leiðíng var það, sem upporfaði Davíð til að sýngja þennann lofsaung: þú lætur brunnana uppsprettu í dölunum svo að vøtnin framfljóta á milli fjallanna; svo að øll dýr á mørkinni drecki, og villudýrin sløckvi sinn þorsta; hjá þeim himins fuglar himinsins og sýngja á milli viðar-qvistanna. Þú lætur grasið uppspretta fyrir fénaðinn, og sæðið mønnunum til nytsemdar. Skógar-trén Drottins standa full með vøkva, þau Cedrus trén, sem hann hefir plantað; þar hreiðra sig fuglarnir, og Storkarnir byggja á grenividar-trjánum; þau háu bjørgin eru Steingeitanna athvarf, og bjargskorurnar Kúnis-dýranna. Drottinn! hvørninn eru þín verk svo stór og mørg, øll hefir þú þau með speki tilsett, og jørðin er full af þinni eign, Psálm. 104.

Pær sømu hugar-hræríngar, sem uppvøknudu hjá Davíð við þessa yfirvegun, ættu og maklega að uppvakna hjá oss. Hvørsu fáum vér nóglega undrast, þá vér aðgjætum, hvørninn Skaparinn hefir ætlað sérhvørri sképnu víst viðurværi, og géfið henni þau verkfæri, sem hún með þarf til að útvega sér það. Nockur dýr lifa af grøsum, og sérhvørt dýr hefir því vissar grastegundir sér til uppheldis, sem best ega við þess náttúru. Onnur dýr lifa af dýrum; því eitt dýrið er ætlað øðru til fæðis, og Skaparinn hefir svo tilhagað, að þvílík dýr fjølga lángtum meir. Par fyrir eru svo margar þúsundir af skriðqvikindum móti einum einasta fugli, og svo margar þúsundir af smá-fiskum á móti einum stórum.

En af þessari náttúrunnar niðurskipun flýtur sífeldt stríð á milli lifandi sképna, og þetta stríð viðheldur þeirra fjöri og frískleika, þar hvør ein ástundar að ráðast á sinn óvin, og búa sig til varnar á móti honum. Menn mættu hugsa: að þær sképnur mundu strax upprætast, sem allavegu eru umsetnar og ætlaðar øðrum til fæðis. Nei! Skaparans vísdómur hefir og svo séð við því. Hvørr er svo dofinn og tilfinningarlaus, að hann ecki undrist, þegar hann athugar þau vopn, með hvørjum Skaparinn hefir útbúið bæði ofsóknarana og þá, sem ásóknunum mæta, hina fyrri til þess, að þeir géti ráðist á, og þá síðari svo þeir gætu varið sig eður umflúið ásóknina. Klær, tennur, horn, sverð, broddur, eitur, eru þessi varnar-vopn. Þar sem ójafnir høggva saman, er annar parturinn útbúinn með meiri fimleika, snidugleika eður øðrum meðølum, sem eru ánægjanleg til að mótstanda ásókninni eður umflýa hana. Qvikfénaðurinn í þeim heitu løndum, mundi ecki géta umflúið Ljónsins styrkleika og snarræði, ef Skaparinn ecki hefði géfið Ljóninu skjótskygnari sjón, heldur enn fénaðinum.

Það tilheyrir eginlega þeim, sem ransaka náttúruna, að uppgøtva þessi merki Guðs óendanlega vísdóms; til að uppgøtva þau øll, til að þeckja þau grant, útheimtist heil eilífð; en vér þurfum ei að þeckja þau øll til að tilbiðja vísdóm þeirrar hærstu veru. Það almennasta sem vér daglega augum lítum er nóg til að uppvekja hjá oss heilaga undrun. Vér þurfum ecki að vera náttúru-spekíngar til að sjá það, að Guð er alvís. Vér þurfum ecki lengra

að fara enn til sjálfra vor. Vér sjálfir erum dásemdar = verk Skaparans óendanlega vísdóms. Hverr einn limur á vorum líkama, þegar vér aðgjætum hvørsu hann er hentuglega lagaður til þess, sem hann er tilætlaður, vitnar fyrir oss, að Skaparinn, sem tilbjó hann, er allt eins óendanlegur í sínum vísdómi, sem hann er óendanlegur í krapti. Eg vil einúngis tala um augað: hvørsu vísdómsfullur er þess tilbúníngur! hvørsu hentugt er það til að ná þeim tilgángi, hvørs vegna það er sett í líkamann! í hvørsu hentugann stað er það sett! hvørsu konstugleg er umgjörðin í kríngum það! hvørsu vel er það varðveitt á móti því, sem það kann að skaða! hvørsu vísdómslega eru þess kraptar passaðir eptir mannesskjunnar þörf! ef augun væru sljóffskygnari enn þau eru, mundum vér fara á mis við allmargar lystisemdir, og ef þau væru skarpskygnari, svo að menn sæu eins vel með berum augum, eins og með stækkunar = gleri, hvørsu mundi oss væma við vatninu sem vér dreckum, við fæðunni, sem vér borðum, og loptinu sem vér drögum til vor með andardrættinum, sem allt er fullt af ósýnilegum smákvépnum? já, margt hvað, sem oss sýnist nú fagurt og vér dáumst að, mundi oss sýnast ljótt, ef vér hefðum skarpari sjón.

Það væri auðveldt, að sýna hinn sama vísdóm á hinum ödrum skilníngar = vitum; en þessa ransókun eptirlæt eg hvörjum einum kristnum manni, sem brúkar nockuru eptirþánka. Eg vil einúngis enn nú sýna Skaparans vísdóm í því, er þeim þykir vísdóms skortur, sem eru svo djarfir að finna að verkum hins alvísa. Sérhvørt dýr fæðist með þess

skýlu; manneskjan eiúngis kémur nakin inní heiminn. Þetta, sem í fyrsta áliti sýnist að vera vísdóms skortur, er rauuar guðlegur vísdómur. Maðurinn er jarðarinnar Herra, hvør ein ønnur sképna er ætluð til að lifa undir vissu himin-belti, og hennar skýla er løguð þar eptir; maðurinn þarámóti átti að leggja undir sig allann heiminn; hans náttúra er þessvegna ecki einúngis hæf, til að lifa undir hvørju einu himin-belti, sem ønnur dýr ecki eru, að þeim undanteknum, er manneskjunni eru til fæðis ætluð; heldur lét Skaparinn manneskjuna fæðast nakta henni sjálfri til þess meiri hægðar, svo að hún gjæti sjálf umbreytt sínum klæðnaði, eptir sem hennar þorf útkrefur í hvørjum stað og undir hvørju himin-belti. Í heitu løndunum spinnur ormurinn silki handa henni, í þeim mildari géfur sauðurinn henni sína ull, og í þeim kølðustu bjarndýrið sinn feld; þó manneskjan komi nakin inn í heiminn, hefir Skaparinn þó umboðið náttúrunni að sjá henni fyrir klæðum. Sá sem ecki sjer aðdáanlegann vísdóm í øllu þessu, má vera blindur af ásettu ráði, og að opna fyrir honum vísdómsins fjársjóðu, er forgéfins.

---

Það er vanvirða, að oss, sem þykir svo mikið koma til margra hvørra lítilvægra smámuna, skuli eckért finnast um þau miklu dásemdar-verk Guðs vísdóms, er daglega umkríngja oss. Við hvørt fótmál, sem vér gaungum, verða á vegi fyrir oss ný merki Skaparans vísdóms. Í líkama þess minnsta skriðqvikindis er meiri kunst og vísdómur enn í þeim viðhafnarmestu Kónga-høllum.

Blómstrin á mørkinni eru lángtum fagurlegar prýdd, heldur enn Salómon í øllum sínum konúnglegum skrúda. Oss finnst svo mikid um þad litla, skyldum vér þá vera tilfinníngarlausir vid þad mikla! skyldum vér ecki endrum og sinnum taka oss í hønd eitt blómstur eda eitt skridqvikindi, virda þad fyrir oss og segja med sjálfum oss: hvílíkt meistara-stycki Skaparans vísdóms! hvørsu kunstuglega er þad mindad! hvørsu føgur lita-skipti! hvørsu addáanleg fegurd, orda og nidur-radan er á þessari litlu sképnu! af þvílíkum hugleidíngum mundum vér hafa hreina, háa og ágjæta lystisemi, og fá þar af háa þánka um Skaparans óransakanlega vísdóm.

Hvørsu margar sképnur verda fyrir oss í náttúrunni, sem oss sýnast svo audvirdilegar, ad vér hugsum þær séu án orsakar og án tilgángs; í þad minnsta þenkjum vér aldrei til þess vísdóms, sem liggur hulinn í þeim. Vér mundum hafa verdugri þánka um þessar, fyrir vorum augum, svo audvirdilegu sképnum og ecki forakta þær, ef vér ydug lega vendum oss sá, vid hvørt eitt tækifæri ad grenslast eptir og dádst ad Guds óendanlega vísdómi, er lætur sig í ljósi á øllum hans handaverkum.

Hvørsu margt ógrípanlegt verdur fyrir oss í nádarinnar ríki? sá máti, med hvørjum Gud leidir manneskjurnar til eilífrar sælu, hefir leyndardóma, sem vor skynsemi gétur ecki fullkomlega þreyngt sér ígégnum. Hér og þar finnum vér afgrunn, í hvørjum vér sjáum ecki utan dapra skýmu: mundum vér hneixlast á þessu myrkri, ef

vér hefdum vanid oss á, ad dádst ad og tilbidja Guds vísdóm í náttúrunnar ríki? med heilagri lotníngu mundum vér byrgja fyrir vor augu, og tilbidja hvørt eitt afgrunn, sem vér med skynseminni ecki kynnum ad útgrunda.

Hvørsu margt ógrípanlegt verdur fyrir oss í vorum egin kjørum? þeirra samanhengi og þeirra tilgángur er oss opt og tídum leyndardómur. Opt hugsum vér, ad vér høfum orsok til ad efast, stundum um Guds gædsku, stundum um hans réttlæti; vér hugsum opt, ad vér mundum verda lángtum luckulegri, ef vér sjálfir mættum sjá fyrir rádi voru: mundum vér ecki þenkja ødruvísi, ef vér réttilega þecktum Guds vísdóm, sem hann hefir opinberad í øllum sínum verkum! vér mundum þá álykta af því, sem vér sjáum, um hitt, sem vér ecki sjáum; vér mundum þá gjøra þessa ályktun: sá sami, sem rædur fyrir heiminum, rædur líka fyrir mínum kjørum; hans vísdómur hlýtur allavega ad vera hinn sami; þad, sem fyrir mínum augum er trubl og óregla, hlýtur ad vera vísdómur og gædska, og sídar meir mun eg komast ad fullri raun um þad, þegar sá Alvísi hefir leidt mig um þessa huldu vegi til míns takmarks. Svo vigtugt og heilsusamlegt er þad fyrir oss, ad hugleida Guds óendanlega vísdóm.

## 6. Kapítuli.

### Um Guds Alvitsku.

Ad Gud sé alvitur, hafa ecki einúngis sídabir, heldur ogsvo hinir villtustu Heidíngjar vidkannast.

Þegar nockurr heidinn vísindamadur var adspurdur, hvørt mannanna leſtir mundu vera huldir fyrir Gudi? ſvaradi hann: ad jafnvel mannanna þánkar væru honum augljóſir. Annar Heidíngi ſegir: ad allir menn þecki af náttúrunni þann ſannleika, ad Gud viti alla hluti, einninn mannanna huldustu þánka. Egyptſkir á fyrri øldum, máludu Gud eins og auga, og helgudu honum augna og eyrna-bílæti, til ad kénna þar med, ad Gud ſæi og heyrdi, edur viſsi alla hluti. Þeir Mahómedønſku kénna: ad Gud viti allt þad, ſem vitaſt kann, ad hans þecking yfirgrípi allt þad, ſem ſkédur frá jardarinnar enda til þeſs hærſta himins; ad eckért ſé hulid fyrir hans augum; ad hann jafnvel þecki himin-hnattanna gáng og þánka andans. Þar Heidíngjarnir bera ſvo fagrann og ſannann vitnisburd um Guds alvitſku, ſkyldi þá ecki heilög Ritníng miklu framar vitna um hana? enginn kann betur ad útmála Guds óendanlegu fullkomlegleika, enn ſjálfur hann. Ritníngin ſegir oſs: ad Gudi ſéu kunnug øll hans verk frá eilífd, Poſt. g. b. 15. Hún ſegir oſs: ad Gud telji ſtjørnurnar og nefni þær allar med nøfnum, Pſ. 147. Hún ſegir oſs: ad øll vor høfud-hár ſéu talin, Matth. 10. Hún kénnir: ad Guds alvitſka viti þá huldustu hjartans þánka. Davíd ſegir: ad Gud ranſaki hjørtun og nýrun, Pſ. 7.; og hans ſonur Salómon kénnir þad ſama, er hann ſegir: þú alleina þeckir hjørtu allra mannanna barna, 1 Kóng. b. 8. Ritníngin vitnar þá med ljóſum ordum, ad Guds alvitſka nái til allra hluta, ecki einúngis til þeirra umlidnu og nærverandi, heldur ogſvo til þeirra ókomnu.

Eg þarf ei með neinum rokſemdum að ſtyrkja þann ſannleika, að Guð eptir ſinni alvitſku þeckir alla umliðna hluti. Heiløg Ritníng vitnar þetta allvíða, og enginn ſkynſamur hefir efað, að Guð viti allt það, ſem ſkéð hefir. Vér føllum að víſu í ſtans og undrun yfir þeſsum þánka. En ecki ſíður megum vér undraſt, að Guð þeckir allt það nærverandi, að hvørr einn þánki í mannanna hjørtum er honum opinber, að ſandkornin eru talin, eins og ſtjørnurnar. Já, hann þeckir ecki einúngis vorn jarðar-hnøtt og allt hvað á honum framfer, heldur allar veraldirnar í ſínu takmarkalauſa ríki, með øllum þeirra biltíngum og umbreytíngum, það ſtærſta áſamt því ſmærſta; þetta er afgrunn guddómſins, er vér með vorum hugleiðíngum ecki gétum útgrundað; ſkilið gétum vér það ecki, og neitað ecki heldur, því bæði Ritníngin og ſkynſemin verða ſamtaka í að ſtaðfeſta það: engin ſképna, ſegir Páll, er fyrir honum óſýnileg, heldur eru allir hlutir naktir og óhuldir fyrir hans augum, Ebr. 4.

Og þó að Ritníngin hefði ecki ſvo greinilega opinberað oſs þennann ſannleika, þá flýtur hann bæði af þeim þánka, ſem vér hljótum að gjøra oſs um Guð, ſem þá allra fullkomnuſtu veru, og af þeim þánka, ſem vér hljótum að gjøra oſs um hann, ſem heimſins æðſta ſtjórnara. Fyrir Guð ſkiljum vér þá veru, ſem hefir alla møgnlega fullkomlegleika til að bera í hærſta máta; hans ſkilníngur hlýtur þeſs vegna að vera allteins óendanlegur, ſem aðrir hans fullkomlegleikar. En ef ein einaſta umbreytíng í hans ómælanlega ríki væri hulin fyrir honum, þá væri hans ſkilníngur ecki óendanlegur;

vér kynnum þá að íminda oss aðra fullkomnari veru, sem vissi alla hluti; og þess vegna væri Guð ecki hinn allra fullkomnasti, sem þenkjast kann, ef hann ei vissi allt.

Það sama flýtur og af þeim þánka, sem vér hljótum að gjøra oss um Guð, svo sem heimsins æðsta stjórnara. Hvørninn Guð veit og þeckir alla hluti í sínu takmarkalausa ríki, skiljum vér ecki; en það gétum vér skilið, að ef hann þeckti þá ecki, þá gjæti hann ei með vísdómi stjórnað helminum. Allir hlutir í heiminum eru samantengdir hvørr við annann; það smærsta er opt orsök til hins stærsta; þeir lítilvægustu atburðir leiða tíðum eptir sig hinar vigtugustu umbreytíngar. Hvað sýnist minna í varið enn einn þánka; en þessi þánki gétur af sér annann þánka; af þessum þaunkum fæðist ásetníngurinn; ásetníngurinn er framqvæmdur; framqvæmd ásetníngsins leiðir eptir sig íllt eður gott fyrir sjálfa oss eður aðra menn í tímanlegum, og stundum eilífum efnum.

Sé nú þetta óneitanlegt, að hinir minnstu hlutir leiði eptir sig hina stærstu; hvað fylgir þá þar af, annað enn þetta: að hann, sem er heimsins æðsti stjórnari, hlýtur að þeckja með fullkomnasta hætti, einninn þá allraminnstu hluti; án þessarar alvitsku gjæti Guð ei stjórnað heiminum með vísdómi. Ofyrirsjeðar hindranir mundu opt koma í veginn, sem annaðhvørt mundu gjøra að engu hans vísdómsfulla tilgáng, eður hann hlyti með sínu ómótstæðilega almætti að burtrýma þessum hindrunum á hvørju augna-bliki. Ef að Guð ecki eptir sinni alvitsku þeckti allar sképnur í øllu sínu ómæli-

léga ríki, og sérhvørja fyrir vorum augum ómerkjanlega umbreytíngu, með øllu því, sem hún eptir sig leiðir, þá væri hans stjórnan eins ófullkomin og stjórnan jarðneskra Kónga, hvørra tilgángur í að efla ríkjanna velgengni, opt verður að engu, af því þeir eru ecki alvitrir, og margt kémur uppá, sem þeir ecki géta við séð. En kann þvílíkt að þenkjast um Guðs stjórnun? neí, skuli hann stjórna heiminum með vísdómi, þá hlýtur hann grant að þeckja alla hluti. Hann hlýtur að vita tølu á øllum sínum sképnum, og nefna þær með nøfnum, eins og Ritníngin segir: allir hlutir hljóta að vera berir og óhuldir fyrir hans augum.

Hvørsu megum vér standandi við þetta ómælilega afgrunn upphrópa af heilagri undrun: ó! hvílíkt ómælilegt djúp bæði Guðs vísdóms og þeckíngar! en þó verðum vér aldrei svo frá oss numdir af undrun, yfir Guðs alvitsku, sem þá vér hugleiðum hans fyrir fram vitund, eður þann Guðs eiginlegleika, með hvørjum hann veit fyrir fram allar heimsins ókomnu umbreytíngar, einninn þær allraminnstu, og hvað ské muni um alla eilífð. Því Guðs alvitska nær ecki eimúngis til þess umliðna og nálæga, heldur ogsvo til þess ókomna.

Á meðal ókominna hluta eru nockrir nauðsynlegir, aðrir tilfallandi, og sá alvitri þeckir þá hvørutveggju. Fyrir þær nauðsynlegu umbreytíngar í heiminum meinum vér þær, sem eru grundvallaðar á øðrum undangángandi umbreytíngum, og sem nauðsynlega leiða aðrar eptir sig, hvørjar aptur verða nauðsynleg orsøk til óteljandi annara umbreytínga. Eg vil upplýsa þetta með eptirdæmi:

ad af jardarinnar og túnglsíns gángi hljóti á viss-um tímum ad orsakast förmyrkvan, ad þessi for-myrkván vari svo og svo leingi, hvørki lengur né skémur, þad er naudsynlegur atburdur, sem er grund-valladur í náttúrunnar nidurrodun, og ad Gud géti fyrirsjed þessar eptirkomandi umbreytíngar, er oss ecki svo óskiljanlegt. Þad gétum vér skilid, ad Guds ó-endanlegi skilníngur, sem þeckir orsakirnar, hlýtur ogsvo ad þeckja þad, sem þær eptir sig leida til eilífrar tídar. Vér gétum jafnvel opt og tídum med vorri sljófskygnu skynsemi med nockurnveginn vissu álýktad af orsøkinni, sem vér sjáum, um þad, sem hún eptir sig leidir, og vér ecki sjáum; og því meir, sem skynsemin er æfd og skérpt, því lengra sjer hún inn í þad ókomna; og vér efumst þess vegna ecki um, ad sá óendanlegi skilníngur, sem lagt hefir þann fyrsta grundvöll til allra heimsins umbreytínga, fyrirsjái og med fullkominni vissu allar þær verkanir, sem þar af fljóta allt til eilífdar.

En, ad Guds alvitska fyrirsjái þá hluti, sem eru øldúngis tilfallandi, sem grundvalladir eru á sképnanna, og þad ófæddra sképna frjálsrædis at-høfnum, þad er ómælanlegt djúp Guds vísdóms og þeckíngar, vid hvørt skynsemina sundlar; hér gétum vér ecki borid oss saman vid Gud. Í ødrum pört-um Guds alvitsku gétum vér eygt nockurn møguleg-leika, en hér eygjum vér øldúngis engann. Vér, sem høfum endanlegann skilníng þeckjum þó nockud af því umlidna, nockud af því nálæga, og nockud af því ókomna, sem hefir sinn naudsynlegann grund-vøll í því nálæga; og vér álýktum þar af, ad

Gud þecki það alltsaman. En að Guðs fyrir fram vitund nái einninn til þeirra hluta, sem eru tilfallandi, sem ecki hafa þeirra grundvöll í náttúrunnar fastsetta gángi, sem einúngis eru grundaðir á skepnanna sjálfræðis athöfnum, það er það ómælanlega djúp Drottins alvitsku, sem yfirgengur alla vora skynsemi.

En þó vér ecki gétum skilið, hvörninn Gud veit alla hluti fyrirfram, þá kénnir þó skynsemin oss, að hann hljóti að vita þá. Að sú fullkomnasta vera hljóti að vera eldúngis óumbreytanleg, það þeckir skynsemin. Sú vera, er sífeldlega gétur orðið fullkomnari, er á hvörri stundu gétur aukið við sína þeckíngu; sú vera, sem þannig verður fullkomnari á hvörju augna-bliki, hún er umbreytanleg og endanleg; hún er máské fullkomnari, enn allar aðrar verur, en hún er samt ecki sú fullkomnasta vera; vér gétum ímyndað oss þann Guð, sem væri enn þá fullkomnari, og þess vegna væri þvílík vera ecki Guð. Eg vil nú gjöra við, að Guð ecki vissi alla ókomna hluti, bæði þá tilfallandi og þá nauðsynlegu, þá væri því viðlíka varið fyrir Skaparanum sem oss; tíminn kénndi honum ætíð að þeckja nockuð nýtt, sem hann hefði ecki áður þeckt; honum jykist þá þecking og skilníngur sífeldlega, eptir því, sem fleira bæri við. Hann væri þá nú lángtum fullkomnari, heldur enn þegar hann skapaði heiminn, og að liðnum heims-aldrinum væri hann búinn að ná enn þá hærri fullkomlegleikans tröppu. En þvílík vera væri ecki óendanleg, þvílík vera væri þess vegna ei heldur Guð. Þar fyrir, ef að Guð skal vera hin allra full-

komnasta vera, svo hlýtur hann ad þeckja allt hid ókomna, eins og hid nálæga og umlidna; hans alvitska hlýtur ad ná frá einni eilífd til annarar; eckért nýtt gétur uppá komid, sem hann ei hafi fyrirsjed. Og þennann skynseminnar lærdóm stadfestir Ritníngin.

Hvad er meir tilfallandi, enn ad Titlíngur falli á jørd, og þó veit Gud þad? hvad er meir tilfallandi, enn talan á mannsins høfudhárum? og þó vitnar Ritníngin: ad þau séu talin af Gudi, Matth. 10. Hvad er meir tilfallandi, enn vissar líkamans hreyfíngar, svo sem: ad sitja edur standa upp? hvad er meir tilfallandi, heldur enn þánkinn, sem snøggsinnis flýgur oss í hug, og hverfur eins skyndilega burt aptur? heldur enn eitt ord, sem fellur ófyrirsynju út af vorum munni? og þó vitnar Davíd: ad Gud viti allt þetta. Enginn hefir med fegri og líflegri litum útmálad þennann Guds óendanlegleika, heldur enn hann, er hann segir: Drottinn! þú rannsakar mig og þeckir mig; hvørt eg sit edur stend upp, þá veitst þú þad, þú skynjar mínar hugrenníngar álengdar; hvørt eg geng edur ligg, þá ertú í kríngum mig, og sjer alla mína vegu; þvíad, sjá þú! þar er eckért ord á minni túngu, ad þú, Drottinn! ei vitir þad allt. Davíd vard sjálfur af þessari hugleidíngu svo frá sér numinn af undrun, ad hann strax á eptir útbrýtst med þessum ordum: sú þeckíng er mér of furdanleg og of há, eg fæ hana ecki skynjad, Ps. 139. Vér megum allir segja hid sama, og megum maklega trúa, ad í Gudi er lángtum meira, heldur enn vér gétum skilid. Ef vér ættum ad géta

skilið, hvílíkur Guð er, þá hljótum vér sjálfir að vera Guðir; og eins ómøgulegt, sem það er, að vera það síðara, eins ómøgulegt er og að g'ta það fyrra.

---

Þessi hugleiðíng Guðs alvitsku á ecki einúngis að uppfylla vor hjørtu með undrun og djúpri lotníngu fyrir hans óendanlegleika; heldur á hún einninn að uppvekja hjá syndaranum hræðslu og ótta, og hjá þeim sann-kristnu djørfúng og hugarhreysti. Hvørr þánki gétur verið kroptugri til að aptra oss frá syndinni, og uppørfa oss til að betra vor hjørtu, heldur enn þessi: að vér ætíð stondum fyrir Guðs alskygna augliti, að hann þeckir alla vora þánka, og þau innstu fylsni vors hjarta eru ber og nakin fyrir hans alvitsku? hvørsu náqvæmlega leitumst vér við að dylja vor hjørtu og þeirra vondu tilhneigíngar fyrir mannanna augum, að minnsta kosti fyrir dygdugum og ráðvøndum mønnum; og þegar vér einúngis gétum falið oss í myrkrinu, svo mannanna augu sjá oss ecki, þá þenkjum vér ecki framar til þess alskygna auga, fyrir hvørju sjálft myrkrið er ljós, og nóttin, sem middeigis birtan. Hvað gétur verið heimskulegra, heldur enn að dylja sínar girndir fyrir øðrum mønnum, sem eru vorir bræður, af sama dupti, sem vér; sama veikleika undirkastaðir, sem vér; og láta allann sinn hjartans óhreinleika standa berann og nakinn fyrir þeim alvitra Guði, sem er vor Yfir-herra, og vor tilkomandi Dómari. Hvørsu lítið stoðar það, þó vér fordumst menina, þar vér ecki gétum fordast

Gud, er síðarmeir mun leida í ljós þad, sem í myrkr-unum er hulid, og opinbera rádin hjartnanna? mundum vér ecki þenkja ødruvísi, mundum vér ecki skélfast sérhvørn syndsamlegann þánka, ef vér þenkt-um eins og Davíd, ef vér settum oss líflega fyrir sjónir Guds alvitsku, sem hann, og ítrekudum opt med sjálfum oss þessi ágjætu ord: Drottinn! þú rannsakar mig og þeckir mig, hvørt eg sit edur stend upp, þá veitst þú þad, þú skynjar mína þánka álengdar; hvørt eg geng edur ligg, þá ert þú í kríngum mig, og sjer alla mína vegu; því, sjá þú! þar er eckért ord á minni túngu, ad þú, Drottinn! ei vitir þad alltsaman.

Hvørsu heilsusamlegt væri þad fyrir oss, ef þessi ord væru djúpt inngrafin í vor hjørtu! vér mundum þá blygdast meir fyrir Guds óendanlegu hátign. Þegar manneskjurnar eru svo ofdirfsku-fullar, ad þær ana frá einum lesti til annars, og svísast einkis, þá skyldu þær einúngis þenkja til þessa: Gud sjer þad. Þegar vorar girndir hreyfa sér innvortis hjá oss, andinn strídir á móti holdinu, og holdid á móti andanum, og vér í þessu hættu-lega strídi tøkum til ad hræsa, fæturnir vanmegnast, duguriun hverfur og kraptarnir bila, þá látum oss einúngis þenkja til þessa: Gud sjer þad. Þessi þánki mun gefa oss dug og hugar-hreysti til ad strída vid sjálfa oss. Þessi þánki: Gud sjer þad; sá Gud, sem er þinn tilkomandi Dómari, hvørs dómur á-qvardar þín kjør í eilífdinni: hann sjer þad; þessi þánki mun vidrétta vora hugar-hreysti, og endur-nýja vora krapta; þessi eina hugleidíng er fullnóg til ad uppvekja hjá oss heilagann ótta fyrir sér-

hvørjum syndsamlegum þánka, sérhvørri óreglulegri girnd, sérhvørri megnri gédshræríngu, sem hreyfir sér í vorum hjørtum. Þessi eina hugleiðíng er fullnóg til ad sannfæra hræsnarann um hans heimsku, ad hann med dular-klædum byrgir sína réttu ásýnd, prýdir sig med yfirlit gudrækilegs athæfis og kalkar grøfina, sem er innvortis fúl og andstyggileg fyrir augum þeirrar ædstu veru, hver ed sjer í gégnum þann útvortis hræsnisham inn í hjartad.

Ef ad þessi þánki: Gud sjer mig, væri oss ætíd hugfastur, hvørsu árvakra yfir sjálfum oss, hvørsu varkára í øllu voru framferdi, en þar hjá hvørsu hughrausta í øllum lífsins ógédfeldu umbreytíngum mundi þessi þánki gjøra oss! þessi umhugsan, sem er svo skélfileg fyrir hræsnarann, hvørsu heilsusamleg er hún fyrir þann sann-kristna? þegar vorar heimuglegar óskir uppstíga fyrir Guds hásæti, hvílík huggun er þad fyrir oss, ad vér vitum, ad sá alvísi Gud heyrir þær? þegar vorir óvinir baktala oss, vor bestu verk eru løstud, þad, sem vér gjørum í gódri meiníngu er útlagt á versta veg, hvílík huggun er þad fyrir oss, ad Gud sjer vort hjarta, ad sá alvitri, sem dæmir án manngreinar álits, þeckir oss og vorn tilgáng? hvílík huggun er þad fyrir oss, þegar vér gétum sagt med Postulanum Páli: mér er þad fyrir litlu, ad eg dæmist af ydur edur af mannlegum dómi; eg dæmi mig og ecki sjálfur; eg er mér sjálfur einkis medvitandi; en þar fyrir er eg þó ecki réttlátur; Drottinn er sá, sem dæmir mig, 1 Cor. 4. Þegar vér liggjum í duptinu yfirgéfnir og einkis virdtir, heilsubrestur ásækir, og fátæktin nidurþryck-

ir oss, hvílík huggun er þá fyrir oss, ad vita, ad Gud sjer oss, jafnvel þau minnstu tilfelli, sem uppáfalla fyrir oss, eru óhulin fyrir hans augum, hann safnar saman øllum vorum tárum og telur øll vor høfud-hár, svo ad ecki eitt einasta kann ad týnast án hans vilja. Lærdómurinn um Guds alvitsku þénar oss þess vegna bædi til skélfíngar og líka til huggunar. Þad er í voru valdi, ad umbreyta því í heilsusamlega huggun fyrir oss, sem ødrum stendur ótti og skélfíng af. Einúngis ad vér gaungum óstraffanlega fyrir Guds augliti, og framhøldum vorri helgun í Guds ótta, þá vitum vér, ad Guds fyrirheit uppfyllist á oss: augu Drottins líta til þeirra réttlátu.

## 7. Kapítuli.

### Um Guds allstadar nálægd.

Ad sú óendanlega vera, sem med sínu almætti hefir skapad alla hluti, med sínum vísdómi nidur-radad þeim, og eptir sinni alvitsku lítur yfir og þeckir allar sínar skèpnur, ad þessi vera hljóti ogsvo ad vera allstadar nálæg, þad er sá sannleikur, sem jafnvel heilvita skynsemi getur þeckt. Sá Gud, sem væri bundinn vid vissann stad, sem á hvørju augnabliki hlyti ad fara úr einum stad í annann, til ad framqvæma þad, sem hann vildi, hann væri ecki sú fullkomnasta vera, hefdi ecki alla møgulega fullkomlegleika til ad bera, og væri þess vegna ecki Gud. Ad eg ecki tali um, ad Guds allstadar nálægd er svo náqvæmlega og óadskiljanlega sameinud vid hans almætti og alvitsku, ad ef vér neitud-

um þeim fyrsta af þessum Guðs eginlegleikum, þá hlytum vér nauðsynlega að neita ogsvo tveimur hinum síðari. Vér sjáum þar fyrir og, að skynsamir heiðíngjar hafa af skynseminnar ljósi sjeð þennann sannleika, að sú guðdómlega vera hlyti að vera allstaðar nálæg. Xerxes lét niðurbrjóta musteri Grickja, þar hann áleit það ógudlegt, að menn skyldu vilja innilykja Guð í einu musteri. Pýtagóras kallaði Guð þá veru, sem væri útbreidd yfir alla náttúruna. Heiðíngjarnir gjörðu sér að vísu ecki ætíð hina réttustu þánka um þennann Guðs eginlegleika; en þeir gátu þó ei ímindað sér þann Guð, sem ei væri allstaðar nálægur.

Þennann skynseminnar lærdóm staðfestir Ritníngin: hvørt skal eg fara frá þínum Anda, segir Davíð, og hvørt, skal eg flýja frá þínu augliti? þó eg færi upp í himininn, þá ert þú þar, og þó eg byggi mér legu-rúm í undirdjúpinu, þá ert þú einninn þar. Þó eg vildi taka uppá mig vængi morgun-roðans og búa við hið ysta heimsskaut, þá mundi samt í þeim stað, þín hønd leiða mig, og þín hægri hønd halda mér, Ps. 139. Hans sonur Salómon kénndi það sama: himnarnir, segir hann, og himnanna himnar taka þig ei, miklu síður þetta hús, sem eg hefi byggt, 1 Kóng. b. 8. Þetta sama vitnar og Drottinn sjálfur fyrir Spámanninn Jeremíam: er eg ecki sá Guð, sem nálægur er, segir Drottinn, og ecki sá Guð, sem fjærlægur er? þenkir þú, að nockurr kunni svo leynilega að fela sig, að eg sái ei sjeð hann? segir Drottinn; er eg eigi sá, sem uppfylli himin og jørð? Jerem. 23.

Þessi óendanlegleiki í Gudi, er þá ánægjanlega stadfestur. Skynsemin og Ritníngin verda samtaka þar um; en ætíd verdur hann oss ógrípanlegur, eins og oll guddómsins vera; og hvad er þad ad undra? vér skiljum ecki, hvørninn vor eiginn andi er allstadar nálægur í vorum líkama, og hvørninn skyldum vér þá géta skillid, hvørninn sá óendanlegi Andi er nálægur í allri náttúrunni? ógrípanlegur er ad sønnu þessi lærdómur, og hlýtur naudsynlega ad vera þad; en hann inniheldur þó eckért, sem er órímilegt edur sjálfu sér mótsegandi, einúngis ef vér gjørum oss rétta þánka um þennann Guds óendanlegleika.

Vorir þánkar hér um eru rángir, ef vér setjum oss Guds allstadar nærveru fyrir sjónir, sem útbreidslu þeirrar guddómlegu veru; ef vér ímindum oss, ad Gud sé allstadar nálægur eins og loptid, sem breidist út yfir allar skepnur, þreyngir sér inn í alla hluti, og fyllir allt. Med þvílíkum ímindunum gjørum vér Gud ad samansettri veru, sem samanstendur af portum; en þvílík vera hefdi takmørk, og væri ecki Gud. Loptid er í vissu tilliti allstadar nálægt í náttúrunni; en þeir partar af því, sem nálægir eru í einum stad, eru ecki á sama tíma nálægir í ødrum. Sú hærsta vera er þarámóti oll í hvørjum stad; og þó hún sé nærverandi í einum stad, er hún þá ecki sídur nálæg í ødrum. Guds allstadar nálægd verdur uppá audveldari og Gudi verdugri máta útskírd af hans alvitsku og hans almætti.

Eptir sinni alvitsku þeckir Gud alla hluti í sínu ómælanlega ríki; þennann sannleika hefi eg

sannad hér ad framan. Hann þeckir alla hluti, eins og vér, med brúkun skilníngarvitanna af reynslu, ályktun, eptirgrenslun. Hann þeckir alla hluti, med sinni skodun, lángtum greinilegar, heldur enn vér þeckjum þá hluti, sem vér sjáum fyrir augunum. Vér kunnum þess vegna ad segja: ad allir hlutir séu nálægir fyrir Gudi, af því hann þeckir þá alla, eins og þeir hlutir eru nærverandi fyrir oss, sem vér sjáum med augum vorum. Þad, sem vér sjáum, køllum vér nálægt, og þad, sem vér ecki sjáum, køllum vér fráverandi. Þess vegna eru allir hlutir nálægir fyrir Gudi, þar hann í því klárasta ljósi sinnar alvitsku sjer alla hluti med fullkomnasta hætti.

En eins og allir hlutir eru nálægir fyrir Gudi eptir hans alvitsku, svo er Gud aptur á móti nálægur í øllum hlutum eptir sínu almætti. Hér af kunnum vér ad gjøra oss þánka um Guds allstadar nálægd. Med sínum óendanlega krapti verkar hann í øllum sínum sképnum; allrar náttúrunnar vidhald sannfærir oss um þessa hans verkun. Hann ber alla hluti, med sínu krøptuga ordi, segir Páll, Ebr. 1. Ef ad sá sami Guds kraptur, sem framleiddi alla hluti, vidhéldi ecki øllum hlutum, þá mundi náttúran verda aptur ad engu; og þar Gud med sínum krapti verkar í øllum sínum sképnum, þá er hann einninn med sínum krapti nálægur í þeim øllum.

En þar Gud er allstadar nálægur med sínum óendanlega krapti, sem verkar í øllum sképnum, þá er hann og allstadar nálægur í tilliti til sinnar veru. Því Guds eginlegleikar og hans vera er eitt og hid sama; þad er einúngis í vorum þaunk-

um, en ecki í Gudi sjálfum, sem þetta er adgreindt. Guds almætti og Guds vera eru í Gudi þad sama, og hvørt frá ødru óadskiljanlegt. Þess vegna þar, sem Gud er nálægur med sínum verkandi krapti, þar er hann og nálægur í tilliti til sinnar veru. Vér gjørum oss þess vegna ránga þánka um Guds allstadar nálægd, ef vér ímindum oss, ad hans vera sé innilukt í himninum, og ad hann einúngis med sínum verkandi krapti sé nálægur í sképnunum, þegar vér setjum oss Gud fyrir sjónir, sem sólina, er stendur í midpúnkti sinna veralda, og útbreidir þadan sínar verkanir allt í kríngum sig.

En þó ad Gud verki í øllum sínum sképnum, og sé nálægur í þeim øllum, þá géfast þó ýmislegar trøppur og hættir Guds allstadar nálægdar. Grundvøllurinn til þessa mismunar er ecki í Gudi sjálfum, heldur í sképnanna ýmislegu náttúru og ásigkomulagi, á hvørjum hans verkanir framkoma, eptir því, sem þær hafa meiri edur minni annadhvørt náttúrlegann edur sidferdislegann hæfilegleika til ad taka á móti Guds medverkun. Gud kann ecki ad verka meira hjá einni sképnu, heldur enn hún eptir náttúrlegu ásigkomulagi er hæf til ad taka á móti. Og þar allar sképnur eru ecki eptir þeirra náttúru eins fullkomnar, þá kann Gud ecki heldur med sama hætti ad vera nálægur øllum sképnum. Þannig er Gud nálægari dýrinu heldur enn grasinu, manneskjunni heldur enn dýrinu, englinum heldur enn manneskjunni; þar engillinn er í sinni náttúru fullkomnari heldur enn manneskjan; manneskjan fullkomnari heldur enn dýrid, og dýrid fullkomnara heldur enn grasid. Ein sképnan hefir

þess vegna, eptir því, sem hún er af náttúrunni fullkomnari, meiri hæfilegleika til að taka á móti stærri mælir Guðs meðverkunar.

Og, eins og mismunurinn á skepnanna náttúrlegum hæfilegleika til að taka á móti Guðs meðverkun, er orsök til þess, að Guðs nálægð lætur sig framar í ljósi hjá einni skepnu enn annari, svo er mismunurinn á þeirra siðferðis hæfilegleika sömuleiðis orsök til þess, að Guð á annann hátt er nálægur einni skepnu heldur enn annari. Sá góði og sá vondi, sá dygðugi og sá óráðvandi hafa ekki þann sama siðferðis hæfilegleika til að taka á móti Guðs meðverkun; Guð verkar þess vegna ekki hjá þeim báðum með sama hætti, hann er þess vegna ekki nálægur þeim báðum með sama hætti. Guð er nálægur þeim heilaga, og huggun, gleði, von, sálarinnar rósemi og friður samvitskunnar er verkan hans nálægðar. Guð er nálægur þeim vanheilaga, og hræðsla, órósemi, kvíði og ángist samvitskunnar eru verkanir hans nálægðar. Guð er nálægur í himninum, hann er og nálægur í helvíti; en verkanir Guðs nálægðar hljóta að vera allt eins ólíkar og gagnstæðar, sem þær verur, er búa í hvorutveggja staðnum, eru ólíkar og gagnstæðar í tilliti til þeirra siðferðis hæfilegleika til að taka á móti Guðs meðverkun. Þegar Guðs nálægð útbreiðir gleði og fögnuð um þau himnesku hýbýli, þá hlýtur hún að uppfylla helvítis afgrunn með ángist og skelfíngu.

Þessar ýmislegu tröppur og hætti Guðs allstaðar nálægðar þenki eg, að menn án hættu, géti sett sér fyrir sjónir undir sólarinnar bílæti. Þessi eld-hnöttur hefir í sjálfum sér einn og sama krapt,

med hvørjum hann verkar í öllum sképnum, sem hann tilnær; en verkanirnar eru þó margvíslegar, eptir því, sem hlutirnir, sem verda fyrir hans verkun, eru í þeirra náttúru ýmislegir. Nockrir hardna, adrir brádna; nockrir blómgast, adrir visna; fyrir suma hluti hefir hún deydandi, en fyrir adra lífgandi krapt. Þannig er því og varid med Guds allstadar nálægd. Jafnvel þó Guds nálægd í øllum hans sképnum, sé eptir sinni náttúru hin sama, og krapturinn, med hvørjum hann verkar í þeim øllum, sá sami, þá eru þó verkanirnar og ávextirnir af hans nálægd margvíslegir, eptir því, sem þeirra náttúrlegi edur sidferdis hæfilegleiki til ad taka á móti hans medverkun, er ýmislegur. Og þessar ýmislegu troppur, hætti og verkanir Guds nálægdar géfur Ritníngin tilkynna med þeim talsháttum: ad Gud sé nærri, ad hann sé fjærri, ad hann komi, ad hann víki burt, og s. frv. Gud er eptir Ritníngarinnar vitnisburdi nærri edur nálægur manneskjunum, þegar þær finna til hans nádar, þegar þær bænheyrast; hann er fjærri, þegar þær andvarpa forgéfins, og bænheyrast ecki; hann kémur, þegar hann auglýsir sína nálægd annadhvørt med sérdeilislegum velgjörníngum edur straffi; hann víkur burt þegar hann dregur í hlé sitt umbunandi edur straffandi réttlæti. Þannig er Gud allstadar nálægur; med sínum óendanlega krapti verkar hann í öllum sínum sképnum; troppur, hættir og verkanir Guds nálægdar mismuna einúngis eptir sképnanna meiri edur minni náttúrlegum edur sidferdis hæfilegleika.

---

Hvörsu djúpa lotníngu ætti það að uppvekja hjá oss, ef vér þenkjum til þess, að Gud er allstaðar nálægur, að hann uppfyllir jørdina, himininn og alla himnanna himna. Hvörsu smáir megum vér verda í vorum egin augum vid þessa hugleidíngu! hvörninn kunnum vér nógu djúpt að audmýkja oss fyrir þessari óendanlegu veru? hvörninn kunnum vér nógsamlega að vidurkénna það, að vér erum eckért, en Gud allt! hvað erum vér, þegar vér berum oss saman vid Gud?

Hvörsu kröptug uppörfan er það til að ydka sig í dygdum og gódum verkum, að þenkja til þess, að Gud er allstadar nálægur og umkríngir oss, hvar sem vér erum staddir! hvör er orsökin til þess, að menn láta eptir sér hvað eina, sem þeim kémur í hug, utan sú, að þeir ecki nógu opt, nógu alvarlega setja sér fyrir sjónir Guds allstadar nálægd. Hvörsu varkárir erum vér í voru lát-ædi, ordum og verkum í nálægd jardneskra Höfdíngja, og þeir eru þó ecki nema menn; mundum vér sídur vakta vor ord og athafnir, ef vér ydulega þenktum um þá óendanlegu veru, fyrir hvörrar augliti vér framgaungum; hvörninn mundi oss verda vid, ef að þessi óendanlega vera birtist oss í sýnilegri mind, ef að vér sæum hana, ef ver gjætum sjed hana í hennar óendanlegu hátign? en þó vér ecki gétum sjed Gud, þá vitum vér þó, að hann sjer oss. Ef vér þenktum eptir þessu, ef þessi þánki væri oss ætíd fyrir hugskots-sjónum, mundum vér þá ecki vaka yfir sérhvörju ordi, sérhvörri athöfn, sérhvörjum þánka, sérhvörri girnd í vorri sálu, svo að vér gjætum ordid þessari allstadar nálægu veru velþócknanlegir.

Þegar hugleiðíng Guðs allstaðar nálægðar hefir þannig uppørfað oss til dygðar og heilagleika, þá verður hún oss einninn til huggunar í øllum lífsins ógéðfeldu umbreytíngum. Þegar vor gleðihimin formyrkvast, þykk og svørt ský draga sig saman yfir voru høfði, en eitt djúpið opnar sig hér, og þar annað, allar Guðs bylgjur gánga yfir oss, engin høfn er fyrir hendi, og énginn, sem kann að bjarga voru litla skipi frá undirgángi, þá er það nóg fyrir þann sann-kristna til að viðrétta hans hughreysti, að þenkja til þess, að Guð er honum nálægur. Við þetta huggaði Davíð sig: þó eg ráfaði í myrkvum dal, þá hræðist eg þó enga ólucku, því að þú ert hjá mér; þinn vøndur og þinn stafur hugsvala mér, Ps. 23. Drottinn er með mér, þar fyrir hræðist eg ecki, hvað mega mér mennirnir gjøra? Drottinn er með mér, mér til hjálpar, og eg vil sjá mína lysting á mínum óvinum, Ps. 118.

En það er ei heldur fyrir aðra, sem þessi lærdómur er huggunarfullur, enn fyrir þá, hvørjum hann hefir verið uppørfan til dygðar og réttilegs athæfis. Sá sami lærdómur, sem veitir þeim heilaga svo mikla huggun og rósemi, hlýtur að vera skélfilegur fyrir þann vanheilaga. Hvað er samvitskunnar órósemi, þegar þessi vottur vorra athafna uppvaknar í hugskotinu, burtdrífur alla sanna farsæld, lætur oss væma við øllum vorum lystisemdum, fyllir hjartað með ótta, ángist og skélfíngu, já, gjørir jafnvel sjálfann dauðann sætann og elskuverðann? hvað er þessi sálarinnar órósemi annað, enn lifandi tilfinníng Guðs straffandi nálægðar?

Ómøgulega gétur Guds nálægd eptirlátid sómu verkanir í hjarta þess heilaga og vanheilaga. Þegar hinn fyrri af Guds nálægd finnur hjá sér huggun, djørfúng og rósemi, þá hlýtur þessi sídari ad finna hjá sér óánægju, ángist og skélfíngu. Þessi þánki: eg er saurugur, allar mínar girndir, óskir og hugar-hræríngar eru óreglulegar, offvæsnar og slá sér ofvídt út, og Gud er nálægur, sá Gud, sem sjálfur er heilagur, og elskar einúngis þad, sem er heilagt; sá Gud er nálægur, fyrir hvørs augliti ég hlýt ad vera vidurstygd; hann er nálægur, hann sem verda mun minn Dómari sídar meir; hann, sem sjer allar mínar yfirtrodslur, fordæmir og straffar þær; hann er nálægur; hann umkríngir mig med sinni óendanlegu hátign; forgéfins leitast eg vid ad flýja fyrir honum, sem uppfyllir bædi himin og jørd. Þessi þánki hlýtur ad vera ógnarlegur þegar hann uppvaknar fyrir alvøru. En oss stendur frítt fyrir ad sneyda hjá þessum deydandi þánka, ef vér látum umþenkíngu Guds allstadar nálægdar verda oss ad kroptugri uppørfun til ad hreinsa oss frá allri saurgun holdsins og andans, og til ad fullkomna vora helgun í Guds ótta.

## 8. Kapítuli.

### Um Guds Gædsku.

Guds gædsku nefnum vér þá óendanlegu framqvæmdar-sømu tilhnegíngu hjá Gudi, ad veita øllum sínum sképnum svo mikid gott og svo mikla farsæld, sem þær, hvør fyrir sig, eru hæfar til ad taka á móti. Eg hefi sagt hér ad framan, ad þar

géfist náttúrlegur og sidferdislegur hæfilegleiki til ad taka á móti Guds nálægd; sami mismunur er og á hæfilegleikanum til ad taka á móti Guds velgjørníngum. Eptir þeim meiri edur minni hæfilegleika, sem hvør ein sképna hefir til ad taka á móti Guds velgjørníngum, nýtur hún ogsvo þeirra sømu af Guds gædsku med meira edur minna móti. Engillinn, svo sem fullkomnari sképna heldur enn manneskjan, hefir stærri náttúrlegann hæfilegleika heldur enn manneskjan; manneskjan hefir stærri náttúrlegann hæfilegleika heldur enn dýrid, sem er ófullkomnara, og sá eini dýra-flockur hefir aptur stærri náttúrlegann hæfilegleika heldur enn annar. Hér af fylgir, ad engillinn hlýtur af þeirri sømu gædsku-hendi ad medtaka fleiri velgjørnínga heldur enn manneskjan, manneskjan fleiri heldur enn dýrid, og eitt dýrid fleiri heldur enn annad. Sérhvør sképna nýtur svo mikils góds af sínum Skapara, sem hún eptir ásigkomulagi sinnar náttúru gétur á móti tekid, sérhvør sképna er í sinni tegund svo farsæl, sem hún gétur ordid.

Þær skynsemdarfullu sképnur eru ad sønnu ecki allar svo farsælar, sem þær, eptir þeirra náttúrlega hæfilegleika gjætu ordid; en hjá þeim er og ad finna sidferdislegann hæfilegleika edur óhæfilegleika, er gjørir þær meir eda minna lagadar til ad medtaka velgjørnínga þeirrar ædstu veru. Sá dygdugi og sá ódygdugi, sá heilagi og sá órádvandi géta ómøgulega haft sama hæfilegleika til ad taka á móti Guds velgjørníngum. Hinn fyrri hlýtur því ad njóta af Guds hendi þeirra velgjørnínga, sem hinn sídari ecki gétur móti tekid, þar hinn hefir

stærri siðferðis hæfilegleika til að taka á móti þeim, heldur enn þessi. Að allar sképnur eru ecki eins farsælar, kémur þess vegna ecki af skorti Guðs gæðsku, sem er óendanleg, heldur af sképnanna náttúrlegu eður siðferðislegu ásigkomulagi. Þeim siðferðislega óhæfilegleika valda þær skynjandi sképnur sjálfar; þann náttúrlega óhæfilegleika þará mót hefir Skaparans margfaldi vísdómur tilsett. Guð er það óþrjótandi gæðskunnar haf, sem uppfyllir allar sínar sképnur með þeim ríkuglegustu straumum síns kjærleika; en, eins og eitt ílát gétur ecki orðið meir enn fullt eður tekið á móti meiru enn í því liggur, þannig gétur ei heldur nein sképna tekið móti fleirum velgjørníngum af þeirri æðstu gæðsku, heldur enn hún hefir náttúrlegann eður og siðferðis hæfilegleika til að þyggja, jafnvel þó Guðs gæðska sé óþrjótandi og óendanleg; og þegar hún er svo farsæl, sem hún eptir sínum náttúrlegum hæfilegleika orðið gétur, þá er hún nógu farsæl, þá finnur hún engann skort, jafnvel þó aðrar sképnur kunni að njóta hærri farsældar af þeirri sömu gæðskunnar hendi. Skélfiskurinn nýtur ecki svo margra velgjørnínga af Skaparanum, sem ormurinn, ormurinn ecki eins margra og flugan; en skélfiskurinn, ormurinn og flugan eru þó, hvørt í sinni tegund, fullkomlega luckuleg.

Þessari Guðs grunnlausu gæðsku hrósar Ritníngin allavega, og allavega þreifum vér á henni í náttúrunni, og hennar innréttíngu. Þín miskunsemi, segir Davíð, er svo víð, sem himininn er, og þinn sannleiki nær svo lángt, sem skýin gánga, Ps. 57. Hann hefir ei látið sjálfann sig án vitnisburðar,

segir Páll, þar hann veitir oss mikid gott, og gaf oss døgg af himni og frjóssama tíma, uppfyllandi vor hjørtu med fædslu og fagnadi, Post. g. b. 14. Jóhannes segir: ad Gud sé kjærleikurinn, 1 Jóh. 4. Hvørsu føgur og eptirtektaverd eru þessi ord! Gud er kjærleikurinn, hann er sjálfur kjærleikurinn, hann er eintómis kjærleikur vill Jóhannes segja, øll hans vera er kjærleiki til hans Skapara. Þad sýnist eins og Jóhannes, undir hugleidíngu Guds kjærleika hafi líka sem gleymt øllum ødrum Guds eginlegleikum, og ecki sjed annad enn kjærleikann.

Og hvad sjáum vér heldur annad enn kjærleika og gædsku, þegar vér med athugasømu auga virdum fyrir oss Guds verk? ef vér adgjætum náttúrunnar, ef vér adgjætum nádarinnar ríki, ef vér adgjætum þann sælufulla ódaudlegleika sem oss er fyrirbúinn, þá finnum vér allstadar gædskunnar afgrunn, hvadan þessi raust heyrist: Gud er kjærleikurinn. En þad er enn þá offnemmt ad tala um tvennt þad sídara, eg vil einúngis festa þánkana vid þad fyrsta. Vér skulum einúngis renna augum vorum snøggsinnis til náttúrunnar, og skoda hvørsu ljóslega hún talar um Skaparans óendanlegu gædsku. Vér verdum hér varir vid hina sømu gædsku til þeirra skynlausu, sem til þeirra skynsemdarfullu sképna. Sérhvørt dýr, sérhvørt skridqvikindi nýtur sér mikillar gledi, og svo mikils góds, sem þad, eptir sinni náttúru er hæft til ad móttaka. Hvørsu ríkuglega hefir Skaparinn úthlutad sérhvørri sképnu, ecki einúngis þad, sem hún eptir sinu edli naudsynlega medþarf, heldur og svo allar

tegundir af lystisemdum, sem hún eptir sínum náttúrlega hæfilegleika gétur njótandi ordid.

En þar manneskjan, svosem lángtum fullkomnari sképna, hefir lángtum stærri hæfilegleika til ad taka á móti Skaparans gædsku, þá hefir hans gædska ogsvo enn þá yfirgnæfanlegar auglýst sig á manneskjunni. Allt hvad í náttúrunni er fagurt, lystilegt, nytsamlegt og fullkomid, hnígur ad manneskjunni svosem midpúnkti. Øll náttúran sýnist ad vera sköpud einúngis vor vegna. Þess vegna gaf Skaparinn vorum fyrstu foreldrum, og undireins øllum þeirra nidjum þennann stóra rétt, sem vitnar um þeirra tign og verdugleika: ávaxtist og margfaldist, og uppfyllid jørdina, og gjørid ydur hana undirgéfna; og drottnid yfir fiskum sjáfarins, og yfir fuglum loptsins, og øllum dýrum, sem hræra sig á jørdunni, Allshättadar jurtir, sem géfa sædi af sér á allri jørdunni, og allrahanda ávaxtarsemi tré, sem géfa sædi af sér, géf eg ydur til fædslu, 1 Mós. b. 1.

Allt þad, sem er í náttúrunni þénar manneskjunni til nota, annadhvørt medalslaust edur fyrir medal. Margir hlutir eru ad sønnu í náttúrunni, hvørra nytsemi vér ecki gløggt þeckjum; en mun Skaparinn þá ecki, þegar hann tilbjó þá, hafa haft tillit til vorrar nytsemdar, vorra hæginda edur lystisemda? menn spyrja: hvartil þéna þau óteljandi skridqvikindi, sem øll náttúran er full af? hvada gagn er ad þeim óteljandi grasa-tegundum, sem vér ecki gétum brúkad? eg svara: ad þetta þénar til uppheldis þeim sképnum, sem fæda oss og klæda. Og géfast ecki þúsund hlutir í náttúrunni, sem vér

álítum gagnslausa, af því vér ecki géfum oss tíma til ad grenslast eptir þeirra nytsemi, er raunar mundu þéna oss til fædis edur heilsubótar, ef vér þecktum þá? Par Gud hefir géfid oss til brúkunar alla fiskana í sjónum, alla fuglana undir himninum, øll dýr á jördunni, øll tré og allar jurtir á mørkinni, svo hlýtur allt þetta ad þéna manninum til nota, ef vér einúngis hefdum vit á ad brúka það oss til gagns. Handa oss bera trén þeirra velsmackandi ávexti; handa oss uppala dýrin þeirra afqvæmi med svo mikilli umhyggju; handa oss þroskast vínvidarklasarnir; handa oss spinnur ormurinn silkid; handa oss ber saudfénadurinn ullina. Stutt ad segja: øll náttúran þjónar manninum, eins og madurinn þjónar Gudi.

Skyldum vér ecki þeckja þaraf, ad Gud er gódur og gædskuríkur. Hvad vantar oss í náttúrunni til vorrar tímanlegrar farsældar? vér høfum ecki einúngis þad naudsynlega, og, því meira kunnum vér ecki ad heimta, þegar vér høfum fædi og klædi, þá látum oss nægja; vort daglegt braud er vor erfdislaun, meiru hefir Gud ecki lofad oss, meira kunnum vér ecki ad heimta. En, hvørsu gódur er vor Gud! hvørsu örlátur! hann hefir ecki einúngis útbúid vorn nærverandi samastad med því naudsynlega, heldur ogsvo med því yfirfljótanlega, því fallega, því yndislega til ad uppvekja í vorum hjørtum lifandi tilfinníngu hans kjærleika. Látum oss líta í kríngum oss, látum oss einúngis sjá, heyra, smacka, lykta og þreifa á, og sérhvørt skilníngarvit mun kunngjøra oss: ad Gud er gódur og gædskuríkur vid sínar sképnur.

Hvørsu føgur er øll náttúran, hvørsu rík af umbreytíngum, svo ad vor skilníngarvit ecki skuli þreytast edur fá leida af því ad njóta ætíd hins sama. Ad vísu er sá hardi vetur ecki skémtilegur í sjálfum sér, jafnvel þó hann ogsvo hafi sínar lystisemdir; en samt er hann þó røksemd uppá Guds gædsku. Æfvarandi vor edur sífeldt sumar mundi oss ei þykja nærri eins skémtilegt, ef sá kaldi vetur gengi ecki á undan. Rétt þessar sømu umbreytíngar á ársins tímum, gjøra oss sérhvørn ársins tíma þess yndælli. Og, þegar fer ad vora, þegar øll náttúran líka sem rís upp af grøf sinni, hvørsu óteljandi fjølda marghàttadra lystisemda hefir Skaparans ørláta hønd útbreidt yfir hana allstadar? skógar, merkur, tún, engjar, fjøll og dalir taka uppá sig grænann búníng, sem fyrir oss er hinn fegursti og fullkomnasti litur, og fremur ødrum styrkir sjónina og skémtir henni. Og svo ad oss skuli ecki um síðir leidast þessi sami litur, hvørsu yfirfljótanlega hefir Skaparinn útbreidt yfir þessa grænku svo margvíslegt, ad lit, stærd og skapnadi sín á milli ólík blómstur, er undir eins skémta sjóninni og veita yndæli nøsunum med luktaninni. Vér þurfum ecki ad vera djúpvitrir Náttúru-spekíngar til ad sannfærast um Guds gædsku í náttúrunni, því hún þreyngir sér sjálfkrafa inn í hvørt skilníngarvit; vér þurfum einúngis, eins og Davíd segir: ad smacka og sjá, til ad þacka þad, ad Gud er gódur, Ps. 34.

---

Hvad erum vér, ad Gud skyldi audsýna oss svo mikla gædsku! høfum vér verdskuldad þennann

kjærleika, áður enn vér urðum til? eður höfum vér gjört oss verðuga fyrir hann eptir að vér urðum til? hvörsu auðmýkjandi er þessi þánki fyrir oss, að vér, mitt á meðal svo stórra dásemdar-verka Guðs kjærleika, hvöreð líka svo sem með makt ætti að hvetja oss til þeirrar innilegustu og alvarlegustu elsku aptur á móti, erum þó svo kaldir og tilfinníngarlausir, og með voru tilfinníngarleysi gjörum oss á hvörjum degi óverðuga Guðs gæðsku. Hvörn ættum vér að elska, ef vér ekki elskum Guð? og vér gétum elskað allt annað enn Guð. Vér gétum elskað skèpnuna, en ekki Skaparann. Vér gétum elskað hverful og óstöðug gæði; en það eilífa og stöðuga góða, elskum vér ekki. Ættum vér ekki að elska hann, uppsprettu brunn alls góðs, af öllu hjarta, af allri sálu, af öllu hugskoti og af öllum kröptum, þar hann uppfyllir vort hjarta, sál og sinni með sínum kjærleika? allt hvað er í Guði, er kjærleiki til vor, og allt hvað er í oss, skyldi vera dofinleiki við Guð; hvílíkt ópaklæti!

Af kjærleika hefir Guð skapað það heila heimsins forvirki og sett oss inn í veröldina. Af kjærleika hefir hann þrykt á hvörja skèpnu auðþecktum stimpli sinnar hátignar, til að fylla vor hjörtu með heilagri undrun, yfir hans óendanlegleika, með þessari undrun að glæða vorn kjærleika til hans, og með þessum kjærleika að gjöra vor hjörtu farsæl og lukkuleg. Og vér leggjum svo litla ástundun á að athuga þessi Guðs dásemdar-verk, oss finnst svo litið um þau, að vér af gnægtum Guðs gæðsku verðum einúngis því athuga-minni, því tilfinníngarlausari. Vér venjumst því smámsaman, og þess

vegna finnst oss eckért til þess, og þannig gjörum vér ad engu med vorum dofinleika og rænulevsi Guds tilgáng med öll sín handaverk. Hvílíkt óþacklæti er þetta!

Ef vér ecki viljum vera hinar óþacklátustu af öllum Guds sképnum, og, sem þvílíkir, ecki baka sjálfum oss sídar meir þá reidi, sem er eins stór og óendanleg, sem sú gædska, er hann nú audsýnir oss, þá hljótum vér ad elska hann, hvörs heila vera er einsamall kjærleiki til vor. Öll náttúran er ótæmanlegur gledi og lystisemda fjársjódur, af hvörjum ell vor skilníngarvit géta sadst og mettast. Hvört, sem vér snúum oss, sjáum vér elskuríkann Gud; og vér elskum hann þó svo lítid, ad vér miklu framar elskum þá. sem eru hans óvinir. Og, af því ad allar vorar óstødugu óskir, allar vorar ósedjanlegu og sjálfum oss skadlegu girndir ecki uppfyllast, þá efumst vér annadhvort um Guds kjærleika, ellegar vér gleymum og virdum einkis alla hina adra stóru velgjörnínga, sem Gud svo ríkuglega hefir géfid oss í náttúrunni, og hugsum, ad vér séum honum um engann kjærleika skyldugir. Hvörsu óþacklátar sképnur eru þetta vid svo gódgjarnann Skapara! sá eini morguninn kunngjörir þad ødrum, og hvörr dagurinn ødrum, ad Gud er kjærleikurinn; allt hvad til er, hrópar til vor: skodadu á mér þá óþrjótandi gædsku míns Skapara! og vér apturlykjum vor eyru fyrir þessari hátt hljómandi raustu. Sérhvør fæda, sem mettar oss, sérhvørr dryckur, sem svalar oss, sérhvørt velsmackandi aldini, sérhvør lyktgód jurt ætti ad uppvekja þann þánka hjá oss: hvørsu elskuríkur má sá vera, sem hefir tilbúid

allt þetta mér til naudþurftar og yndælis! og þessi þánki ætti ad leida oss lengra áfram til uppsprettu allra þessara gáfna. Uppliífgadir af vörmum kjærleikans hugar-hræríngum, ættum vér ad upphefja oss til ljósanna Födurs, frá hvörjum allar gódar og fullkomnar gjafir nidurstíga. Upptendradir af hans kjærleika ættum vér med hinni innilegustu elsku aptur á móti ad keppast eptir sameiníngunni vid hann, og í sameiníngunni vid hann leita þeirrar farsældar, sem gjörvallur heimurinn ecki gétur veitt oss.

En, hvörninn gétum vér leidt oss í hug, ad vér elskum Gud, þegar vér ecki vöknum fyrir oss ad setja til sídu vorar skyldur, og svífumst ei ad fóttroda hinar heilögustu skípanir. Þar af þeckjum vér, ad vér elskum hann, ef vér höldum hans bodord, segir Postulinn. Ad halda Guds bodord, ætti ad vera ávöxturinn af vorum kjærleika til hans, þetta er og þad vissasta kénnimerki vors kjærleika, og án þessa kénnimerkis hrósum vér oss forgéfins af vorum kjærleika. Þegar vér elskum vin vorn edur velgjörda-mann, þá kostum vér kapps um, ad haga vorum athöfnum eptir hans vilja, þá leitumst vér vid ad þóknast honum, þá óskum vér ad líkjast honum, þá lángar oss eptir ad sameinast honum; þetta er kjærleikans náttúra. Þegar vér elskum Gud, þá gétur vorum kjærleika til hans ecki verid ödruvísi háttad; og þar vér ecki gétum þóknast honum, ecki líkst honum, ecki sameinast honum, svo lengi vér ecki hlýdum honum, þá er undirkastan vors vilja undir hans vilja þad þægilegasta offur, er vér kunnum ad frambera fyrir hann, og þá tilheyrir oss Jesú fyrirheit: hvörr mig elskar sá

heldur mín ord, og Fadir minn mun elska hann, og til hans munum vid koma og vistar-veru hjá honum gjøra, Jóh. 14.

## 9. Kapítuli.

### Um Guds Heilagleika.

Heilagleikinn er einn af þeim Guds óendanlegu eginlegleikum, sem Ritníngin allstadar hrósar. Hann er lofsaungs efni hinna sælu anda: heilagur, heilagur, heilagur er Drottinn Zebaoth, øll jørdin er full af hans dýrd, Es. 6. Hann er lofsaungs efni þeirra trúudu: Drottinn! hvørr er þinn líki á medal Gudanna? segir Móses í sínum lofsaung, hvørr er þinn líki, sem er svo máttugur, heilagur, hrædilegur, loflegur og svo dásamlegur í sínum verkum, sem þú? 2 Mós. b. 15. En þetta ord heilagur, hefir meir enn eina merkíngu, þegar þad brúkast um Gud. Stundum merkir þad Guds háleitu náttúru, eptir hvørri hann er óendanlega hátt upphafinn yfir allar skapadar sképnur og er hin fullkomnasta vera, frí fyrir øllu því, sem er ófullkomid, og er þess vegna ogsvo einúngis tilbeidslu verdugur. Þar er enginn svo heilagur sem Drottinn, sýngur Anna módir Samúels, og fyrir utan þig er enginn, og þar er enginn þvílíkur Frelsari, sem vor Gud er; 1 Sam 2. Stundum merkir þad þá fullkomnustu samlíkíngu, sem er hjá Gudi milli hans skilníngs og hans vilja, eptir hvørri hann ecki getur viljad annad, enn þad, sem skilníngurinn setur sér fyrir sjónir í því guddómlega alvitsku ljósi, sem sannarlegt, gott, fullkomid og samqvæmt øllum sínum

ødrum óendanlegu fullkomlegleikum. Í þessu tilliti segir Pétur: líka sem hann er heilagur, sem ydur hefir kallad, svo skulud þér og vera heilagir í allri ydar hegdun; því skrifad er: vera skulud þér heilagir, því eg er heilagur, 1 Pét. 1.

Guds heilagleiki merkir þess vegna hreinleika, ecki einúngis frá øllum náttúrlegum, heldur ogsvo frá øllum sidferdislegum ófullkomleglcika; ad hann ecki hefir þócknun utan á því, sem er sannarlegt gott og fullkomid; hefir ecki misþócknun utan á því, sem er rángt, íllt og ófullkomid; elskar med óendanlegum kjærleika þad sidferdislega góda, og hatar med allt eins óendanlegu hatri þad sidferdislega vonda hjá sínum sképnum; því allt hvad í Gudi er, er óendanlegt. Hans hatur edur misþóknan á því vonda, hlýtur ad vera allt eins óendanleg, sem hans kjærleiki til þess góda. Og þessi Guds óendanlegi heilagleiki hlýtur ad auglýsa sig bædi í hans ordum og í hans verkum. Í sínum ordum er hann heilagur; þau hljóta ad koma saman vid hans vísdóm, hans makt, hans gædsku, sannsøgli, réttlæti, og alla adra hans fullkomleglcika; í sínum verkum er hann heilagur; hann kann eckért ad gjøra, sem strídir á móti hans nattúru, edur á móti ødrum hans óendanlegu fullkomlegleikum.

Um þennann Guds óendanlegleika hefi eg ecki margt ad tala. Ritníngin vitnar um hann, og skynsemin vidurkénnir hann. Ad íminda sér þann Gud, sem elskadi þad vonda og hatadi þad góda, edur sem legdi þad hvørttveggja ad jøfnu, væri fásínna; ad Heidíngjarnir, sem þó høfdu náttúrunnar ljós, gátu ímindad sér þvílíkann guddóm, er einúngis røk-

semd uppá, hvørsu djúpt skynsemin, sjálfri sér yfirlátin, gétur nidursockid í villu- og vanþeckingarmyrkur, og hvørsu stóra þørf hún hefir á ædra ljósi til ad þeckja sannleikann.

Eitt er þad, sem hér mætti máské á móti setja, og sem raunar hefir verid sett á móti lærdóminum um Guds óendanlega heilagleika, og þad er ecki úr vegi, ad vikja hér stuttlega á þad. Þar Gud er sú heilagasta vera, segja menn, þar hann hefir óendanlegann kjærleika til þess góda, og óendanlegt hatur til þess vonda, hvad kémur þá til, ad hann skapadi heiminn þannig, ad hann gat fallid og ordid vanheilagur, edur hvar fyrir hindradi hann ecki, ad hann félli? heimsins bygging, sem bevísar Guds almætti, speki og gædsku, verdur þá ecki roksemd uppá Guds heilagleika.

Mørgu mætti hér til svara, og mørgu hafa adrir svarad; eg vil einúngis framsetja inntakid af því. Menn hugsa: ad Gud hefdi vel gétad skapad manneskjuna þannig, ad hún hefdi ecki fallid, og géta ei komid því saman vid þánkann um Skaparans óendanlega heilagleika, ad hann ecki skapadi hana svo. Til ad svara uppá þetta, hlýt eg ad leggja fyrir grundvøll þennann lærdóm, sem Ritníngin kénnir, og skynsemin hlýtur ad samsinna: ad mannkynsins ættar-stofnar hafi ecki einúngis komid aldeilis hreinir, heilagir og saklausir frá Skaparans høndum, heldur ogsvo ad þeir hafi verid þannig skapadir, ad, ef þeir hefdu stadid stødugir í þeirra medskapada sakleysi, þá hefdu þeir útdreift sínu hreina og heilaga hugarfari til sinna

nidja, eins og þeir nú útdreifa til þeirra sínum vondu tilhneigíngum.

Að vorir fyrstu foreldrar vóru skapaðir hreinir og heilagir, er røksemd uppá Guðs heilagleika; en þó að þeir síðan félli, og yrðu vanheilagir, það er ecki røksemd á móti Guðs heilagleika. Ef að heimsins augna-mið, sem er víðfrægíng Guðs dýrðar, ætti að náſt, þá hlaut heimurinn að vera bygðður af ſkynjandi ſképnum, og þeſsar ſképnur hlutu að hafa til að bera frjálsræðis vilja, svo að þær eptir ſkilníngſins dómi og áviſun gjætu sjálfar valið, og ráðið sínum athøfnum. Ef vér ecki hefðum þetta til að bera, þá værum vér ecki manneſkjur, eckí ſkynſemdarfullar ſképnur, vér værum þá eckért annað enn fallegar maſkínur; það góða, sem vér þá gjørðum, kynni ecki að kallaſt dygð; það flyti einúngis af innréttíngu vorrar náttúru; vér gjætum ecki breytt øðruvíſi. Vér kynnum að ſönnu, og hlytum endilega að framqvæma nockuð af þeim tilgángi, sem Skaparinn hefði tilætlað; en einúngis af því, að vér værum ſettir svo í lag, að vér yrðum nauðsynlega að framqvæma hann, vidlíka og eitt tréð ber fíkjur, en annað vínberja-klaſa. En fyrir þvílík verk kynnu engin laun að væntaſt, þvílíkar ſképnur kynnu ecki að krýnaſt með neinni farſæld, framar enn dýrin. Manneſkjan væri þá ecki annað enn dýr eður maſkína, og ſkøpunar-verkið væri þá lángtum ófullkomnara, heldur enn það nú er, með øllum þeim síðferðislega ófullkomlegleika, sem ſaurgar það.

Ef að manneſkjan þeſs vegna átti að vera manneſkja, ef hún átti að vera æðri tegundar heldur enn dýrin, hvørra Herra hún er, þá hlaut hún að

vera gjœdd med þeim hœfilegleika, ad géta sjálf, eptir skilníngsins ávísun valid um sannleika og lýgi, um dygd og lesti, um rétt og rángt; og þad er komid undir þeim þankum, sem menn gjöra sér um hvört fyrir sig, hvört madur útvelur þetta edur hitt. En manneskjunnar skilníngur er takmarkadur, og hlýtur naudsynlega ad vera þad. Engin sköpud skèpna gétur haft óendanlegann skilníng. Þad er þess vegna mögulegt ad henni sjáist yfir, þegar hún er ad dœma um hlutanna verd og náttúru; hún kann ad álíta þad góda' vondt, og þad vonda gott, og eptir þeim dómi, sem skilníngurinn leggur á, velur viljinn. Þad er þess vegna mögulegt, ad sérhvör endanleg vera, sem gjœdd er med frjálsrœdi, kunni ad útvelja þad vonda, hafna því góda og þess vegna verda syndug og vanheilög.

Gud er þess vegna ecki orsök í manneskjunnar saurugleika. Vor saurgan er ecki röksemd á móti Skaparans heilagleika. Gud skapadi manneskjuna heilaga, en hann skapadi hana líka frjálsa, því hans vísdómur útheimti þad; annars hefdi hann skapad dýr eda maskínu, en ecki manneskju, ecki skynjandi veru; og ad skapa manneskjuna med frjálsum vilja, og sídan med ómótstœdilegri makt ad hindra hana frá ad misbrúka hennar frívilja, þad vœri ad bera mannsins náttúru ofurlida, þad vœri ad svipta hann þeim hœfilegleika, sem Gud sjálfur hafdi prýdt hann med, þad vœri ad gjöra ad engu þann tilgáng, hvar fyrir hann hafdi honum géfinn verid.

Saurugleiki þeirra skynsemdarfullu skèpna gétur þess vegna vel stadist med Skaparans heilagleika, þar þeirra saurugleiki ecki er Skaparans verk,

heldur þeirra egið. Hann skapaði þær ecki með þeirri spillíngu, sem við þær loðir; með misbrúkun þeirra sjálfræðis ollu þær sjálfar þessari saurgun, og þær kunnu ecki að hindrast frá því, að falla í hana, utan þær annaðhvørt hefðu verið gjørðar lángtum óæðri tegundar enn þær eru, eður að þær, eptir að búið var að setja þær á æðri troppu, hefðu aptur verið settar á aðra lægri. Hvørugt gétur staðist með vísdómi þeirrar óendanlegu veru.

---

Þar Guð er heilagur, þar hann er sú allraheilagasta vera, þar hann hefir óendanlega þócknun á því góða, og allt eins óendanlega misþócknun á því vonda, hvørsu svívirðileg má sú manneskja þá vera af náttúrunni í augliti þeirrar allraheiløgustu veru, sem saurguð er af syndinni, og sá, sem elskar synda saurgun, hvørsu andstyggilegur má hann vera! sú afsökun hefir lítið að segja, að sú spillíng, sem vér erum kámaðir af, er oss meðfædd; oss lítst ei betur á vanskapað andlit fyrir það, þó það sé fædt með lýtunum; og þó værum vér luckulegir, ef vér ecki hefðum meiri spillíngu meðferðis, heldur enn þá, sem vér høfum fært með oss inn í heiminn. En hvørsu mikið hefir bætst á þennann meðfædda saurugleika, eptir því, sem árin fjølguðu, af forsómuðu uppeldi, af eptirdæmum, af umgengni með ødrum manneskjum og vondum vana, sem vér sjálfir høfum verið orsøk í? strax í fædíngunni hljótum vér að vera nærsta ófríðir í augum þeirrar heiløgustu veru, og með aldrinum verðum vér enn nú ófríðari. Er það møgulegt, að sú allraheilagasta vera, er ó-

møgulega gétur elskad annad enn þad, sem er sann-arlegt, gott og fullkomid, skyldi géta elskad þær sképnur, sem eru vondar og ófullkomnar. Sú allra lítilmótlegasta sképna er svo góð og fullkomin, sem hún eptir sinni náttúru gétur verid; sú allra lítilmótlegasta sképna er þad, sem hún eptir Skap-arans tilgángi á ad vera; sú allra lítilmótlegasta sképna uppfyllir sitt kall og sína áqvørdun. Vér þarámóti erum djúpt nidurhrapadir af þeirri fullkom-legleikans hæd, á hvørja Skaparinn setti þann fyrsta mann, og á hvørri allir hans eptirkomendur, eptir Skaparans tilgángi, áttu ad standa. Manneskjan einsømul er ecki þad, sem hún eptir Skaparans til-gángi átti ad vera; manneskjan einsømul uppfyllir ecki sitt kall og áqvørdun. Manneskjan átti ad veg-sama sinn Skapara med fúsri og fríviljugri hlýdni, og hún vanvirdir hann med sinni óhlýdni. Hvørsu hrædilegt er ad þenkja til þess, ad vér skulum vera vidurstygd í augliti þeirrar heiløgustu veru, sem sjer allar vorar hugrenníngar, ord og gjørdir, hvørrar almætti vér hvørki kunnum ad umflýja né móti standa! ætti ecki þessi umhyggjan krøptuglega upp-ørfa oss til ad betra vorn lifnad, til ad afklædast þeim gamla, en íklædast þeim nýa manni, sem ept-ir Gudi er skapadur í sannarlegu réttlæti og hei-lagleika.

En þad er ecki þar med búid, ad vér med vorri saurgun ávinnum oss misþóknun þeirrar ædstu veru, heldur gjørum vér oss einnin þar med ó-hæfilega til ad njóta þeirrar ædstu farsældar. Hvarí er sú ædsta farsæld innifalin? vér munum allir svara: ad hún sé innifalin í því ad njóta þess

ædsta góda; en hvarí er aptur þad ædsta góda inni=falid? heidnir og kristnir vita, ad Gud einn er þad ædsta góda, og ad sameiníngin vid hann kann einúngis ad veita oss sanna og varanlega farsæld. Sú huggun, sú rósemi, sú djørfúng og sá samvitsk=unnar fridur, sem sá sannkristni finnur í sinni sálu midt í lífsins margvíslegu umbreytíngum, og þeg=ar daudinn og eilífdin taka ad nálgast, þad er á=vøxtur sameiníngarinnar vid Gud; en hvorninn gét=ur vanheiløg sképna komist til þessarar sameiníng=ar? er þad møgulegt ad sú heilagasta vera og van=heilagar sképnur, ad ljósid og myrkrid sameinist sín á millum? ópartisk skynsemi setur sig jafnvel á móti þessum þánka. Þad er þess vegna sakir vorr=ar egin farsældar, ad Gud hefir géfid oss þetta bod=ord: vera skulud þér heilagir, því eg em heilag=ur, 1 Pét. 1. Hann vill sameinast vorum hjört=um, hann vill med þessari sameiníngu gjøra oss hluttakandi í þeirri ædstu farsæld; en hann er hei=lagur; vid vanheilagar sképnur gétur hann ecki sam=einast; þar fyrir segir hann: vera skulud þér hei=lagir, því eg em heilagur. Ef vér annars elsk=um sjálfa oss, ef vér æskjum oss þeirrar farsæld=ar, sem allur heimurinn med øllum hans hverf=ulu og óstødugu gjædum ecki kann ad veita oss, ættum vér þá ecki med gledi leitast vid ad uppfylla þessa heiløgu skipun? ættum vér ecki ad kappkosta ad hreinsa oss af allri saurgun holdsins og and=ans, og fullkomna vora helgun í Guds ótta?

10. Kap.

# 10. Kapítuli.

## Um Guds Réttlæti.

Af Guds heilagleika flýtur náttúrlega lærdómurinn um hans réttlæti. Þar sú ædsta vera hefir óendanlega velþóknun á því góda, og allt eins óendanlega misþóknun á því vonda, þá hlýtur hún naudsynlega ad auglýsa hvørttveggja í verkunum, sem skédur med því ad launa þad góda og straffa þad vonda, og þennann Guds eginlegleika köllum vér hans réttlæti.

Þessi sannleiki er svo ánægjanlega grundvalladur á þeirri ímindun, sem menn naudsynlega hljóta ad gjøra sér um guddóminn, ad jafnvel Heidíngjarnir, sem ecki høfdu Guds opinberada ord, hafa kannast vid hann. Þegar Postulinn Páll kom til Malta, og fólkid sá, ad Nadra skreid úr hrísinu, sem hann bar á eldinn, og hékk vid høndina á honum, hugsadi þad strax, ad hann væri íllrædis-madur, hvørjum hefndin lofadi ecki ad lifa, Post. g. b. 28. Þegar stormur kom uppá, og skipinu lá vid ad farast, sem Jónas var á, hugsudu skipverjarnir, ad einhvørr óbóta-madur mundi vera innann skipsborda; sídan var varpad hlutkéstum til ad finna hann, hlutkéstid hittir uppá Jónas, og strax er honum kastad í sjóinn til ad fridstilla guddómsins reidi, Jón. 1. Og hvad vóru Heidíngjanna blódugu offur, annad enn medøl, sem þeir sjálfir hofdu útvalid, sumpart til ad útvega sér Godanna hylli, sumpart til ad afvenda þeirra reidi. Vér sjáum hér af, ad Heidíngjarnir, jafnvel þó þeir hefdu einúngis náttúrunnar ljós, gátu þó ei ímindad sér

Gud ân réttlætis; og að þeir hafi þeinkt rétt, vitnar Ritníngin. Sjálfir hinir heilögu englar á himnum prísa þennann Guðs eginlegleika: Þú Drottinn, sá sem ert og sá sem varst, þú ert réttlátur og heilagur að þú dæmir þetta, Opinb. b. 16. Þetta kénnir Davíð: Guð er réttvís dómari, og sá Guð, hvörr eð daglega reiðist, Ps. 7. Þetta kénnir Postulinn Páll: hann mun gjalda sérhvörjum eptir hans verkum; þeim nefnilega eilíft líf, sem með stöðugleika í góðum verkum, stunda eptir vegsemd og heiðri og óforgengilegum gæðum, en yfir þeim, sem þrætugjarnir eru, og þeim, sem ecki hlýða sannleikanum, en hlýða heldur ránglætinu, skal vera bræði og reiði, Róm. 2. Þetta sama kénnir og Jesús Kristur: sá tími kémur, þá allir þeir, sem í gröfunum eru, munu heyra hans raust, og þeir munu þá framgánga, sem gott gjörðu, til lífsins upprisu, en hinir, sem illa gjörðu, til dómsins upprisu, Jóh. 5. Þessar, og allmargar aðrar greinir, sem hér mætti viðbæta, eru fullnóg röksemd, að Guð er réttlátur, og að hann eptir sínu réttlæti hlýtur að launa það góða, og straffa það vonda.

Um það fyrra efast varla nockurr; það sem menn óska, því trúa menn auðveldlega, og þar allir óska sér launa fyrir það, sem þeir hafa gott gjört, þá eru allir fúsir til að trúa Guðs umbunar-réttlæti. Með hans straffunar-réttlæti er því þarámóti öðruvísi varið; menn eru hræddir við það, og þess vegna leitast menn við að uppþenkja einhvörjar átyllur til að neita því; og hvörsu veikar, sem þessar átyllur eru, þá verða menn þeim þó fegnir, til að friðkaupa sig, á móti brýxl-yrðum samvitskunnar,

og til ad láta þess meir eptir sínum girndum og tilhnegíngum.

En ad sú allrahærsta vera eptir sínu réttlæti, hljóti allt eins vel ad straffa það vonda, sem launa það góda, það kénnir ecki einúngis reynslan oss, heldur flýtur það einninn af þeim þaunkum, sem vér hljótum ad gjera oss um Gud, sem heimsins ædsta Yfir-herra. Reynslan kénnir oss, ad náttúran er útbúin med óteljandi straffunar-medölum til ad hirta med þverskallada yfirtrodslu-menn; og vér hljótum annadhvert ad segja: ad engin stjórnan sé í heiminum, og allt hvad skédur verdi af hendíngu, ellegar vér hljótum ad játa, ad Gud allt eins vel straffi það vonda, sem launi það góda, ad stríd, drepsótt, húngur, jardskjálftar, vatnsflód og adrar eydileggíngar séu réttlætisins verkfæri. Reynslan kénnir ogsvo, ad þar er óadskiljanlegt samband á milli lastanna og þeirrar ólucku, sem þær eptir sig leida. Sjáum vér ecki daglega, ad hvörr einn löstur straffar þann, sem hann adhefst, annadhvort á gótsi og gódu mannordi, ellegar því, sem er meira enn góts og gott mannord, á heilsu, á líkamans og sálarinnar kröptum, ellegar á því, sem er enn þá meira enn allt þetta, meira enn öll jardnesk gædi, á fridi samvitskunnar og hugarins rósemi. Hvörr hefir hagad þessu svo ad löstunum eptirfylgir straff, órósemi og íll samvitska, en dygdunum fridur samvitskunnar, rósemi sálarinnar, ánægja med sjálfann sig og gladværdarfull medvitund um sínar egin gódu athafnir? hvörr hefir lagad vora náttúru þannig, ad oss er ómögulegt ad finna neina sanna farsæld á lastanna vegi? er það ei Skaparinn, sem hefir

gjørt þessa innréttíngu? og er þá ecki þessi innrétt-íng roksemd uppá Skaparans réttlæti?

Í sérhverju ríki hlýtur að vera orda, allir undirsátarnir hljóta að sameina þeirra krapta, og hafa sama takmark fyrir augum, sem er alls ríkisins, og sérhvørs undirsáta þar af fljótandi farsæld. Enginn má aðhafast það, sem strídir á móti þessu augna-midi. Í sérhvørju ríki hljóta þess vegna að vera løg, til að ávarda undirsátanna athafnir og stjórna þeim til ríkisins einka augna-midi. Þessi løg hljóta að hafa myndugleika, og til þess að þau hafi hann, verdur að gánga fast eptir því, að eptir þeim sé lifad, og þeir straffadir, sem þau yfirtroda. Sá Kóngur væri fávís, er gæfi út løg, og skipti sér sídan eckért af, hvørt eptir þeim væri lifad edur ecki. Og hvað mundum vér þá dæma um heimsins ædsta stjórnara, ef hann ecki breytti viturlegar? í Guds ríki hlýtur að vera regla og samlíking, í hans ríki hljóta þess vegna ogsvo að vera løg, handa hans skynsemdarfullu þegnum til að laga eptir sínar athafnir: því þær skynlausu sképnur framkvæmast af ómótstædilegri náttúru drift til þess, sem þær eru tilætladar. Hvað mundum vér dæma um heimsins ædsta stjórnara, ef hann ecki gengi eptir því, að breytt sé eptir þessum løgum? og hvørninn verdur gengid eptir því, nema með launum og straffi? hvað mundum vér dæma um Guds vísdóm, ef vér mættum yfirtroda þau að ósekju? betra væri að setja engin løg, heldur enn að gánga ecki eptir þeirra hlýdni, þegar búið er að setja þau; og að gánga eptir að þeim sé hlýdt, þar við halda með reglu og gódu skicki, og efla almennings og sér-

hvørs undirsáta velgengni, það er ecki óréttvísi, heldur gæðska.

Eg segi, að sjálft Guðs strøffunar réttlæti sé gæðska; þetta leiðir mig til hins annars, er menn hafa á móti þessum lærdómi. Menn þykjast, nefnilega, finna stríð á milli Guðs gæðsku og hans réttlætis; því þar Guð ecki gétur verið réttlátur, segja menn, nema hann straffi yfirtroðslumenn sinna laga, hvørninn gétur hann þá verið góður og miskunsamur, þegar hann straffar þá? það sýnist, sem sá eini Guðs fullkomlegleiki hljóti opt að sigrast af hinum øðrum — En þessi efasemd kémur einúngis af raungum þaunkum, sem vér gjørum oss um Guð og hans óendanlegu fullkomlegleika. Guð er einføld, óskiptanleg og óumbreytanleg vera, sem hvørki er samsett af líkamans pørtum, né andans eginlegleikum. Í Guði er einúngis heilagur vilji, og óendanlegur kraptur. Sú aðgreiníng, sem vér gjørum á milli Guðs kjærleika og hans reiði, á milli hans miskunar og hans réttlætis, er ecki í Guði sjálfum, heldur gjørum vér oss hana einúngis í vorum þaunkum, eptir því, sem vér sjáum að hans óendanlegi fullkomlegleiki lætur sig í ljósi á sképnunum, sem annaðhvørt verða fyrir hans kjærleika eður hans reiði. Guðs kjærleiki er hans allrahærsta velþóknan á hans egin og allra hans sképna fullkomlegleikum, hvílík velþóknan, eptir hvørri hann leitast ætíð við að gjøra sínar sképnur fullkomnari. En þessi Guðs eginlegleiki hefir ýmisleg nøfn, eptir því, sem sképnurnar eru ýmislegar, á hvørjum hann lætur sig í ljósi; ef vér hugleiðum manneskjurnar, svo sem þær sképnur, er øldúngis eru óverðugar Guðs kjærleika, þá kallast

hann náð; ef vér hugleiðum þær, svo sem þær skèpnur, er þverskallast við Guðs alvarlegustu viðleitni að leiðrètta þær, þá kallast hann þolinmæði eður lánglundar-geð; ef vér álítum þær, sem syndugar skèpnur, og vegna syndarinnar ólukkulegar, þá kallast hann miskunsemi. Ef vér nú hugleiðum þennann sama kjærleika á hina síðuna, hvar hann ekki er manneskjunum eins géðfeldur, enn þó allt eins vigtugur, og allt eins heilsusamlegur fyrir alltsaman, þá kallast hann hatur til þess vonda; því hvað er þetta hatur til hins vonda, annað enn sú sama óendanlega velþóknan til hins góða, til alls þess, sem er stórt, ágjætt, verdugt og fullkomið. Þegar þessi kjærleiki til ens góða og fullkomna auglýsist með misþóknun á hinu vonda og ófullkomna, sem finnst hjá hans skèpnum, þá kallast hann reiði. Þegar þessi sami kjærleiki lætur sig í ljósi með því að umbuna það góða, sem hann finnur hjá sínum skèpnum, til að uppörfa þær til enn meiri ástundunar, dygðar og fullkomlegleika; ellegar með því að straffa það vonda hjá þeim, annaðhvört til að gjöra þá fullkomnari, sem fyrir straffinu verða, eður til að aptra öðrum frá löstunum með þeirra eptirdæmi, og upphvetja þá til dygðanna, þá kallast þessi sami eginlegleiki Guðs Rèttlæti. Guðs kjærleiki og hans rèttlæti eru þess vegna í Guði einn og hinn sami eginlegleiki, það er einn og hinn sami óendanlegi kjærleiki til þess góða og þess fullkomna, og hvörninn géta þeir þá strídt hvörr á móti öðrum? hvörninn géta þessir eginlegleikar sigrað eða upphafið hvörr annann? af þeim sama kjærleika til þess góða og fullkomna, fljóta bæði hans velgjörn-

íngar og hans straff; hid fyrra köllum vér gædsku, en hid sídara réttlæti. Mismunurinn er ecki í Gudi, heldur í sképnunum, á hvørjum Guds kjærleiki til þess góda lætur síg í ljósi. Gud er réttlátur, þegar hann audsýnir sína gædsku, og hann er gódur, þegar hann auglýsir sitt réttlæti.

---

Þar Guds réttlæti er allteins óendanlegt og hans gædska, þar hans kjærleiki til þess góda og fullkomna jafnvel útheimtir, ad hann allteins vel hljóti ad straffa þad vonda, sem umbuna þad góda, hvørsu hættulegt er þá ad syndga vísvitandi í trausti til Guds óendanlegu gædsku! Guds miskunsemi er ad vísu óendanleg, og svo miklu kémur hún til leidar vid hans réttlæti, ad hann ecki straffar hardara, heldur enn tilgángur hans hirtíngar útheimtir. Ad hin ógudlega borg Ninive eydilagdist ecki, þar hótanirnar nægdu til ad betra hana, þad var ávøxtur Guds miskunar. Ad þeim ógudlega Konúngi Manasse var einúngis kastad í fángelsi, en ecki skyndilega í burtu kippt, þar fjøturin nægdu til hans umvendunar, þad var ávøxtur Guds miskunar. Já, ad vér einúngis sætum födurlegum hirtíngum, ad vér ecki strax upprætumst í hvørt sinn, sem vér styggjum Gud, ad hann reynir til med hrísinu, ádur enn hann grípur til sverdsins, þad er ávøxtur Guds miskunar. En, þegar manneskjan einúngis forstockast meir og meir vid ríkdóm Guds gædsku og lánglundar-géds, sem ætti ad leida hana til yfirbótar; þegar hótanir, lockanir, áminníngar og födurlegar hirtíngar hafa lengi verid brúkadar forgéfins,

þá útheimtar sá sami óendanlegi kjærleiki til þess góða og fullkomna, að þvílíkar hverskallaðar sképnur uppræðist ødrum til heilsusamlegrar viðvørunar — Þannig var gjørvøllum heiminum drekt með vatnsflóði, þannig var þeirri ógudlegu **Ninive** kollkastað, þannig var sú forherdta Jerúsalem í grunn eyðilögð. Hvílík ofdirfska er það þá að vilja syndga uppá náðina, það er: að vilja með ásetníngs syndum styggja þá allrahæstu veru, af því vér hugsum, að hennar gæðska sé óendanleg, af því vér gjørum oss í lund, að Guðs gæðska og kjærleiki hljóti að yfirvinna hans réttlæti. **Vér viljum vera vondir af því að Guð er góður; hvørninn gétur vondskan stígið hærri trøppu? á hvørju skyldi Guðs strøffunar réttlæti niðurkoma, ef ei á þvílíkri vondsku?**

Satt er það, að það sýnist, sem þessi vondska strassist ekki ætíð, eins og dygðin fær ei heldur ætíð laun. Sá dygdugi liggur opt lágt, þegar sá lastafulli situr hátt. Og jafnvel þó lestirnir strassist endrum og sinnum, þá sýnist þó ekki ætíð vera nákvæmur jöfnuður á milli straffsins og tilverknaðarins. Til þess náttúrlega straffs, sem óhlýðnin ætti eptir sig að leiða, finna menn ekki ætíð, þar manneskjurnar eru opt og tíðum svo skarpar, að þær géta deyft það eður gjört það øldúngis að engu. En skulum vér þá draga **þá ályktun hér** af, að Guð ekki sé réttlátur? eður **skulum vér ekki miklu** framar álykta þar af, að annað líf sé væntanlegt eptir þetta; að ekki sé útgjørt um oss, þó vér leggjumst í grøfina; að launin og straffið muni fyrst úthlutast hinumegin grafarinnar; að þar hljóti að vera dómstóll, fyrir hvørjum allar jarðarinnar kynqvíslir skulu mæta,

fyrir hvørjum dygdirnar munu fá þeirra fullu laun, og lestirnir þeirra fulla straff.

Til þessa réttvísa dómstóls skulum vér ydug-lega þenkja. Því luckulegri, sem vér erum í vorri lasta-ydju, þess stærri orsök hofum vér til ad qvída fyrir þessum dómstóli og þessu réttlæti. Á vorum veggjum ætti þessi dómstóll ad vera máladur, á hvørjum dómarinn situr, umkríngdur af óteljandi þúsundum-kynqvísla, adskilur sína hlýdnu og óhlýdnu þegna hvørja frá ødrum, ber himnaríkis sælu í annari, en helvítis píslir í annari hendi, úthlutar þina fyrri sínum vinum, en þær sídari sínum óvinum. Þessi þánki er ríkur af huggun og ógnun; af hugg-un fyrir þann dygduga, þegar hann er ofsóktur og yfirgéfinn, spottadur og foraktadur af heiminum, þegar honum jafnvel sýnist, sem hann sé af sjálfum Gudi yfirgéfinn, á médan þeim lastafulla gengur allt ad óskum og luckan brosir uppá hann. Hvílík hugg-un er þad þá fyrir hann, ad þenkja til þessa rétt-vísa dómstóls, fyrir hvørjum hans dygd skal um-bunast og hans sakleysi opinberast.

En, svo sem þessi þánki er ríkur af huggun, von og djørfúng fyrir þann dygduga, þegar hann ratar í ýmislegt mótlæti, svo er hann fullur af ógn, ángist og skélfíngu fyrir þann lastafulla, sem ecki hefir látid ríkdóm Guds gædsku og lánglundar-géds leida sig til yfirbótar; því, þess yfirskjótan-legri, sem gædskan hefir verid hér í heimi, þess stærri hlýtur reidin ad verda sídar meir. Sú til-hugsan ad dagur er tilsettur, þá heimurinn mun dæmast med réttvísi, þá hvørr einn mun af Gudi medtaka hvad hans gjørdir eru verdar, þá løggjaf-

arinn mun leggja straffid á yfirtrodslumenn sinna laga; þessi tilhugsan ætti ad nidursøckva syndarannum í orvæntíngarinnar afgrunn, ellegar ad ødrum kosti krøptuglega uppørfa hann til ad leita frelsis á medan tími er til. Orsøkin, hvar fyrir þessi þánki kémur þessu sjaldan til leidar, er sú: ad vér ecki nógu opt og ydduglega hugsum um hann. Hann er ógnarlegur, þess vegna erum vér ófúsir á ad velta honum fyrir oss í huganum, og þess vegna hefir hann einninn litla verkun hjá oss. Ef vér viljum umflýja þá ógnog hrædslu, sem umþenkíng réttlætisins dómstóls med sér færir, þá hljótum vér ad hreinsa oss af vorri saurgun, dempa vorar girndir, undiroka vorar gédshræríngar, búa oss verduglega undir eilífdina, og innflýa til Frelsarans, sem sjálfur réttlátur dó fyrir ránglata, svo ad vér fyrir hann yrdum réttlátir fyrir Gudi; þá þurfum vér ecki ad óttast Guds stroffunar réttlæti, heldur megum hugga oss vid hans umbunar réttlæti, og gledja oss vid þann þánka: ad hann, sem er óendanlegur í sinni gædsku, er allt eins óendanlegur í sínu réttlæti.

## 11. Kapítuli.

### Um Guds Oumbreytanlegleika.

Ad Gud, sem hin fullkomnasta vera, er hefir alla møgulega fullkomlegleika til ad bera í hærsta máta, hljóti ad vera óumbreytanlegur í sinni veru, í sínum eginlegleikum, í sínum skilníngi og ályktunum sínum, er sá sannleikur, sem skynsemin fær ei efast um, hvørsu gjørn sem hún væri á ad efast um alla hluti. Allar sképnur eru umbreytíngum undirorpn-

ar. Frá grasinu til manneskjunnar er engin sképna einn daginn í øllu tilliti hin sama, sem hinn annann; einnig þær lángtum ædri verur, sem í tilliti til þeirra fullkomlegleika eru eins hátt upphafdar yfir manneskjuna, sem manneskjan yfir dýrid, og dýrid yfir grasid, þær eru þó undirorpnar tímanum og hans umbreytíngum. Þeirra fullkomlegleikar géta varid frá einum heims- aldri til annars, og frá einni eilífd til annarar, og þessi vøxtur er samanhángandi kedja af umbreytíngum — þessar umbreytíngar, sem vér erum undirorpnir, eru ad sønnu røksemd uppá vorn ófullkomlegleika, en þær eru þó undir eins í vissu tilliti fullkomlegleiki hjá oss. Þar vér í vorri náttúru erum ófullkomnir, og hljótum naudsynlega ad vera þad, þar vér erum endanlegir, þá er þad vigtugur fullkomlegleiki hjá oss, ad vér erum umbreytíngum undirkastadir, svo ad vér ætíd gétum stígid hærra, af lægri á adra ædri fullkomlegleikans trøppu. En þvílíkar umbreytíngar, sem eru fullkomlegleiki hjá oss, væru ófullkomlegleiki hjá Gudi. Hann væri þá ecki óendanlegur, ecki sú ædsta vera, og ecki Gud. Þess vegna útmálar og Ritníngin Gud allstadar, sem þann, sem frí er fyrir øllum umbreytíngum. Eg, Drottinn, umbreytist ecki, segir Gud fyrir Spámanninn Malachías, Mal. 3. Davíd sýngur um þennann Guds eginlegleika þannig: þú grundvalladir fordum jørdina, og himnarnir eru þín handa-verk, þeir munu forgánga, en þú blífur; þeir munu fyrnast, sem annad fat, þeir munu skiptast, sem annad klædi, þá ed þú umskiptir þeim; en þú blífur hinn sami, og þín ár taka engann enda, Ps. 102.

Þetta sama kénna og Postularnir: øll góð gjøf, segir Jacob, og øll fullkomin gjøf er ad ofan, og nidurstígur frá Fødur ljósanna, hjá hvørjum ad eru engin umskipti, né skuggi til umbreytíngar, Jac. 1.

Skynsemin kénnir oss þad sama, ad sú óendanlega og fullkomnasta vera hlýtur í sinni náttúru og øllum sínum fullkomlegleikum ad vera óumbreytanleg. Eg vil gjøra vid, ad sú ædsta vera væri umbreytíngum undirorpin, eins og sképnurnar, þá hlyti Gud vid sérhvørja umbreytíngu ad verda annadhvørt fullkomnari edur ófullkomnari. Því ad umbreytast, og vera þó í øllu tilliti hinn sami, mótsegir sér sjálft. Eg vil nú gjøra vid, ad Gud vid svoddan umbreytíngu yrdi fullkomnari, heldur enn hann ádur var, þá hefdi hann ecki ádur verid hinn allra fullkomnasti, og þess vegna ei heldur Gud; ellegar eg vil gjora vid, ad hann vid svoddan umbreytíngu yrdi ófullkomnari, þá hætti hann framvegis ad vera sá fullkomnasti, hann hætti þess vegna ad vera Gud. Hér af fylgir, ad óumbreytanlegleikinn er einn af þeim eginlegleikum, sem eru ódaskiljanlegir frá guddómlegri veru. Þad, sem Gud er, þad sama hefir hann verid frá eilífd, og þad sama mun hann vera um alla eilífd. Þó Ritningin tilleggi Gudi þvílíkar óstødugar sinnis-hræríngar, er finnast hjá manneskjunum, t. d. kjærleika, hatur, reidi, sorg, gledi og adrar fleiri, þá er þad engin rokkemd á móti lærdóminum um Guds óumbreytanlegleika. Allir mega vita, ad þegar þvílík ordatiltæki brúkast um Gud, hljóta þau ad takast í óeginlegri meiníngu, og merkja ecki annad enn Guds

óendanlega, eilífa og óumbreytanlega vilja, eptir hverjum hann vill efla dygd og farsæld, en afstýra illu athæfi, og þeirri ólukku, sem það eptir sig leidir. Þessi orda-tiltæki eru uppkomin á medan mannlegur skilníngur var enn þá í barnæsku sinni, þegar túngumálið var allteins fátækt af ordum, sem skilníngurinn af þaunkum; þegar manneskjan ecki gat talad um Gud, utan hún tæki ord til láns af þeim umbreytíngum, sem hún fann hjá sjálfri sér, og enn þá hljótum vér í mørgum hlutum ad tala sem børn, þegar vér tølum um Gud.

En, þar øll guddómsins vera er óumbreytanleg, þá hlýtur einninn sérhvørr Guds eginlegleiki ad vera það; því Guds eginlegleikar eru sjálf guddómsins vera. Guds almætti er óumbreytanlegt, án þess ad aukast edur þverra; ádur enn heimarnir urdu til, var það óendanlegt, og nú, eptir ad ótal þúsundir af verøldum eru skapadar, er það allteins óendanlegt. Guds vísdómur er óumbreytanlegur; engin dymma formyrkvar hann, og eilífdarinnar reynsla géfur honum engann vidurauka. Guds gædska er óumbreytanleg; med sí-rennandi straumum úthellir hún sér yfir allar veraldir, og þeirra uppspretta þverrar þó aldrei. Já, allir Guds eginlegleikar hljóta ad vera óumbreytanlegir, þar hann sjálfur er óumbreytanlegur.

Það eg sagt hefi um þá guddómlegu eginlegleika yfir høfud, ad þeir séu óumbreytanlegir, gyldir sérílagi um Guds skilníng; hann hlýtur ad vera óumbreytanlegur eins og øll guddómsins vera. Í tvofoldu tilliti er Guds skilníngur óumbreytanlegur; sumpart, ad hans þecking ecki gétur aukist;

sumpart, ad hann um alla eilífd hlýtur ad úrskurda þad fyrir sannleika edur villu, fyrir dygd edur ódygd, sem hann einusinni hefir úrskurdad ad vera þvílíkt. Pad fyrra flýtur af þeirri ímindun, sem vér naudsynlega hljótum ad gjøra oss um Guds alvitsku, hvarum ádur er talad. Í mannanna skilníngi er sífeldt flód og fjara af þekkíngu; á þá einu sídu gleymum vér mørgu því, sem vér høfum ádur vitad, og á hina síduna útvegum vér oss smámsaman nýja þekkíngu, sem vér ekki hofum ádur haft; svo vor skilníngur er undirorpinn sífeldum umbreytíngum. En þvílíkar umbreytíngar eru ekki í Guds skilníngi, þar hann er alvitur.

Allteins óumbreytanlegur hlýtur Guds skilnur ad vera í tilliti til hans dóma um sannleika og villu, dygdir og lesti. Vér dæmum sjaldan eptir sømu reglu; opt blandast vorar sinnis-hræríngar og egin-elskan saman vid vora dóma; stundum dæmum vér af brádrædi, ádur enn vér høfum fengid nóga þekkíngu, edur nógann tíma til ad leggja óhultann dóm á. Pess vegna eru vorir dómar svo óstødugir; þess vegna ber þad tídum vid, ad þad er rétt í dag, sem rángt var í gjær, og þad, sem í dag er ónggjandi sannleikur, verdur á morgun þreifanleg villa. En þessi ófullkomlegleiki er ekki í skilníngi þeirrar óendanlegu veru; hér eru engir hleypidómar, ekkért brádrædi, ekkért myrkur, engar sinnis-hræríngar, enginn skortur á naudsynlegri þekkíngu; þess vegna hlýtur Guds skilníngur ad vera óumbreytanlegur í sínum dómum; þess vegna kunna allir hlutir í náttúrunni ad umbreytast, en dygd og sannleikur eru ætíd óumbreytanleg. Pess vegna gétur sannleiki um alla

eilífd ecki ordid ad vilku, edur villa ad sannleika; þess vegna gétur dygdin aldrei umbreytst í glæp, edur glæpurinn í dygd. Guds óendanlegi skilníngur hefir frá eilífd lagt dóminn á, og þessi dómur er óumbreytanlegur.

En þar Gud er óumbreytanlegur í sínum skilníngi og øllum sínum guddómlegu eginlegleikum, þá hlýtur hann einninn ad vera óumbreytanlegur í øllum sínum álыktunum. Þad er Ritníngarinnar lærdómur: Gud er ecki madur, ad hann ljúgi, eigi heldur manns barn, ad hann sjái sig um hønd; skyldi hann segja nockud og gjøra þad ecki? skyldi hann tala nockud, og halda þad ecki? 4 Mós. b. 23. Þad er Davids lærdómur: ráð Drottins blífur eilíflega, hans hjartans hugsanir um aldur og æfi, Ps. 33. Skynsemin segir þad sama. Ad umbreyta sínum álыktunum, géfur til kynna annadhvørt skort á vísdómi og þeckíngu ad taka þær fyrir sig, edur skort á mætti ad framqvæma þær. Þess vegna eru manneskjurnar, svo óstødugar í þeirra álыktunum; en þar Gud er eins óendanlegur í sínum mætti, sínum vísdómi og sinni alvitsku, svo fylgir naudsynlega þar af, ad allar hans álыktanir hljóta ad vera óumbreytanlegar; ad umbreyta þeim, væri røksemd uppá, annadhvørt ad Gud hefdi ecki ásett sér þær eptir hinum fullkomnustu vísdóms løgum, ellegar ad hann vantadi máttinn til ad framqvæma þær.

Þad sýnist ad sønnu stundum, sem Gud umbreyti sínum álыktunum; þannig hafdi Gud tilsett hjá Gydíngum þá Levitisku guds-þjónustu; en þegar Messias kom, færdi hann med sér nýja skipun ad hún skyldi aftakast. Þetta sýnist ad sønnu ad

vera umbreyting í Guds ályktunum; en þad er þó raunar ecki. Þegar Konúngur nockurr géfur út einhvorja tilskipan, og ályktar, ad hún skuli vara um vissann tíma, svo lengi sem ríkisins velgengni útheimtir þad, en kallar hana sídan aptur, þegar ecki þarf lengur á henni ad halda, þá er þetta ecki umbreyting á hans ályktun, heldur hennar framqvæmd. Þad sama gyldir um þessa guddómlegu ályktun. Þad sýnist, sem Gud raski sínum ályktunum, þegar hann stundum hótar, án þess ad uppfylla sínar hótanir, lofar stundum nockru, án þess ad efna sitt loford, þegar hann t. d. fyrir munn Spámannsins Jónæ hótadi Niníve, ad hún skyldi eydileggjast ad 40 døgum lidnum, og lét hana þó standa, þegar sá tiltekni tími var umlidinn. Þetta sýnist ad sönnu í fyrsta áliti ad vera umbreyting á Guds ályktun; en þad er þó raunar ecki. Ef ad Guds fyrirheit og hótanir væru án alls skilyrdis, og hann samt umbreytti þeim, þá væri þad umbreyting á hans ályktunum; en þegar Gud hótar Niníve, ad hún innann 40 daga skyldi kollkastast, þá skédi þessi hótun einúngis med því skilyrdi, ef hún ecki betradist. En Gud fyrirsá, ad hún mundi betrast vid þessa hótun, og þess vegna var þad hans ályktun ad hún skyldi standa. Þannig egum vér ad álykta um sérhvørja kríngumstædu, hvar oss sýnist sem Gud umbreyti sínum ályktunum; þad sem oss sýnist vera umbreyting á Guds ásetníngi, er miklu framar framqvæmd hans eilífa og óumbreytanlegu ályktana.

---

Þessi sannfæring, ad Gud er í sinni veru

óumbreytanlegur, og verdur um alla eilífd sú sama óendanlega og óumbreytanlega vera, sem hann frá eilífd verid hefir, hvada verkun ætti þessi sannfæríng ad hafa í vorum hjörtum? þar Gud er óumbreytanlegur, hjá hvörjum ættum vér þá helst ad leita vorrar farsældar? hvört hjá sképnunum eda Skaparanum? allt þad góda, sem vér leitum ad annarstadar enn hjá Gudi, er hverfult, umbreytanlegt og forgengilegt; Gud einn er ecki einúngis þad ædsta góda, heldur og svo þad einasta stöduga og óumbreytanlega góda. Hvörsu heimskir erum vér þá, þegar vér, sem ætladir erum til eilífdarinnar, leitum vorrar ædstu farsældar í heiminum, er einhvörntíma á ad forgánga, og höfnum þarámóti því ædsta góda, sem einúngis er óumbreytanlegt og óforgengilegt.

Allir Guds eiginlegleikar eru óumbreytanlegir; hans vísdómur kann ecki ad formyrkvast, hans almætti ecki ad veikjast, hans gædska ecki ad þverra. Hjá hvörjum skulum vér þá helst leita athvarfs? uppá hvörn skulum vér þá helst reida oss? uppá þessa einu óumbreytanlegu veru, ellegar uppá mennina, sem eru sömu umbreytíngum undirorpnir og vér? hvörsu umbreytanlegur er mannanna máttur? hvörsu audveldlega kann maktarmadurinn ad kollkastast, og neydast til, sjálfur hjálparlaus, ad leita annara hjálpar. Hvörsu umbreytanleg er mannanna gódvild! sá, sem í dag er minn alúdlegasti vinur, verdur á morgun minn bitrasti óvinur, og nidurbrýtur, sem óvinur, þá lucku, er hann, sem vinur, hefir útvegad mér. Hvörsu lítid kunnum vér þá ad reida oss uppá mennina, sem eru umbreyt-

anlegir, og hvørsu fávísir erum vér, þegar vér gaungum fram hjá honum, sem einúngis er óumbreytanlegur, hvørs visdómur ætíd er hinn sami, hvørs almætti er hid sama, hvørs gædska er hin sama.

Guds skilníngur er óumbreytanlegur; þess vegna standa allar mínar syndir, allar mínar yfirtrodslur uppskrifadar med óútsléttanlegum békstöfum. Hvørsu skélfileg tilhugsan: sá eilífi Gud gétur ecki gleymt mínum syndum, því hans skilníngur er óumbreytanlegur. Þó eg ecki muni lengur til þeirra, þá hefir dómarinn ecki gleymt þeim, og um alla eilífd mun hann ecki gleyma þeim, og sídar meir munu þær leidast í ljós; því hans skilníngur er óumbreytanlegur. Hann er óumbreytanlegur, hann kann þess vegna ecki ad ødlast neina nýja þeckíngu, sem hann ecki hefir ádur haft. Hann yfirgrípur þad umlidna, nálæga og ókomna, alla virkilega og alla møgulega hluti; þess vegna þeckir hann þá einninn mína heimuglegustu þánka, allar þær girndir, sem búa í mínum huga, einninn þær, sem enn þá eru ófæddar. Frá eilífd hefir hann talid øll mín ónytju ord, mínar fávíslegu óskir, mínar óstjórnlegu girndir, mínar óskýrilátu sinnis-hræríngar, vegid mín gódu og mín vondu verk hvør á móti ødrum, og fundid máské þýngri hin sídari. Og, ó! minn Gud! hvada dóm hefir þú á mig lagt? hvada álycktun hefir þú tekid um mig til frelsis? edur til fordæmíngar? fyrir þessum dómi, fyrir þessari álycktun titra eg; því þínar álycktanir eru óumbreytanlegar. Hafir þú tildæmt mér sælufulla eilífd, já, þó þad væri ei utan sú lægsta sælu-trappa

hvad gétur þá jafnast vid mína lucku? því þín á-lyktan er óumbreytanleg. En mig hryllir vid þeim deydandi þánka, ad þú máské hafir álygtad mig til fordæmíngar; því þín álygtan er óumbreytanleg. Hvørr kann þá ad frelsa mig frá þinni reidi? eckért gétur þá frelsad mig, og ecki sjálft afgrunnid.

Þad er satt, ad svo sem Guds álygtanir eru óumbreytanlegar, svo eru þær ecki án alls skilmála. Þær eru grundvalladar á vorri vidvarandi trú og heilagleika, og á vorri vidvarandi forherdíngu. Þær eru grundvalladar á því sálar ástandi, í hvørju vér skiljum vid þetta líf. Þetta ástand hefir Gud fyrirsjed frá eilífd, því hans skilníngur er óumbreytanlegur. Þetta ástand er grundvollur Guds eilífu álygtunar um oss, og þessi álygtan er óumbreytanleg; en allt þetta er enn þá hulid fyrir vorum augum. Hvílík óttaleg óvissa! hvørt skulum vér nú meir gledjast edur skélfast vid óumbreytanlegleika hans álygtana? þad er komid undir vorri hegdun, hvørt vér viljum skélfast edur gledjast. Látum oss vaka, bidja og strída, þá kunnum vér ad álykta af vorri betrun um Guds frelsis álygtun yfir oss; látum oss, med Guds nád, gjøra oss verduga Guds fyrirheita, þá munum vér umflýja hans hótanir; hans eilífa álygtan um vora sálu-hjálp mun þá uppfyllast á oss; því Gud er óumbreytanlegur.

## 12. Kapítuli.

### Um Þrí-eíníngunа.

Allt híngad til hefir Ritníngin og skynsemin, handleidd af Ritníngunni, kénnt bádar hid sama. En

þad eru Ritníngarinnar yfirburdir, ad hún ecki einúngis kénnir oss þad um Gud og gudlega hluti, sem skynsemin, jafnvel upplýst, og af sínu náttúrlega wyrkri hreinsud skynsemi, gétur frædt oss á; heldur kénnir hún oss þaradauki margt, sem skynsemin, af sínum egin ramleika ómögulega gétur kénnt, og þar med reikna eg þríeiningúna í þeirri guddómlegu veru. Þessi lærdómur hefir frá alda-ödli verid undirorpinn margskyns misklídum og verid vigtugt ransókunar-efni bædi fyrir heimsspekíngin og gudfrædis-kénnarann. Menn plaga helst ad hnýsast í þad, sem þeir síst géta skilid, þar þeir vilja ávinna sér einskonar heidur med því, ad umbreyta myrkri í ljós, og skapa þar dag, hvar adrir hafa ecki séd utan nótt; en sannleikurinn tapar stundum meira enn hann ávinnur vid þvílíkar ransakanir. Og þannig hefir þad gengid fyrir þeim lærdómi, sem vér nú viljum yfirvega. Þeir fyrstu kristnu kéndu þennann lærdóm med Ritníngarinnar ordum, án þess ad hleypa sér leugra út í hann, og á medan menn létu lenda þar vid, var enginn efi edur misklíd um þetta efni; en þegar framlidu stundir, vildu menn vita meira hér um, heldur enn þad, sem Ritníngin hafdi útþrycilega sagt, og féllu því til fáfengilegrar ransókunar, og nú hófst efi og ágreiníngur, sem máské hefdi mátt sneida hjá, ef menn hefdu náqvæmlega haldid sig vid Ritníngarinnar ord, og ecki blandad saman vid þau sínum egin ordum og egin meiníngum. Þess vegna, þegar þær mótsagnir adgjærast, sem á móti þessum lærdómi hafa gjördar verid, þá mun þess vart verda, ad þær áhræra framar mannanna útleggíngar yfir lærdóminn, held-

ut enn lærdóminn sjálfann, eins og hann finnst í Ritníngunni; ad þær framar áhræra þessi ord: Þrenníng, undirstada, persóna og ønnur þesshátt-ar, sem hafa verid uppfundin til ad géta talad um þennann óendanlegleika í guddóminum. Af því búid er ad innleida þessi ord, og komin er á þau lángvarandi hefd, er ad sønnu best ad halda þeim, þó svo, ad menn brúki þau svo sparsamlega, sem møgulegt er, og vari bædi lesendur og tilheyrendur vid, ad þeir ecki hér vid þenki til þess sama, sem í daglegu tali nefnist þannig. Betra hefdi þad verid, ad menn aldrei hefdu brúkad þessi ord, þar Ritníngin ecki brúkar þau, þared ásamt med þeim kunna audveldlega ad innsmeygja sér auka-þánkar í sjálfann lærdóminn, og géfa honum annad útlit, heldur enn hann hefir eptir Ritníngarinnar meiníngu; rísa þar svo af efasemdir og mótsagnir, er menn hugsa ad snerti lærdóminn, en áhræra þó ecki utan þá aukaþánka, sem hafa blandast saman vid hann. Þess vegna vil eg hér framsetja Ritníngarinnar lærdóm um þennann óendanlegleika í guddóminum, án nockurrar hnýsni, rétt eins og hann finnst þar.

Ritníngin kénnir, eins og ádur er sýnt, ecki einúngis í einum heldur í allmørgum stødum frá upphafi til enda, ad ecki sé utan einasti einn Gud. En hún kénnir þar hjá, bædi í gamla- og líka nýa-testamentisins skrifum, ad í þessari einu guddómlegu veru sé nockud, sem kallast: Fadir, Sonur, Andi. Fyrir utan þad ord: Fadir, sem allstadar kémur fyrir, er talad um nockud í guddóminum, sem kallast Sonur; þannig innleidist Gud talandi til Messías: **Þú ert minn sonur, í dag fæddi eg þig,** Ps. 2.

Um þennann sama Son, talar einnig Esajas: **Eitt** barn er oss fædt, **einn** sonur er oss géfinn, hvørs höfdingja-dómur mun vera á hans herdum, og hans nafn skal kallast undarlegur, rádgjafi, voldugur Gud, eilífdarinnar Fadir og Fridar-höfdingi, Es. 9. Þessi Sonur, sem Esajas talar um, kallast voldugur Gud. Í nýa Testamentisins skrifum er enn þá optar talad um nockud í gudddóminum, sem kallast: Sonur, Guds Sonur, Guds elskulegur, Guds eingétinn Sonur; þeir daudu munu heyra raust Guds Sonar, Jóh. 5. Enginn þeckir Soninn utan Fadirinn, Matth. 11. Þessi er minn elskulegur Sonur, Matth. 3. Somuleidis er alla vega í Ritníngunni talad um nockud í gudddóminum, sem kallast: Andi og heilagur Andi; Andi Drottins, er yfir mér, Es. 61. Andi Drottins mun hvíla yfir honum, Es. 11. Þeir vóru þverbrotnir og hrelldu hans heilaga Anda, Es. 64. Einnig í nýa Testamentisins skrifum: **Ananía!** því uppfyllti andskotinn hjarta þitt, ad þú vildir ljúga ad heilögum Anda, Post. g. b. 5. Af heilögum Anda tilknúdir hafa þeir heilögu guds-menn talad, 2 Pét. 1. Þess vegna, ad í þeirri einu gudddómlegu veru séu þrír óendanlegleikar (því allt hvad í Gudi er, er óendanlegt), ad þessir þrír óendanlegleikar kallist: Fadir, Sonur, Andi, þad kénnir Ritníngin svo greinilega, ad, til ad sjá þad, þurfa ecki utan augun til ad lesa þad med. En, hvad þessi þrjú ord: Fadir, Sonur, Andi, eginlega þýdi, hvar í þessir þrír óendanlegleikar eginlega séu innifaldir, og vegna hvørs þeir nefnist þannig, þad segir Ritníngin oss ecki ljóslega, og hvørr vogar þá ad segja þad.

Að hætta sér úti tilgátur í þvílíkum hlut, sem svo lángt yfirstígur vora skynsemi, er vogunar-spil, og formyrkvar opt lærdóminn enn meir í staðinn fyrir að upplýsa hann.

Svo mikið kénnir Ritníngin með vissu, að þessi þrjú orð: *Faðir*, *Sonur* og *Andi*, merkja þrjá óendanlegleika í þeirri guddómlegu veru, sem eru reyndar aðgreindir, og ecki einn og hinn sami hlutur, er eiríngis er nefndur með þremur aðgreindum nöfnum. Þegar tekið er svo til orðs: *náð vors Drottins Jesú Krists, Guðs kjærleiki, og sameining heilags Anda veri með yður øllum*, 2 Cor. 13. Þegar tekið er svo til orðs: *gángið út, og gjørið allsslags þjóðir að mínum lærisveinum, og skírið þær til nafns Føðurs, og Sonar og heilags Anda*, Matth. 28. Þegar þessi þrjú orð eru þannig samtengð, þá er auðsjeð að þau ecki géta í sömu greininni merkt einn og hinn sama hlut. Menn finna og margar greinir, hvar auðsjáanlega er gjørður mismunur á þremur aðgreindum óendanlegleikum í guddóminum. Þannig aðgreinist Faðirinn og Sonurinn hvorr frá øðrum, þegar Kristur segir: *enginn þeckir soninn nema faðirinn, og enginn þeckir føðurinn nema sonurinn*, Matth. 11. Hér aðgreinist sá, sem þeckir, frá hinum, sem þecktur er. Og í øðrum stað stendur: *eins og faðirinn hefir lífið í sjálfum sér, svo hefir hann og géfið syninum að hafa lífið í sér sjálfum*, Jóh. 5. Hér aðgreinist útþryckilega sá, sem géfur, frá hinum, sem géfið er. Sömuleiðis aðskilst sá óendanlegleiki í guddóminum, sem kallast Andi eður heilagur andi, sem sannarlega aðgreindur bæði frá føðurnum og syninum; til

dæmis: þegar Kristur segir: eg mun bidja fødurinn og hann mun géfa ydur annann huggara, sem skal vera hjá ydur eilífleg., Jóh. 14. Þá adgreinir Kristur útþryckilega fødurinn, sem géfur, frá huggaranum, sem géfinn var; og ad fyrir huggarann egi ad skiljast heilagur Andi, þar um er enginn efi. Þegar Kristur segir í ødrum stad: þegar huggarinn kémur, hvørn eg mun senda ydur frá fødurnum, sá sannleikssins Andi, sem af fødurnum framgengur, hann mun bera vitni af mér, Jóh. 15. Þá er útþryckilega gjørdur mismunur á andanum, sem sendur er, syninum, sem sendir hann, og fødurnum, frá hvørjum hann sendist. Þess vegna er þar enginn efi á, ad þessir þrír óendanlegleikar í guddóminum, sem kallast Fadir, Sonur og Andi, eru eptir Ritníngarinnar lærdómi raunar adgreindir hvørr frá ødrum, en ecki einsømul nøfn, sem merkja einn og hinn sama hlut í guddóminum; fadir er ecki sonur, og sonur er ecki andi.

Lokssins tileinkar Ritníngin fødur, syni og anda þann sama óendanlegleika. Sonurinn kallast Gud eins og Fadirinn: í upphafi var ord, og ordid var hjá Gudi, og ordid var Gud, Jóh. 1. Kristur er af fedrunum eptir holdinu, sem er yfir øllum hlutum, Gud blessadur ad eilífu, Róm. 9. Heilagur Andi kallast einnig Gud: Ananía! því uppfyllti andskotinn hjarta þitt, ad þú vildir ljúga ad heiløgum Anda; þú hefir ecki logid ad mønnum, heldur ad Gudi, Post. g. b. 5. Syninum tilleggst alvitska eins og Fødurnum: hann þurfti ecki, ad nockurr bæri vitni af manninum, því hann vissi sjálfur hvad med manninum bjó, Jóh. 2. Heiløg-

um Anda tilleggst einnig alvitska: Andinn þeckir grant alla hluti, einninn Guds leyndar-ráð, hværr veit mannsins álycktanir, utan mannsins Andi, sem í honum er; þannig veit og enginn Guds álycktanir, utan Guds Andi, 1 Cor. 2. Syninum tilleggst almætti, edur þau verk, sem útheimta almætti, allteins og fødurnum: svo sem fadirinn uppvekur og lífgar dauda, svo lífgar og sonurinn þá hann vill, Jóh. 5. Heilögum Anda tilleggst einnig almætti og almættis verk: Þar er mismunur á gáfunum, segir Postulinn Páll, en sami er andinn; og þar er mismunur á embættunum, en hinn sami er Drottinn; og þar er mismunur á krapta-verkunum, en hinn sami er Gud, sem verkar alla hluti í øllum. En sérhvørr audsýnir Andans gáfur til þess, sem er nytsamlegt. Einum er af andanum géfid ad mæla af vísdómi, en ødrum ad tala af skynsemi, fyrir hinn sama anda. Ødrum trúin af sama anda, en hinum gjafir lækninganna af sama anda; ødrum krapta-verka gáfa; ødrum gáfa ad utleggja Ritnínguna; ødrum sú, ad gjøra greinarmun á øndunum; ødrum ad tala ádskiljanleg túngumál; en ødrum ad útleggia túngumálin; en allt þetta verkar einn og hinn sami andi, sem útskiptir sérhvørjum sínar gáfur eptir því, sem hann vill, 1 Cor. 12. Manneskjurnar skyldast til ad hlýda, þjóna, heidra Soninn og heilagann Anda, eins og Fødurinn; þessi skuldbindíng er fólgin í þessum ordum: gángid út, kénnid øllum þjódum, og skírid þær til nafns Fødurs, Sonar og heilags Anda, Matth. 28.

Þannig mætti med lángri ræd af Ritníngar-

greinum sýna rökfemdir fyrir því, að Födur, Syni og heilögum Anda tilleggst sami óendanlegleiki; en það er ónauðsynlegt. Þegar búið er að sýna rökfemd þá, að Syninum og Andanum tilleggst (þó það sé ecki utan einn einasti) guddómlegur eiginlegleiki, þá er það ómótmælanlegt, að allir guddómlegir eiginlegleikar hljóta að tilheyra þeim báðum, þar allir guddómsins fullkomlegleikar eru óaðskiljanlegir, eilífir og nauðsynlegir. En þetta er líka allt, hvað með vissu sagt verður um þennann óendanlegleika í þeirri æðstu veru; þetta, sem nú er sagt, stendur með augljósum orðum í Ritníngunni, og verða ecki ödruvísi skilin, utan þau séu rángfærð; það, sem hér um er meira sagt, eru einúngis mannlegar útleggíngar og tilgátur; en þessar útleggíngar og tilgátur í þvílíkum lærdómi, sem er svo hátt upphafinn yfir alla mannlega og máské yfir allra endanlegra skepna skynsemi, eru ætíð óvissar, og eins hættulegar, sem óvissar. Þessi álýktan einsömul ætti að vera nóg fyrir oss, og hún er skynsamleg: Svo stendur skrifað í Ritníngunni, svo les eg; þar Ritníngin hefir guðlegann uppruna, þá hefi eg fullnóga ástædu; þar Guð hefir sagt það, þá hlýtur það vissulega að vera þannig.

---

Lærdómurinn um þennann, skynseminni ókénnda, óendanlegleika í guddóminum, á að þéna til að auðmýkja vora skynsemi fyrir þeirri allrahæstu veru; en ecki til að þreyta hana með ávaxtarlausri eptirgrenslun. Hefði það verið Guðs vilji, að vér skyldum vita meira um þetta; hefði það verið oss nauð-

synlegt ad vita meira; ellegar hefdi vor skilníngur gétad tekid á móti meiru, þá hefdi hann einninn opinberad oss meira. Þar ed þetta er nú ecki skéd, þá er þad til forgéfins, ad vilja leita ad bjartara ljósi, þar oss er neitad um þad. Öll guddómsins vera er oss óskiljanleg, og hlýtur naudsynlega ad vera þad; því til ad skilja, hvad Gud er, yrdum vér sjálfir ad vera Gudir. Ef ad Ritníngin kénndi oss einn einasta eginlegleika, sem vér gjætum fullkomlega skilid med vorri skynsemi, þá mættum vér vera vissir um, ad hann ecki væri guddómlegur. Hvørr gétur skilid Guds eilífd; hans almætti, sem med sínum einsömlum vilja býdur veroldunum ad verda til af engu; hans allstadar nálægd, sem nær yfir heim og himin; hans alvitsku, sem yfirgrípur alla umlidna, alla nærverandi og alla ókomna hluti, bædi þá, sem naudsynlega hljóta ad ské, og þá sem eimúngis eru tilfallandi. En þar vér ecki skiljum hina adra óendanlegleika í Gudi, af hvada orsök kunnum vér þá ad girnast ad skilja þennann.

Satt er þad, ad jafnvel þó vér ecki skiljum hina adra fullkomlegleika í Guds veru, þá skiljum vér þó, ad hin fullkomnasta vera hlýtur ad hafa þessa fullkomlegleika til ad bera; en þad kunnum vér ecki heldur ad segja um þessa dýpt guddómsins, er nú hefir verid um talad. Ad í Gudi hljóti ad vera almætti, allstadar nálægd, alvitska, þad gétum vér skilid, þó vér ecki fáum skilid sjálft almættid, allstadar nálægdina edur alvitskuna; en, ad í guddómsins veru hljóti naudsynlega ad vera nockud, sem kallast: Fadir, Sonur og Andi, hvørjir allir þrír hljóti ad vera jafn-óendanlegir og jafn-eilífir,

þad skiljum vér ecki. En hvør er orsøkin, ad vér skiljum þad fyrra, en ecki þad sídara? engin ønnur enn þessi: um hina adra óendanlegleika í guddómin- um álýktum vér, med því ad bera Gud saman vid oss, og tilleggja honum þá fullkomlegleika í hærsta máta, sem vér finnum hjá oss med minna móti. Þannig gétum vér skilid, ad Skaparinn verdur ad hafa þá sømu eginlegleika til ad bera, sem hann hef- ir meddeilt sínum sképnum, og þar hann er óendan- legur, verda allir þessir hans fullkomlegleikar einn- inn ad vera óendanlegir. En, nú finnum vér hjá sjálfum oss, eckért líkt því, sem í þeirri óendanlegu veru kallast: Fadir, Sonur og Andi, vér gétum því ecki hér álýktad um Gud af sjálfum oss, og þess vegna gétum vér ei heldur skilid, ad þessi óend- anlegleiki hljóti naudsynlega ad vera í þeirri allra- hærstu veru. Þessi leyndardómur hefdi máské held- ur aldrei verid oss opinberadur, af því hann er, og kann ei annad enn vera oss øldúngis óskiljanlegur, ef oss hefdi ei verid naudsynlegt ad vita nockud um hann, til ad géta þess betur skilid einn annann lær- dóm, sem er harla vigtugur fyrir oss og vora sál- ar-rósemi, eg meina lærdóminn um endurlausnar- verkid. Ef ad þessi rósemdarfulli lærdómur um endurlausnina ecki skyldi verda oss med øllu óskiljan- legur og ótrúlegur, þá hlutum vér ad vita, ad Frels- arinn var bædi Gud og madur; og ad í þeirri gud- dómlegu veru er nockud, sem kallast Fadir, Sonur og Andi; ad þessir þrír eru vissulega adgreindir, þó þad sé ecki ad verunni til, og ad þeir allir eru eins óendanlegir. En þetta þurftum vér einúngis ad vita, til ad géta sjed svo mikla skýmu í hinum ødr-

um lærdómum, sem vér medþurfum til vorrar ró=semdar. Sá ædsti vísdómur hefir þess vegna ecki heldur viljad opinbera oss meira hérum. Ad vilja heimta meira ljós, enn vér medþurfum, væri of=dyrfska, og ad vilja hafna þessu dapra ljósi, af því þad ecki er skjærara, væri fásinna. Þó vér ecki skiljum þennann leyndardóm, þá látum þad þéna oss til ad audmýkja vorn veika skilníng fyrir Guds óendanlegu hátign. Oss er þad nóg, ad Kristur, sem med óneitanlegum røksemdum hefir stadfest sína guddómlegu sendíngu, hefir og stadfest þennann lær=dóm, meira þurfum vér ecki til vorrar sannfæríngar.

## 13. Kapítuli.

### Um Skøpunar=verkid.

Er heimurinn, og allir hlutir ordnir til af sjálfum sér, af hendíngu, frá eilífd, edur eru þeir framleidd=ir af annari veru, sem er adgreind frá heiminum? til ad svara uppá þessa spurníngu svo greinilega, sem møgulegt er, verdur ad gjøra adgreiníng á heims=ins efni, hans formi, nidurrødun og byggíngu. Hvad hid sídara áhrærir, þá þurfum vér ecki marg=ar røksemdir til ad sannfærast um, ad heimsins form, nidurradan og bygging, er ecki verk hins dauda efnis edur tilfallandi orsaka, heldur þeirrar veru, sem adgreind er frá heiminum, hvørrar vís=dómur er án takmarka og hvørrar gædska er ó=þrjótandi; eg hefi fært røksemdir fyrir því hér ad framan. Ad ítreka þessar røksemdir á ný væri leid=inlegt, og ad framfæra hér um adrar nýjar, væri ad dæma lesarann frá brúkun mannlegrar skynsemi.

En þá hefir aldrei daudt efni né blind hendíng gét-ad framleidt kunstuglega smídadann himin- edur jardar-hnøtt, sem þó er einúngis mikid ófullkomin eptirlíkíng heims-byggíngarinnar. Sá sem vildi telja oss trú um, ad þvílíkur smídis-gripur hefdi gjørt sig sjálfur, edur ordid þannig af hendíngu, hann mundum vér álita, sem þann, er annadhvørt væri sjálfur vitskérdtur, edur héldi oss vitskérdta. Og hvílíkur mikilleiki af blindni útheimtist þá ecki, til ad géta yfirtalad sjálfann sig til ad trúa, ad öll heimsbyggíngin, í hvørri vér allstadar sjáum svo mikla nidurrodun, fegurd, fullkomlegleika og samlíkíngu, hafi ordid til med þeim hætti, med hvørjum jafnvel ecki hid minnsta skrid-qvikindi verdur til?

En sé þad óefanlegt, ad til heimsins forms, nidurrødunar og byggíngar hljóti ad vera almáttug og vísdómsfull orsøk, sem adgreind er frá heiminum; mun þá ecki heimsins efni líka vera framleidt af þeirri sømu orsøk, sem setti heiminn í lag og lagadi hann? sønn skynsemi kann ecki annad, enn veita jáqvædi því sídara spursmáli eins vel og hinu fyrra. Þó þad væri møgulegt, ad efnid gjæti verid eilíft, þá sýnist þad þó ómøgulegt, ad þad hafi orsøk sinnar tilveru í sjálfu sér; efnid er ætíd endanleg vera, og eckért annad enn sú óendanlega vera gétur í sér sjálfu haft orsøkina til sjálfs síns. En nú er efnid ecki eilíft, og gétur ómøgulega verid þad. Efnid er umbreytíngum undirorpid og verdur ætíd eldra. Enginn gétur neitad því, ad heimsins efni var ýngra á Kristi døgum enn á vorum tímum, og ad þad aptur var ýngra á Nóa døgum, heldur enn á Kristi. En sá hlutur, sem ætíd verdur eldri, þegar

talid er áfram, og ætíd ýngri, þegar talid er til baka, verdur naudsynlega ad hafa upphaf. Med því ad telja til baka, einninn þó menn vildu telja mørg hundrud þúsund ár til baka, verda menn samt ad koma til þess tíma-bils, þegar enginn heimur, og ekkért efni til heimsins hefir verid til. Þad er þess vegna lítill ávinníngur, þó menn segi þad, sem þó ecki verdur færd roksemd til, ad veraldir hafi verid til, ádur enn vor sólar-veröld var skøpud, ellegar ad efni vors jardarhnøtts hafi verid til, ádur enn hann var settur í þad lag sem hann nú er. Eg vil ecki þræta vid neinn, ad þad sé møgulegt; eg segi einúngis ad menn ávinna lítid med þeßari meiníngu; því þó ad þeir heimar gjæfust, sem eru mørgum þúsundum árum eldri enn vor heimur; þó efnid hefdi verid mørgum þúsundum árum eldra heldur enn heimurinn, sem af því er mindadur, þá hefir þó verid sá tími, þegar enginn heimur, og ekkért heims efni var til, og bak vid þennann tíma, hvørsu óendanlegann, sem vér ímindum oß hann, liggur þó ætíd heil eilífd.

Þar þad er nú ómøgulegt ad heimurinn edur efnid til heimsins géti verid eilíft, þá hlýtur hann ad vera gjørdur af annari ædri veru, sem er almáttug, og sem med sínu almætti gétur gjørt nockud af því, sem ádur var ekkért. Því þad mótsegir sér sjálft, ad efnid framleidi sig sjálft ádur enn þad er til. Þetta kénnir skynsemin, í hid minnsta á hún ad géta kénnt þetta, og þetta sama stadfestir Ritníngin. Hún kénnir oß, ad allur heimurinn med hans óteljandi innbyggjurum sé af Gudi skapadur: eg er Drottinn, sem alla hluti gjøri, sem útbreidi himin-

inn einsamall, og útvídka jørdina án aðstyrks, Es. 44. Hún kénnir oss, ad heimurinn, ásamt med øllum hans óteljandi innbyggjurum, sé af Skaparans almættis ordi framleiddur af engu: fyrir trúna, segir Postulinn Páll, skynjum vér, ad heimurinn er gjørdur fyrir Guds ord, ad þeir hlutir, sem sjást, eru ordnir til af þeim, sem ecki vóru sýnilegir, Hebr. 11.

Þetta er almættis djúp, sem hulid er vorri skynsemi. Hværninn gjørvallur heimurinn er ordinn til af engu fyrir Skaparans almætti, þad skiljum vér ecki; en ad hann skuli hafa verid til frá eilífd, án upphafs og án orsakar, þad skiljum vér enn þá sídur. Hid fyrra er oss einúngis óskiljanlegt, hid sídara er bædi ómøgulegt og þaradauki mótsegir sér sjálft. Hid fyrra er oss óskiljanlegt, ecki einúngis vegna þess, ad hvør einn óendanlegleiki í guddóminum er, og hlýtur naudsynlega ad vera óskiljanlegur sérhvørjum endanlegum skilníngi, heldur og svo þess vegna, ad vér finnum eckert líkt þessu hjá sjálfum oss. Þegar vér viljum gjøra nockud verdum vér ad hafa efnid til þess, og þetta efni verdur ad vera hentugt til þess, sem þad er tilætlad. En Skaparinn þarf ecki nema einsamlann viljann, og undir eins og hann vill, kémur á augnabliki gjørvalli heimurinn fram af engu efni; undir eins og hann vill, koma sól, túngl og stjørnur í ljós, jørdin, loptid, vatnid og eldurinn skilja sig hvørt frá ødru og sameinast innbyrdis eptir Skaparans vilja; undir eins og hann vill, færist øll náttúran í lag, prýdist og uppfyllist med lifandi og lífslausum skepnum. Þetta allt er ómælandi djúp Guds

almættis, af hvørs yfirvegun vér megum falla í lángvinna þögn og sérlega undrun.

Eg vil enda þessar hugleidíngar med þeirri spurníngu: hvørr verid hafi Skaparans tilgángur med því ad skapa heiminn? nockrir meina þad verid hafi Skaparans dýrd og auglýsíng hans óendanlegu fullkomlegleika; adrir: ad þad hafi verid farsæld hans skynsemdarfullu skepna, og bádir hafa rétt; þetta hvørttveggja hlýtur ad hafa verid hans tilgángur, þá hann skapadi heiminn. Ad Gud med heimsins sköpun, hafi haft þann tilgáng, ad auglýsa sína óendanlegu hátign, sína miklu og tilbeidsluverdu fullkomlegleika, þar á er enginn efi; öll náttúran talar þess vegna um hans óendanlegleika; sú minnsta skepna kunngjörir Skaparans almætti, vísdóm og gædsku. En þessi raust heyrist þó ecki, nema þar séu skynsemdarfullar skepnur, sem géta heyrt og skilid hana, þess vegna er orsök ad þenkja, ad engin sú veröld sé til, er ei hafi skynjandi innbyggjara, sem géta þeckt og dádst ad Skaparans hátign.

En hvada gagn hefir Gud af því, þó ad vér vidurkénnum og dáumst ad hans hátign? vegna vorrar undrunar og tilbeidslu gétur hann ei ordid ædri, sælli edur fullkomnari, og hans sæla og fullkomlegleikar verda eckért minni, þó vér hvørki þeckjum né tilbidjum hann. Frá eilífd hefir hann verid eins sæll og eins óendanlegur, sem eptir þad hann skapadi heiminn til endurminníngar síns vísdóms og almættis. Skaparinn hefir þess vegna ecki tilbúid heiminn til ad efla sína egin farsæld, heldur til ad efla farsæld sinna skynsemdarfullu skepna, og hans óendanlega hátign, sem hann allstadar hefir

auglýst á skøpudum hlutum, er medál til ad ebla þennann tilgáng.

Þar vér erum skynsemdarfullar sképnur, þá gétum vér ecki fundid neina sanna og varanlega farsæld utan í sameiníngunni vid Gud, sem er þad ædsta góda. En ef vér egum ad leita vorrar farsældar í honum, þá verdum vér ad þeckja hann, og hans miklu og tilbeidsluverdu fullkomlegleika; því annars gétum vér ecki fengid neina laungun eptir honum og sameiníngunni vid hann. Því fleiri fullkomlegleika, sem vér af hugleidíng skapadra hluta verdum varir vid hjá Skaparanum, og því greinilegar, sem vér þeckjum þá, því stærri er vor undrun yfir honum, því innilegri er vor laungun eptir honum, því stærri er vor gledi yfir honum, því alvarlegri er vor bæn og vort þacklæti vid hann, því heitari vor kjærleiki til hans, því fúsari er vor hlýdni vid hann, og þess vegna er vor farsæld ad því leiti miklu stærri. Sá óendanlegi, sem ecki þarf med þess endanlega, hverki til þess ad verda fullkomnari edur sælli í nockurn máta, skapadi heiminn til þess, ad hann í honum gjæti opinberad sínum skynsemdarfullu sképnum sína óendanlegu hátign og sína tilbeidsluverdu fullkomlegleika; og hann vildi í náttúrunni auglýsa þeim sína óendanlegu hátign, til ad ebla þar med farsæld sinna skynsemdarfullu sképna.

---

Þared Gud hefir skapad alla hluti, þar gjörvallur heimurinn med ollum hans óteljandi innbyggjurum, er verk Guds almættis, vísdóms og gædsku, hvörsu skynjandi þánka ættu þá skapadir hlutir ad

uppvekja hjá oss um Guds óendanlegleika! í því tilliti var og heimurinn skapadur, ad hann skyldi uppvekja hjá oss þessa þánka um Guds hátign, og uppfylla vor hjörtu med lofi og pris og undrun. Þess vegna: kunngjöra himnarnir hans dýrd, og sú útþanda festíng hans handa-verk: já, ecki einúngis himnarnir, ecki einúngis sú útþanda festíng, heldur sérhvörr ormur, sérhvört skrid-qvikindi, sérhvört sandkorn, sérhvört ár í sólar-geislanum framsegja Skaparans óendanlegu hátign. Allir hlutir í þeirri óendanlegu sképnu-röd frá skrid-qvikindinu til höfud-engilsins, tala um Skaparans takmarkalausa almætti, hans óransakanlega vísdóm, og hans óþrjótandi gædsku. Vér þurfum ecki annad, enn ljúka upp vorum augum og eyrum til ad verda varir vid þessa Guds fullkomlegleika, allteins á því minnsta, sem hinu mesta. Þad er þess vegna vor skylda, sem skynsemdarfullra sképna, ad athuga þessa Guds fullkomlegleika, svo vér ætíd lærum betur og betur ad þeckja vorn Skapara, dádst ad honum og tilbidja hann. Ef vér forsómum þetta, ef vér erum dofnir, kaldir og tilfinníngarlausir, þá uppfyllum vér ecki þann tilgáng, fyrir hvörn Gud skapadi heiminn og setti oss í hann; vér lærum þá ecki ad þeckja hans dýrd, hans hátign, og hans óendanlegu fullkomlegleika; vér sviptum þar med sjálfa oss þeirri farsæld, sem þessi þecking eptir sig leidir.

Þess vegna, ef Guds tilgángur skal uppfyllast, sem hann hefir med sín handaverk, ef vér skulum þeckja Guds hátign, ef þessi þecking skal gjöra oss farsæla, þá verdum vér ad athuga hans stóru dásemdir, lesa ydugleg náttúrunnar bók, sem ligg-

ur opin bædi fyrir heidinna og kristinna manna augum, og, svo sem vér sjáum, ad allar sképnur, bædi daudar og lifandi verda ad þéna hans nafni til dýrdar, þá ber oss ad minnast þess, ad vér, sem erum skynsemdarfullar sképnur, egum miklu framar ad efla þennann tilgáng, med því ad ljá sjálfa oss, alla vora krapta og fullkomlegleika honum til þjónustu; og med því hinu sama, ad vér leitumst vid ad efla hans dýrd, eflum vér undir eins vora egin farsæld.

## 14. Kapítuli.

### Um Forsjónina.

Ad Gud, sem hefir skapad alla hluti, vidhaldi einninn og stjórni øllum skøpudum hlutum til framqvæmdar sínum vísdómsfulla tilgáng, þad kénnir skynsemin, og þad stadfestir Ritníngin. Sú imindun, sem vér gjørum oss um Guds forsjón, innibindur eginlega þetta tvennt: þad fyrsta: Gud vidheldur veru og krøptum allra skapadra hluta; þad sídara: Gud stjórnar krøptum allra skapadra hluta þannig, ad þeir framqvæma hans góda og vísdómsfulla tilgáng.

Ad sú sama óendanlega vera, sem framleiddi alla hluti af engu efni, vidhaldi einnig þeim sømu, þeirra vern og krøptum, svo ad þeir standast og verda ecki aptur ad engu, þad er Ritníngarinnar lærdómur: hann ber alla hluti med sínu krøptugu ordi segir Páll, Ebr. 1. og þad sama kénnir Daníd: þegar þú géfur þeim: þá samansafna þeir: þegar þú upplýkur þinni hendi, þá verda þeir med gódu saddir; hylur þú þitt andlit, þá skélfast þeir;

burttekur þú þeirra andardrátt, þá fyrirfarast þeir, og verda aptur ad dupti; útsendir þú þinn Anda, þá skapast þeir, og þú endurnýjar ásýnd jardarinnar, Ps. 104. Án þessa Skaparans vidhaldandi kraptar væri oss þad óskiljanlegt, hvørninn heimurinn hefdi gétad stadist í svo mørg hundrud ár, án þess ad aflagast edur gánga úr skordum; tíminn sýnist ad missa rétt sinn og ena eydileggjandi makt. Enn þá snýst jardar-hnøtturinn á sama tíma í kríngum sinn ás; enn þá er jørdin eins frjófsøm; enn þá rennur sólin upp med sømu fegurd; enn þá aflýkur hún sínu árlega hlaupi med sama slýtir. Hvørninn gétum vér útskírt þetta, ef vér ecki játum, ad Skaparinn, sem í øndverdu skapadi alla hluti med sínu krøptuga almættis ordi, enn þá vidhaldi þeim med því sama almættis ordi. Gud vildi, og heimurinn vard til; hann vill, og hann heldur áfram ad vera til.

En af þessum sannleika, ad Gud vidheldur veru og krøptum allra skapadra hluta, megum vér ecki draga þá álygtun, sem mótstædileg er hans heilagleika. Gud vidheldur ad sønnu krøptum allra skapadra hluta, hann vidheldur ogsvo mannanna, einninn vondra manna kroptum, en þess vegna er hann samt ecki orsøk til þess, ad menninir misbrúka þeirra krapta til hins vonda, sjálfum sér og ødrum til skada. Þó ad Gud vidhaldi þeirra krøptum, þá áqvardar hann þó ecki þeirra brúkun, heldur stendur manneskjunum í sjálfs valdi, hvørt þær vilja brúka þá til góds edur ílls; hann er þess vegna ecki orsøk í þeirra syndum. Menn kunna ad segja: Gud fyrirsjer, hvørt manneskjan muni brúka henn-

ar krapta vel edur illa; þegar hann nú vidheldur þeim á því sama augnabliki, sem hún misbrúkar þá til hins illa, er hann þá ecki orsøk til þess vonda, sem hún gjørir? mun sá vera sýknsaka, sem ecki tekur daudans verkfæri af vitsiola manni, ef hann getur, med hvørjum hann vill farga siálfum sér eda ødrum? þetta er framar skarplega sagt enn á grundvelli byggt. Sá, sem ecki hindrar annann frá ad gjøra íllt, er þó ecki ætíd skuld í því illa, sem hann gjørir; þad er ecki nóg, þó hann géti hindrad hann, hann verdur líka ad hafa rétt til ad gjøra þad, og þó hann hafi rétt til ad æfa þetta, þá géta samt verid markverdari orsakir til ad vidhalda hans krøptum, heldur enn ad svipta hann þeim. Gud gjæti ad vísu svipt þá vondu þeirra krøptum til ad gjøra íllt, hann hefir ogsvo rétt til þess; en hér géta verid merkilegri orsakir til ad vidhalda þeim. Eg vil segja þetta: ad Gud svipti manneskjuna hennar krøptum á því sama augnabliki, sem hún ætladi ad misbrúka þá, þá væri þessi manneskja eins vond eptir sem ádur. Jeróbóam betradist ecki vid þad, þó Gud léti høndina á honum visna upp, þegar hann rétti hana út á móti Spámanninum. Ásetníngurinn var eins vondur, þó kraptana vantadi til ad framqvæma hann. Ef ad Gud svipti manneskjurnar sínum vidhaldandi krapti í hvørt sinn, sem þær ætludu ad misbrúka þeirra krapta, hvørsu mørg krapta-verk hlytu þá á hvørju augnabliki ad brjóta yfir um þvert náttúrunnar reglulega gáng! þegar mordínginn upplypti sinni hendi til ad deyda sinn náúnga, þá ætti Gud strax ad svipta hann kroptunum; þegar nockurr lyki upp munninum til ad bak-

tala náúngann, þá ætti Guð strax að taka frá honum málið; þegar nockurr misbrúkaði sín skilníngarvit, þá ætti Guð að slá hans augu með blindni, og aptulykja hans eyru. Það er með øðrum orðum: Guð hlyti á hvørju augnabliki að gjøra kraptaverk til að koma í veg fyrir það, að manneskjurnar ecki skyldu misbrúka þeirra krapta; eckért væri þá framar náttúrlegt, heldur allt yfirnáttúrlegt. Allir sjá, hvørsu lítið þessi stjórnunar-máti, gétur staðist með Guðs vísdómi. Að sönnu gétur heiløg Ritníng þess, að Guð hafi stundum með yfirnáttúrlegum hætti tekið frá manneskjunum þeirra krapta, til að fyrirbyggja það vonda, sem þær vildu misbrúka þá til; hvørt þvílíkt géti ecki einninn skéð stundum á vorum tímum, er nockuð, hvørju menn ecki með fullkominni vissu géta hvørki játað eður neitað. Svo mikið géta menn einúngis sagt með vissu, að þegar þvílíkt skéður, þá hlýtur Guðs vísdómur að hafa viktugri orsakir til að svipta þá þeirra kroptum, heldur enn til að viðhalda þeim.

En svo sem Guð viðheldur veru og krøptum allra skapaðra hluta, svo stjórnar hann þeim og svo til að framqvæma sinn góða og vísdómsfulla tilgáng. Sé það óneitanlegt, og grundvallað á þeim þánka, sem vér gjørum oss um Skaparans óendanlega vísdóm, að allar sképnur, að engri undantekinni, hafa tilgáng, vegna hvørs þær eru til, þá er það allteins óneitanlegt, og grundvallað á þeim sama vísdómi, að sú sama vera, sem skapaði þá, og ályktaði, að þeir skyldu vera til, hlýtur einninn að stjórna þeim þannig, að sá tilgángur framqvæmist, hvørs vegna þær urðu til. Undir Guðs stjórnun hefir

þess vegna engin hending stad edur nein blind forlög, því allir hlutir standa undir stjórnun þeirrar veru, sem tilbjó þá; og þessi stjórnun hlýtur ad vera því sérdeilislegri, sem sképnurnar eru eptir þeirra náttúru ædri og viktugri. Þannig verdur ad vera sérlegri stjórnan yfir dýrunum, heldur enn grösunum; yfir manneskjunum heldur enn dýrunum, og yfir dygdugum og heilögum manneskjum, heldur enn yfir glæpafullum og vanheilögum, þess vegna segir Ritníngin: augu Drottins líta til þeirra réttlátu, og hans eyru til þeirra bæna, 1 Pét. 3. En til ad tala um þennann part gudlegrar forsjónar enn greinilegar, vil eg skipta sképnunum í tvo hópa, nefnilega: þær, sem gjæddar eru med skynsemi og frjálsrædi og þær, sem eru skynlausar, hvörjar sídari eru annadhvört lifandi eda daudar.

Ad sú ædsta vera stjórni athöfnum sinna skynsemdarfullu og skynlausu sképna, þar um er enginn efi; en, svo sem vísdómurinn útheimtir, ad med hvörja sképnu sé farid eptir hennar náttúru, svo stjórnar Gud ogsvo kröptum og athöfnum þeirra skynsemdarfullu sképna med ödrum hætti, heldur enn hinna skynlausu. Þessar sídari leidast af náttúrudrift til þess takmarks, sem þær eru tilætladar; kraptar og athafnir hinna fyrri gagnstætt stjórnast af sterkum og kröptugum röksemdum, er skynsemin skilur. En þær skynsemdarfullu sképnur halda þó ætíd þeirra frelsi, þær géta fallist á og fylgt þessum röksemdum, og þær géta líka breytt þvert á móti þeim; ad svipta þær þessu frelsi, væri ad burttaka allann mismun á milli dygda og lasta, þad væri ad gjöra bædi straff og endurgjald ómögulegt.

En sú ædsta vera gétur látid sínar skynsemdarfullu skepnur halda þeirra frelsi, og þó stýrt þeirra athöfnum í þá átt, sem hann hefir tilætlad. Eginlega ad tala: hefir manneskjan ecki meira frelsi enn þad, ad hún sjálf gétur áformad sínar athafnir; en ad framqvæma sitt áform, stendur ecki í hennar valdi, eins og reynslan sýnir. Vér tøkum fyrir oss hundrad áform, hvar af varla tíu framqvæmast; vér stefnum á eitt takmark, og lendum optast vid annad, sem er røksemd til þess, ad Gud stjórnar vorum kroptum og vorum athøfnum ecki eptir vorum, heldur sínum egin tilgángi. Stundum hindrast mannanna ályktanir, þegar á ad framqvæma þær, vegna þess, ad þær ecki koma saman vid hans ályktanir, vidlíka og Abimeleks, um hvørn skrifad stendur: eg hefi hindrad þig frá ad syndga á móti mér, 1 Mós. b. 20. Stundum hindrast þær ecki, líka og einninn þótt þær séu vondar, vegna þess, ad Gud med þeim gétur eblt sinn gódann og vísdómsfullann tilgáng, þær fá þess vegna øll ønnur afdrif, heldur enn þad, sem manneskjurnar ætludu til; þannig snéri Gud íllmennsku Jósephs brædra vid hann, þeim sjálfum og heilu landi til frelsis, 1 Mós. b. 50. Eckért skédur þad í heiminum, jafnvel ecki hid allraminnsta, utan eptir stjórnun þeirrar ædstu veru. Þó Gud ecki ætíd hafi ályktad, ad eitt edur annad skuli ské (því hid vonda gétur ecki verid ályktad af þeim heilaga), þá leyfir hann þó stundum, ad þad verdi, og, ad hann leyfir þad, þar hann gjæti hindrad þad, þá er þad røksemd uppá, ad þad þénar allt eins vel til ad ebla hans góda og vísdómsfulla tilgáng, sem þær bestu og dygdugustu athafnir.

Kraptar þeirra skynlausu og dauðu sképna og brúkun þeirra krapta, standa ogsvo undir stjórnun þeirrar æðstu veru. En þeirra kraptar stjórnast sumpart af náttúrlegum tilhnegíngum, sumpart af ómótstæðilegum náttúrulögum. Skaparinn hefir innplantað þeim þessa tilhnegíngu og fyrirskrifað þeim þess lög; hann viðheldur og hvorutveggju. Öll náttúran er samanhángandi kédja af orsökum og verkunum. Það nálæga er verkun þess umliðna og aptur orsök þess ókomna. Í heimsins fyrstu bygging gjörði Skaparinn mindunina, eptir hvörri allt skyldi tilgánga, og stjórnunin viðhéldst af þeim sama krapti, sem mindaði hana, vegna þess skédur eckért í þeim skynlausa og líflausa heimi, annað enn hvað Skaparinn strax í öndverðu hafði ályktað að ské skyldi.

En þó að Skaparinn hafi í fyrstu þannig tilbúið náttúrunnar hlaup, eins og það átti að vera framvegis; þó að allar náttúrunnar umbreytíngar séu þannig samanhleckjaðar, að þær nærverandi hángi af þeim undangéngnu, og þær eptirkomandi hángi af þeim nærverandi, þá fylgir ecki þar af, að Skaparinn kunni ecki stundum að raska þessum hleck, þegar hans vísdómsfulli tilgángur útheimtir það, og gjöra þvílíkar umbreytíngar í náttúrunni, sem annaðhvört öldúngis ecki géta skéð af náttúrunnar eigin kröptum, eður í það minnsta géta ecki skéð af hennar kröptum á þeim tíma, sem þær ské. Þvílík verk kallast kraptaverk. Heilög Ritníng sýnir, að þau hafa skéð til forna, og með engri rökkfemd kunna menn að neita, að þau géti skéð enn nú. Það sýnist að sönnu, að heimurinn væri því full-

kommari sem Guð minna viðþyrfti þvílíkra meðalslausra verkana til að ná sínum vísdómsfulla tilgángi. En kunnum vér að vita, hvörsu nauðsynleg þau eru? og séu þau nauðsynleg, þá stríðir það ekki á móti Guðs tilgángi að gjöra þau. Hvað vitum vér, hvört Guð í þvílíkum heimi, hvar skynsemdarfullar og frjálsar verur búa, hvörjar ekki stjórnast af einúngis náttúrlegri tilhneigíngu eður ómótstæðilegum náttúru-lögum? hvað vitum vér, hvört Skaparinn í þvílíkum heimi næði sínum tilgángi með það heila, og sérhvörn part af því heila, ef hann ekki þess á milli umbreytti náttúrunnar reglulega gángi? þetta vitum vér ekki; að vilja segja, að yfir-náttúrlegar verkanir framfari, enn þá í heiminum, og að segja þær géti ekki skéð, er hvörttveggja eins ofdyrfskufullt. Vér þeckjum ekki svo náqvæmlega náttúrunnar krapta, vér sjáum ekki alltíð svo greinilega þær undangángandi orsakir, að vér við sérhvörn atburð gétum sagt til vissu: hér hefir Guð verkað fyrir meðal, en þar án meðals. Þó vér ekki ætíð sjáum orsökina til einnrar eður annarar umbreytíngar í náttúrunni, þá gétur hún samt komið af náttúrlegri orsök, og þó vér þykjumst grilla til náttúrlegrar orsakar, þá kann hún samt að vera yfirnáttúrleg.

Vér höfum nú hugleidt þá ýmislegu parta Guðs forsjónar. En áður enn eg skilst við þessar hugleiðíngar, vil eg svara uppá tvö eptirfylgjandi spursmál. Það fyrra er þetta: nær þessi forsjón til allra hluta, svo vel þeirra minnstu og lítilmótlegustu, sem þeirra stærstu og markverðustu? það síðara er þetta: nær þessi forsjón eins vel til ein-

stakra skepna edur til hvørrar skepnu útaf fyrir sig, sem til þeirra tegunda og kynqvísla? svo merkileg, sem þessi spursmál eru, svo audveldt er ad svara uppá þau.

Hvad því fyrra spursmáli vidvíkur, nefnilega: hvört Guds forsjón nái til allra hluta, svo vel þeirra minnstu og lítilmótlegustu, sem þeirra stærstu og markverdustu? þá svara bædi skynsemin og Ritníngin já til þessa spursmáls. Þær audvirdileguslu skepnur allt eins vel, sem hinar ædstu, þeir minnstu atburdir allt eins vel, sem hinir viktugustu, hljóta ad standa undir stjórnun og forsjón þeirrar ædstu veru. Þær skepnur, sem vér álítum smáar og audvirdilegar, eru þad einúngis í tilliti til vor, er støndum á hærri treppu í skepnu rödinni; en þær eru þad ecki í sjálfum sér. Vér hugsum ad sønnu, ad þad sé eckért nidurdrep fyrir þá ædstu veru, ad skipta sér af oss, sem erum svo miklu verdugri og ypparlegri ødrum skepnum; en þad sé of lítilfjørlegt fyrir hana ad skipta sér af orminum, maurnum og mýflugunni, sem eru svo lángt fyrir nedan oss. En ef englarnir og høfud-englarnir, og þær verur, sem eru enn þá ædri enn þessar, á milli hvørra og vor bilid er allt eins stórt, sem á milli vor og mýflugunnar, ef ad þessar verur, sem eru svo lángt fyrir ofan oss, vildu álykta eins, ad Guds forsjón kynni ad vísu ad vaka yfir þeim, en ecki yfir oss, sem erum svo lángtum óædri enn þær, hvørninn mundi oss líka sú ályktan? mundum vér ecki hafa þad frammá, ad þó vér séum audvirdilegri enn þær, þá séum vér samt skepnur hins sama Skapara, sem þær, ad hans forsjón hljóti allt eins vel ad vaka

yfir oss, sem þeim, og þar honum hafi ecki þókt oflítilmótlegt ad skapa oss, þá sé ei heldur oflítilmótlegt fyrir hann ad bera umhyggju fyrir oss. En eins og vér álycktum hér um sjálfa oss, eins ættum vér og ad álycta um þær sképnur, sem eru minniháttar enn vér. Ad þær minnstu sképnur, svo vel sem þær stærstu, séu verk Guds almættis, vísdómd og gædsku, þar á er engin efi, ad þær minnstu og audvirdilegustu sképnur, þar þær eru framleiddar af vísdómsfullum Skapara, séu allt eins viktugar og naudsynlegar í náttúrunni, sem hinar stærstu og vegleguftu, og ad þess vegna þad minnsta skridqvikindi sé ecki forgéfins skapad, er allt eins óneitanlegt. Alyktanin verdur þá þessi, ad sú sama forsjón, sem vakir yfir þeim stærstu og veglegustu, hljóti einninn ad stjórna þeim minnstu og audvirdilegustu sképnum til þess takmarks, sem hann hefir þær tilætlad. Þar honum þókti ei oflítilmótlegt ad skapa þær, þá kann honum ei heldur ad þykja þad oflítilmótlegt ad bera umhyggju fyrir þeim. Og þetta sama kénnir og svo Ritníngin. Hvørsu lángt eru himinsins fuglar fyrir nedan manneskjuna, og grasid á jørdunni, hvørsu miklu er þad aptur ódra heldur enn fuglarnir, en þó ber Gud umhyggju fyrir því hvørutveggja. Hyggid ad fuglum himinsins, þeir ed hvørki sá né uppskéra, og eigi safna þeir í kornhlødur, og ydar himneskur Fadir fædir þá þó. Hyggid ad akursins lilju-grøsum, hvørninn þau vaxa, þau vinna ecki né spinna; og eg segi ydur ad Salómon í allri sinni dýrd var ecki svo skrýddur, sem eitt af þeim. Nú ef Gud skrýdir svo grasid á akri, þad í dag stendur, og á morg-

un verdur í ofn kastad, skyldi hann ei þad sama vid ydur gjöra? 6 Þér lítiltrúadir, Matth. 6. Og í ødrum stad segir hann: kaupast ecki tveir Titlíngar fyrir einn pening? Þó fellur ecki einn af þeim á jørdu án ydar Fødurs vilja, Matth. 10.

Já, eins og Guds forsjón nær til hinna minnstu og audvirdilegustu sképna, svo nær hún einninn til hinna minnstu og lítilvægustu tilfella, sem til hinna stærstu og markverdustu atburda. Menn eru vanir ad álíta þau tilfelli, smá og lítilvæg, sem vér ecki sjáum hvad eptir sig leida, og af því vér ecki sjáum þeirra afleidíngar, þá hugsum vér, ad þau hafi engar, og ef þau leida eckért eptir sig, þá álýktum vér strax ad Guds forsjón skipti sér eckért af þeim. En upplýst skynsemi, sem med athygli gjætir ad hlutanna gángi og þeirra samanhengi, álítur eckért í heiminum fyrir lítilvæga smá-muni. Allir hlutir í náttúrunni eru samanhleckjadir hverr vid annann; sérhvert tilfelli, einninn þad minnsta, hefir orsøk, og eins og þad hefir orsøk, svo hefir þad líka verkanir, hverjar aptur verda orsakir til nýrra afleidínga, og þannig gengur þad sífeldlega hvad eptir annad, svo ad þau tilfelli, sem í fyrstunni vóru varla merkjanleg, draga um sídir eptir sig hinar markverdustu afleidíngar, vidlíka og snjó-kockurinn, er verdur því stærri, sem honum er lengra velt. Þess vegna, ef Guds forsjón stjórnar þeim stærri og viktugri atburdum, þá hlýtur hún einninn ad stjórna þeim minni, og fyrir vorum augum lítilvægu tilfellum, þar þau minni leida hin stærri eptir sig. Ritníngin segir þess vegna ecki ofmikid, þegar hún kénnir oss: ad enginn titlíngur falli á jørdu án

Födurfins vilja; ad hlutföllum sé kastad í skaut, en þau falli eptir því, sem Drottinn vill; Orðsqv. b. 16.

Það annað spursmál, sem eg enn þá verð að svara uppá, er þetta: nær Guðs forsjón eins vel til einstakra skepna, og sérhvörrar skepnu útaf fyrir sig, sem til þeirra tegunda og kynqvísla? meiníng spursmálsins er þessi: nær Guðs forsjón máské einúngis til mannkynsins yfir höfuð, til dýra- og grasa-kynsins yfir höfuð, ellegar til hvörrar manneskju, hvörs dýrs, hvörs grass sérílagi? að vilja neita því síðara, þykir mér eins fráleitt, og ef einhvörr segði: Guð viðheldur að sönnu öllu sjáfarhafinu yfir höfuð, en hann viðheldur ekki hvörjum dropa sérílagi. Allir skynsamir munu svara: að hafið samanstandi af dropum, og að Guð kunni ekki að viðhalda hafinu yfir höfuð, utan hann viðhaldi hvörjum dropa sérílagi. Það sama má segja um þetta. Skepnanna tegundir og kynqvíslir samanstanda af einstökum skepnum; ef að forsjónin ekki viðhéldi og stjórnaði hvörri einstakri skepnu, hvörninn gæti hún þá viðhaldið og stjórnað sérhvörri tegund og kynqvísl skepnanna? og ef hún skal stjórna og viðhalda sérhvörri tegund og kynqvísl skepnanna, þá hlýtur hún einnin að stjórna og viðhalda sérhvörri einstakri skepnu út af fyrir sig. Að stjórna því öllu án þess að stjórna hvörjum parti af því gjörvalla, mótsegir sjálfu sér.

En, til að svara uppá þetta spursmál, vil eg hugleiða þetta efni uppá annann máta. Þegar Guð skapaði heiminn, hlýtur hann að hafa innréttað og tilsett alla hluti þannig, eins og hann vildi,

ad þeir vera skyldu um aldur og æfi frá uppháfi til enda. Þessi sannleiki er allt eins óneitanlegur, sem það er óneitanlegt, að heimurinn er tilbúinn eptir hinum æðstu vísdóms reglum. Þegar heimurinn var grundvallaður, hefir þess vegna ecki verið ágvarðað einúngis hvað margar þær ýmislegu tegundir og kynqvíslir skepnanna vera skyldu, heldur ogsvo hvað margar einstakar skepnur skyldu framkoma í hvörri kynqvísl. Ef vér gjørum oss minnstu þánka um Guðs óendanlega vísdóm, þá hljórum vér að trúa, að í allri náttúrunni er ecki einni skepnu fleira edur færra, heldur enn eptir Skaparans tilgángi á að vera. *Allir hlutir hljóta að vera tilsettir með mælir, tølu og vigt,* Vísdómsb. 11. Sandkornin eru talin svo vel sem stjørnurnar; að þar er eitt sandkorn, eitt gras-strá, ein mýfluga, einn ormur fleira edur færra, stendur ecki á sama. En sé nú þetta óneitanlegt, að ecki eru fleiri skepnur til heldur enn eptir Skaparans tilgángi vera ega, þá hlýtur sérhvør einstøk skepna, sú smærsta, sem hin stærsta, að heyra til heimsins fullkomlegleika, þá hlýtur sérhvør einstøk skepna að hafa sinn tilgáng og sína ágvørdun í náttúrunni; og hvað fylgir þá þar af, annað enn þetta: að Gud, sem skapað hefir hvørja einstaka skepnu, hlýtur einninn að stjórna ecki einúngis skepnanna tegundum og kynqvíslum, heldur ogsvo hvørri einstakri skepnu út af fyrir sig; ecki einúngis því gjørvalla, heldur og svo hvørjum parti af því øllu, til að framqvæma það augnamið, er hann hefir ætlað.

Þessi lærdómur um forsjón þeirrar æðstu veru, sem vakir yfir mannesskjunum og stjórnar þeirra kjörum, á engannveginn að gjöra oss lata í vorum verkum og vorri kostgjæfni fyrir vorri tímanlegri farsæld. Ritníngin kénnir oss að sönnu, að Guð beri umhyggju fyrir oss og stjórni vorum forlögum, með hinum fullkomnasta vísdómi og gæðsku, en hún kénnir oss þar hjá, að vér egum að brúka vora krapta til að efla vora lucku, og vora forsjálni til að afvenda þeirri ólucku, sem vér gétum fyrirséð. Allstaðar heimtar hún ydjusamt líf af þeim kristnu. Postulinn Páll vill, að þeir skuli erfiða og vinna með höndunum það sem þarft er, svo þeir hafi af að leggja við þá, sem þurftugir eru. Kristur lofar sínum tilbiðjendum engri meðalslausri varðveitslu af Guði; hann vill, að þeir skuli brúka forsjálni: verið forsjálir, sem höggormar, og meinlausir, sem dúfur. Ritníngin leyfir oss enga leti, eckért ydjuleysi, heldur heimtar hún allstaðar ydjusemi, framsýni og árvekni af kristnum mönnum, svo sem þvílíka skilmála, án hvörra vort traust til Guðs forsjónar er á engum grundvelli byggt. Allstaðar samtengir hún mannanna krapta og þeirra skynsamlegu brúkun við Guðs forsjón.

Nei, lærdómurinn um Guðs forsjón, sem vakir yfir oss og stjórnar vorum kjörum, á ecki að gjöra oss dofna eður hirðulausa; heldur rósama, ánægða með það nærverandi, og óqvíðna fyrir því eptirkomandi. Hvörsu rósamur kann kristinn maður að vera! hann uppfyllir sínar skyldur, eptir því sem hans veiku kraptar tilláta, hans samvitska ásakar hann ecki; þó hann hrasi endrum og sinnum, þá hrasar

hann einúngis af fávitsku og bráðræði. Styrktur af vitnisburði góðrar samvitsku felur hann öll sín efni á hendur þeirri æðstu forsjón, sem ber umhyggju fyrir honum, reiðandi sig uppá hennar vísdóm og gæðsku. Þó allar Guðs bylgjur og stormvindar gángi yfir hann, þó hér brúsi eitt djúpið og þar annað, skélfist hann þó ecki. Hann hefir að vísu tilfinníngu sem manneskja, en hann örvæntir ecki; styðjandi sig við trúarinnar akkéri, felur hann sitt litla skip í vald þeirrar öllu stjórnandi forsjónar; hann sjer að sönnu að á það géfur, en hann veit að það ecki gétur sockið. Hughraustur rennir hann með tilhlöckun sínum hugskots augum til eilífðarinnar, hvar hans von mun uppfyllast, og þó allur heimurinn liði undir lok, örvæntir hann þó ecki, þar hann veit, að sú æðsta vera, sem ber umhyggju fyrir honum, er máttug að frelsa hann af hans bruni.

Þar eð sú æðsta vera stjórnar vorum kjörum oss til farsældar, hvörsu auðveldt ætti sann-kristnum manni að vera það að hlýða þessari Jesú skipun: verið ecki hugsjúkir fyrir yðar lífi, hvað þér skuluð eta og hvað þér skuluð drecka; verið ecki hugsjúkir fyrir yðar líkama, hvörju þér skuluð klæðast; hvörr er sá á meðal yðar, sem með sinni áhyggju géti aukið einni alin við lengd sína? þér skuluð ecki hugsjúkir vera, og svo segja: hvað egum vér að eta, hvað egum vér að drecka, og með hvörju egum vér að klæðast? eptir öllu svoddan leita heiðnar þjóðir; því yðar himneskur Faðir veit, að þér þurfið alls þessa við. Verið ecki hugsjúkir fyrir morgundeginum, því morgundagurinn

mun fyrir sínum eginlegum hlutum umhyggju bera. Það nægir, að hvørr dagur hafi sína egin þjáníngu. Vor hugsýki er ósæmileg; því þar með líkjumst vér Heidíngjum; vér látum þar með í ljósi, að vér ekki høfum betri þekkíngu á Guðs almennilegu og sérdeilislegu forsjón, heldur enn þeir. Vor hugsýki er óþorf; því vér gétum ekki með henni aukið einni alin við lengd vora. Guðs fyrirhugað ráð hlýtur að uppfyllast á oss, hvørt sem vér setjum oss þarámóti eður ekki. Vor hugsýki er ónauðsynleg; því sú sama vera, sem ber umhyggju fyrir fuglum loptsins og grasinu á jørðunni, ber einninn umhyggju fyrir oss, og enn nú framar hlýtur hún að bera umhyggju fyrir sínum skyn-semdarfullu og lángtum ædri sképnum.

Hvørsu lángtum lukkulegri værum vér, ef vér gjætum hlýdt þessari heiløgu áminníngu: verið ekki hugsjúkir. Enginn er sá, er ekki njóti nockrar lukku í heiminum, og enginn, er ekki hafi sitt mótlæti og andstreymi. Og hvør er orsøkin, að svo fáum finnst til sinnar lukku? það er vor ofmikla hugsýki og qvíði fyrir því ókomna; þau blanda óánægju saman við vora lukku, og vér þykjumst ekki hafa neina lukku til að bera, af því vér ekki høfum þá, sem vér æskjum oss. Oss finnst eckért til þess nálæga, af því hugskotið er fullt af því ókomna; þess vegna erum vér ætíð svo ófarsælir. Sú sama farsæld kann ekki að finnast utan við oss, heldur hljótum vér að leita hennar innvortis hjá oss, í því hugarfari, sem oldúngis géfur sig á vald alvísri stjórnun hins gæðskuríka Guðs, sjer ekki eptir því umliðna, er ánægt með

þad nálæga og qvídir ecki því ókomna. Ef vér viljum nockurntíma ødlast þeſsa ſálarinnar róſemi, ſem hvørki kórónur né kóngdómar, og ecki gjørvallur heimurinn er megnugur um ad veita oſs, þá hljótum vér ad gjøra oſs ſvo ſkíra og lifandi þánka ſem møgulegt er, um Guds forſjón, hvørs auga vakir yfir oſs, hvørs hønd leidir oſs, hvørs armleggur verndar oſs. Því réttari, því grundadri og greinilegri vorir þánkar erú um hana, þeſs róſamari og þeſs farſælli erum vér.

## 15. Kapítuli.

### Um Englana.

Vér høfum nú hugleidt Guds óendanlegu fullkomlegleika; vér høfum hugleidt hann, ſem Skapara og Stjórnara heimſins. Vér ſnúum oſs nú til hans ſkynſemdarfullu ſképna. En ádur enn vér tøkum fyrir oſs manneſkjuna, viljum vér fyrſt, med leidſøgn Ritníngarinnar, renna augum vorum inní þann óſýnilega heim. Frá þeim allra fyrſtu tímum hafa manneſkjurnar, einninn þær, ſem ecki høfdu Guds opinberada ord, eins og vér, trúad því, ad manneſkjurnar væru ecki hinar ædſtu af Guds ſképnum, heldur væru til adrar fullkomnari verur, er væru óſýnilegar og útbúnar med ſtærri eginlegleikum heldur enn manneſkjan. Til viſsu géta menn ecki ſagt, hvadan þeſsi þánki hefir haft ſinn uppruna, hvørt frá Guds fólki, ſem hafdi ſérdeilislega gudlega opinberun, edur af ſjónum og vitrunum. Því ecki verdur því neitad, ad þeſsar verur hafa vitraſt

manneskjunum bædi á fyrri tímum, og vitrast enn þá á vorum tímum, utan menn vilji øldúngis tortryggja sannleika allra frásagna. Að vísu játa eg, að af hundrað frásøgum, eru 99 skrøksøgur, annaðhvørt uppdyktaðar af ásetníngi, ellegar eintómur hugarburður; en að ein af hundraði kunni að vera sønn, því géta menn ecki neitað, sérílagi, þegar fleiri verða samsaga, að þeir hafi sjeð sama, sjeð það á sama tíma, og uppá sama máta, og þeßi vitni eru trúverdug. Því það er óskiljanlegt, að fleiri enn einn skuli á sama tíma sjá það sama og heyra það sama, án þeß að sjá edur heyra neitt. Ef ímindunar-krapturinn gjæti uppá þann máta dregið oß á tálar, þá mundu flestir þeir hlutir verða óvißir, sem vér nú með fullkomnustu vißu byggjum uppá.

En þó manneskjurnar hefðu ecki fallið uppá þennann þánka af sjónum og vitrunum, þá hefði jafnvel sjálf skynsemin, og hugleidíng þeß sýnilega heims, gétað leidt þær á þánkann um þann ósýnilega. Ef vér rennum augum vorum yfir Guðs handa-verk með nockru athygli, þá finnum vér vísdómsfullann og aðdáanlegann mismun á øllum skepnum. Hvørsu margbreyttar og óteljandi eru þær fullkomlegleikans trøppur, um hvørjar skepnurnar hefja sig frá arinu í sólargeislanum og sandkorninu til hinnar skynsemdarfullu manneskju! nockrar skepnur hafa hvørki líf, tilfinníngu, vert né frjálslega hræríngu; þær verða smámsaman fullkomnari, þángað til komið er að takmørkum þeirra sképna, sem eru án lífs, tilfinníngar og hræríngar, en vara eins og dýrin, en kunna þó ecki að reiknast meðal dýranna.

Þadan uppstíga þær tröppugáng í fullkomlegleikanum, þar til þær koma að takmörkum þeirra sképna, sem eru gæddar með lífi og tilfinníngu. Hér taka dýrin við, sem vaxa, hræra sig sjálfkrafa, og hafa líklega þenkjandi sálu, hvör eð svo vel í tilliti til tölu skilníngarvitanna, sem í tilliti til fullkomlegleikans í þeirra byggíngar-hætti uppstíga smámsaman til manneskjunnar, sem auk annara dýranna fullkomlegleika hefir sál, sem gædd er með skynsemi og frívilja. Hvörsu óendanlegur stígi af fullkomlegleikum frá sandkorninu til skélfiskjarins, frá skélfiskinum, sem er hálfur steinn og hálfur planta, ígégnum allt grasa-ríkið til Polýpans*) frá Polýpanum, sem er hálfur planta og hálfur dýr, til Apans, sem er náskyldastur mannkyninu. Þegar vér nú hugleiðum þennann Skaparans margfalda vísdóm á sképnunum, þennann marg-rimaða stiga af fullkomlegleikum, sem með öðrum endanum stendur á steininum, en með hinum nær upp til manneskjunnar, þegar vér hugleiðum þetta, segi eg, hvörninn gétum vér þá fengið oss til að trúa því, að Guðs verk endist á manneskjunni? svo ætti þá Skaparans almætti, vísdómur og gæðska að hafa út-tæmt sig hér og ecki gétað skapað annað æðra? mun ecki sú skynsemi, sem nockuð hefir vanið sig á, að dáðst að Guðs óendanlegu hátign, er lætur sig í ljósi á öllum sképnum, miklu framar mega leiða sér í hug, að flockur hinna skynsemdarfullu sképna ecki endist, heldur hið fyrsta byrjist á manneskjunum. Hún álítur

*) Polýpur kallast annars á vora túngu Margfætlur, sjá þann guðlega þenkjandi Náttúru-Skoðara, P. 46. 14. Skír. gr.

manneskjurnar á þeirri neðstu trøppu í stiga hinna skynsemdarfullu sképna, og gjørir þá grunðuðu ályktun, að þessi stigi skynsemdarfullra sképna endist ekki þar, sem hann byrjast, eins og dýranna stigi, sem byrjast á Polýpunum, endast ekki á þeim. Skynsemin ályktar, að vér séum einúngis skynsamir Polýpar, eður meðal-verur milli dýra-ríkisins og anda-ríkisins, hálfir dýr og hálfir andi. Stærstu líkindi þykja þess vegna skynseminni til þess, að røð andanna uppstígi frá oss ígégnum margfaldar fullkomlegleika trøppur til annara æðri sképna, sem eru svo miklu ypparlegri enn vér, sem vér erum ypparlegri enn dýrin, og dýrin aptur ypparlegri enn grøsin.

Þessa gétur skynsemin til, og þessa heunar tilgátu staðsestir Ritníngin. Allstaðar talar hún um þessar verur undir engla, eður sendiboða nafni, og kallar þá líklega þannig, annaðhvørt vegna þess, að þeir, sem sendibodar, útsendast af Guði, til að framqvæma hans vilja í heimsins almennilegú stjórnun, eður og hins, að feðurnir lærðu fyrst að þekkja þeirra tilveru þar af, að þeir birtust þeim, þegar þeir vóru af Guði sendir til þeirra, til að kunngjøra þeim hans vilja. Ritníngin segir um þessar verur, að þær hafi birtst Abraham, Loth, Davíð, Elías, Daniel, Jóseph, Kristi móður og Postulunum; einninn vitnar hún, að þeir hafi verið nálægir við Kristi fæðíngu, hans freistíng á eyðimørkinni, hans pínu, hans upprisu, hans himnaför, og muni einninn vera nálægir síðarmeir, þá hann kémur til að dæma heiminn á síðasta degi.

Eg álít ónauðsynlegt að framfæra allar þær

Ritníngar greinir, sem tala um þessar verur, og það svo greinilega, að menn ecki géta neitað, að þetta sé Ritníngarinnar lærdómur. Kristur segir útþryckilega: að englar íngbarnanna sjái alltið Guðs auglit, Matth. 18. Hann kénnir: að dómsdagur sé hulinn, ecki einúngis mönnunum, heldur ogsvo englunum, Matth. 24. Hann segir: að ef hann bæði sinn Föður, mundi hann senda sér meir enn tólf Legiónir af englum, Matth. 26. Hann segir: að englarnir gleðji sig yfir einum syndugum, sem yðrun gjörir, Lúc. 15. Lærdómurinn um englana, er þess vegna útþryckilega kénndur og staðfestur af Jesú Kristó.

Þar skynsemin sjer sína tilgátu á grundvelli byggða, að þessar verur eru til, þá efast hún ecki um, að þessar verur hljóti ecki einúngis að hafa skynsemi og frívilja til að bera, eins og vér, heldur ogsvo lángtum hærri og æðri fullkomlegleika heldur enn vér, þar þær tilheyra þeirri frá oss uppstigandi sképnu-röð. Ritníngin vitnar það sama. Hún segir: að englarnir sjái alltíð auglit þess himneska Föðurs, Matth. 18. Þeir njóta þess vegna meðalslausrar og stærri verkunar Guðs náðar heldur enn vér, og hljóta því að hafa stærri hæfilegleika heldur enn vér, til að taka á móti Guðs náð; því um enga manneskju segist eður kann að segjast, að hún sjái Guðs auglit; og eg hefi áður sýnt, að sérhvör sképna nýtur meir eður minna Guðs náðar, eptir því, sem hún hefir meiri eður minni náttúrlegann eður siðferðislegann hæfilegleika til að taka á móti henni. Ritníngin kallar þá einninn Anda, Ebr. 1, en segir oss ecki, hvört þeir hafi

nockurn smá=gjørfann andlegann líkama, edur ei; ofs rídur og á engu ad vita þetta, Ritníngin tilleggur þeim ogsvo: skilníng, vilja og krapt; 2 Sam. 14. 1 Pét. 1. 2 Tess. 1, sem ad eru verulegir eginlegleikar, er útheimtast hjá sérhvørjum anda, hvørjir eginlegleikar hljóta hjá englunum ad vera miklu ædri enn hjá manneskjunum, þar þeir eru svo miklu ofar í sképnu rødinni heldur enn þær.

Ad þessar verur, eins og allar adrar Guds sképnur hljóti ad hafa þeirra tilgáng og áqvørdun í náttúrunni, þad segir skynsemin; því ad skapa eina einustu veru án tilgángs, strídir á móti þeim óendanlega vísdómi, sem vér tilbidjum í þeirri ædstu veru. Ritníngin kénnir ofs líka allvída, ad þeir brúkist í heimsins stjórnun til ad framqvæma Skaparans álygtanir: Davíd segir: ad þér útrétti hans erindi, og heyri raustina hans orda, Ps. 103.

Ad þessar verur hafi komid øldúngis hreinar og heilagar, frá Guds hendi, þar um er skynsemin sannfærd, en ad þær ogsvo, vegna þess þær hafa frjálsann vilja og takmarkadann skilníng, kunni ad álíta þad gott, sem er vondt, og þad vondt, sem er gott, ad þær kunni ad skeika í þeirra dómi um þad sanna, þad rétta og þad góda; ad þær þess vegna med því ad fylgja raungum skilníngsins dómi kunni ad misbrúka þeirra frívilja og syndga á móti Skaparanum, þad álítur skynsemin møgulegt; því þó þessar verur séu miklu ædri enn manneskjurnar, þá eru þær þó ætíd endanlegar og bædi skilníngsins og viljans kraptar hafa hjá þeim vifs takmørk. En hvørt nockrar af þeim hafi ogsvo virkilega misbrúkad þeirra frívilja, og med þeirri misbrúkun syndgad,

þar um er skynsemin ófróð, það kennir oss Ritníngin einsömul; hún segir oss að vísu ecki greinilega, hvarí þeirra synd hafi verið innifalin, það væri þess vegna forgéfins að vilja hnýsast eptir því, og það er vel, að vér þurfum ei heldur að vita það; en allstaðar talar hún um góða og vonda engla, og segir um þá síðari: að þeir hafi syndgað, 2 Pét. 2. að þeir ecki hafi varðveitt þeirra verdugleika; að þeir hafi yfirgéfið þeirra bústað; Júd. Pist. v. 6. Að þeir góðu englar gjöri allt það gott, sem þeir megna; að þeir vondu englar þarámóti gjöra allt það íllt, sem þeir géta áorkað, og undir stjórnun þeirrar æðstu veru fá leyfi til að gjöra, það flýtur svo náttúrlega af þeim þánka, sem menn hljóta að gjöra sér um náttúru góðrar og vondrar veru, að skynsemin gétur ecki eitt augnablik efast þar um, þegar hún fyrst veit af Ritníngunni, að nockrir englar eru góðir, og aðrir vondir. Ritníngin staðfestir þetta, hún segir um hina fyrri: að þeir útrétti Guðs erindi, Ps. 103. Hún kallar þá þjónustusama anda, útsenda til þjónustu vegna þeirra, sem erfa skulu sáluhjálpina, Ebr. 1. Um hina síðari segir Páll Postuli: Guð þessarar veraldar hefir forblindað hugskot vantrúaðra, svo að þeir sjái eigi það klára Evangelii ljós Kristi ljóma, hvørað er Guðs rétta ímind, 2 Cor. 4. Kristur segir til Gyðínga: þér eruð af føðurnum fjanda og eptir girndum yðar føðurs viljið þér gjøra; hann var morðíngi þegar í upphafi, og stóð eigi í sannleikanum, þvíað sannleikur er eigi í honum; þá hann talar lýgi, talar hann af sínu egin; því hann er lygari, og lýginnar faðir, Jóh. 8.

Þennann lærdóm um englana egum vér ecki ad brúka til ad ala med vora hjátrú. Draugar og apturgaungür, álfar og huldu-fólk ega hér eckért skyldt vid. Þessi lærdómur á ecki heldur ad uppvekja hjá sann-kristnum manni neinn þræls ótta. Ecki verdur því neitad, ad af englunum, sem eru ædri og máttugri enn vér, géfast nockrir, sem eru vondir; en því verdur ecki heldur neitad, ad hinna vondu engla, allteins og hinna vondu manna afhafnir, standa undir Guds stjórnun, og ná ecki lengra, enn hann leyfir. Þessi lærdómur á miklu framar ad vera oss kröptug uppørfan til dygda og rádvandrar breytni.

Vér vonum allir eptir ad vér munum komást í samfélag hinna gódu engla sídar meir; en þessi vor von er ei á grundvelli byggd, nema vér hér á jördunni kappkostum ad verda líkir þessum fullkomnu øndum. Þær sálir, sem eru saurgadar áf drottnandi syndum, þegar þær skilja vid líkamánn, eru ecki hæfar ad inntakast í samfélagskap hinna hreinu og heilögu engla. Í þá himnesku Jerúsalem má eckért óhreint koma.

Sú líking, sem er á milli vorrar sálar og englanna, ætti ad upphvøta oss til ad líkjast þeim. Ad því leiti, sem vér erum skynsemdarfullar skepnur, erum vér skyldari englunum heldur enn dýrunum, og er tilætlad, ad vér verdum til fulls líkir hinum fyrri, þegar vér í daudanum høfum lagt af oss líkingu hinna sídari; ættum vér þá ad láta holdlegar girndir svo fyrir oss ráda, ad vér gjörum óss líka skynlausum skepnum, og ecki miklu heldur kappkosta ad láta skynsemina stjórna svo yfir vorum

skilníngarvitum, ad vér getum smámsaman vaxid í líkíngunni vid englana? ad sönnu er vor ódaudlega sál innsveypud í jardueskann líkama, sem gjörir hana dofna til þess góda; en þá er henni þannig varid, ad hún getur ordid bústadur hinna ædstu og fegurstu dygda. Ættum vér þá ecki ad haga voru framferdi þannig, ad englarnir þurfi ecki ad blygdast vid vort samfélag? ættum vér ecki strax hér á jördunni ad keppast eptir ad lifa engla-lífi; kappkosta ad vera hreinhjartadir eins og þeir; ad prýda vora skynsemi med þekkíngu og vísdómi, eins og þeir; ad framqvæma Guds vilja í öllum hlutum eins og þeir, og ad elska vora brædur, eins og englarnir elska oss.

Hvörsu kröptug uppörfan til dygdar og rádvendni ætti englanna eptirdæmi ad vera oss! vér höfum allir af náttúrunni eptirbreytnis tilhneigíngu, og eptir hvörjum ættum vér heldur ad breyta, í hvörs fótspor ættum vér heldur ad gánga, hvört þeirra gódu engla, sem standa fyrir Guds augliti, edur þeirra óhreinu anda, sem eru Guds og manna óvinir? þeirra athafnir eru oss ecki ókunnugar, Ritníngin talar allstadar um þær. Hvörsu kröptug uppörfan til stórra og ágjætra verka ætti englanna nærvera ad vera oss, og sú velþóknan, sem vér kunnum ad vænta af þeim. Vér vitum, ad þessar andlegu verur umkríngja oss og eru vitni til þess, sem vér adhöfumst; hvad ætti oss ad vera vigtugra, nærst Guds velþócknun, enn ad þeim líki vid oss. Þar vér erum svo mjög gefnir fyrir mannanna hrósi, hvörsu miklu framar ættum vér ad ástunda ad ávinna oss englanna hrós? hrós eins

einasta engils er lángtum vigtugra enn alls heimsins lofrædur; því saman vid þeirra hrós blandast enginn skilníngsins veikleiki, eckért brádrædi, engin partíska, sem svo opt gjörir mannanna hrós grunsamt. Hvørninn kunnum vér ad hugleida þetta, ef vér høfum nockra sóma tilfinníngu, án þess ad képpast eptir med dygd, med rádvendni, med gódum og ágjætum athøfnum ad gjøra oss verduga englanna velþócknunar. Ef vér viljum nockurntíma komast í þeirra félag, nockurntíma verda hluttakandi í þeirra farsæld, þá hljótum vér hér í heimi ad breyta eptir þeirra dygdum, og med því ad breyta eptir þeim, útvega oss þeirra velþócknun.

## 16. Kapítuli.

### Um Manneskjuna.

Ad manneskjan sé á vorum jardarhnetti sú ædsta og fullkomnasta af øllum Guds sýnilegum sképnum, þar á er enginn efi. En sérhvørr sannsýnn dómari sjer audveldlega, ad þad er ecki líkaminn, sem géfur manneskjunni þessa yfirburdi fram yfir øll ønnur dýr. Þó ad mannsins líkami hafi nockra yfirburdi framyfir dýranna líkami, þá hefir dýranna líkami aptur á móti marga yfirburdi framyfir mannsins líkama. Mannsins líkami gengur uppréttur; hvad mørg dýr gjøra ecki þad sama? mannsins líkami er útbúinn med fimm skilníngar-vitum; dýrin hafa þau allteins mørg, og skilníngar-vitin eru hjá mørgum af þeim lángtum fullkomnari, enn hjá manneskjunni. Mannsins líkami er prýddur med margvíslegri fegurd, og tilbúinn med guddómlegri

kunst, er vitnar um smidsins-vísdóm, almætti og gædsku; en á líkama þess minnsta skridqvikindis má líta þessa sömu guddómlegu eginlegleika, sömu snilli, og sömu fullkomlegleika. Satt er það, ad andlitid á oss, þessi speigill sálarinnar í hvörjum hún lætur í ljósi sínar heimugleguſtu tilfinníngar, gefur mannsins líkama stóra yfirburdi yfir dýrin; en hvörsu marga yfirburdi hafa dýrin þarámóti, sem oss skortir. Vér höfum ecki Ljónsins styrkleika, Apans snidugleika, Fuglsins fljótleita, edur Arnarinnar sjón. Ad eg ecki tali um, hvörsu lengi mannsins líkami á í ad þroskast og verda fullvaxinn, hvörsvegna hann í svo mörg ár er uppá adra kominn; ad eg ecki tali um, hvörsu manneskjan getur enga björg sér veitt edur varast neina hættu, þegar hún fædist í heiminn, þar ed dýrin skömmu eptir fædínguna géta borid sig sjálf, og varast edur umflúid hættuna. Ef vér ecki hefdum skynsemdarfulla sálu, og hún ecki bætti það upp, sem oss brestur á bord vid dýrin, þá mættum vér öfunda þau.

En þó ad vér séum fyrir nedan dýrin í tilliti til vors líkama, þá erum vér þó lángt fyrir ofan þau í tilliti til þess anda, sem býr í vorum líkama. Vor egin tilfinníng segir oss, ad eitthvad sé innvortis hjá oss, sem þenkir, og ad þetta, sem þenkir, sé ecki sjálfur líkaminn sjáum vér af skynseminni. Vor egin tilfinníng kénnir oss, ad vér þenkjum, ad vér erum oss medvitandi um vora þánka, og gétum ímyndad vora egin þánka. Vér gétum gjört oss greinilega ímindun um það, sem vér sjáum og heyrum, borid eitt saman vid annad, og dregid álygtanir af þessum samanburdi. Þessa skynsamlega þenkjandi

veru køllum vèr sál, og er hún útbúin með tveimur aðalkrøptum, sem géfa manneskjunni yfirburði yfir allar aðrar sýnilegar skèpnur, nefnilega með skilníngiuum, eður þeim krapti, að géta gjørt sér greinilega þánka um hlutina, og frjálsræði, eður þeim krapti að útvelja það besta eptir greinilega umhugsun. Um þessa tvo verulegu parta mannsins, sál og líkama, talar Ritníngin svo sem um tvo aðgreinda hluti: duptið, segir Salómon, hlýtur að koma aptur til jarðarinnar, hvar það var áður, en andinn hlýtur að koma aptur til Guðs, sem gaf hann, Préd. b. 12.

Um manneskjunnar uppruna vitnar Ritníngin: að Guð hafi skapað hennar líkama af jarðar-leiri, en sálina af engu, með þeim sama almættis krapti, hvar með hann framleiddi heiminn af engu: Guð Drottinn gjørði manninn af jarðar-leiri, og blés lifandi anda í hans nasir, og svo varð maðurinn að lifandi sálu, 1 Mós. b. 2. Ritníngin kénnir oss ogsvo: að Guð hafi einúngis skapað einn karlmann og einn qvennmann; að hann hafi það gjørt, að allar mannanna ættqvíslir búa á jørðunni af einum ættstofni, Post. g. b. 17. Þar með urðu allir menn bræður, børn hins sama Føðurs, og minntir á, að þeir ættu að elska hvørr' annann, sem bræður.

Allir sjá auðveldlega, að þessir mannkynsins ættarstofnar ecki hafa verið skapaðir með þeirri synda saurgun, með þeirri óreglu í girndunum, með þeim yfirráðum skilníngarvitanna, með þeirri offstækju géðshræringanna, í stuttu máli: með þeirri siðferðislegu spillíngu, sem vèr færum með oss inní

heiminn. Frá hondum þeirrar heiløgustu veru, gét-
ur ekkért óhreint edur vanheilagt komid; Gud væri
þá sjálfur orsök til syndarinnar, og hvørninn gjæti
hann þá straffad þá vanart, sem væri hans egid
verk? þetta kénnir skynsemin, og Ritníngin gétur ei
heldur kénnt annad. Svo sem hún segir, ad allir
menn fædist med synd, svo segir hún þarhjá, ad
vorir fyrstu foreldrar hafi verid skapadir syndlausir.
Gud skapadi manninn eptir sinni mind, segir
Mófes, eptir Guds mind skapadi hann hann, og
hann skapadi þau karlmann og qvennmann, 1
Mós. b. 1. Madurinn var skapadur eptir Guds
mind, þad er: hann var líkur Gudi, nefnilega í því,
í hvørju sképnurnar kunna ad líkjast Skaparanum.
Ad þessari líkíngu hljóta menn ad leita í sálunni,
því í líkamanum finnst hún ecki, þar Gud er andi;
og þó kunna menn ecki ad leita hennar í sálarinnar
verulegu, heldur í hennar tilfallandi fullkomlegleikum.
Í tilliti til sálarinnar verulegu fullkomlegleika berum
vér enn þá í vissann máta Guds mind. Gud er
andleg vera; vor sál er þad einninn, Gud hefir skiln-
íng og frjálsann vilja; þessa eginlegleika hefir vor
sál einninn til ad bera. Gud verkar óaflátanlega
í heiminum; vor sál verkar sífeldlega í líkamanum,
og þad med þeim hætti, sem oss er eins óskiljanleg-
ur og hinn, med hvørjum Gud verkar í heiminum.
Gud hættir aldrei ad vera til; vor sál ecki heldur.
Vér gétum því í þessu tilliti sagt, ad vor sál beri
enn þá í sér Guds mind.

En sú mind, sem Móses talar um, er sú, sem
vér mist høfum, hún var þess vegna ecki innifalin í
sálarinnar verulegu, heldur sérdeilislegum fullkom-

legleikum, sem vér gátum misst, og sem vér reyndar misst höfum, en sem vér aptur egum kappkosta að öðlast. Hún var þess vegna innifalin í þeirri líkíngu við Guð, um hvörja Páll talar, þegar hann áminnir þá fyrstu kristnu þannig: Endurnýist í yðar andlega sinnislagi, og verðið að nýrri manneskju, sem eptir Guði er sköpuð til sannarlegs réttlætis og heilagleika, Eph. 4. Sannarlegt réttlæti og heilagleiki eru þarí innifalin, að skilníngnum og viljanum komi vel saman, að viljinn einúngis elski það, sem skilníngurinn álítur gott og rétt, og einúngis hati það, sem skilníngurinn dæmir íllt og órétt, þetta er sá eginlegleiki, sem vér finnum hjá Guði; að vera prýddur með þessum eginlegleika, er að líkjast Guði, og bera á sér hans mind. Þessa líkíngu við Guð höfum vér ecki framar; þetta er sú tapaða Guðs mind, sem vér eptir Postulans áminníngu, egum eptir að keppast; þetta er og sú Guðs mind, sem prýddi vora fyrstu foreldra. Þau höfðu skilníngarvit, eins og vér, sinnishræríngar eins og vér; hvörttveggja heyrir til náttúru vors líkama; en þau fundu ecki þá óreglu í skilníngar-vitunum, og ecki þá ofstæki í sinnishræríngunum, sem nú svo opt setur sig á móti skynseminni og rekur hana úr sæti, hvar af kémur trubl og óregla hjá manneskjunni. Skilníngurinn hafði fullkomin yfirráð yfir skilníngarvitunum og geðsmununum; skynsemin vísaði veginn, og viljinn gékk hann; skynsemin skipaði, og viljinn hlýddi án mótstöðu. Þessi skilníngsins og viljans samhljóðan var sú Guðs mind, sem manneskjan var með prýdd, þegar hún kom frá Skaparans höndum.

En ef skilníngurinn átti ad vera óhultur leidtogi viljans til þess, sem var gott og rétt, þá slýtur þar af naudsynlega, ad skilníngurinn hlaut ad hafa skíra, rétta og ánægjanlega þeckíngu á Gudi, á hans vilja, á þeim skyldum, sem hann heimtar af manneskjunni, á þeirri hlýdni, sem manneskjan er honum skyldug um, á náttúru þeirrar sönnu farsældar, á því hvörninn menn géta ordid hennar adnjótandi, á manneskjunnar augnamidi og áqvördun, sem er Skaparans dýrd, og á þeim máta, med hvörjum manneskjan á ad dýrka sinn Skapara. Hefdu vorir fyrstu foreldrar ecki verid skapadir med þessari þeckíngu, þá hefdi þeim á hvörju augnabliki verid búid vid falli, og Skaparinn hefdi þá verid valdur í þeirra falli. Gud hefdi þá fengid þeim til fylgdar blindann leidtoga. Svo kénnir þá skynsemin einninn þennann sannleika, ad, eins og vér gétum ecki efast um, ad gódur Gud hefir hlotid ad skapa manneskjurnar med allri þeirri þeckíngu, sem þær til þess náttúrlega lífs medþurftu, þá hefir hann miklu framar eptir gædsku sinni og heilagleika hlotid í sköpuninni ad veita manneskjunum alla þá þeckíngu, sem var naudsynleg til ad vidhalda þeirra andlega lífi. Eg segi: allá þá naudsynlegu þeckíngu. Án efa er gjört ofmikid ad verkum, þegar menn ímynda sér, ad Adam hafi verid skapadur med stærri þeckíngu, heldur enn vorir beztu gudfrædis kénnendur, nátúru- og stjörnu-spekíngar nú hafa; og aptur er vissulega gjört ofmikid ad verkum á hina sídunna, þegar menn hugsa, ad Adam hafi verid settur inn í heiminn, án málfæris, án greinilegra ímindana og án allrar þeckíngar bædi á náttúrlegum og and-

legum efnum. Það er án efa samqvæmast Guðs gæðsku og visdómi, að menn gángi meðal-véginn, og tilleggi vorum fyrstu foreldrum svo mikla meðskapaða þeckíngu, sem þau í þeirra þá verandi ástandi meðþurftu; við hvörja þau með egin ástundun, reynslu og æfíngu hafa átt framvegis að bæta, og gjöra hana stærri, greinilegri og fullkomnari.

Í þvílíku farsældar standi vóru vorir fyrstu foreldrar skapaðir, og hlutu nauðsynlega að vera þannig sköpuð, þar hin heilagasta vera ecki gétur skapað neitt vanheilagt, eður sú fullkomnasta vera neitt það, er ei sé svo fullkomið, sem það, eptir þess náttúru og áqvørðun orðið gétur. En sé það satt, að allar sképnur, dauðar og skynlausar, þéna Skaparanum til dýrðar; skyldi þá manneskjan, til hvörrar meira er lagt enn allra annara sýnilegra sképna, einsömul vera fríitekin frá þessari almennilegu skyldu? eður hlýtur ecki þessi skylda miklu framar að heimtast af henni með fullkomnara hætti, heldur enn nockurri annari minni háttar sképnu? svo sem það er víst, að hvørr einn fullkomlegleiki, sem vér hefum til að bera, er Guðs gáfa, svo er hitt og allt eins víst, að hvörr einn fullkomlegleiki, sem vér hefum til að bera, á að brúkast Gjafaranum til dýrðar. Vér hofum skynsemi og frjálsann vilja; vor skynsemi og frívilji á þess vegna að brúkast til að vegsama þá veru, sem prýddi oss með þessum fullkomlegleikum. Allar skynsemdarlausar sképnur vegsama þeirra Skapara, ecki einúngis í þann máta, að hans almætti, vísdómur og gæðska lætur sig í ljósi á þeirra sköpun og niðurröðun, heldur ogsvo með hinu, að þær framqvæma Skaparans vilja og efla hans vís-

dómsfulla tilgáng, eptir ómótstædilegu náttúrunnar edli, sem þeim er géfid. Manneskjunni þarámóti er géfin skynsemi til ad þeckja skyldu sína, og frívilji til ad breyta eptir henni edur yfirtroda hana. Med sjálfviljugri hlýdni á manneskjan þess vegna ad heidra sinn Skapara, þar med dýrkar hún hans yfirdrottnun, hans heilagleika, hans alvitsku, hans réttlæti.

En, þar sem er engin freistíng til óhlýdni, þar er ei heldur neitt hlýdnis-merki. Þó ad vér ecki drýgjum þá glæpi, sem vér ecki erum tilhneigdir, þá er þad ecki merki til þess, ad vér elskum, heidrum og hlýdum Gudi, sem fyrirbaud oss þá. Þó ad hinn ágjarni sé ecki svallsamur, og hinu sælliſi sé ecki nídskur; þó ad sá fyrri sé hófsamur, en hinn sídari örlátur, þá kann þad ecki ad álítast svosem hlýdnismerki, af því hvørugur finnur hjá sér freistíngu til þessara lasta, og bádir hafa náttúrlega tilhneigíngu til þessara dygda. Þar þetta stendur nú stodugt, ad sá kann ecki ad andsýna neitt sannarlegt hlýdnis-merki, sem enga freistni finnur hjá sér til ad vera óhlýdinn, hvada álygtun ættum vér þá ad draga hér af, ef ecki þessa: vorir fyrstu foreldrar komu öldúngis hreinir og heilagir frá Skaparans höndum; í þeirra náttúru var engin freistíng til óhlýdni, eins og í vorri náttúru; og þó áttu þau med sjálfviljugri hlýdni ad dýrka þeirra Skapara; þeim hlaut þess vegna ad géfast útvortis freistíng, á hverri þau kynnu ad auglýsa þeirra hlýdni, þeirra elsku, þeirra lotníngu fyrir Skaparanum, og med því ad yfirvinna hana, áttu þau ad vidurkénna hans yfirdrottnun, hans alvitsku, heilagleika og réttlæti, edur í einu ordi: þau áttu ad dýrka hann med

því að breyta eptir hans løgum með fríviljugri hlýðni.

Guði stóð frítt fyrir að reyna þau með hverju helst móti, sem hans vísdómur áleit hentugast, og eptir Móses vitnisburði valdi hann til þess ávextina á vissu tré, er Móses kallar: skilníngs-tréð góðs og ills, líklega vegna þess, að á því átti að auglýsast, hvört manneskjan mundi velja gott eður illt, og vegna þess hún, með því að yfirtroða Skaparans skipun, fékk eptir það þekkíngu á því illa, eins og hún áður hafði einúngis þekkíngu á því góða. Þar Guð ecki hefir sagt oss hvarfyrir hann heldur útvaldi þessa prófun, heldur enn einhvörja aðra, þá er það forgéfins að vilja grenslast eptir orsøkinni, hvarfyrir hann valdi þessa. Menn kynnu að vísu að segja: að Guð hafi bannað þeim þennann ávøxt, vegna þess að hann hafi verið eitraður, og hafi með þessu uppæst girndirnar, veikt mannsins krapta og flýtt dauðanum; en bæði segja menn þá nockuð, sem ecki verður sannað, og þarhjá útrétta menn eckért með þessari tilgátu; því þá rís strax upp ný spurníng, nefnilega: hvarfyrir Guð hafi skapað svo skaðlegann ávøxt, þar hann fyrirsá, að manneskjan, með því að neyta af honum, mundi leiða þetta eitur inní sína náttúru? uppá þetta spursmál verður þá allteins óhægt að svara, sem það fyrra. Þessi prófan átti vel við þeirra ástand. Þó vér tøkum eitthvørt af þeim Guðs tíu laga-boðorðum, og berum það saman við innvortis og útvortis ástand vorra fyrstu foreldra, þá munum vér finna, að ecki eitt einasta af þeim gat verið þeim freistíng til óhlýðni, og þess vegna ei heldur prófan uppá þeirra hlýðni.

Þetta forboð þarámóti, að þau ecki mátti' 'eta af þessa trés ávexti, átti allvel við þeirra lifnaðar hátta og allt þeirra ástand.

Svo sem þessi prófan átti vel við þeirra þá verandi kríngumstæður, svo var hún og svo fullnóg. Að uppfylla þessa skipun var auðveldt; því hvað var auðveldara, enn að halda sér frá einum einasta ávexti, þar þau máttu velja um alla aðra? en þó auðveldt væri að uppfylla þessa skipun, þá minkaði það ecki, heldur jók syndina. Að þau átu af þeim forboðna trés ávexti var allteins vel óhlýðni og uppreist á móti Guði, eins og þó þau hefðu spottað hans nafn, og í sjálfri sér var þessi óhlýðni spott á móti Guði, og afneitan hans heilagleika, réttlætis, vísdóms og sannsøglis. Þó auðveldt væri að halda þessa skipun og ecki sýndist mikið í hana varið, samt stóð ecki á sama hvørt þau uppfylltu eður yfirtráðu hana. Strax, sem Guð býður eður bannar eitthvað, þá er það ecki lengur lítilvægt; hans skipan gjørir það vigtugt. Að bregða útaf hans skipun er ætíð straffsverð yfirtroðsla, hvørt sem hluturinn er í sjálfum sér vigtugur eður ecki; og því auðveldara, sem það var að uppfylla þessa skipun, þess straffsverðara var að yfirtroða hana, því það sýndi þess stærri óhlýðni.

Ef vér hugleiðum nockuð gaumgjæsilegar yfirtroðslu vorra fyrstu foreldra, og liðum hana sundur í smá parta, þá munum vér verða þess varir, að hún inniheldur miklu meira enn þann útvortis verknað einúngis, með hvørjum þau yfirtráðu Guðs skipun. Vér munum finna, að sá dauða-dómur, sem var uppsagður yfir þeim, var ecki óréttvís,

þó að í yfirtroðsluna sýnist ecki vera mikið varið í fyrsta áliti. Það er auðvitað, að þau hafa ecki allt í einu hrapað svo lángt; heldur hafa margar óreglulegar hugar-hræríngar hlotið að gánga á undan í þeirra hugskoti, fyrr enn þau gátu svo mjøg yfirunnið þeirra góða meðskapaða sinnislag, að þeim var møgulegt að syndga á móti þeirra Skapara.

Fyrst hafa þau géfið ofmikinn gaum að svikarans fortølum, hvørjum þau hefðu strax átt frá sér að hrynda, þar þær stríddu á móti Guðs skipun. Þessi ófraṁsýna gaumgjæfni sýnist verið hafa upphaf þeirra brots. Vegna þessarar gaumgjæfni, sem þau høfðu á svikarans fortølum, urðu þánkarnir um Guðs skipun, og þær viðløgur, sem henni fylgði, myrkvari, veikari og óljósari. Eptir því, sem þánkarnir um Guðs skipun urðu óljósari, qvikna ði smámsaman efasemð um sjálfa skipunina; og eptir því, sem þau fóru að efast um Guðs orð, hafa þau lagt smámsaman meiri trúnað á svikarans orð. Guð varð nú smámsaman að lygara, og lygarinn að sannleiks prédikara. Nú kom þoka og myrkur í skilníngin, skynseminnar ljós dapraðist, og þegar skynsemin dapraðist, brutust út þær holdlegu girndir, uppvaktar af fegurð þess forboðna ávaxtar, og náðu yfirráðum yfir skynseminni. Nú var øll mannsins náttúra komin í óreglu. Skynseminnar ljós var orðið að myrkri, heilagleiki hjartans að vanart. Girndirnar, sem innann þeirra réttu takmarka vóru góðar og heilagar, brutust nú útyfir þau takmørk, sem Skaparinn hafði sett þeim, og urðu óreglulegar, synd-

samlegar og óstjórnlegar. Sú leyfilega girnd eptir fullkomlegleikanum, sem þeim var medskøp-ud, umbreyttist í óleyfilegt stollt; þau vildu vera meiri, heldur enn þau eptir Skaparans tilgángi áttu ad vera; og stollt, ásamt med skilníngar-vit-anna ysirrádum, kom þeim til ad forakta Guds velgjørnínga, gleyma hans hótum, undirþrykkja samvitskunnar raustu, og eta af þeim forbodna ávexti, hvarmed þeirra synd fullkomnadist.

Vér sjáum héraf, ad synd vorra fyrstu for-eldra var ecki svo lítilvæg, sem hún í fyrsta áliti sýnast kynni. Þau vanbrúkudu þeirra frívilja, med hvørjum þau hefdu átt ad vegsama þeirra Skapara; þau vanbrúkudu þess vegna þeirra líf, er þau áttu ad brúka Gudi til dýrdar; og þar daudinn edur svíptir lífsins er réttvíst straff fyrir vanbrúkad líf, eins og þad er réttvíst ad svipta einn þeirri gáfu, sem hann brúkar á móti gjafar-ans tilgángi, þá er Guds dómur ogsvo maklegur og réttvís: á hvørjum degi, sem þú etur af því, skalt þú dauda deyja. Ad vísu er þad satt, ad vorir fyrstu foreldrar vóru svíknir til þessarar syndar; en þad afsakar þá ecki, þó þeir væru svíknir, þar þeir vóru ádur varadir vid því. Þeir høfdu heyrt Guds skipun og hans hótun, ádur enn þeirra var freistad til óhlýdninnar. Sú afsak-an gyldir ei fyrir nockrum dómstóli, ad madur hafi verid tældur til ad brjóta á móti þeim løgum, sem manni eru alkunnug; og því sídur gyldti þad hér, sem þeir voru útbúnir med ánægjanlegum kroptum til ad standa á móti þessari tillockun. En þad var ecki þar med búid, ad þeir þannig spilltu sjálfir

þeirra egin náttúru, heldur meddeildu þeir börnum sínum þessa spillíngu, og þau aptur öllum þeirra afkomendum. Syndin, segir Páll, er fyrir einn mann komin í heiminn, og dauðinn fyrir syndina, og svo hefir dauðinn sér til allra manna inn-þreyngt, af því að allir hafa syndgað, Róm. 5.

Ad allar manneskjur séu spilltar af náttúrunni, kénnir dagleg reynsla og egin tilfinníng. Vér finnum allir hjá oss vanart, sem saurgar oss. Vort hjarta tvískiptir sér sífeldt milli dygdanna og lastanna. Vér erum af náttúrunni hvörki fullkomlega vondir né heldur fullkomlega gódir; en ætíd verdum þess varir, ad oss veitir torveldt ad æfa vissar dygdir, og audveldt ad fremja vissa lesti. Hvervetna finnum vér, ad geds-hræríngarnar vilja sitja í fyrir-rúmi, skilníngar-vitin vilja ráda fyrir skynseminni, og elskan til heimsins vill verda yfirsterkari elskunni til Guds. Hvervetna reynum vér þad satt ad vera, sem David segir: **Drottinn leit ofan af himnum yfir mannanna børn, svo hann sæi, hvørt nockurr er vís, sem ad Gudi leiti; en allir eru þeir fráfnúnir, allir eru þeir hvørr med ødrum illa lyktandi, enginn er sá, er gott gjørir, og ecki einn,** Psálm. 14.

**En hvør er orsøkin til þessarar almennu spillíngar í mannsins náttúru? hvadan hefir hún sínn uppruna? nær byrjast hún? er hún oss medfædd? edur kémur hún af uppheldinu, af eptirdæmunum, af umgengni vid heiminn? já, allt þetta eykur miklu vid náttúrunnar spillíngu; en þad er þó ecki sú einasta orsøk til hennar. Ef ad hjartad væri gott, ádur enn þad spillist af vananum og uppeldinu, hvad**

kémur þá til, ad vér verdum varir vid vondar tilhneigíngar hjá børnunum, ádur enn þau hafa náð þeim aldri, ad uppeldi, vani edur eptirdæmi géti haft nockra verkun hjá þeim? strax frá blautu barnsbeini lætur sig í ljósi hjá þeim stollt, øfund, reidi, fáfengilegleiki; þessar géds-hræríngar hafa þau ecki lært, heldur eru þær þeim medfæddar. Ef ad hjartad væri gott, ádur enn það spillist af uppeldinu og eptirdæmunum, hvad kémur þá til, ad børn, sem eru fædd af sømu foreldrum, sem njóta sama uppheldis, og frá því fyrsta sjá hin sømu eptirdæmi, eru hvørt ødru svo ólík, ad gédslagi og hugarfari, bædi í þeirra gódu og vondu tilhneigíngum? hvørsu audveldt er ad uppala eitt barnid, og hvørsu torveldt ad temja hid annad? hvørsu mørg børn eru, hjá hvørjum þessi sidferdislega spillíng er minni med því aumasta, og stærri med því besta uppeldi? Þegar vér gjætum ad øllu þessu, gétum vér ei annad enn samsinnt Ritníngarinnar lærdómi, ad spillíngin, sem vér finnum hjá oss, sé oss medfædd. Þetta kénnir Davíd: sjá, eg er fæddur í misgjørníngi, og mín módir gat mig í synd, Ps. 51. Davíd, sem var fæddur í løglegu hjónabandi, vill ei hér med sagt hafa, ad hans módir hafi drýgt synd, þegar hún féck gétnad ad honum, edur misgjørníng, þegar hún fæddi hann, heldur leitar hann ad undirrót þeirrar spillíngar, sem hann grætur fyrir Guds augliti, og finnur hana í sínum gétnadi og fædíngu; hún var fædd med honum, og hann hafdi tekid hana í arf eptir sína foreldra. Og hafi Davíd fært hana med sér inní heiminn, þá má segja hid sama um allar adrar manneskjur.

Skynsemin hefir ekkert á móti þessum lærdómi, heldur stadfestir hann miklu framar. Sjáum vér ecki daglega, ad foreldrarnir meddeila börnunum þeirra náttúrlegu sjúkdóma, og þær óreglulegu hræríngar, af hvörjum líkamans sjúkdómar rísa, og hvar fyrir skyldu þeir þá ecki allt eins med fædíngunni géta meddeilt þeim þær óreglulegu hræríngar í líkamanum, af hvörjum þær syndsamlegu tilhneigíngar spretta? þegar þau géfa oss líkamann, þá géfa þau oss hann saurgadann med þeirri somu spillíngu, sem þau sjálf hafa.

Þó megum vér ecki ímynda oss, ad líkaminn einúngis sé saurgadur af syndinni. Girndirnar eru ecki í líkamanum, heldur í sálunni; ecki er þad líkaminn, heldur sálin, sem þenkir, girnist, elskar, hatar, velur, hafnar. Sú medfædda spillíng, ad því leiti, sem hún vidvíkur sidferdinu, hefir þess vegna sitt adsetur í sálunni, en ecki líkamanum. Ef ad sálin ecki væri spillt ásamt med líkamanum, mundi hún þá elska þær óreglulegu hræríngar, sem hreifa sér í líkamanum? mundi hún setja í ved eilífa sælu til ad fullnægja skammvinnum girndum? edur mundi hún ecki miklu framar hata, dempa og undirþryckja þær syndsamlegu tilhneigíngar, sem hún finnur til í líkamanum? ad sálin, sjálfri sér ofurgéfin fylgir í blindni líkamans hræríngum, jafnvel þó þær steypi henni í hvörja hugarins órósemi eptir adra, og í hvörja ólucku eptir adra, er røksemd fyrir því, ad sálin er djúpt nidurfallin frá hennar adli og verdugleika; í stadinn fyrir ad hún ætti ad stjórna skilníngar-vitunum og géds-hræríngunum, er hún ordin þeirra ambátt.

En svo óneitanlegt, sem það er, að sálin er saurgud af syndinni, svo ófanlegt er og hitt, að þær óreglulegu hræríngar, sem eru í líkamanum, uppvekja þær óreglulegu og syndugu girndir, sem eru í sálunni. Þetta er Postulans Páls lærdómur; í líkamanum leitar hann að upptökum þeirra syndsamlegu girnda, sem hann finnur í sálunni. Eg veit vel, segir hann, að lögmálið er andlegt, en eg er holdlegur undir syndina seldur. Það sem eg gjöri, samþycki eg ecki, því það, sem eg vil, gjöri eg ecki, heldur gjöri eg það, sem eg hata. En fyrst eg gjöri það, hvað eg vil eigi, þá géf eg lögmálinu þann vitnisburð að það sé gott. Svo gjöri eg nú þá ei það sama, heldur sú synduga náttúra, sem í mér býr. Því eg veit, að í mér, það er: í mínum líkama býr eckért gott. Og strax á eptir segir hann: eg finn annað lögmál í mínum limum, sem stríðir á móti mínu hugskots lögmáli, og færir mig herleiddann undir syndarinnar lögmál, sem er í mínum limum. (Eg vesæll madur! hvörr mun frelsa mig af þessum daudlega líkama, þó þacka eg Gudi fyrir Jesúm Kristum, Drottinn vorn). Svo þjóna eg þá sjálfur med hugskotinu Guds lögmáli, en med líkamanum syndarinnar lögmáli, Róm. 7. Þess vegna segir hann um kristinn mann, sem betrast hefir af Evangelíi lærdómi, og leitast við, að slíta sig lausann frá girndanna yfirrádum: að holdið girnist á móti andanum og andinn á móti holdinu; edur med ödrum ordum: að skilníngarvitin girnist móti skynseminni, og skynsemin á móti skilníngar-vitunum, Gal. 5.

Sé það nú ófanlegt, að mikill partur af

vorri náttúrlegu spillíngu hafi sinn uppruna frá líkamanum, þá er enginn efi á, að hún er oss meðfædd, og að vér höfum tekið hana í arf eptir vora foreldra. Og ef náttúrlegir sjúkdómar forplantast frá foreldrunum til barnanna, t. d. liða-veiki, fóta-veiki, uppdráttarsýki, sinnis-veiki, líkþrá og aðrir fleiri, þá er auðveldt að leiðast til að trúa því, að sú líkamans óregla, sem er orsök þeirrar siðferðislegu spillíngar, geti einninn forplantast til barnanna frá foreldrunum, og að Davíðs orð séu sannmæli, þegar hann játar um sjálfann sig: *sjá þú! eg er fæddur í misgjörníngi og mín móðir hefir gétið mig í synd.*

---

Þessi náttúru-spillíng, sem vér höfum fært með oss inn í heiminn, er það skilníngs tré, á hvörju vér egum að sýna vora hlýðni, vora undirkostun undir Guðs lögmál, vora elsku og lotníngu fyrir Lög-gjafaranum. Ef vér hefðum engar syndsamlegar girndir innvortis og engar freistíngar útvortis við að stríða, þá væri oss ecki þackandi, þó vér fúslega uppfylltum Guðs lögmál; en hvaða launa kynnum vér að vænta oss fyrir þá hlýðni, sem oss kostaði eckért? hetjan fær ecki launin fyrrenn eptir stríðið; vér kunnum og þá hið fyrsta vænta að fá ærukransinn, þegar vér höfum með stöðuglyndi stríðt á móti spillíngu vorrar náttúru, og með óþreytanlegri ydni leitast við að minka hana.'

Eg segi, þegar vér með óþreytanlegri ydni höfum leitast við að minka vora spillíngu; eg segi ecki, þegar vér erum búnir að uppræta hana. Það fyrra er mögulegt fyrir Guðs krapt, það síðara er

ómøgulegt einninn med Guds adstod; oss er þad allt eins ómøgulegt, sem ad umbreyta blódsins rás og lífs-andanna hræríngu. Þessi vanart er fædd med oss, og deyr ei heldur fyrr enn med oss. Væri þad møgulegt ad uppræta hana øldúngis, þá hefdi Davíd, Páll, edur Jacob upprætt hana, og þessir miklu menn, sem vóru útbúnir med svo yfirnáttúrlegum gáfum, medkénna þó, ad þeir finni hjá sér þessa vanart, og qvarta yfir henni.

En þó vér ecki øldúngis gétum upprætt þessa medfæddu vanart, þá gétum vér þó mínkad hana, vér gétum smámsaman sigrad hana, og unnid svig á henni. Þar til útheimtist stríd og barátta, mæda og erfidi; en þó yrdi þetta erfidi miklu léttara, ef menn byrjudu þad í úngdæminu, á medan vor náttúrlega vanart er enn nú veik, ádur enn hún med aldrinum nær fullum þroska af vondum vana og skadlegum eptirdæmum; ef foreldrarnir væru þad, sem þeir ættu ad vera, ef þeir álitu sig, sem ættarstofna heillrar kynqvíslar og farsældar frumqvødla sinna afkomenda; ef þeir létu sér umhugad vera ad sá dygdanna sædi í barnanna hjørtu á medan þau eru úng, ef þeir legdu alla alúd á, ad rækta þenna akur og reita burt lastanna íllgresi ádur enn þess rætur hafa búid um sig og læst sig vída út. En jafnvel þó ad sú spillíng, sem vér finnum hjá oss, hafi ecki verid mínkud í úngdæminu, jafnvel þó hún med aldrinum hafi nád meiri þroska, og þess torveldara sé ad yfirvinna hana, þá er samt ecki ómøgulegt ad mínka hana á fullordins aldrinum.

Þad fyrsta, sem vér egum ad kappkosta, þegar vér æskjum ad verda Herrar yfir sjálfum oss,

er þetta: ad vér lærum ad þeckja þá spillíngu, sem í oss býr. Frá þessori þeckíngu hlýtur oll vor betrun ad hafa sín upptok. Vér gétum ecki strídt á móti þeim óvin, sem vér ecki þeckjum. En hér til nægir ecki þó vér vitum þad yfir høfud, ad vér séum spilltir. Þvílík þecking útheimtir ecki mikla ransokun. Sérhvør syndsamlegur þánki, sem oss flýgur í hug, sérhvør sterk gédshræríng, sem rask-ar vorri sinnis rósemi, ber ljóst vitni þar um, ad vér erum spilltir.

Nei, ef madur á ad ástunda alvarlega ad bet-ra sig, þá hlýtur hann ad hafa nákvæma og greini-lega þeckíngu um sitt egid hjarta. Þar eru sérdeil-is þrjár høfud-uppsprettur til mannanna spillíngar, nefnilega: sællífi, stollt og ágirnd, af hvørjum all-ar adrar syndsamlegar girndir framfljóta. Vor eydslusemi, vort lauslyndi, vor óstødugleiki í því góda, hvad er þad annad enn óluckulegt afqvæmi sællífisins? vor reidi, vor øfund, vor hefndargirni, hvad eru þær annad enn ávextir stolltsins? vor hardýdgi, vor egingirni, vor óréttvísi, hvad eru þær annad enn afleidíngar ofmikillrar elsku til tím-legra muna? eina edur tvær af þessum høfud til-hneigíngum høfum vér fært med oss inní heiminn, sérhvør af þeim er undir-rót þeirra syndsamlegu á-vaxta, sem spretta í vorum þaunkum, ordum og at-høfnum. Á þessum greinum spillíngarinnar egum vér ad æfa vora þeckíngu um vort egid hjarta. Vilji eg þeckja sjálfann mig, þá hlýt eg ad spyrja mig sjálfann: hvør grein mannlegrar spillíngar hef-ir fest rætur í hjarta mínu? er þad sællífi edur stollt, edur ágirnd? hvørt er minn afgud? er þad skémtun

minna skilníngar = vita, eda heidur, eda tímanleg audæfi? af einhvørri þessara tilhneigínga hlýt eg ad vera saurgadur, þar eg, eins og allir adrir, hefi fært med mér spillta náttúru af módurlífi. Og ef þad er sællífi, þá hefi eg einninn alla ókosti sællífisins, þá sömu eydslusemi, þad sama lauslyndi, þad sama óhóflega og óstødnga athæfi, sem sællífinu fylgir. Sé þad stollt, þá er eg ei heldur frí fyrir stolltsins førunautum, reidi, brádlyndi, øfund og hefndargirni Edur sé þad ágirnd, þá hljóta og ad leynast hjá mær ógjæfulegu verkanir þessarar tilhneigíngar, óréttvísin, egingagnid og hardýdgin. Med þessum hætti gétum vér fengid ánægjanlega þekkíngu um vort egid hugarfar, og þess spillíngu. Þessi þekkíng mundi ei heldur verda oss svo torveld, ef vér legdum oss eptir henni; því daglega verkum vér varir vid ávextina af vorri vanart; og hvørsu audveldt væri oss þá ecki ad álykta um rótina af ávøxtunum? þad er einúngis vor egin elska, sem blindar oss, og dylur oss fyrir oss sjálfum.

En þad er ecki nóg, þó vér þeckjum þá vanart, sem í oss býr; þessi þekkíng er ad sönnu undir=rót vorrar betrunar; en hún er þó ecki einhlýt til ad fullkomna hana. Ef vér nockurntíma viljum verda Herrar yfir sjálfum oss og vorum sinnishræríngum, þá hljótum vér ad kappkosta ad uppvekja hjá oss sterka eptirlaungun ad verda þad. Svo lengi oss vantar þessa øflugu eptirlaungun til ad veikja og yfirvinna vora spillíngu, edur þessi laungun er ecki nógu sterk, lifandi og alvarleg, þá reynir Gud forgéfins til ad betra oss; því vér strídum á móti hans kroptugustu vidleitni, og gjør=

um hana dvaxtarlausa. En hvaða meðöl egum vér að brúka til þess, að vor laungun eptir að dempa vora spillíngu, verði sterkari enn sú laungun, sem vér høfum af náttúrunni til ala hana og viðhalda? til að svara uppá þetta spursmál, vil eg ecki tala um, hverju mikið dygdugra og ráðvandra manna umgengni gjørir að verkum til að betra vort hug-ar-far. Hvørsu miklu fá eptirdæmin orkað bæði til að bæta og skémma oss! eg vil ecki tala um góðar og nytsamlegar bækur, í hvørjum trúarbrøgð-in og dygðirnar eru útmálaðar með allri þeirra fegurð, og lestirnir með øllum þeirra ljótleika. Eg vil ecki tala um bænina, hvílíka rósemi hún veitir sál-unni, og hvílíkann styrkleika hún géfur til að sigra vora spillíngu. Øllu þessu vil eg sleppa, og ein-úngis géfa þessar tvær reglur: sú fyrri er þessi: ef vér viljum uppvekja hjá oss, alvarlega laungun til að dempa og yfirvinna vora spillíngu, þá hljéium vér greinilega að þeckja og setja oss fyrir sjónir all-ann þann skaða, sem hún eptir sig leiðir; sú síð-ari er þessi: vér hljótum að elska Guð yfir alla hluti fram.

Sérhvør vanart í vorri náttúru dregur skað-lega verkun eptir sig. Hvørsu stórt upphlaup gjøra vorar drottnandi tilhneigíngar og óstjórnlegu géðshræ-íngar innvortis hjá oss? hvørsu ógjæfulega gjøra þær oss? hvørsu opt hljótum vér að setja í veð, stundum vort mannorð, stundum vorar eignir, stund-um heilsuna, stundum sjálft lífið, og það, sem er meira heldur enn mannorð, eignir, heilsa og líf, vora sinnis-rósemi og frið vorrar samvitsku, þegar vér hlýðum vorri vanart og gjørum það, sem hún af

oss heimtar? hvílík hugarins óróssemi qvelur oss, þegar vér hvörki gétum dempad né uppfyllt vorar girndir? og hvílíka ávítun megum vér eckí þess á milli heyra af vorri samvitsku, einninn þó vér sedjum þær? hvílíkann ótta fyrir því ókomna? og hvílíkri gledi sneydir hún oss ecki, hvörrar vér gjætum nokid í sameiníngunni vid Gud, í rósemi samvitskunnar, og í vorri egin medvitund um vorar gódu og ágjætu athafnir? ef vér daglega íhugudum og náqvæmlega fyrir oss virdtum þá ólucku, sem vor spillíng eptir sig leidir, bædi hér í heimi og einkum sídar meir í eilífdinni, mundum vér þá ecki brádlega fá alvarlega laungun eptir ad dempa hana? er ecki vorri náttúru þannig háttad, ad þegar vér sjáum eitthvad íllt fyrir höndum, þá finnum vér hjá oss strax á sama augnabliki laungun til ad afvenda því? ad vér ecki finnum hjá oss þessa alvarlegu laungun eptir ad undiroka vora spillíngu, er einúngis vitnisburdur á móti oss, ad vér ecki greinilega þeckjum, hvad íllt hún eptir sig leidir.

Samt er þad ecki nóg, þó vér þeckjum hvad vor vanart eptir sig leidir; ef vér viljum upplífgast af alvarlegri lyst til ad yfirbuga hana, þá hljótum vér ad elska Gud. Elskan til Guds var þad, sem gaf Jesú lærisveinum þann sálarinnar styrkleika og hughreysti, ad þeir sakir Guds dýrdar lögdu ecki einúngis í sölurnar þeirra eignir, þeirra rósemi og makindi, heldur einninn sjálft lífid undir hinum bitrustu píslum. Svo sterk er elskan, þannig gétur hún yfirbugad jafnvel náttúrunnar sterkustu tilhneigíngar, svo fúsa gétur hún gjört oss, til ad útgéfa allt fyrir þann, sem vér elskum. Ef vér hefdum

þessa elsku til Guds til ad bera, þá mundi hún og géta uppvakid hjá oss heilaga lyst og eptirlaungun til ad dempa vora náttúrlegu vanart. Þegar vér elskum Gud, þá ástundum vér ad vera honum þócknanlegir, og þar vér ecki med saurugu hjarta og vanheilagri sálu gétum verid þeirri heilögustu veru þócknanlegir, þá kostum vér kapps um ad hreinsa oss af vorri saurgun. Þegar vér elskum Gud, þá ástundum vér ad líkjast honum; og þar vér ecki gétum líkst hönum, á medan vort hjarta er saurgad af þess medfæddu vanart, þá kappkostum vér ad afþvo þessa saurgun. Þegar vér elskum Gud, þá ástundum vér ad sameinast honum; og þar vér ómögulega gétum sameinast þeirri heilögustu veru, svo lengi vér sjálfir erum saurugir, og elskum vorn saurugleika, þá leitum vér lags vid, fyrir Guds medverkandi adstod, ad hreinsa oss af allri saurgun holdsins og andans, og fullkomna vora helgun í Guds ótta. Ef vér nockurntíma viljum verda Herrar yfir sjálfum oss, ef vér nockurntíma viljum koma því til leidar, ad sálin fái yfirrád yfir líkamanum, og skynseminn yfir skilníngarvitunum, þá hljótum vér ydugléga ad hugleida Guds kjærleika til vor, og þessi lifandi íhugan Guds kjærleika hlýtur ad upptendra í vorum hjörtum innilega elsku til hans aptur á móti. Þá er grundvöllurinn lagdur til vorrar betrunar, þá strídum vér hughraustir á móti sjálfum oss, styrktir af Guds krapti, og upphvattir af launum eilífdarinnar, þángad til vér um sídir vinnum þann vegsamlegasta sigur, nefnilega: sigurinn yfir voru egin hjarta.

17. Kap=

# 17. Kapítuli.

## Guddómleg opinberan er því fallna mann-kyni naudsynleg til upplýsíngar og leidsagnar.

Vér høfum nú hugleidt mannsins fall og spillta ástand. Hann hefir mist sitt sakleysi. Skilníngurinn er formyrkvadur, og hjartád spillt. Skuli hann aptur fá uppreisn af fallinu, og ødlast aptur Skaparans nád, sem hann med syndunum hefir af sér brotid, þá bædi hlýtur honum ad géfast guddómleg opinberan hans skilníngi til upplýsíngar og leidsagnar; og líka hlýtur hann vegna vanartar síns hjarta, sem gjørir hann óhæfilegann til Guds nádar, ad fá forlíkunar medal sér til fridþægíngar.

Þó ad manneskjan hefdi ecki fallid, og hennar skilníngur ecki formyrkvast, þá kynni hún ad hafa þurft vid gudlegrar opinberunar. Þar hefdu þá verid mørg sannindi, sem manneskjan þurfti ad vita, en sem skynsemin ecki gat af egin krøptum uppgøtvad. En hvørsu miklu framar mun þá manneskjan þurfa vid gudlegrar opinberunar eins og nú er, ástadt fyrir henni? flestar þjódir hafa þess vegna verid fúsar á ad medtaka þá lærdóma, sem þeim hafa verid kénndir undir nafni gudlegra opinberana. Mahómetiskir og Heidíngjar, Gryckir og Rómverjar, Kínesiskir og Indianiskir skírskota allir til gudlegra opinberana, med hvørjum Gudirnir hafi kunngjørt þeim þeirra vilja. Þessi tilhneigíng sem manneskjurnar hafa til ad medtaka gudlegar opinberanir, sýnist ad rísa þar af, ad þær finna, hvørsu skyn-

semin er ónóg til ad veita þeim þad ljós, sem þær medþurfa.

Vér gétum ei heldur þetur sannfærst um þennann skynseminnar veikleika, enn med því ad gjæta ad manneskjunnar ástandi, eins og þad var fyrir Kristí daga og eins og þad enn þá er þar í heiminum, hvar ecki skín ljós Guds opinberada ords. Ef vér rennum augum vorum til þeirra, sem lifa utan vebanda kristilegrar kirkju, hvílíkt myrkur! hvílík þoka! þar sjest varla nockur skíma af skynseminnar ljósi, varla skuggi af þeim sannindum, sem kallad er ad menn viti af náttúrunni. Eg vil ecki tala um einfaldann almúga, jafnvel þó sannleikurinn sé honum eins naudsynlegur, sem þeim lærdu. Eg vil ecki heldur tala um Indíanisku og Barbarisku, jafnvel þó þeir hafi einninn skynsemdarfulla sálu, eins vel og þær þjódir, sem mest hafa fágad þeirra náttúru-gáfur. Eg vil einúngis tala um þær þjódir, sem med skynseminnar kroptum hafa komist lángt í øllum ødrum mannlegum vísindum, eg meina til Grickja,, Rómverja, Ægyptska, Kaldæiska, Persa og annara þjóda, sem vér í mørgum hlutum ecki gétum komist til jafns vid, því sídur yfirgengid. Ef vér viljum sannfærast um naudsyn gudlegrar opinberunar til skilníngsins upplýsíngar og leidsagnar í gudlegum efnum, þá þurfum vér ei annad, enn gjæta ad þeckíngu þessara þjóda, sem høfdu svo gott skynbragd á øllum ødrum hlutum, og bera hana saman vid þá þeckíngu, sem vér høfum og eigum ad þacka Guds opinberada ordi. Já, á medal þessara þjóda vil eg einúngis tala um þeirra skørpustu og vitrustu Heims-spekínga. Gétum vér sagt med sanni,

að einn einasti af þeim hafi sjeð sannleikann eins og hann er, eður útlistað greinilega lærdóma þeirra náttúrlegu trúarbragða? eður hljótum vér ekki að játa, að þeir vitrustu, hvørsu mjøg sem þeir løgðu sig eptir skilníngsins upplýsíngu hafa þó ætíð vaðið í villu og svíma, og að lýgin hefir ætíð staðið við hliðina á sannleikanum.

Þeckíngin á Guði er óneitanlega sú vigtugasta af øllum vorum vísindum; en, hvørsu raung, hvørsu óviss, hvørsu ófullkomin er þessi þecking hjá Heiðíngjunum, sem ecki hafa Guðs opinberaða orð? það er grundvallar-lærdómur í þeim náttúrlegu trúarbrøgðum, að ecki sé utan ein einasta guðdómleg vera, einn himins og jarðar stjórnari. En hvørninn tókst Heiðíngjum að finna þenna sannleika af skynseminnar ljósi? Þeirra Guðir vóru orðnir svo margir, að þeir naumast gátu komið tølu á þá. Guðirnir vóru eins margir og skepnurnar; Nautið, Høggormurinn, Skriðqvikindin, Grøsin, vóru dýrkuð sem Guðir. Sjórinn, loptið, jørðin, undirdjúpið, stjørnurnar høfðu aðgreinda Guði. Í stuttu máli: allir hlutir vóru Guð, utan Guð sjálfur. Þó að þeir vísu á meðal Heiðíngjanna kunni að hafa sjeð, hvørsu heimskulegt þetta var, þá hafa þeir þó ecki gétað komið sér saman við sjálfa sig um þann einasta sanna Guð. Sú meiníng var algeng, að þar væru margir minniháttar Guðir, sem væru undirgéfnir þeim æðsta Guði, hvørjum ogsvo var veitt guðleg þjónkan og tilbeiðsla. Sú meiníng var algeng, að þar væru tvær óendanlegar, sam-eilífar verur, af hvørjum ønnur var orsøkin til þess góða, en hin til þess vonda í heiminum. Það er grund-

vallar lærdómur í þeim náttúrlegu trúarbrøgdum, ad sú ædsta vera sé þarhjá øldúngis andleg vera, sem er frí frá øllu líkamlegu efni; og hvørsu bágt áttu þeir vitrustu Heidíngjar ad koma sér saman um þennann sannleika? stundum var Gud sál heimsíns, og heimurinn aptur líkami þessa Guds; stundum var heimurinn sjálfur sú ædsta guddómlega vera, og stundum var guddómurinn smá-gjørt efni, sem þrengdi sér í gégnum alla hluti, og gaf øllum sképnum líf og hræríngu. Það er grundvallar lærdómur í þeim náttúrlegu trúarbrøgdum, ad sú ædsta vera, sem skapad hefir alla hluti, stjórni einninn og vidhaldi øllum sképnum; og hvørsu torveldt veitti þeim lærdu á medal Heidíngjanna ad koma sér saman um þennann sannleika? þeir lærdustu hugsudu, ad heimurinn stjórnadist annadhvørt af blindri hendíngu, edur af óumflýjanlegum forløgum; og jafnvel þó menn medkéndu, ad Gudirnir ættu nockurn þátt í heimsíns stjórnun, þá var þad ecki sá ædsti Gud, heldur Smá-gudirnir, sem stjórnudu heiminum. Það er grundvallar lærdómur í þeim náttúrlegu trúarbrøgdum, ad mismunur sé á dygdum og løstum, og ad skynsemdarfullar sképnur egi ad heidra þeirra Skapara med dygd og rádvendni; en hvørsu lítid vissu Heidíngjarnir ad segja af þessum mismun? ad vísu høfdu nockrar dygdir þeirra vardhalds Gudi; en lestirnir høfdu þá líka. Holdlegar girndir voru dýrkadar sem Gudir; saurlífis elskunni og dryckjuskapnum vóru bygd musteri og ølturu. Hjá Gudunum var hrósad þeim glæpum, sem menn hefdu mátt skammast sín fyrir hjá manneskjunum. Nockrir af þeirra Spekíngum hrósudu hórdómi, adrir álitu

það enganu brest, þó menn þess á milli drykkju sig út úr. Hefndargirni var dygð, og að mýrða sjálfann sig, hugprýði. Sú almennilega elska til allra manna var í þeirra siðalærdómi nærstum því ókénnd dygð; miskunsemi, hógværð, meðaumkan vóru af mörgum álitnar sem sinnis-veiki. Það er grundvallar-lærdómur í þeim náttúrlegu trúarbrøgðum, að vor skynsemdarfulla sál sé ódauðleg, að hún, eptir líkamans dauða, ødlist nýtt líf, í hvørju dygðirnar fái þeirra laun, og lestirnir þeirra straff; og hvørsu óvísir vóru heiðíngjarnir, hvørs þeir ættu að vænta hérum? stundum leið hún undir lok, eptir þeirra meiníngu, ásamt með líkamanum, stundum var hún sett í luckulegra og fullkomnara ástand, stundum var henni vísað í annara manna eður dýra líkami. Ef leiða þyrfti fleiri rok til þess, að skynsemin sé ecki af sjálfrar sinnar ramleik megnug um að leiða oss til hinnar allravigtugustu og nauðsynlegustu þeckíngar, þá þyrfti eg ecki annað enn tala um það vanvirðuglega skick, sem Heiðíngjarnir hafa uppfundið til að dýrka þá guðdómlegu veru; um þau sáraumu, guðdóminum vanvirðandi meðøl, með hvørjum þeir leituðust við að forlíka sig við þá æðstu veru, þegar þeir vildu friðþægja fyrir sig stundum með píntíngum, sem þeir løgðu á sjálfa sig, stundum með dýra, stundum með manna, já. með þeirri egin barna blóði, hvørjum þeir offruðu í fáng þeim glóandi Mólok.

Þó einhvørr vildi hafa það sama hér á móti, að á vorum tímum séu til svo margar ágjætar bækur um sannindi þeirra náttúrlegu trúarbragða, í hvørjum lærdómurinn um Guð, um manneskjuna,

um hennar skyldur, og hennar ódaudlegleika er í svo fagri og réttri ordu útleiddur af sjálfri skynseminni, svo þad væri ad gjøra oflítid úr henni, ad segja: hún sé ódugleg til ad leida oss til þeckíngar á sannleikanum og skyldu vorri; þá vil eg spyrja þá hina sømu, sem þetta segja, hvørjir þeir séu, er skrifa svo skynsamlega um sannleikann og skyldurnar? eru þeir ecki kristnir? eru þad ecki þeir, sem allt frá úngdæmi hafa verid uppfræddir í Guds opinberada ordi, og ega því ad þacka þá hreinu þeckíngu, sem þeir eigna skynseminni? Guds opinberada ord inniheldur tvennslags sannindi: sum, sem øldúngis væru hulin fyrir skynseminni, ef Gud hefdi ecki opinberad þau, og ønnur, sem skynsemin ætti ad géta þeckt, ef hún ecki hefdi misst þad medskapada ljós. Nú skiptum vér þessum sannindum í tvo flocka, þau fyrri køllum vér þá opinberudu, og þau sídari þá náttúrlegu Gudfrædi. Vér eignum Ritníngunni þeckínguna á þeim fyrri, en þykjumst þeckja þau sídari af náttúrunni, þar vér þó egum Guds opinberada ordi ad þacka, ad vér þeckjum þau svo skírt og greinilega.

Raunin er ólýgnust. Er þad møgulegt ad koma med einn einasta, sem hefir framsett sannindi þeirra náttúrlegu trúarbragda skírt, klárt og greinilega? er þad møgulegt, ad koma med einn einasta af heidíngjanna Vísinda mønnum, sem kénnt hefir þá sønnu og hreinu innvortis guds=þjónustu med þeim hætti, sem samqvæmur er Guds fullkomlegleikum? er þad møgulegt, ad koma med einn einasta, sem hefir kénnt allar þær skyldur, sem vér erum Gudi og ødrum mønnum skyldugir um? og

Heidíngjarnir höfdu þó sömu skynsemi, sem vér, og allteins sterkann þánka-krapt, sem vér. Þegar vér lesum þeirra verk, sem áðræra annad enn trúarbrøgdin, þá finnum vér, ad þau eru svo føgur, svo grundud, og med svoddan eptirþánka skrifud, ad vér ecki kunnum ad vænta neins stærri fullkomlegleika, enn ad géta jafnast vid þá; einúngis í þeim efnum, sem áðræra Gud og gudlega hluti, skyldur og dygdir, þar tala þeir høfud-óra. Menn géta varla ímindad sér, ad þad sé hin sama skynsemi, sem þenkt hefir. Sé nú þetta sannleikur, sem ecki verdur á móti haft, þá hljótum vér ad medkénna þetta tvennt: bædi ad þeir lærdómar, sem skynsemin þeckir nú á døgum svo greinilega, eru dregnir af Guds opinberada ordi, og líka ad skynsemin af sínum eginn ramleik aldrei gjæti leidt oss til réttrar, vissrar og greinilegrar þeckíngar; ad guddómleg opinberan er oss þess vegna øldúngis naudsynleg, ef vér skulum læra ad þeckja Gud, sem skapadi oss, þá forsjón, sem vakir yfir oss, þær skyldur sem vér egum honum ad audsýna, þá dýrkun, sem vér egum honum ad veita, þad forlíkunar medal, fyrir hvørt vér komumst í sátt vid hann, og þann ódaudlegleika, sem vér erum tilkalladir.

Þar manneskjan hefir svo stóra þørf á guddómlegri opinberun, sér til upplýsíngar og vegvísirs, þá megum vér maklega þenkja, ad þvílík guddómleg opinberan sé til í heiminum. Þar Gud hefir géfid oss sólar-ljósid, af því ad stjørnu-ljósid er ecki nóg til ad vísa oss veg í líkamlegum efnum, hvørsu miklu framar mun hann þá hafa géfid oss ædra ljós í andlegum efnum, þar skynseminnar ljós er svo

dapurt og ófullkomid? þar Gud hefir skapad læknisdóma í náttúruna vid líkamans meinsemdum, skyldi hann þá láta oss vera hjálparlausa í sálarinnar sjúkdómum? ecki er hans gædsku þad ætlandi. Alla orsök höfum vér þess vegna til ad hugsa heiminum hafi gefin verid gudleg opinberan.

En hvar egum vér þá ad leita ad þessari gudlegu opinberun, ef þad er ecki sú, sem vér höfum vor á medal, hvör ed gengid hefir beinleidis frá Adam til Nóa, frá Nóa til Abrahams, frá Abraham til Móses, frá Mósi til Kristum, frá Kristó til vor, þó hún hafi smámsaman verid frekar aukin og útskírd. Ef vér berum hana saman vid allar adrar svo kalladar gudlegar opinberanir, getum vér varla farid á mis vid ad þeckja hana, ef vér ecki viljum vera blindir af ásetníngi. Ef hún hefir ecki øll þau kénnimerki til ad bera, sem ega ad finnast hjá gudlegri opinberun, hvørr skyldi þá hafa þau? sé þad kénniteikn á gudlegri opinberun, ad hún megi ecki innihalda neitt, sem strídir á móti skynseminni, þá finnum vér engann lærdóm í Ritníngunni, sem ecki getur stadist med réttri brúkun skynseminnar, ef hann er greinilega útlistadur og skilinn eptir Guds Anda meiníngu. Því þó ad nockrir lærdómar yfirstígi skynseminnar krapta, þá strída þeir ecki þar fyrir á móti henni; þeir eru ecki samnfæríng á móti hennar guddómlega uppruna, heldur eru þeir roksemd til þess, ad hún hlýtur ad vera komin frá veru, hvørrar skilníngur er miklu ædri enn vor. Sé þad kénniteikn á gudlegri opinberun, ad hún ecki megi mótsegja sjálfri sér, þá komum med eina einústu grein, hvar þvílík mótsögn verdur sønnud:

Verdum vér þess ecki daglega varir, ad þvílíkur ágreiníngur, sem hér og þar sýnist fyrirkoma, hverfur meir og meir, eptir því, sem vér framar rannsökum þessi heilögu Rit. En ad þeir heilögu Skrifarar, sem höfdu svo ólíkann þenkíngar-hátt, svo ólíkt uppeldi, og lifdu í svo ýmislegum stödum, gátu skrifad án þess ad mótsegja hvørr ødrum, jafnvel í hinu minnsta, er sterk røksemd fyrir því, ad þeir allir, þegar þeir skrifudu, hafa stjórnast af hinum sama anda. Sé þad kénniteikn á gudlegri opinberun, ad hún komi saman vid Guds fullkomlegleika og þéni hans nafni til vegsemdar; hvad finnum vér þá, sem ecki er verdugt þeirri ædstu veru? edur hvad finnum vér, sem ecki þénar Gudi til dýrdar? allstadar er oss Gud útmáladur þannig, sem skynsemin ætti ad íminda sér hann, eilífur í sinni tilveru, ótakmarkadur í sinni veru, óransakanlegur i sínum vísdómi, ómótstædilegur í sínu almætti, óþrjótandi í sinni gædsku, og óendanlegur svovel í sínu réttlæti, sem í sinni miskunsemi. Sé þad kénniteikn á gudlegri opinberun, ad þar hún hlýtur ad vera géfin mønnum til nota, þá sé henni þannig háttad, ad hún ebli þeirra farsæld, gétum vér þá neitad því, ad sú opinberan, sem vér høfum, sé gædd þessum sælufulla krapti? finnum vér ecki hér ánægjanlegann læknisdóm, vid øllum sálarinnar sjúkdómum? sé þad þessa lífs mótlæti, sem fær á oss, þá hughreystir hún oss med Guds forsjón, sem ber umhyggju fyrir oss, og stjórnar vorum kjørum med gædsku og vísdómi. Séu þad vorar óstýrilátu gédshræríngar og syndsamlegu girndir, sem spilla vorri farsæld, þá kénnir hún oss þær heilnæmustu lífs reglur, og sýnir

oss þau øbluguſtu medøl til ad halda í taumi vorum girndum og dempa vorar gédshræríngar. Sén þad vorar syndir, sem gjøra samvitskuna órólega, og uppvekja hjá oss hrædslu fyrir Guds réttlæti, þá vísar Ritníngin oss til þess forlíkunar medals, fyrir hvørt vér erum fridþægdir. Sé þad daudinn, sem skélfir oss, þá opnar hún oss gledilega sjón inní eilífdina. Hvar skulum vér þá leita ad gudlegri opinberun í heiminum, ef þad er ei sú, sem vér høfum?

Ad vísu er þad satt, ad Ritníngin inniheldur nockra trúar lærdóma, sem vér ecki gétum skilid. En þad kann ei heldur annars ad vera, þar vor skilníngur er svo sljóskygn. Guddómsins leyndardómar géta ei annad enn verid oss óskiljanlegir. Orsøkin til þess, ad vér skiljum þá ei, er ecki í Ritníngunni, heldur í sjálfum oss og vorum veika skilníngi. Ritníngin sjálf er svo skír, sem hún gétur verid. T. d: lærdómurinn um þrenníngunа, um Kristi guddóm, um endurlausnar = verkid, eru í vissann máta myrkvir, en Ritníngarinnar vitnisburdur hérum er þó skír og augljós. Þá hid fyrsta kynnum vér med réttu ad qvarta yfir, ad þessir lærdómar væru myrkvir, ef vér ecki gjætum sjed til vissu, hvørt Gud væri þríeinn, edur ecki; hvørt Kristur væri einúngis madur, edur ásamt sannur Gud. Hvørt manneskjurnar væru endurleystar edur ecki. En úr øllu þessu skér Ritníngin greinilega, svo enginn gétur efast þar um, sem ecki af ásetníngi lokar aptur augunum.

Satt er þad, ad auk þessara lærdóma, eru adskiljanlegar greinir í Ritníngunni, hvørra réttu meiníng er bágt ad finna. En hvørr gétur furdad

sig á því, þá menn adgjæta hvørsu gamallt þetta verk er? vor þenkíngar og rits-háttur mismunar allmjøg frá hinna gømlu, og þeir heiløgu Skrifarar hlutu ad haga sér eptir þeim, handa hvørjum þeir fyrst og fremst skrifudu. Vorar útleggíngar útþryckja ei heldur ætíd høfud-textann fullkomlega, hvørs vegna margar greinir verda ljósari, þegar menn lesa þær í því máli, er þær í øndverdu ritadar vóru. Par finnast orda-tiltæki í því heilaga máli, sem vóru alkunnug þeirrar aldar manneskjum, en sem oss eru ókunnug. Par finnast ýmsir talshættir, í hvørjum litid er til fornra málsháttu, sida, og annara atvika, sem oss er ókunnugt um; þess vegna verdur og margt hvad ljósara, eptir því, sem øss fer meira fram í þeckíngu á gømlum túngum og fornaldar søkum. Hvad er þá ad undra þó ad í svo afgømlu verki fyrirkomi hér og hvar einstakar greinir, sem eru þúngskildar? vér kunnum ecki ad efast um ad þeir hafi skilid þær, hvørjum Ritníngin fyrst var gésin. Hún er þess vegna ljós í sjálfri sér. Pó þær séu óljósar fyrir oss, þá er þad ecki ad kénna þeim heiløgu Skrifurum, heldur elli þeirra verka. Vér missum heldur einkis í vegna þessara óljósu greina. Guds visdómur og gædska hefir borid umhyggju fyrir því, ad þau sannindi, sem naudsynleg eru til ad upplýsa skilníngin og leida hjartad til dygdar og farsældar, eru allstadar skír og skiljanleg; allstadar þar, sem talad er um trúarinnar lærdóma og líffernis skyldurnar, er nóg ljós, og meira þurfum vér ecki. Peir smáu skuggar, sem híngad og þángad sýnast ad skyggja á ljósid, eru uppørfan til ad ransaka þessi heiløgu Skrif, þar skynsemin

er vön ad meta lítils þad audvelda, og leita sér ad fædu í því torvelda. Sá ólærdi finnur hér allt hvad hann medþarf til ad breyta eptir í sínu framferdi, til ad hugga sig vid í sínu mótlæti, til ad styrkja med sína trú og von; og sá lærdi finnur nóg til ad æfa á skilníng sinn og eptirgrenslunar-lyst.

---

Hvørsu luckulegir eru þeir, sem hafa þetta ljós Guds opinberada ords vid ad stydjast, og brúka þad samqvæmt Gjafarans góda tilgángi. Ad vér þeckjum þann, sem hefir skapad oss, ad vér ecki erum svo djúpt nidursocknir í vanþeckíngarinnar myrkur, ad vér tilbidjum vor egin handa-verk, og kriúpum nidur fyrir sképnunni í stad Skaparans, þad egum vér ad þacka Guds opinberada ordi. Ad vér vitum, hvørninn Skaparinn vill láta sér þjóna, og ad vér erum vissir um, ad honum líkar vid oss, þegar vér þjónum honum eins og hann hefir bodid, þad egum vér ad þacka Guds opinberada ordi. Ad vér høfum óhulta leidsøgn til dygdarinnar, og svo krøptugar uppørfanir, til ad ástunda hana, þad egum vér ad þacka Guds opinberada ordi. Ad vér þeckjum þann frístad, sem vér egum ad flýja til, þegar løgmálid oftækir oss med sinni bølfun, og samvitskan med sínum brýxlyrdum, þad egum vér ad þacka Guds opinberada ordi. Ad vér høfum djørfúng ad upplypta vorum høfdum, þegar daudinn og eilífdin taka ad nálægjast, og þorum án skélfíngar ad leggja uppá þann dymma veg, sem leidir oss ígégnum daudann til ódaudlegleikans, þad egum vér ad þacka Guds opinberada ordi.

Svo mikla velgjørnínga veitir Ritníngin oss, ef vér einúngis brúkum hana í þeim tilgángi sem hún er oss géfin. Vér erum svo heppnir, ad vér strax í vorri barnæsku fáum skírari, réttari og greinilegri þekkíngu á þeim guddómlegu sannindum, heldur enn þeir lærdustu á medal Heidíngjanna høfdu, sem vørdu øllum sínum lífsstundum til ad leita sannleikans, og fundu hann þó ecki. Hvørsu mikid ætti oss ad fara fram í þekkíngunni, þar vér ecki þurfum ad hafa svo mikid fyrir ad leita ad sannleikanum, sem þeir. Vér erum svo heppnir, ad vér betur þeckjum vorar skyldur, og høfum lángtum sterkari uppørfanir til ad leggja oss eptir dygdunum, heldur enn þeir. Hvørsu miklu straffsverdari erum vér þá ecki, heldur enn þeir, ef þetta hefir enga verkun hjá oss, ef vér gaungum í Heidíngjanna fótspor, erum kristnir ad nafninu til, en Heidíngjar í verkunum og framferdinu. Vér erum svo heppnir, ad vér þeckjum lángtum greinilegar heldur enn þeir, þad stóra takmark, sem vér í eilífdinni erum tilætladir, og hvørsu siunulausar skepnur megum vér þá vera, ef vér látum ecki svo gledilega von og tilhløckun krøptuglega uppørfa oss til ad dempa vora spilltu náttúru og keppast eptir ad ná hnossinu. Já, hvørsu miklu straffsverdari megum vér ecki vera, þegar hnossid blasir á móti oss, og vér ecki samt finnum hjá oss neina alvorugéfni til ad keppast eptir því, einninn þó Gud frambjódi oss sína krøptugu lidveitslu. Því stærri velgjørnínga, sem Gud veitir oss, þess stærri er vor reikníngskapur, þess þýngri verdur og vor dómur, ef vér ecki brúkum þá eptir Gjafarans tilætlun. Þá

brúkum vér Ritnínguna eptir Gjafarans tilgángi, þegar vér brúkum hana til að vera í þeckíngu og fullkomlegleika, þángað til vér gétum smámsaman endurnýjað hjá oss þá Guðs mind, sem vér mistum í falli vorra fyrstu foreldra.

## 18. Kapítuli.

Forlíkunar-meðal er nauðsynlegt til að friðþægja það fallna mannkyn við Guð.

Svo stóra þörf, sem það fallna mannkyn hefir á guðlegri opinberun, skynseminni til upplýsíngar og leiðarvísirs, svo stóra þörf hefir það einninn á, að því væri géfið forlíkunar meðal, til að géta komist hjá því réttvísa straffi, sem það með syndunum og yfirtroðslu Guðs lögmáls tilvinnur. Það sem Guð af oss heimtar, hvört, sem vér þeckjum það af náttúrunnar ljósi, af samvitsku vorri, eður af Guðs opinberaða orði, þá er það ecki einúngis ráðleggíng góðs vinar, sem vér kunnum að fallast á, ef vér viljum, og hafna að ósekju, heldur eru það krofur Skaparans til sképnanna, Yfir-herrans til þegnanna, það eru lög í ríki þess æðsta Stjórnara. Þess vegna verða þessi lög annaðhvört að uppfyllast með hlýðninni, eður óhlýðni þeirra að straffast að öðrum kosti, sem þau yfirtroða. Engin gétur neitað þessu, sem veit hvað yfirherra, undirsáti, stjórnar-stand og lög eru.

En, uppfyllum vér þá þessi lög, eður gétum vér í voru nærveranda ástandi uppfyllt þau? sá sem gjætir að, hvörsu lángt Guðs lögmál nær, og hvörsu margt og mikið það af oss heimtar, gétur ei annað

enn neitad þessu spursmáli. Já, ef Gud væri ánægdur med útvortis hlýdni, ef hann ecki heimtadi meira af sínum þegnum enn vissar útvortis skyldur, ef ad sá hefdi uppfyllt Guds løgmál, sem varadist hórdóm, mord, þjófnad, meinsæri og annad þesshättar, þá væri ei svo torveldt ad uppfylla þad, og sá mætti vera ýfrid andvaralaus, sem bryti þad. En gétum vér leidt oss í hug, ad løg þess alvitra stjórnara séu bundin vid svo þraung takmørk. Løg jardneskra Kónga ná allteins lángt, og þau mundu ná lengra, ef ad þeir, eins og Gud, gjætu sjed inní hjarta sinna undirsáta; mundu þeir þá ecki allt eins straffa innvortis lotníngar-leysi, sem útvortis spott? mundu þeir þá ecki allt eins straffa heimuglegt rádabrugg upphlaupsmannsins, sem verknad þess er rædur lønd og þegna undan Kóngi sínum? mundi sá ecki verda fyrir Kóngsins reidi, sem þenkir ílla um hann, allt eins og hinn, sem talar ílla um hann? enginn efi er á því. En nú þeckir Gud mannanna heimuglegustu þánka, og hans alvitska sjer inní þau innstu hjartans fylgsni; þess vegna er ei heldur neinn efi á því, ad Gud heimtar fullkomna hlýdni, ecki einúngis í vorum útvortis athøfnum, heldur ogsvo í vorum þaunkum, girndum og tilhneigíngum. Í Guds augliti er sá allt eins straffs verdur, sem reidist bródur sínum án orsaka, sem hinn, er slær hann í hel, og sá, sem med saurugri girnd lítur til qvennmanns, brýtur allt eins Guds løgmál, sem hinn, er drýgir hór med henni, Matth. 5. Þess vegna heimtar Gud, ad vér skulum elska hann af øllu hjarta, af allri sálu, af øllum mætti, og af øllu hugskoti. Lúc. 10. Þar ed nú Guds løg ná svo

lángt til og útheimta svo mikið, hvørr er þá, sem þori að segja, að hann uppfylli eður géti uppfyllt Guðs løgmál? hvørr gétur varast sérhvørn syndsamlegann þánka, sérhvørja óleyfilega girnd, sérhvørja óreglulega géðshræríngu, sérhvørt ónytju orð? og þar vér með þessu allt eins brjótum Guðs løgmál, sem með útvortis stór-glæpum, er liggja í augum uppi, þá verður ályktanin þessi: að vér ekki uppfyllum Guðs løgmál, og þar vér ekki uppfyllum það, hljótum vér endilega að straffast, sem þess yfirtroðslumenn, ef ekki skéður forlíkan fyrir oss.

En það, sem gjørir oss það enn þá ómøgulegra að uppfylla Guðs løgmál, er þetta: að Guð er ekki ánægður með ófullkomna hlýðni, því hann heimtar af oss fullkomna hlýðni, ekki einúngis í nockrum, heldur øllum hlutum. Ef að løgmálið heimti einúngis af oss vissar skyldur eður vissar dygðir, ef það væri nóg, að vér uppfylltum nockrar Guðs skipanir, og mættum svo strafflaust yfirtroða hinar aðrar, þá yrðum vér bráðlega lausir við Guðs løgmál; en þvílík ófullkomin hlýðni gyldir ekki fyrir jarðneskum dómstólum, og hvørsu miklu síður kann hún þá að gylda fyrir dómstóli þeirrar æðstu veru? eg hefi þess áður gétið, að sérhvørr maður elur í hjarta sínu einhvørja aðal-tilhneigíngu, sem er fædd með honum, og þegar hann einúngis mátti láta eptir þessari einu tilhneigíngu með øllum þeim aungum, sem af henni spretta, þá mundi honum ekki veita torveldt að uppfylla allar aðrar løgmálsins krøfur. En løgmálið heimtar af oss fullkomna hlýðni í øllum hlutum, ekki einúngis þar, sem náttúran þvíngar oss til að vera hlýðna, heldur og svo

þar, sem vér hljótum að þvínga náttúruna til að vera það. Þess vegna segir Jacob Postuli: þó einhvørr héldi allt løgmálið, en yrði brotlegur við eitt boðorð, þá er hann þegar sekur við þau øll. Því sá sem sagði: þú skalt ecki hórdóm drýgja, hann sagði líka; þú skalt ecki mann deyða. Þótt þú nú ecki drýgir hór, en slær í hel, þá ert þú orðinn yfirtroðslumaður løgmálsins, Jac. 2. Þessi ályktan er skynsamleg. Það, sem gjørir sérhvørja synd straffs verða, er sú innvortis óhlýðni hjartans. Sá sem gétur fengið af sér, að brjóta eina einustu af Guðs skipunum með vilja og vitund, hann mundi brjóta þær allar, ef hans spillta náttúra útheimti það; því hann elskar sjálfann sig meira enn Guð, og áfýsíng sinnar náttúru meira enn Guðs skipanir. Sá, sem í einum einasta hlut brýtur Guðs løgmál, er þess vegna allteins straffs verður, sem hinn, er yfirtreður það allt, og þess vegna kann ófullkomin hlýðni ecki að réttlæta oss fyrir Guðs dómstóli. En hvar er sú manneskja, sem í øllum hlutum lifir eptir Guðs løgmáli? kénnir ecki reynslan oss að þó vér lifum eptir nockrum Guðs skipunum, þá brjótum vér þarámóti aðrar? vér erum þess vegna ætíð løgmálsins yfirtroðslu-menn, og sem yfirtroðslu-menn hljótum vér að straffast, ef ecki skédur forlíkan fyrir oss.

Eg vil enn nú bæta þessu við: að það er vor skylda að uppfylla Guðs løgmál, ecki einúngis í øllum hlutum, heldur ogsvo með stødugri og sífeldri hlýðni; það er ecki nóg, þó vér endrum og sinnum lifum eptir Guðs løgmáli, og einninn þó vér, ef það væri møgulegt, héldum það fullkomlega, ef vér

brjótum það endrarnær. Þó þénari nockurr hafi alla sína æfi verið trúr og húsbónda-hollur, þá afsakar það hann ecki, þegar hann einusinni verður uppvís að ótrúmennsku. Þó undirsáti nockurr hafi verið góður og gagnlegur þegn, þá verður honum það ecki til afbötunar, þegar hann gjörist Drottins svikari. Þó maður hafi lifað skickanlega og siðsamlega, þá er það engin afsakan fyrir hann, þegar hann saurgar sína ekta-sæng. Heil ræð af góðum og dygðugum athöfnum réttlætir ecki þann, sem einusinni brýtur lög síns Kongs. Sé nú þetta réttvíst fyrir mannanna dómstóli, þá gétur það ei verið óréttvíst fyrir Guðs dómstóli. Guð heimtar stöðuga og sífelda hlýðni af sínum sképnum; sá sem einúngis í eitt skipti, í einum einasta hlut brýtur Guðs lögmál, hann vinnur til straffs með þessari einu yfirtroðslu, öll hans fyrri hlýðni, sem einúngis var hans skylda, gétur ecki bætt fyrir þessa hans einu óhlýðni. Og hvar er sú manneskja, sem ecki hefir brotið Guðs lögmál optar enn einusinni? miklu framar mun aldrei líða nockurr dagur til enda, að vér ecki hvörr með öðrum brjótum það optar enn einusinni. Fyrir þessar yfirtroðslur hljótum vér að straffast ef ecki skédur forlíkan fyrir oss, svo vér kunnum að fríast frá straffinu.

Af þessu, sem nú er sagt, flýtur þetta: að þó vér með miklu stríði og ástundan kjæmumst svo lángt, að vér um síðir gjætum fullkomlega uppfyllt Guðs lögmál, þá gjætum vér samt ecki með þessari nýju hlýðni fríast frá því straffi, sem vér með vorri fyrri óhlýðni höfðum tilunnið; því þó vér værum fullkomlega heilagir, sem í þessu lífi er öldúngis ó-

mögulegt, þá höfum vér ekki alltíð verið það. Vér höfum áður verið óhlýðnir, og gétum þess vegna ekki með vorri nýju hlýðni, sem er vor skylda, bætt fyrir vora fyrri óhlýðni. Eg vil upplýsa þetta með eptirdæmi: maður nockurr hefir brúkað allann sinn aldur, eður mesta part af honum til að stela, eður annara stórglæpa, en leggur nú af lesti þessa; hafa þá lögin eckért framar uppá hann að tala? heimfærum nú þetta eptirdæmi uppá ástand syndugra manna. Eg vil gjöra við því, sem þó er ómögulegt, að vér undir enda vorra lífdaga kjæmumst svo lángt, að vér gjætum fullkomlega haldið Guðs lögmál, þá gjörum vér eckért meira enn skyldu vora, og það, sem vér ætíð áttum að gjöra. Vor nýja hlýðni gétur ecki verið borgun fyrir vora fyrri óhlýðni. Vér stöndum enn nú í sekt fyrir vor fyrri afbrot, og hljótum að straffast fyrir þau, og ef vér eigum að komast hjá straffinu, þá hlýtur að ské forlíkan fyrir oss; vér hljótum annaðhvört að líða straffið sjálfir, eður annar í vorn stað.

Það er forgéfins, þó vér vildum bera það fyrir oss, að ástríðan til hins illa sé svo sterk, en vorir kraptar til að standa á móti henni svo veikir, að vér með engu móti gétum fullkomlega orðið Herrar yfir sjálfum oss og vorum tilhneigíngum, hvörsu fegnir, sem vér viljum, að Guð þess vegna hljóti að hafa þolinmæði við vorn breiskleika, og láta sér nægja vorn góða vilja. Gétur þessi afsökun gyldt fyrir mannanna? og hvörninn kunnum vér þá að tilætlast, að hún gyldi fyrir Guðs dómstóli? hvönær hefir nockurr þjófur umflúið laganna straff, þó hann hafi borið fyrir sig, að hans þjófs-

náttúra sé honum medfædd, og hann ecki hafi gétad stadid á móti henni, hvørsu feginn sem hann hafi viljad? vér erum svo veikir, segja menn, vorar girndir og tilhneigíngar eru svo sterkar, vor vilji er gódur; en oss brestur kraptana. Látum vera, ad allt þetta væri satt, erum vér ecki samt sem ádur skyldugir ad uppfylla Guds løgmál? edur erum vér sídur straffsverdir, þegar vér ecki uppfyllum þad? satt er þad, ad vér erum veikir, vér erum spilltir, og høfum fært þessa spillíngu med oss inní heiminn; en þessi veikleiki, þessi spillíng er ecki komin frá Gudi. Hann skapadi vora fyrstu foreldra hreina og heilaga, og gaf þeim fullkomna krapta til ad halda hans løgmál. Þad var Skaparans tilætlun, ad þessi þeirra medskapadi heilagleiki skyldi forplantast til allra þeirra afkomenda. Þó þau vegna þeirra óhlýdni mistu þetta uppruna sakleysi, þó þau med sjálfskapar-vítum leiddu þessa vanart inní þeirra náttúru, og sídan med náttúrlegum gétnadi meddeildu hana øllum þeirra nidjum, þad er ecki Gudi ad kénna, hann tapar þess vegna engu af sínum rétti til ad heimta fullkomna hlýdni af mannesk junum.

Samt, ef vér værum ecki spilltari heldur enn þegar vér fæddumst, ef ad einúngis veikleiki, sem vér ecki gjætum adgjørt, væri orsøk til þess, ad vér brjótum Guds løgmál — en þad gétum vér ei heldur med sanni sagt — uppfyllum vér þá raunar allar þær skyldur, sem vér gjætum uppfyllt, ef vér einúngis hefdum alvarlegann vilja til þess? stendur þad ecki í voru valdi, ad dempa eina edur adra girnd, sem vér látum drottna yfir oss? syndgum

vér þá ætíð af veikleika, fávitsku, óaðgjætni, eður gjörum vér ecki óteljandi syndir viljandi á móti betri vitund? fordumst vér allar þær syndir, sem vér gjætum fordast, ef vér vildum láta lítið eitt á móti sjálfum oss? gjörum vér allt það góða, sem vér hofum krapta og tækifæri til? eður segir ecki vor samvitska oss, að vér margfaldlega brjótum á móti Guðs boðorðum, þar sem vér þó hefðum gétað breytt eptir þeim, ef vér einúngis hefðum sjálfir viljað? segir ecki vor samvitska oss, að vorir kraptar, sem af náttúrunni eru veikir, hafa með aldrinum veikst enn þá meir, af því vér ecki hofum nóglega vakað yfir sjálfum oss, ecki nóglega stríðt á móti sjálfum oss, á meðan vér høfðum krapta til að stríða? vor náttúrlegi vanmáttur affakar oss þess vegna ecki fyrir Guðs dómi. Sú ályktan stendur støðug og óhræranleg: vér hljótum fullkomlega að uppfylla Guðs løgmál, eður vér hljótum að straffast, sem þess yfirtroðslu-menn; og þar vér ecki gétum það fyrra, þá megum vér óttast fyrir því síðara. Eður, ef vér egum að fríast frá straffinu, þá hlýtur þar að koma til forlíkunar-meðal, fyrir hvørt vér kunnum að freisast.

En jafnvel þó vor meðfædda spillíng og vanmáttur vorrar náttúru til að yfirvinna þessa spillíngu, enganveginn fríkaki oss frá því straffi, er løgmálið segir þeim á hendur, er það brjóta, þá finnum vér þó hjá oss veika von um forlíkunar-meðal oss til frelsis, þegar vér þenkjum til þess, að sú vanart, sem við oss loðir alla vora æfi, er fædd með oss, að vér urðum strax saurugir í vorum gétnaði, og høfum tekið þessa spillíngu í arf

eptir vora foreldra. Og oss til stærstu gledi stadfestir Ritníngin þessa vora veiku von. Allstadar kénnir hún oss, ad Guds Sonur, sem í sinni náttúru var hreinn og heilagur, hafi í vorn stad uppfyllt Guds lögmál, sem vér vegna vorrar medfæddu spillíngar ecki gátum uppfyllt, og í vorn stad lidid þad straff, sem vér vegna laganna brots áttum ad lída; ad Löggjafarinn þess vegna fyrir hans skuld ecki vilji tilreikna oss vor afbrot; fyrir hans skuld vilji géfa öllum þeim eilífa sælu, sem trúa á hann, snúa sér til Guds, og brúka vilja sér til uppreisnar af fallinu þá hjálpar-hönd, er vill frelsa þá frá fordæmíngunni, og eptir þeirra veiku kröptum kappkosta med Guds adstod ad komast ad því uppsetta takmarki. Þessi huggunar-ríki lærdómur er útbreiddur um alla Ritnínguna. Allstadar finnum vér þessa vitnisburdi: svo elskadi Gud heiminn, ad hann gaf út sinn eingétinn Son til þess, ad allir þeir, sem á hann trúa, fyrirfarist eigi, heldur hafi eilíft líf; því eigi sendi Gud sinn Son í heiminn, ad hann fyrirdæmdi heiminn, heldur ad heimurinn frelsist fyrir hann; hvörr á hann trúir, fordæmist eigi, en hvörr hann trúir eigi, hann er nú þegar fordæmdur, því hann trúdi eigi á Guds eingétinn Son, Jóh. 3. Líka sem fyrir eins óhlýdni eru margir syndugir ordnir, svo verda og fyrir eins hlýdni margir réttlátir, Róm. 5. Þann, sem var hreinn af synd, áleit Gud, sem syndara í vorn stad, svo ad vér fyrir hann yrdum réttlátir fyrir Gudi, 2 Cor. 5. Þér vitid, ad hann hefir byrtst til ad burttaka vorar syndir, því engin synd var hjá honum, 1 Jóh. 3.

Þegar vér enn þá vórum veikir, dó Kristur á þeim áqvardada tíma fyrir þá ógudlegu. Varla deyr nockurr fyrir þann réttláta; fyrir þann góda yrdi máské einhvørr til ad deyja; en þar í sýndi Gud sinn kjærleika til vor, ad Kristur er dáinn fyrir oss, þegar vér enn þá vórum syndarar, Róm. 5. Vér hølldum, ad þar einn er fyrir alla dáinn, þá séu þeir allir daudir; og því er hann fyrir alla dáinn, ad þeir, sem lifa, lifi ei sjálfum sér héreptir, heldur honum. sem fyrir þá hefir dáid og upp aptur risid, 2 Cor. 5. Þar er einn Gud og einn medalgángari milli Guds og manna, sá madur Kristur Jesús, sem gaf sig út til endurlausnar fyrir alla, 1 Tím. 2. Kristur hefir eitt sinn fyrir syndirnar lidid, sá réttláti fyrir þá ránglátu, svo ad hann leiddi oss fram fyrir Gud, 1 Pét. 3. og adrar óteljandi Ritníngar-greinir, sem oflángt er upp ad telja. Þessar framfærdu nægja til ad sýna oss þann gledilega sannleika, ad Jesús Kristur er dáinn fyrir mannanna syndir, og ad Gud fyrir hans forþénustu sakir vill taka syndugt mannkyn til nádar aptur.

---

Hvørsu gledilegur er þessi lærdómur um forlíkunar medalid oss syndugum manneskjum; vér hlutum annadhvørt sjálfir ad lída þad straff sem vorar syndir høfdu tilunnid, edur annar hlaut ad lída þad í vorn stad, vér hlutum annadhvørt sjálfir ad borga vora sekt, edur annar hlaut ad borga hana vor vegna. Og hvørsu ólucku legir hefdum vér verid, ef hún hefdi ecki verid borgud fyrir oss!

hvørsu óbærileg byrdi var þad, sem á oss lá! hvørsu djúpt var þad afgrunn, í hvørt vér, vegna syndanna, vórum nidursöcknir! hvørsu stór vor vanmáttur, ad frelsa oss af vorum egin kröptum! vorar syndir gjørdu adskilnad milli Guds og vor, segir Spámadurinn. Hvørr gétur útmálad eymd skynsemdarfullrar og ódaudlegrar sképnu, þegar hún ecki er sameinud Gudi því ædsta góda, uppsprettu allrar farsældar; hvørr gétur án skélfíngar hugsad til þeirrar endalausu eilífdar, til þess myrkra-qvala-ángistar- og örvæntíngar-afgrunns, sem fyrir mannesskjunum lá, ef Gud hefdi ecki miskunad sig yfir þær? en því stærri, sem sú eymd var, sem vér med syndunum høfdum steypt oss í, því stærri og innilegri á vor gledi ad vera yfir því forlíkunar medali, fyrir hvørt vér erum frelsadir. A medan vér erum hraustir og heilbrygdir, á medan vér hugsum, ad daudinn, grøfin og eilífdin séu lángt í burtu, finnum vér ecki ætíd til þessarar gledi, sem vera ætti; en þegar daudinn tekur ad nálgast, þegar vér erum komnir á grafar-backann, þegar heimurinn yfirgéfur oss, og vér eigum ad skilja vid heiminn, þegar vér liggjum fyrir daudanum og førum nú alvarlegar enn endrarnær ad þenkja um vort sálar ástand, um vorar syndir, um Gud, um dóminn og eilífdina, þegar vér nú rennum augum vorum til vors undanfarins lífernis, og mikill her af syndum og afbrotum umkríngir vora banasæng, vér rennum augum vorum til þess eptirkomanda lífs, og hér sjáum vér endalausa eilífd, og réttlátann dómara, sem géldur sérhvørjum eptir hans verkum. Þegar nú løgmálid ossækir oss þar hjá med sinn réttlæti,

Sínaí með sínum reiðar=slögum, og samvitskan með sínum brýxlyrðum, sem æða ákaflegar í sálunni, heldur enn helsóttin í líkamanum, hvílík gleði, hvílík sæla er þá fyrir oss dandvona, að vita það, að vér erum forlíktir við Guð? hvílíkann krapt, hvílíkann sálarinnar styrkleika gefur oss þá sú fullvissa, að fullkominn betalíngur er útlagður fyrir vorar syndir? enginn, utan sá sannkristni, sem þekkir þetta forlíkunar=meðal, getur þá upphrópað með djörfúng Postulans Páls: þar Guð er með oss, hvörr getur þá verið á móti oss? þar hann ekki þirmdi sínum eginn Syni, heldur gaf hann út fyrir oss alla, hverninn skyldi hann þá ekki einninn gefa oss alla hluti með honum? hvörr vill ásaka Guðs útvalda? Guð er sá, sem réttlætir, hvörr er sá, sem fordæmir? Kristur er sá sem dáið hefir, já, miklu framar, upp aptur risinn, hvör eð og er til hægri handar Guði, hvörr eð biður fyrir oss, Róm. 8.

En ef vér höfum svo stóra orsök til að gleðjast, af því vér vitum, að vér erum forlíktir við Guð, hvörsu stóra orsök höfum vér þá ekki til að elska Guð, sem vildi taka forlíkuninni. Ætti ekki það æðsta merki Guðs kjærleika til vor, að upptendra í vorum hjörtum þá heitustu elsku til hans aptur á móti? Svo elskaði Guð heiminn, segir Kristur, að hann gaf út sinn eingétinn Son til þess, að allir þeir, sem á hann trúa, fyrirfarist eigi, heldur hafi eilíft líf, Jóh. 3. Hvörsu dýrmætt var þetta offur, sem Guð lét frambera fyrir sitt réttlæti, svo að hann gjæti miskunað syndugum skepnum! Guð elskaði heiminn; en hvörsu ósegjan=

lega stærri var sú elska, með hvørri hann elskaði sinn eingétinn Son! og þó gaf hann út þennann sinn einka-Son, af elsku til heimsins, af elsku til þeirra sképna, sem eru svo lítt elsku-verdar, sem svo opt launa þessa dunnrædilegu elsku med óþakklæti; til sképna, sem midt í þeirri ólucku, sem þær eru í staddar, eru sjálfum sér verstar, sem hrynda frá sér þeirri hønd, er vill hjálpa þeim, og strída á móti þeim krapti, sem leitast vid ad frelsa þær; til sképna, sem ecki einúngis eru dupt og aska, heldur einninn syndugt dupt og vanheiløg aska, já, sem elska þeirra syndir, og þykir vænt um þeirra saurugleika. Fyrir þvílíkar sképnur gaf Gud út sinn eingétinn Son, ad þær ecki skyldu fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf. Hvørsu mikid innibinda þessi ord! hann lét sér ecki nægja, ad vér hér í heimi hefdum frid sálarinnar, rósemi samvitskunnar og djørfúng á móti daudanum, dóminum og eilífdinni, heldur vill hann veita oss eilíft líf. Sídarmeir á sú farsæld ad fullkomnast, sem byrjast hér í heimi; sídar meir egum vér ad njóta þeirrar gledi fullkomlega af hvørri vér einúngis høfum lítinn forsmeck hér á jørdunni; sídar meir, þegar Gud mun þurka allann grát af vorum augum, þegar vér erum komnir til þeirrar sælufullu hvíldar, sem geymd er Guds fólki, til hins heilaga bústadar hvar Gud opinberar sig oss í allri sinni dýrd og vegsemd, hvar vér fyllilega eignumst þad ædsta góda, og Gud sjálfur verdur vort ædsta góda, og hans kjærleiki er ysirgnæfanlega úthelltur í vor hjørtu. Værum vér ecki þeir óþacklátustu og óverdugustu af øllum Guds sképnum, ef vér ecki elskudum þá veru aptur á móti, sem þannig hefir oss elskad?

En þeşsi elşka á að vera frjóşsøm af dygðugum, ágjætum og kriştnum manni verðugum athøfnum. Það ætti að vera ávøxturinn af íhugun endurlausnar verksins. Hann gaf sig sjálfann út fyrir oss, segir Páll, uppá það hann frelsaði oss frá øllu óréttlæti, og hreinsaði sér sjálfum fólk til eignar, það kostgjæfið væri til góðra verka, Tít. 2. Lærdómurinn um endurlausnar-verkið má þess vegna ecki gjøra oss djarfari til að drýgja syndina. Þó að Guð hafi auðsýnt sína óendanlegu miskunsemi í því, að géfa oss friðþægíngar medal, þá er hans réttlæti samt allt eins óendanlegt. Þó að Guð hafi géfið oss forlíkunar-medal, þá hefir hann líka fyrirskrifað oss markverða skilmála, að hvorjum vér hljótum að gánga, ef vér viljum verða hluttakandi í þessari forlíkun. Þess vegna segir Postulinn Páll: Guð vill, að allir menn verði sáluhólpnir, og komist til sannleiksins viðurkenníngar, 1 Tím. 2. Þess vegna sver Guð við sitt egið háleita nafn: svo sannarlega sem eg lifi, segir Drottinn, Drottinn, þá hefi eg ecki þócknun á syndugs manns dauða, heldur að hann snúi sér og lifi, 2 Mós. b. 33. Þessir eru skilmálarnir, sem af oss heimtast ef vér viljum verða aðnjótandi þess forlíkunar medals, sem oss er géfið; vér hljótum að komast til sannleiksins viðurkenníngar, vér hljótum að snúa oss. Að treysta á forlíkunar medalið á meðan maður ecki uppfyllir þessa skilmála, er ofdyrfska. Þær manneskjur, sem syndga uppá náðina, og midt í synda ydjunni reiða sig uppá þá forlíkun, sem skéð er fyrir heimsins syndir, þær þeckja ecki þá sáluhjálpar-reglu, með hvørri Guð vill leiða það fallna mannkyn frá dauðanum til lífs-

ins; þær gjøra adskilnad á milli Guds miskunar og hans réttlætis, og reida sig ránglega uppá hans miskunsemi, þar þær hefdu mikln framar orsök ad skélfast fyrir hans réttlæti. Án gudlegrar opinberunar hefdum vér ecki þeckt Guds miskunsemi í endurlausnar=verkinu; og nú, þar Gud hefir opinberad oss þessa sína miskunarríku rádstøfun, og þarhjá lagt fyrir oss þá skilmála, med hvørjum vér gétum ordid hennar adnjótandi, þá tøkum vér fegins hendi á móti nádinni, en burtkøstum skilmálunum. Hvílík ofdyrfska er þetta, sem einsømul er nóg til ad gjøra oss þessarar miskunar óverduga! svo sem fjallid Golgatha ber vitni um Guds innilegu launguu til ad miskuna sig yfir alla fallna syndara, sem med sannri ydrun snúa sér til hans, svo ber fjallid Sínaí vitni um hans stránga réttlæti móti øllum þeim. sem þverskallast vid hans umvendandi nád. Þá hid fyrsta, þegar vér í réttri reglu leitum hans miskunar, gétum vér umflúid hans réttlæti.

## 19. Kapítuli.

### Heiminum er lofud persóna, honum til upplýsíngar og fridþægíngar, og þessi persóna er Jesús Kristur.

Eg hefi hér ad framan leidt røk til þess, ad þad fallna mannkyn þurfi med gudlegrar opinberunar sér til upplýsíngar, og forlíkunar=medals sér til fridþægíngar. Gydínganna heiløgu bækur tala og allstadar um eina persónu, sem Gud hafi lofad heiminum til ad framqvæma þetta hvørttveggja. Esajas talar um einn drottins þjón, sem skuli vera ljós

Heidíngjanna, sem skuli opna augu hinna blindu, útleida þá bundnu úr fángelsinu, og þá, sem sitja í myrkrinu, burt úr dýblissunni, Es, 42. Móses hefir spád um sönn persónu: Spámann mun Drottinn Gud þinn uppvekja þér, út af þér og þínum brædrum, líka sem mig, honum skulud þér heyra, 5 Mós b. 18. Þessi sami Kénnifadir átti eptir spádómunum þarhjá ad vera heimsins Frelsari. Esajas hefir útmálad hann ecki einúngis sem Lærifödur, heldur og sem þann, er forlíkun mundi gjöra fyrir heimsins syndir: sannarlega bar hann vort kránkdæmi og vorum pínum hlód hann uppá sig. En vér héldum hann fyrir þann, sem plágadur var, og af Gudi væri slegin og píndur. En fyrir vorra misgjörda sakir er hann særdur, og fyrir vorra synda sakir, er hann lemstradur; hegníngin liggur á honum, svo ad vér hefdum fridinn, og fyrir hans benjar erum vér heilbrygdir ordnir. Vér gengum allir villt sem saudir, hvörr horfdi uppá sinn veg, en Drottinn kastadi öllum vorum syndum uppá hann. Þar fyrir ad hans sál hefir erfidi drýgt, mun hann sína lystíngu sjá og nægd hafa; og fyrir sína þeckíngu mun minn réttláti þjón marga réttláta gjöra, því ad hann ber þeirra syndir. Þar fyrir vil eg honum mikinn fjölda til býtis géfa, og hann skal fá þá öblugu til herfángs, þar fyrir ad hann hefir sitt líf í daudann útgéfid, og er líka sem spillvirki reiknadur, og hefir borid margar syndir, og hefir bedid fyrir yfirtrodslu-mönnunum. Es. 53.

Spámennirnir hafa ecki einúngis fyrirsagt, ad hvílíkur Lærifadir og Frelsari mundi koma í heim-

inn, heldur hafa þeir einninn fyrirsagt af hvada fólki, og af hvada ætt hann mundi fædast. Sá fyrsti spádómur, sem uppá hann hljódar, segir: ad hann skuli vera qvinnu sædi, 1 Mós. b. 3. En þar þetta er ecki greinilega tiltekid, þá var seinna náqvæmlegar fastsett: ad hann skyldi nidurstíga frá Abraham, 1 Mós. b. 12, og á medal hans afkomenda frá Jacob; 1 Mós. b. 28. þess vegna frá Israels fólki; en þar Jacob var ættarstofn tólf kynqvísla, þá var enn framar tilgreint, þegar stundir lidu fram: ad hann skyldi koma af Júda kynqvísl, og af Davíds ætt í þessari kynqvísl, Es. 11. Jer. 23.

Svo sem Spámennirnir hafa fyrirsagt, af hvada þjód, kynqvísl og ætt þessi persóna mundi fædast, svo hafa þeir líka tilgreint tímann, innan hvørs hann mundi koma. Hann átti ad koma á medan sídara musterid stód eptir Haggæi spádómi: svo segir Drottinn Zebaoth: enn nú einusinni innann litils tíma, vil eg hræra himin og jørd, sjóinn og þurrlendid, Já, eg vil hræra alla Heidíngja, og þá skal eptirlanngun allra Heidíngja koma; og eg vil fylla þetta hús med dýrd, segir Drottinn Zebaoth, þessa sídara húsins dýrd skal vera stærri enn hins fyrra var, segir Drottinn Zebaoth, Hagg. 2. Enginn efi er á því, ad hér fyrir eptirlanngun Heidíngjanna, á ad skiljast sú um spáda persóna, er vera átti Heidíngjanna ljós, Es. 49. Hann átti ad koma til þess sídara musteris, og vegna hans tilkomu átti hid sídara musterid ad verda dýrdlegra enn hid fyrra; hvørt ed þó ad útvortis fegurd bar lángt af hinu sídara,

Hagg. 2. Esr. 3. En nú er hid sídara musterid fyrir laungu eydilagt, svo ecki sjást merki til hvar hefir stadid, þess vegna hlýtur þessi um-spáda persóna ad vera komin. Daniel fastsetur þetta enn þá náqvæmlegar, hann fyrirsegir jafnvel árid, á hvørju þessi persóna mundi byrtast; sjøtíu vikur eru ályktadar yfir þitt fólk, segir hann, og yfir þína heiløgu borg, til ad hamla yfirtrodsluuni, og til ad innsigla syndirnar, og til ad forlíka misgjørnínginn, og til ad láta koma eilíft réttlæti; og til ad innsigla sjónina og spádóminn, og til ad smyrja hinn allrahelgasta, Svo vit nú og merk, frá þeim tíma, sem þad ord útgengur, ad þeir skulu koma til baka, og Jerúsalem upp aptur bygd verda, allt til høfdíngjans Kristum, eru sjø vikur, og tvær og sextíu vikur, á hvørjum strætin og grafirnar skulu aptur byggjast, og þad á sorglegum tímum. En ad lidnum þeim tveimur og sextíu vikum mun Kristur upprættur verda, og vera ecki meir; og fólk eins høfdíngja mun koma, og borgina og helgidóminn í eydi leggja, svo þad mun þá enda taka, svo sem fyrir annad vatnsflód, allt til strídsins enda er eydilegging áqvørdud. En vid marga mun hann stadfesta sáttmálann um þá einu viku, og midt í vikunni mun fórnfæríngin og mat-offrid afleggjast, og hjá vængjum vidurstyggdarinnar mun vera sá, sem eydileggur, og inn til fullkominnar endalyktar, nefnilega: þeirrar, sem áqvørdud er, mun straffid útausast yfir þann, sem eydileggst, Dan. 9. Jafnvel þó þessi spádómur sé nockud óljós, sérdeilis

fyrir ólærda, þá sjá þó allir, ad hér er talad um markverda persónu, sem muni gjøra forlíkun fyrir syndina, og sem innann 70 vikna mundi byrtast í heiminum. Bædi gydíngar og kristnir útleggjarar játa ad hér fyrir vikur eigi ecki ad skiljast daga vikur, heldur ára-vikur, af hvørjum sérhvør vika hefir í sér 7 ár, sem alls gjørir 490 ár. Pessar 70 vikur edur 490 ár áttu ad reiknast frá þeim tíma, þá sú skipan kom út, ad Gydíngarnir skyldu snúa til baka og byggja upp Jerúsalem. Pessi skipan kom út á 20sta ríkisstjórnar-ári Artaxerxis hins Lánghendta, Neh. 2. Frá þeim tíma á þess vegna ad reiknast þad fastsetta tíma-bil vid hvørs endíngu von var á þeim fyrirheitna høfdíngja Kristó.

En þar margir fæddust af Davíds ætt ádur enn þetta tíma-bil var lidid, og þessi kénni-teikn vóru þess vegna ecki nóg til ad audkénna þessa fyrirheitnu persónu frá øllum ødrum, þá hafa Spámennirnir bætt hér vid adskiljanlegum kénniteiknum, sem gjøra hann audþecktann. Hann átti ad fædast í Bethlehem, Mich. 5; ádur enn haun tók uppá sig sitt embætti í heiminum, átti hann ad hafa fyrir-rennara, er skyldi tilbúa honum veginn, Mal. 3; hans líf mundi verda lítilmótlegt ad útvortis áliti, Es. 53; í þessu sínu nidurlægíngar ástandi mundi hann þó aud-sýna sig sem stórann Spámann, er sendur væri frá Gudi, til ad kunngjøra mønnunum hans vilja, 5 Mós. b. 18; sem høfud-prest, er mundi frambjóda sjalfann sig til offurs fyrir syndirnar, Ps. 110. Es. 53; sem voldugann Konúng, er

mundi upprétta andlegt ríki í heiminum, Ps. 2. Jer. 23. En svo sem dauðinn, og þau atvik, sem honum fylgja, standa eingannveginn í manns sjálfs valdi, svo sýnist, sem Spámennirnir hafi helst viljað gjøra þessa umspádu persónu auðþeckta af því síðarsta tíma-bili hennar lífdaga. Þeir hafa þess vegna fyrirsagt, að hann skømmu fyrir sinn dauða mundi koma ríðandi til borgarinnar Jerúsalem, Zach. 9. síðan mundi hann verða seldur fyrir 30 silfur-peninga, Zach. 11.; eptir að hann var framseldur, mundi hann verða spottaður og húðstrýktur, Es. 50.; og síðan krossfestur, Ps. 22.; þegar búið væri að krossfesta hann, mundi verða hlutast um hans klæði, Ps. 22; hann mundi þyrsta, og honum mundi verða gésið edik að drecka, Ps. 69,; eptir hans dauða mundi hans líkami verða afhendtur ríkum manni, og óguðlegir mundu vakta hans grøf, Es. 53.; og þar eptir mundi hann rísa upp úr grøfinni, áður enn hans líkami rotnaði, Ps. 16.

Ef vér nú berum þessa Spámannanna lýsíngu saman við Guðspjallamannanna fráségn um Kristum, þá gétum vér ecki efast um, að Jesús Kristur sé sú persóna, sem frá upphafi hefir verið heiminum heitin, honum til uppfræðíngar og endurlausnar. Omøgulegt er að sýna eitt einasta kénniteikn, er finnast átti hjá þessari persónu, sem ecki finnst hjá Kristó; en það er hægt að sýna, að þau finnast øll hjá honum. Enginn gétur efast um, að hann hafi fæðst af Júða kynqvísl og af Davíðs ætt í þessari kynqvísl. Allir vita, að hann kom á meðan síðara musterið stóð, og

ad þetta musterid var nidurbrotid skømmu eptir Krists híngadkomu. Tíma-talid sýnir ljóslega, ad hann kom um þad leiti, er þær 70 vikur vóru á enda kljádar, eins og Daniel hafdi fyrisagt. Hin ønnur kénnimerki ega líka fullkomlega heima hjá Kristó. Hann fæddist í Bethlehem; Jóhannes Skírari var hans fyrir-rennari; hans líf var fátæklegt ad útvortis áliti; engu ad sídur sýndi hann sig í heiminum, sem guddómlegann Spámann med kénníngum, spádómum og krapta-verkum; sem hinn ypparsta Prest, med því ad offra sjálfum sér fyrir heimsins syndir; sem mikinn og volduganu Kouúng, med því ad gjøra ad engu heidindómsins ríki, og uppréтta í heiminum andlegt ríki, í hvørt bædi Gydíngar og Heidíngjar vóru medteknir. Skømmu fyrir sinn dauda reid hann inn til Jerúsalem; var svikinn fyrir 30 sylfurpeníngа, húdstrýktur, spottadur og krossfestur; hans klædum var med hlutkésti skipt milli þeirra rómversku strídsmanna; hann þyrsti, og honum var gésid edik ad drecka. Hans líkami var grafinn af Jóseph af Arimathia, er var einn af Rádherrum Gydínga; þeir rómversku vardhaldsmenn, vøktudu hans grøf, og skømmu eptir sitt andlát reis hann aptur upp frá daudum. Svo nákvæmlega kémur uppfyllíngin saman vid spádómana. Ef vér samansøfnum þeim audkénníngar-teiknum, sem fyrirkoma í Spámannanna ritum, þá finnum vér tvær lífs-søgur um Kristum, adra fyrir og adra eptir hans híngad-komu. Hvørr einn réttsýnn kristinn madur gétur hæglega álýktad hér af, ad annadhvørt sé Kristur sú fyrirheitna persóna, edur hún hafi aldrei í heiminn komid, og ad Guds fyrirheit

þess vegna aldrei muni uppfyllast; því þó Kristur kjæmi nú á dögum, þá gjæti hann ecki sannað, að hann væri sá rétti; já, hann gjæti ecki verið það.

En þar eð Jesús Kristur er sú markverða persóna, sem koma átti til að upplýsa og endurleysa mannkynið, sem fyrirheitin hafði verið frá heimsins upphafi, og eptir hvörri vænt hafði verið með svo mikilli eptirlaungun, þá megum vér maklega vænta að finna hjá honum nockuð stórt, sem svari til aúgnamiðs hans híngaðkomu. Sérhvör manneskja er sett í heiminn til að framqvæma vissann tilgáng og vissa áqvorðun; en engimn maður hefir nockurn tíma haft eður getur haft svo markverðann tilgáng, sem Jesús Kristur. Hans gétnaður var þarí frábrugðinn, að hann skéði án karlmanns tilverknaðar. Sá sami óendanlegi kraptur, sem framleiddi heiminn af engu efni skapaði líka Jesú manndómlegu náttúru, Lúc. 1. Að vilja skilja þetta, er allt eins ómögulegt, sem að skilja, hvörnim Guð skapaði Adam af jarðar-leiri.

Og eins og Jesú gétnaður var frábrugðinn, svo var líka hans fæðíng nockuð frábrugðin annara almennilegra barna, svo að Gyðíngar skyldu uppvekjast til athugasemdar. Í Jesú fæðíngu var mannlegur lítilmótleiki og guðleg hátign sameinuð hvört við annað. Fæðíngunni sjálfri fylgdi eckért óvenjulegt, er kunni að leiða menn á þá þánka, að þetta barn, sem lá í stallinum, vafið í fátæklegum reifum, væri sú háa persóna, sem Guð hafði í svo lángann tíma heitið feðrunum. Guðs vísdómur lét þess vegna ské tvø markverðug atvik, til að gjöra Gyðíngana athugasama um hann. Það fyrra var, að englar byrtust í loptinu, sem báru fjárhyrðurunum

hann bodskap, ad Messías væri fæddur, Lúc. 2. Eckért gat verid øblugra til ad sannfæra manneskjurnar um Jesú guddómlegu hátign og tilgáng hans híngadkomu, heldur enn þessi opinberan, hvørju skyldu menn trúa, ef menn ecki vilja trúa þeim bodskap, sem med svo dýrdlegum hætti er opinberadur af himni. Pad sídara merkilega atvik vid Jesú fædíngu var, ad stjarna edur glóandi eld-hnøttur sást í loptinu, hvar af nockrir Vitríngar í austri urdu athugasamir, og ferdudust, líklega eptir gudlegri ávísun í draumi, til Jerúsalem og þadan til Bethlehem, til ad tilbidja Kristum Matth. 2. Þetta var ágjætt medal til ad gjøra Jesú fædíngu kunnuga fyrir utan takmørk Gydíngalands. Enginn efi er á því, ad þessum Vitríngum hefir verid sagt frá opinberun englanna, og þeirri raustu, sem heyrdist í loptinu, þegar hann fæddist; menn géta ei heldur efast um, ad þeir hafi sagt frá því, sem þeir høfdu heyrt um þetta barn, þegar þeir komu aptur heim í sitt land, og þessi fregn, sem géck á undan Kristó var hentugt medal til ad greida veginn fyrir hans trúarbrøgdum, sem seinna áttu ad bodast og berast út um heiminn.

Á áttunda degi var Kristur umskorinn eptir løgmálinu. Pad er ad sønnu náttúrlegt, þó María, sem var af Gydínga-fólki, léti umskéra Son sinn, en samt er enginn efi á, ad Guds vísdómur hefir haft sérlegann tilgáng med því, ad þvílíkt skédi, því heldur, sem Kristur ecki þurfti ad umskérast af sømu orsøkum, sem ønnur Gydínga-børn, vóru umskorin. Hann þurfti ecki med umskurninni ad inntakast í sáttmála vid Gud; hann þurfti ecki med henni ad inn-

takast í Gydínganna kirkju, þar hann sjálfur var kominn til að afmá hana; hann þurfti ei heldur með teikni umskurnarinnar að auðkénnast frá Heiðíngjum, þar það var tilgángur hans híngaðkomu að aftaka þann mismun, sem var á milli Gydínga og Heiðíngja, og gjøra þá hvørutveggju að einu fólki. Í þessu tilliti var umskurnin tilsett, og í þessu tilliti þurfti Kristur hennar ecki við. En hann þurfti hennar við til þess, að hann yrði þess heldur meðtekinn af Gydíngum, sem høfðu andstygð á øllum óumskornum. Hefði hann ecki verið umskorinn, þá hefðu Gydíngarnir álitið hann fyrir heiðíngja, og hans krøptuguftu kénníngar hefðu ecki gjørt minnstu verkun hjá þeim. Hann viðþurfti hennar sérdeilis vegna þess, að hann þar með undirgéckst að uppfylla Gydínganna kirkju løgmál, og með þess uppfyllíngu að afmá það. Sá sem lét umskéra sig, undirkastaði sig øllu því, sem kirkju-løgmálið útheimti. Þess vegna segir Páll: eg vitna fyrir sérhvørjum, sem lætur umskéra sig að hann er skyldugur að halda allt løgmálið, Gal. 5. Kristur ætlaði að afmá þetta løgmál, og gaf sig þess vegna með umskurninni undir þetta løgmál, svo hann gjæti uppfyllt það, og með þess uppfyllíngu afmáð það. Þetta vitnar Postulinn Páll: þegar sá ákvarðaði tími kom, útsendi Guð sinn Son fæddann af qvinnu og løgmálinu undirorpinn, til að endurleysa þá, sem undir løgmálinu vóru, að vér yrðum kjørnir til sona, Gal. 4.

Frá því Kristur var umskorinn, til þess hann byrjaði sitt kénnimannlega embætti, lesum vér eckert markverðugt um hann, utan einúngis þetta: að

hann eins og annar madur, þó med fljótari framförum enn almennilegir menn, vóx ad vísdómi og þeckíngu á Gudi og gudlegum hlutum, Lúc 2. En ádur enn hann inngéck sitt embætti vildi hann skírast. Hann þurfti allt eins lítid vid skírnarinnar sem umskurnarinnar; í því tilliti, sem hún er oss uppábodin, þurfti hann hennar ecki vid; en med skírninni vildi hann helga vora skírn, og gjøra þessa athöfn æruverda í augum sinna átrúenda, þar hann ætladi sídar ad fyrirskrifa þeim hana. Þar med fécк hann og hentugt tækifæri rétt í því hann ætladi ad byrja sitt kénnimannlega embætti, ad auglýsa sína hátign og guddómlegu køllun. Skýin opnudust upp yfir honum, skjær geisli kom ofan yfir hann, á sama augnabliki meddeildust honum heilags Anda yfirnáttúrlegar gáfur, nefnilega: þær, sem hann medþurfti til þess embættis, er hann nú uppá sig tók, og úr skýjunum heyrdist raust, sem sagdi: þessi er Sonur minn elskulegur, á hvørjum eg hefi velþócknun, Matth. 3.

Eptir ad Kristur var skírdur, fór hann út á eydimørku, hvar hann med heiløgum hugleidingum vildi búa sig undir sitt mikla og markverda embætti; en hér mætti hann enum hørdustu freistíngum. Freistarinn kom til hans, og lagdi margar og miklar snørur fyrir sakleysi hans; en hann yfirvann þær allar, Matth. 4. Þessar freistíngar vóru í ýmsu tilliti naudsynlegar; hann hlaut, ádur enn hann fór ad umgángast med manneskjunum, ad læra ad þeckja manneskjuna, hennar veikleika og hennar freistíngar, svo hann af egin reynslu gjæti haft medaumkun med mannanna eymd og breysk-

leika. Þess vegna segir Páll: hann hlaut sínum brædrum í øllum hlutum líkur ad verda, svo hann miskunsamur yrdi og trúlyndur Høfud = prestur fyrir Gudi, til ad forlíka fólksins syndir; því þar hann sjálfur hefir lidid og freistadur verid, þá gétur hann komid þeim til hjálpar, sem freistadir verda, Ebr. 2. Og í ødrum stad: ver høfum ei þann Høfud = prest, sem ei kann sampíníngu hafa med vorum breiskleika, heldur þann, sem freistadur er á allann hátt líka, sem vér, þó án syndar, Ebr. 4. Þessar freistíngar vóru og naudsynlegar, svo ad hans dygd og heilagleiki ljómadi med því fegri glansa. Þad er hægt ad vera dygdugur, þegar madur hefir enga freistni til ad vera dygdalaus. Þá hid fyrsta gétur kristinn madur sýnt hlýdni sína, þegar hann freistast til óhlýdninnar. Jesús Kristur var í sinni náttúru øldúngis hreinn og heilagur; í hans hjarta vóru ecki þær mørgu freistíngar til óhlýdni, sem eru hjá oss; ef hann þess vegna átti ad auðsýna merki uppá sína hlýdni, þá hlutu honum ad mæta útvortis freistíngar, er kynnu ad locka hann til óhlýdni. Loksins vóru þessar freistíngar naudsynlegar, svo hann gjæfi þeim, sem á hann trúa, eptirdæmi, hvørninn þeir skyldu hegda sér í strídinu á móti freistíngunum. Vér egum ad gánga í hans fótspor og breyta eptir hans dæmi; en hefdi hann ecki sjálfur strídt á móti freistíngunum, þá hefdi hann ei heldur gétad géfid oss eptirdæmi uppá hugprýdi og stødugleika í strídinu. Hvørninn hefdi hann gétad heimtad af oss, ad vér skyldum strída á móti sjálfum oss og heimsins tillockunum, ef hann hefdi ecki sjálfur strídt og fengid sigur? en nú hefir

hann eptirlátid oss sitt dæmi, að vér skyldum gánga í hans fótspor; nú gat hann með þess stærri rétti heimtað af manneskjunum hlýðnina við Guð, þar hann sjálfur hafði auðsýnt svo stór merki uppá hana.

---

Þar Jesús er hinn sanni Messías, sem Guð svo lengi hafði heitið heiminum honum til upplýsíngar og forlíkunar, eptir hvørjum feðurnir höfðu þráð með sárri laungun í svo mørg hundruð ár; hvørsu stóra yfirburði høfum vér þá ecki fram yfir þá, og hvørsu straffsverðir erum vér ef vér ecki færum oss í nyt þessa yfirburði? hann kom til að uppfræða heiminn, og með sinni uppfræðíngu að afmá heiðindómsins myrkur og Gyðínganna skugga-verk. Myrkrið og skugga-verkið er horfið; liðið er á nóttina, og komið nær degi, ættum vér þá ei að afleggja myrkra verkin, og íklæðast herklæðum ljóssins? Róm. 13. Hvørsu miklu straffsverðari erum vér heldur enn þeir, ef vér lokum aptur augum vorum fyrir þessu skjæra ljósi, til að fremja þess djarflegar myrkra verkin. Kristur kom til að forlíka fyrir heimsins syndir; hvørsu miklu sælli erum vér, sem sjáum vora forlíkun fullkomnaða, heldur enn hinir, sem einúngis sáu hana álengdar ígégnum ský og þoku? hvørsu straffsverðir erum vér, ef vér látum ei þá skjærari þeckíngu, sem vér høfum, uppørfa oss til þess stærri ástundunar dygða og góðra verka, eður ef vér látum ei Guðs kjærleika til vor, upptendra hjá oss innilega elsku til hans aptur á móti!

Jesú getnaður var yfir-náttúrlegur, og þar eð allt það, sem yfirstígur náttúrunnar krapta, yf-

irstígur líka skynseminnar krapta, þá er forgéfins ad vilja hnýsast inní þenna guddómlega leyndardóm. Vér skiljum ecki þann náttúrlega gétnad, og hvørninn skyldum vér þá skilja þann yfirnáttúrlega. En þad gétum vér skilid, ad Jesú manndómlega náttúra, sem med yfir-náttúrlegum hætti var af Gudi sköpud, hlýtur ad vera hrein, heiløg og frí frá þeirri syndanna saurgun, er adrar manneskjur, sem fædast eptir náttúrunnar venjulegum hætti, færa med sér inní heiminn eins og erfda-fé eptir foreldra sína. Skilid gétum vér þad, ad ef Jesús hefdi sjálfur verid syndugur af náttúrunni, þá hefdi hann ecki gétad gjørt forlíkun fyrir adrar syndugar manneskjur.

Þar Jesú fædíngu fylgdu svo stór og yfirnáttúrleg atvik, sem gjørdu hana vegsamlega, þá skulum vér ecki nema stadar vid þad lítilmótlega og audvyrdilega, sem vér finnum vid hans fædíngu; ecki vid stallinn, sem hann var lagdur í, edur fátækt hans módur, heldur renna augum vorum til þeirrar guddómlegu vegsemdar, sem skein íkríngum hann í þessari hans niderlægíngu. Þar af sjáum vér vigtugleika hans híngadkomu og þá guddómlegu hátign hans persónu. Þetta á ad gjora oss fúsa til ad medtaka hann, sem himneskann sendiboda, hlýda hans bodordum og breyta eptir hans dæmi med heiløgu framferdi.

Þar Kristur med sinni umskurn gaf sig undir kirkju-løgmál Gydínga, uppfyllti þad, og med þess uppfyllíngu afmádi þad, hvørsu stórar þackir egum vér þá honum ad lúka, ad hann aftók þetta þúnga og óbærilega ok, sem ádur lá á Guds fólki. Þetta løgmál var torveldt ad nema; hér vóru marg-

ar fyrirskriftir, og í fyrirskriftunum margar athugasemdir; þessar hlutu menn ad vita, til þess þeir gjæti náqvæmlega breytt eptir þeim; vissu menn þær ecki greinilega, var búid vid ad þeir bryti út af þeim, og þá vóru þeir sakfallnir, en vissu menn þær, og brugdu samt út af þeim af gáleysi, var sektin enn stærri. En þó torveldt væri ad nema þetta løgmál, þá var þó enn torveldara ad breyta eptir því. Í því vóru uppábodnir margir hátídisdagar, sem menn urdu ad missa frá vinnu sinni, margar sidvenjur, sem vóru kostnadarsamar, mørg offur, sem frambera þurftu vid sérhvørt tækifæri, og vid hvørt offur, margar fyrirskriftir, er adgjætast hlutu. Og med øllum þessum þýngslum og vandhæfi máttu þeir þó ecki sjálfir frambera þeirra offur fyrir Gud, né hafa frjálsann adgáng til hans. Þad allrahelgasta var apturlokad fyrir þeim, og þángad þordi ecki inn ad koma útan sá ædsti Prestur einusinni á ári, og þó ecki nema med skjálfta og hrædslu, en aldrei nockurr annar. Hvørsu óbærilegt ok var þetta, og hvørsu ómetanlegt er þad frelsi, sem Kristur hefir gésid oss! vor gudsþjónusta er nú skiljanlegri og ecki eins kostnadarsøm. Vér megum nú sjálfir frambera vorar bænir fyrir nádar-stólinn, í vissri von, ad vér fyrir Krists sakir egum ad nádugann fødur. Ættum vér ecki ad kannast vid þetta frelsi! ættum vér ecki ad vera þacklátir vid þann, sem hefir útvegad oss þad!

Kristur vildi ecki einúngis umskérast, heldur ogsvo skírast, til ad helga vora skírn med sinni. Hvørsu markvørda og heilaga ættum vér ad álíta þessa stiptun! þad hærsta ærumerki, sem Kóngur-

inn gétur géfið sínum undirsátum, er það, sem hann sjálf-ur ber, og það er heiðurlegt rétt af því hinu sama, að hann ber það sjálfur. Hvílík æra er það þá fyrir oss, að Jesús Kristur hefir lagt sig undir þá sömu athöfn með hvörri hann vildi, að vér skyldum innvígjast til að verða meðlimir háns kirkju! hvílíkann heilagann metnað ættum vér að finna hjá oss, þegar vér þenkjum um vora eigin skírn, og hvörsu djúpa lotníngu, þegar vér erum staddir við annara! en að brjóta sitt skírnar loford með vísvitandi syndum, og saurga svo heilagt æru-merki með vöndum lifnaði, er sú allramesta vanvirða.

Eptir skírnina hlaut Kristur að stríða við harðar freistíngar, til að auglýsa sína hlýðni, sína lotníngu, sína elsku til síns föðurs. Hér á jörðunni er vort prófunar-stand; vér hljótum líka að freistast til óhlýðni, til að auglýsa vora hlýðni. Hvar ekkert stríð er, þar er engin sigurvinníng. Ef vér viljum krýnast, sem Kristur, þá verðum vér að stríða, sem hann; einúngis hann, sem er trúr allt til enda, kann að vænta lífsins kórónu. Kristur hefir gengið á hólminn á undan oss; í hans fótspor eigum vér að gánga. Sá sami andi, sem var kroptugur í honum, er líka kroptugur í oss; ef vér einúngis brúkum þá krapta, sem hann fram-býður oss. Ef vér fáum ósigur, þá er það oss sjálfum að kénna; vér viljum þá heldur sigrast, enn sigra. Látum oss einúngis horfa á hnossið, sem blasir á móti oss við endann á hlaup-skeiðinu, þá munum vér hughraustir berjast góðri baráttu, fullkomna vort hlaup, halda trúnni, og um síðir

odlast réttlætisins kórónu, sem Drottinn hefir afsídis lagt handa sínum trúlyndu stridsmønnum.

## 20. Kapítuli.

Um Jesú guddómlegu hátign.

Eins og Ritarar hins gamla Testamentis hafa géfid manneskjunum þau vissustu kénnimerki til ad þeckja Kristum frá øllum ødrum þegar hann kjæmi í heiminn, svo hafa þeir líka fyrirsagt, ad hann ecki mundi verda einúngis almennilegur madur, heldur guddómleg persóna. Þad er alkunnugt, ad Gydíngar brúkudu ecki nafnid Jehóva utan um þann ædsta Gud; og þó tilleggja þeir þeim fyrirheitna Messía þetta nafn. Móses segir: ad Israels fólk hafi møglad á móti Gudi, af því þeir høfdu hvørki braud né vatn, og ad Jehóva hafi þess vegna sendt brennandi høggorma á medal fólksins, 4 Mós. b. 21. og Postulinn Páll segir: ad þessi Jehóva hafi verid Jesús Kristur: freistum ei heldur Krists, segir hann, eins og nockrir af þeim freistudu hans, og fyrirfórust af høggormum, 1 Cor. 10. Esjas segir: eg sá Jehóva sitja á háum og upphøfdum stóli, og faldur hans klæda uppfyllti musterid; Seraphim stódu yfir honum, hvørr þeirra hafdi sex vængi; med tveimur huldu þeir sitt andlit; med tveimur huldu þeir sínar fætur, og med tveimur flugu þeir; og hvørr kalladi til annars og sagdi: heilagur, heilagur, heilagur, er Drottinn Zebaoth! øll lønd eru full af hans dýrd. Spámadurinn segir enn framar: ad hann hafi heyrt þessa raust frá Drottni:

far þú af stad, og seig til fólks þessa: heyrid þad, og skiljid ecki! sjáid þad, og formerkid ecki! gjørid hjarta fólks þessa feitt, og gjør þeirra eyru þyck-heyrd, og forblinda þeirra augu, svo ad þeir sjái ecki med augunum, né heyri med eyrunum, né skilji med hjartanu, né snúist, ad eg kunni ad lækna þá, Esaj. 6. Þessa grein heimfærir Jóhannes Gudspjallamadur uppá Kristum. Hann segir: ad þó Kristur gjørdi svo mørg teikn fyrir Gydíngum, þá hafi þeir þó ecki gétad trúad á hann, svo ad uppfylltist ordsaga Esajæ Spámanns: hann hefir látid þeirra augu verda blind, og þeirra hjarta forherdast, svo ad þeir sæi ecki med augunum, né skildu med hjartanu, og umvendtu sér, ad eg læknadi þá. Þetta sagdi Esjas, þá hann leit hans dýrd og taladi um hann, Jóh. 12. Jóhannes kénnir oss þá hér med, ad Jehóva, sem Esjas umtalar, sé Kristur. Jeremías segir: sjá þú, sá tími mun koma, segir Drottinn, ad eg vil Davíd uppvekja réttlátann qvist,' og hann skal Kóngur vera, og breyta forsjállega, og gjøra réttinn og réttvísina á jørdu; á hans døgum skal Júda frelsast, og Israel ugglaus búa, og þetta er hans nafn, er menn einninn kalla hann: Jehóva vort réttlæti, Jer. 23. Enginn efi er á því, ad í þessum spádómi er talad um Kristum, og kirkjunnar ástand undir honum, og nefnir Jeremías hann hér Jehóva.

Svo sem nú Spámennirnir hafa útmálad þann tilkomandi Kristum, sem Gud med nafninu Jehóva, er þeir hafa brúkad um hann, svo hafa líka Skrifarar þess nýja Testamentis og Kristur sjálfur vitn-

ad þad sama. Páll kallar hann Gud háttlofadann ad eilífu, Róm. 9. Hann tekur svo til orðs um Kristum: Gud er opinberadur í holdinu, ędur í mannlegri náttúru, er réttlættur fyrir andann, sjedur af sínum sendibodum, prédikadur medal Heidíngjanna, medtekinn í heiminum, upphafinn í dýrdina, 1 Tím. 3. Jóhannes kallar hann sannann Gud og eilíft líf, 1 Jóh. 5. Og eins og Kristur kallast Gud, svo tileinkast honum líka guddómleg verk, og guddómlegir eginlegleikar; t. d. sköpun heimsins, Jóh. 1. stjórnan allra hluta, Ebr. 1. eilífd, Jóh. 17. 1 Pét. 1. Eph. 1. allstadar nálægd, Matth. 18. Eph. 1. vald til ad fyrirgéfa syndirnar, Matth. 9. almætti, Phil. 3. alvitska, Jóh. 2, óumbreytanlegleiki, Ebr. 13. tilbeidsla allra skynsemdarfullra sképna, Phil. 2.

Eg vil enn nú bæta hér vid þeirri greinilegu útmálun, sem Kristur hefir gésid yfir sjálfann sig, er Jóhannes framfærir. Jesús hafdi kallad Gud sinn födur. Gydíngar álitu þad fyrir gudløstun, ad hann vildi gjøra sig Gudi jafnann. En Kristur, í stadinn fyrir ad kalla sín ord til baka, stadfestir þau miklu framar: sannlega, sannlega segi eg ydur, sonurinn kann eckért ad gjøra af sjálfum sér, nema þad hann sjer fødurinn gjøra. En hvad helst hann gjørir, þad gjørir eins líka Sonurinn. Svo sem fadirinn uppvekur og lífgar þá daudu, svo lífgar og Sonurinn þá, sem hann vill. Eigi dæmir fadirinn nockurn, heldur gaf hann syninum allann dóm, svo ad allir heidri soninn, eins og þeir heidra fødurinn. Sá, sem ecki heidrar Soninn, hann heidrar ei heldur fød-

urinn, sem sendi hann. Sannlega, sannlega segi eg ydur: sú stund kémur, og er þegar komin, ad daudir munu heyra raust Guds Sonar, og þeir, sem hana heyra, munu lifna; því líka sem fadirinn hefir lífid í sjálfum sér, svo gaf hann syninum ad hafa líf í sér sjálfum. Eigi skulud þér undrast þetta; því sú stund mun koma, á hvørri allir þeir, sem í grøfunum eru, munu heyra hans raust og framgánga, þeir, sem gott gjørdu, munu uppríса til lífsins, en þeir, sem illa gjørdu, til fyrirdæmingar, Jóh. 5.

Í þessum ordum eignar Kristur sér þau sømu verk, sem Gudi einum tilheyra; hann segist géta lífgad hvørn, sem hann vilji; hann krefst þess sama heidurs, sem fadirinn; hann segist hafa lífid, edur krapt ad veita ødrum lífid, í sjálfum sér; og ad þeir daudu munu fyrir hans raust, edur hans krapt uppvekjast á sídasta degi. Þar Kristur þannig eignar sér sjálfum guddómleg verk, guddómlega fullkomlegleika, og guddómlegann heidur, þá er enginn efi á, ad hann sjálfur vill, ad hann sé álitinn fyrir guddómlega persónu. Kristur hlaut best ad vita, hvad hann sjálfur var, og sem Guds Spámadur kunni hann ecki ad segja um sig annad enn þad, sem satt var.

En svo sem Ritníngin vitnar þad allstadar, ad Kristur sé guddómleg persóna, þá kénnir hún oss líka, hvarí þessi hans guddómlega hátign sé innifalin. Ad Kristur ecki hafi verid Gud, ad því leiti, sem hann var madur, er audsætt, þvi í sama tilliti gat hann ei verid bædi Gud og madur, bædi skapari og líka sképna. Og þó var madurinn Kristur á=

samt Gud. Þess vegna hlaut fyrir utan þá manndómlegu náttúru ad verá hjá honum guddómur, eptir hværjum hann kunni ad kallast Gud, og um hann kunni ad segjast, ad hann væri eilífur, allstadar nálægur, almáttugur, alvitur og s. fr.

Nú hefi eg ádur sýnt, ad í guddómsins veru eru þrjár oss óskiljanlegar adgreiníngar, er í Ritníngunni kallast: Fadir, Sonur, Andi, sem eru sameilífar og eins óendanlegar. Börn nú þessar þrjár adgreiníngar, Fadir, Sonur og Andi ásamt nálægar í Kristó? já, þad vitnar líka Ritníngin. Hún segir: ad Fadirinn hafi verid í Kristó; Fadirinn, sem í mér er, segir Kristur, hann gjörir þessi verk, Jóh. 14. Hún segir einninn: ad heilagur Andi hafi verid í Kristó, og hann hafi verid fullur af heilögum Anda, Lúc. 4.

En þó vitnar Ritníngin, ad þad sé eginlega sú önnur adgreiníng guddómsins, sem kallast Sonur, sem nálæg hafi verid og sameinud Kristi manndómlegu náttúru. Þess vegna segir engillinn vid Maríu: ad hennar heilaga fóstur skyldi kallast Guds Sonur, Lúc. 1. Þess vegna segir Páll: ad Guds Sonur hafi fædst af qvinnu, Gal. 4. Þess vegna kallast allur Kristur: sá eingétni sonur Födursins, Jóh. 1, Guds eingétinn Sonur, Jóh. 3. og Guds elskulegur Sonur, Matth. 3.; hvört ord líka merkir Guds eingétinn edur Guds einka Son. En aldrei kallast Kristur fadir, og aldrei andi. Þad er þess vegna sú önnur adgreiníng guddómsins, edur Sonurinn, sem eptir Ritníngarinnar vitnisburdi hefir tekid sér Kristi manndómlegu náttúru til íbúdar. Þess vegna segir Jó-

hannes: ordid vard hold, og bjó á medal vor, fullt af náð og sannleika, og vér sáum þess dýrd, þvílíka dýrd, sem tilheyrdi fødursins eingétnum Syni, Jóh. 1. Ordid vard hold, segir Jóhannes, edur Guds Sonur vard madur. Allir sjá, ad Jóhannes meinar ecki med þessu orda-tiltæki ad Guds Sonur hafi umbreytst í hold edur manneskju, heldur er þad hans meining, ad Guds Sonur hafi sameinast svo náqvæmlega mannlegri náttúru, ad þau hafi ordid svo sem eitt edur ein persóna. Og hvarí er þá sameiníngin á milli Kristi guddómlegu og manndómlegu náttúru innifalin? þad er audveldara ad framsetja þetta spursmál, heldur enn ad svara uppá þad. Fráleitt er ad þenkja ad Guds Sonur hafi skilist frá guddómsins veru, og verid inniluktur Kristi manndómlegu náttúru. Þegar menn vita hvad sameiníng er, þá gétur madur gjørt sér veika ímyndun um Jesú Kristi guddómlegu hátign. Tveir hlutir eru sameinadir, þegar þeir sumpart auglýsa sína verkun hvørr á ødrum, sumpart verka hvørr med ødrum til sama augna-mids. Í þessu tvofølldu tilliti er sálin sameinud líkamanum, hvørsu ólíkar, sem þessar verur eru eptir þeirra náttúru. Hér af flýtur þá þetta: ad því náqvæmari tveggja hluta samstemma er til sama augna-mids, og því fullkomnari sá máti er, med hvørjum sá eini hluturinn auglýsir sína verkun á, edur í hinum hlutnum, þess fullkomnari er þeirra sameiníng. Nú verkadi Jesú guddómur og hans manndómlega náttúra, ecki einúngis til sama augnamids, þar hans manndómlega náttúra leid fyrir heimsins syndir, og guddómurinn gjørdi þad gyldt

og fullkomid, sem manndómurinn leid; heldur verkadi einninn guddómurinn med fullkomnasta hætti í Kristí manndómlegu náttúru, og stjórnadi hennar þaunkum, ordum og athøfnum. Jesú manndómlega náttúra var þess vegna einúngis verkfæri guddómsins, sem í henni bjó. Guddómurinn var svo sem sálin í Jesú manndómlegu náttúru, og sálin í hennar sálu. Hér af kom sú sameining, er lík er þeirri, sem er á milli sálar og líkama, allur Kristur vard Gud = madur. Og eins og þad kann ad segjast um alla þá náttúrlegu manneskju, sem þó eginlega ecki tilheyrir utan ødrum hennar parti, ad hún t. d. standi, gángi, sofi, vaki, þar þad er þó einúngis líkaminn, en ecki sálin, sem geugur, stendur, sefur, vakir; og um allann mann er sagt: ad hann þenki, óski, girnist, þar ed þad er þó einúngis sálin, en ecki líkaminn, sem þenkir, óskar, girnist; þannig kann þad, vegna þeirrar náqvæmu sameiníngar á milli guddómsins og manndómsins í Kristí persónu, ad segjast um allann Kristum, sem Gud og mann, ad hann hafi fædst, píust og dáid, þar þad er þó einúngis sú manndómlega náttúran, sem hefir fædst, píust og dáid; sømuleidis kann þad ad segjast um allann Kristum, sem Gud og mann, ad hann sé almáttugur, alvitur, allstadar nálægur, þar þó þessir eginlegleikar tilheyra eginlega guddóminum, og kunna ecki ad tilleggjast þeirri manndómlegu náttúru, utan ad því leiti, sem hún er í náqvæmustu sameiníngu vid guddóminn.

Þetta er sú ímindan, sem vér eptir Ritníngarinnar leidar = vísir getum gjørt oss um Jesú Kristi guddómlegu hátign. En ad vilja hnýsast framar

inni þennann leyndardóm, er hættulegt, því þar, sem menn hafa ecki Ritníngarinnar útþryckilega vitnisburdi ad stydjast vid, er hætt vid madur villist frá sannleikanum. Hvørninn gétum vér ætlast til ad fá skilid þessa sameiníngu milli Kristi guddóms og manndóms, þar vér ecki gétum skilid hvørninn vor egin sála er sameinud vorum líkama, hvørninn hún þenkir, hvørninn hún audsýnir sínar verkanir í líkamanum, stjórnar honum og stýrir eptir vild sinni. Þó vér ecki fáum skilid sameiníngunna milli Kristi guddómlegu og manndómlegu náttúru, þá þurfum vér þess ei heldur, oss er nóg, ad vér vitum, ad hann er bædi Gud og madur.

---

Þessi lærdómur um Jesú Kristi guddómlegu hátign er í øllu tilliti markverdur fyrir oss Ef vér ecki vissum, ad Jesús Kristur væri sannur Gud, þá hefdum vér ei heldur neina vissu um, ad sá lærdómur, sem hann kénndi oss væri guddómlegur. Ef vér ecki vissum, ad hann væri sannur Gud, þá hefdum vér ei heldur vissu um, hvørt hans endurlausn hefdi verid gyld og fullkomin, og hvørt vér mættum reida oss uppá hana. Hvørninn gjætum vér leidt oss í hug, ad hans daudi hefdi verid fullkomin borgun fyrir alls heimsins syndir, ef hann ecki hefdi verid utan einúngis madur? ef vér ecki vissum, ad hann hefdi verid sannur Gud, þá mættum vér efast um uppfyllíngu hans fyrirheita. Hvørsu veik væri þá vor von um alls holds upprísu og hid eptirkomanda líf? en þar hann er guddómleg persóna, þá gétur hann vel efnt þad, sem hann lofad

hefir. Væri Kristur ecki sannur Gud, væri hann einúngis madur, þá væru hans bodord engu merkilegri, enn hvørs annars góðs og viturs manns lífs-reglur; þau væru þá einúngis gódar og nytsamlegar rádleggíngar og uppørfanir til dygdanna, sem vér kynnum ad fallast á, ef vér svo vildum, og líka út af bregda, ef oss líkudu þær ecki. En þar hann er guddómleg persóna og sannur Gud, þá eru øll hans bodord løg, sem vér hljótum eptir ad breyta ef vér ecki viljum sæta þúngu straffi. Já, væri Kristur ecki sannur Gud, þá mættum vér ei heldur veita honum þá lotníngu og tilbeidslu, sem hann heimtar af oss; vér egum, eptir því, sem Kristur segir sjálfur, ad heidra soninn eins og vér heidrum fødurinn; en ef hann væri ecki guddómleg persóna, hvørninn kynnum vér þá ad heidra hann, eins og vér heidrum fødurinn, án þess ad fremja afgudadýrkun? en þar hann er guddómleg persóna, þá eiga, eptir Postulans Páls lærdómi, øll kné ad beygja sig fyrir honum, þeirra, sem á himnum og á jørdunni, og undir jørdunni eru, og allar túngur skulu vidurkénna, ad Jesús Kristur er Drottinn til dýrdar Gudi Fødur, Philipp. 2.

## 21. Kapítuli.

### Um Jesú lærdóma.

A þeim tíma, þegar Jesús kom í heiminn, var almenn endurbót oldúngis naudsynleg. Øll heimsbygdin var þá adgreind í tvo høfud-flocka, Gydínga og Heidíngja. Bádir þessir hópar vóru næstum því eins spilltir. Mismunurinn á milli þeirra sýndist einúngis ad vera þessi: ad Gydíngarnir til-

báðu þann einasta sanna Guð, en Heiðíngjarnir þar á mót dýrkuðu marga Guði, og tilbáðu skèpnurnar í stað Skaparans. Jafnvel þó Gyðíngar væru að upprunanum Guðs egið fólk, og hefðu Guðs opinberaða orð sèr til leiðarvísirs, þá vóru þeir þó á Kristí døgum niður=socknir í hina djúpustu vanþeckíngu skilníngsins og spillíngu hjartans. Þeir vóru aðgreindir í tvo høfuð=flocka, nefnilega: Pharísæana og Saddúcæana. Í þeim fyrra var alþýðan, og því var hann líka fjølmennari; í þeim síðari vóru sèrdeilis þeir ríku og mektugu. Pharísæarnir trúðu ofmiklu, en Saddúcæarnir oflítlu; Pharísæarnir blønduðu saman við Ritníngarinnar lærdóm feðranna uppásetníngum, og hèldu jafnvel meira uppá þá, enn sjálfa Ritnínguna. Af þessu formyrkvaðist Guðs orða ljós og varð óþeckjanlegt. Mannlegar meiníngar vóru álitnar fyrir guðleg sannindi, og útvortis líkamlegar síðvenjur komu í staðinn fyrir þá sønnu hjartans betrun. Saddúcæarnir þar á móti trúðu oflítlu; þeir burtkøstuðu þeim markverðustu lærdómum, sem eru hin sterkasta uppørfan til góðs síðferðis, t. d. lærdóminum um Guðs forsjón, um líkamanna upprisu, um sálarinnar óðauðlegleika, um straff og laun í øðru lífi. Allir mega nærri gèta, að þessar villur hafa hlotið að draga margar aðrar eptir sèr, og sèrílagi gèfið mønnum frjálst leyfi að aðhafast hvað þeir sjálfir vildu. Hinir fyrri vóru þess vegna hjátrúarfullir, þeir síðari vantrúaðir; hinir fyrri vóru hræsnarar, en þeir síðari øldúngis samvitskulausir. Þannig var ástadt í Gyðíngalandi þegar Kristur kom. Að sønnu fundust híngað og þángað fáeinir ráðvand=

ir menn, svo sem: Símeon, Anna, Nathanael; en samt var þjódin yfir høfud í mesta máta spillt bædi í lærdómi og lifnadi.

Ef vér rennum augum vorum út fyrir Gydíngaland, þá finnum vér heimsins ástand enn þá aumkunarlegra. Í øllum heimínum fyrir utan Gydíngaland, bjuggu einúngis Heidíngjar, sem ráfudu í enn svartara myrkri heldur enn Gydíngarnir. Þeir hofdu ad sønnu náttúru-ljósid; en reynslan sýnir, ad þad var útslocknad ad mestu. Af þessu ljósi var varla nockurr neisti eptir ordinn. Sídan synda-fallid er náttúru-ljósid, þegar þad ecki hefir styrk af Guds opinberada ordi, líkt føgru húsi, sem hrunid hefir af jardskjálfta, hvar madur sjer á adra sídunna brot af telgdum vidi og snotru smídi, en á hina rof og umrót. Vidlíka var varid Heidíngjanna náttúru-ljósi. Menn finna hjá þeim blendíng af sannleika og villu. Á adra sídunna sjá menn nockur merki til vísdóms og skynsemi; á hina finna menn einúngis skrøksøgur og hugarburd; á adra sídunna verda fyrir manni menjar af gudlegri opinberun; á hina eckért annad enn høfud-órar mannlegrar skynsemi. Eg hefi ádur sýnt, ad Heidíngjanna ástandi var þannig háttad, og þarf því ecki ad ítreka þad hér aptur. Sá, sem nockud þeckir til heimsins ástands í þær mundir, veit, ad sképnurnar vóru dýrkadar í stadinn fyrir Skaparann, og ad jafnvel lestir og ódygdir vóru dýrkadir, sem Gudir. Þó ad nockrir vitrir menn hefdu í sumum hlutum betri þeckíngu heldur enn almúginn, þá kunnu þeir ecki ad reiknast, utan svo sem dropi á móti sjáfar-hafinu; þeirra þecking var þó bædi óviss, og líka

blønduð með villu, og hvørsu rétt og víss, sem hún vera kunni, þá var hún þó innilokuð í skólunum, og kom ecki til gagns almenníngi, sem ráfaði í í myrkrinu.

Í þessu spillta ástandi, sem allt mannkynið var niðursockið í, var almenn endurbót ølldúngis nauðsynleg, og það var Kristí erindi að gjøra hana. Nú braust ljósið ígégnum alla þessa þoku. Myrkrið varð að birtu. Náttúru-ljósið fór strax að glæðast og hressast. Það var eins og menn hefðu allt í einu fengið aðra sálu, aðra skynsemi og annann þenkíngar-hátt, þar menn, upplýstir af Jesú lærdómi, tóku að þenkja lángtum øðruvísi og réttara í øllum mannlegum og guðlegum hlutum. Menn lærðu að þeckja sína eymd og sína spillíngu, og þecking sjúkdómsins var upphaf til hans lækníngar; þeir lærðu að þeckja það mikla takmark, sem þeir vóru í øndverðu til skapaðir, og Guðs náðar-ríku ráðstøfun að leiða þá til þessa takmarks. Þeir lærðu að þeckja þeirra Skapara, og þann máta, með hvørjum hann vill láta sér þjóna; þeir lærðu að þeckja þeirra skyldur, og fengu þarhjá krapta til að uppfylla þær. Svo nauðsynlegur var Jesú lærdómur á þeim tíma, sem hann kom í heiminn, og þvílíkt gagn gjørði hann heiminum.

Vér sjáum best, hvørsu markverður og nauðsynlegur Jesú lærdómur er, þegar vér virðum fyrir oss yfir høfuð þau trúarbrøgð, sem hann kénndi, og skipum þeim í vissa høfuð-flocka, svo vér egum hægra með að líta yfir þau. Þau trúarbrøgð, sem Kristur boðaði heiminum, kunna að skiptast í átta høfuðgreinir. Sú fyrsta: þar er einúngis

einn Gud til, sem er almáttugur, alvís, gódur, alvitur, allstadar nálægur, heilagur, réttlátur, þríeinn, og þessi Gud er allra hluta Skapari. Sú ønnur: sá sami Gud, sem hefir skapad alla hluti, vidheldur líka og stjórnar øllum skøpudum hlutum med mesta vísdómi og gjædsku. Sú þridja: madurinn, sem sú ædsta af øllum Guds sýnilegum sképnum, hefir twøfaldt augnamid; hér í heimi á hann ad dýrka sinn skapara med sjálfviljugri hlýdni, en sídar meir er honum ætlud eilíf sæla, og þessi twø augnamid eru svo náqvæmlega sameinud, ad menn géta ecki ordid hlut-takandi þess sídara, utan med því ad uppfylla þad fyrra. Sú fjórda: madurinn er spilltur, hann dýrkar ecki sinn Skapara, og gétur þess vegna ecki ordid hluttakandi þess sælufulla ódaudlegleika, sem honum er ætladur, ef ecki skédur forlíkan fyrir hann. Sú fimta: þessa forlíkan gjørdi Jesús Kristur, sem var bædi Gud og madur, hann géck í mannanna stad, og med sínum dauda forlíkadi fyrir allra manna syndir. Sú sjøtta: þeir, sem vilja hafa not af Kristi fridþægjandi dauda, hljóta ad medtaka hann med trúnni; þessi trú hlýtur ad vera krøptug fyrir kjærleikann og ávaxtarsøm af gódum og dygdugum athøfnum. Sú sjøunda: vér gétum ecki af eigin krøptum, án Guds adstodar, ordid sannarlega gódir; Guds Andi hlýtur þess vegna bædi ad uppbyrja og fullkomna þad góda hjá oss. Sú áttunda: sálin er ecki einúngis ódaudleg, heldur skal líkaminn einninn uppvekjast sídar meir úr jørdunni; þá skal dygdin launast oss og lestirnir straffast.

Þetta er höfuð inntakið úr Jesú Krists lærdómi, sem hann færði heiminum með sinni híngaðkomu. Þessi lærdómur hefir næstum því í 1836 ár þolað skynseminnar skörpustu prófun, og samt staðið í sínu gyldi; hann hefir verið ásóktur, en ecki orðið til baka rekinn, svo hann er jafnvel vegna sinnar elli æruverdugur. Mönnum bregðst það mjög, ef þeir hugsa, að Kristur hafi með sinni híngaðkomu innleidt öldúngis ný trúarbrögð í heiminn. Þau trúarbrögð, sem Kristur kénndi, eru í tilliti til þeirra helsta innihalds þau gömlu trúarbrögð, sem heimurinn hefir haft frá því fyrsta, en síðan misti, og sem nú vóru af Kristó aptur innleidd í heiminn. Svo fáar og litlar, sem þær fráságnir eru, sem vér höfum um þann fyrsta heimsaldur, þá sjáum vér þó af þeim, að þeir áður framfærðu höfuð-lærdómar í Jesú trúarbrögðum hafa og verið grundvallar lærdómar í trúarbrögðum hinna fyrstu manna. Smámsaman, eptir því, sem mannkynsins skilníngur þroskaðist meir og meir, vóru þessir lærdómar náqvæmlegar fastsettir, við þá aukið, og greinilegar opinberaðir; en grundvallar lærdómarnir hafa frá því fyrsta verið hinir sömu. Adams börn trúðu á einn Guð, einn Skapara, einn heimsins Stjórnara. Þau þecktu, að þau vóru óverdug Guðs náðar vegna syndarinnar, sem við þau loddi, og frambáru þess vegna offur, sem bliæti þess fyrirheitna qvinnunnar sædis, er mundi sundurmola höggormsins höfuð. Þau vonndu einninn eptir sæiufullum ódauðlegleika, sem þeim væri ætlaður, er gengju á dygðanna vegi, og í þeirri von styrktust þau í kropt-

ugasta máta af Enoks uppnumníngu til himins. Adams og Krists trúarbrøgd eru þess vegna í tilliti til hofud inntakfins þau somu, og hafa borist beinleidis frá Adam til Nóa, frá Nóa til Abrahams, frá Abraham til Mósis, frá Móse til Kristum, frá Kristó til vor. Med allri þeirri spillíngu og afgudadýrkun, sem verid hefir í heiminum, hafa þau þó aldrei ad øllu leiti upprætst. Einhvørstadar hefir Gud þó ætíd haft sinn ljósastjaka, og jafnvel þó þetta ljós hafi opt og tídum verid hulid af þoku, svo þad nærri hefir ordid ósýnilegt, þá hefir þad aptur brotist ígégnum þokuna og skinid á ný med þess meiri fegurd.

Ecki hafdi heimurinn lengi stadid, fyrr enn hreinleiki trúarbragdanna spilltist hjá Adams nidjum. Pad er audsjed ad þeir hafa gleymt þeim sanna tilgángi fórnfærínganna, og hvad margar villur hlaut þessi eina villa eptir síg ad leida? en Gud vidhéldt þó trúarbrøgdunum hreinum og óbløndudum í Seths ætt allt fram til Nóa. Á hans døgum var spillíngin ordin svo stór og almenn, ad Gud álýktadi ad afmá þessa ógudlegu kynquísl med vatnsflódi; en hann vidhéldt Nóa og hans sonum; hjá honum héldust þau sonnu trúarbrøgd enn þá vid lýdi, og hann átti ad útbreida trúarbragdanna ljós yfir þá nýju verøld. En þetta ljós skein ecki lengi med fullum ljóma; smámsaman féllu Nóa afkomendur í enn þá stærri spillíngu, heldur enn þeir, sem lifdu fyrir flódid. Menn gleymdu øldúngis þeim sanna Gudi, tilbádu sképnurnar í stad Skaparans, og svart afgudadýrkunar myrkur huldi jørdina. En þó var enn þá neisti eptir hjá þeim trú-

aða Abraham, hvørs ætt öll var fallin til afguða-dýrkunar. Þessi neisti hlaut að glæðast og upp-tendrast. Guð kallaði Abraham þess vegna burt úr Kaldæa; hefði hann verið kyrr hjá sinni ætt, sem niðursokkinn var í afguða-dýrkun, mundi hon-um hafa veitt torveldt að varðveita trú sína; hon-um var þess vegna vísað til Kanaans-lands, hvar hann var útlendur. Hér veitti Guð honum sínar sérdeilislegar opinberanir. Sú sanna Guðs þekk-íng rís nú upp aptur eins og af grøf sinni; en sýnist nú að koma fram í lángtum fegri ásýnd. Í þessu ástandi er hún nockra stund; en um síðir komast Abrahams niðjar til Egyptalands; hér saurga þeir sig smámsaman með þess lands afguðadýrkun. Nærstum því var þekkíngin á þeim sanna Guði og öllum þeim markverðu sannindum, sem hann hafði opinberað þeirra forfeðrum aptur úr minni liðin. Hún hlaut að frelsast, svo hún liði ei øldúngis undir lok, og Guð uppvakti Móses, og útbjó hann með kraptaverka-gáfu, svo hinir Egyptsku skyldu óttast hann, en hans egið fólk bera virðíngu fyrir honum. Guð brúkar hann til að útleiða þá af Egyptalandi, og lætur þá síðan ferðast til og frá í þeirri arabísku eyðimørku, þángað til allir þeir vóru dauðir, sem høfðu saurgað sig með løstum og afguðadýrkun hinna Egyptsku. Loksins, þegar nú var á ný búið að uppfræða þá í þeirri sønnu Guðs þekkíngu, leiðir hann þá inní Kanaansland. Hér upprétta þeir stjórnar-stand, hvørs Kóngur og Yfir-herra Guð sjálfur vildi vera. Hér stóð trúarbragð-anna ljós, svo sem í miðjum heiminum, sem menn þá til þecktu, svo þess geislar gjætu því betur skrjál-

ast þadan yfir þær þrjár heims álfur. Gud brúk-
adi þau krøptugustu medøl til ad vidhalda þessu
ljósi í heimsins myrkri. Opt og tídum féllu Gyd-
íngarnir til afgudadýrkunar þeirra þjóda, sem í
kríngum þá bjuggu; en Gud leitadist óaflátanlega
vid ad leida þá aptur á rétta gøtu; stundum hirti
hann þá med land-plágum, þar til þeir umvendt-
ust, stundum sendi hann þeim sína Spámenn, sem
med kénníngum og krapta-verkum áttu ad sannfæra
þá um þeira villu. Þær tíu kynqvíslir urdu samt
ad lokum svo mjøg spilltar, ad engrar betrunar
var ad vænta, Gud adskildi þær þess vegna frá
hinum ødrum tveimur kynqvíslum, og lét flytja
þær burt til Assýría. Júda kynqvísl hlaut ad
vidhaldast, því af henni átti Mesías ad fædast,
og hún var ei heldur svo øldúngis eins fordjørfud,
sem hinar adrar; þó fór hún ætíd meir og meir
hnignandi; en hún átti ecki ad uppprætast, heldur
einúngis hirtast, svo hún betradi sig. Hún var
þess vegna flutt til Babylon; þar audmýkir hún
sig, leitar Guds, og kémst aptur til sannleiksins vid-
urkénníngar. Gud miskunar sig aptur yfir hana.
Hún kémst heim í sitt fødurland og fær á ný sitt
musteri og Guds þjénustu. Eptir þetta fellur hún
ad vísu ecki til afguda-dýrkunar; en trúarbrøgdin
vóru þó ecki framar eins hrein og ádur. Smám-
saman blandast saman vid þau bædi þeirra egin
meiníngar og fedrauna setníngar, og líka veraldleg-
ur vísdómur heidinna manna. Þau þurftu nú ad
hreinsast á ný; þau áttu ei heldur lengur ad búa
innann svo þraungra takmarka, sem ádur, heldur
útbreidast um allann heiminn, og þetta mikla verk

var ætlað Jesú Kristó. Smurður með heiløgum Anda og krapti birtist hann í heiminum; þau stærstu krapta-verk staðfesta hans guddómlegu sendíngu; trúarbrøgðin hreinsast frá mannanna viðurauka, þau framsetjast enn klárlegar og greinilegar enn áður, útskírast enn betur, og er gjørður sá markverðasti undirbúníngur til að breiða þau út um heiminn. Hans Postular vóru útbúnir með kraptaverkagáfu, og djørfúng til að innsigla sannleikann með þeirra egin blóði. Með þessum meðølum fengu trúarbrøgðin smámsaman yfirhønd, í heimsins mektugustu ríkjum, þángað til þau um síðir útbreiddust víðar af sínum eginn krapti, og eru loksins komin til vor. Þetta er stutt inntak af trúarbragðanna søgu, þannig eru þau komin frá Adam til vor. Það vóru þess vegna ecki ný trúarbrøgð í tilliti til þeirra høfuð-inntaks, sem Jesús innleiddi í heiminn; heldur þau sønnu gømlu trúarbrøgð, sem prédikuð hafa verið fyrir Guðs fólki síðan heimsins skøpun.

---

Þar það er óneitanlegt, að sá lærdómur, sem Jesús kénndi, meðan hann umgéckst hér á jørðunni, er svo gamall, af ellinni svo æruverður, og að Guð hefir borið svoddan umhyggju fyrir að viðhalda honum og útbreiða hann um heiminn; þar það er óneitanlegt, að hann er svo markverður og nauðsynlegur fyrir manneskjurnar, þar þeirra egin skynsemi ecki gétur vísað þeim veginn til sannrar Guðs þeckíngar, til dygðar og farsældar; hvørsu heilagann ættu allir kristnir þá að álíta þennann lærdóm? með hvílíkri gleði ættum vér að meðtaka hann, og með hvílíkri lotníngu hafa hann um hønd?

ad vér ecki framar gaungum í því sama myrkri, sem Heidíngjarnir, ad vér ecki tilbidjum vor egin handaverk, og ecki dýrkum sképnurnar í stad Skaparans, sem er sú mesta vanvirda fyrir skynsemdarfulla manneskju, þad eigum vér ad þacka Jesú lærdómi. Ad vér þeckjum Gud, sem skapadi oss, forsjónina, sem vakir yfir oss, og med vísdómi og gædsku stjórnar vorum kjørum, þad egum vér ad þacka Jesú Krists lærdómi. Ad vér þeckjum þann máta, med hvørjum hann vill dýrkast af oss, og þær skyldur, sem hann heimtar af oss, þad eigum vér ad þacka Jesú Krists lærdómi. Ad vér þeckjum þad forlíkunar-medal, sem hefir fridþægt oss vid Gud, og gétum brúkad oss þad til huggunar á móti løgmálsins bølvun, og samvitskunnar sártsvídandi bríxlyrdum, þad egum vér ad þacka Jesú Krists lærdómi. Ad vér þeckjum þann sælufulla ódaudlegleika, sem oss er fyrirbúinn, og med gledilegri von annars betra lífs fáum gengid hughraustir á móti daudanum, þad egum vér ad þacka Jesú Krists lærdómi.

Þar Jesú lærdómur veitir oss svo ómetanlegt gagn, hvørsu skyldugt og vidurqvæmilegt er þá, ad vér bædi elskum hann og virdum. Þó ad Kristur hefdi ecki verid utan einúngis madur, þá er hans lærdómi þó þannig háttad, ad hann gétur gjørt oss farsæla hér í heimi, og hughrausta í daudanum, ef vér einúngis lifum eptir honum. En nú er sá sannur Gud, sem hefir kénnt oss þennann lærdóm, og hann gjørir oss ecki einúngis farsæla hér í heimi og rósama í daudanum, heldur ogsvo fullsæla í eilífdinni; med hvílíkri andakt og virdingu

ber oss þá ad athuga þennann lærdóm? hvílíka elsku og lotníngu ættum vér ad hafa til hans og fyrir honum, sem kénndi oss hann? og ætti ecki þessi lotníng og elska ad gjøra oss fúsa til ad breyta eptir hans heiløgu bodordum, sem hann hefir fyrirskrifad oss?

Á medan oss brestur eckért, á medan eckért blæs á móti, á medan heimurinn hlær á móti oss, á medan vér hugsum, ad daudinn og grøfin séu lángt í burtu, þá þykir oss lítid koma til þessara sanninda; strax, sem vér høfum fengid lítilsjørlega þeckíngu á þeim, hugsum vér, ad vér vitum nóg, og máské ofmikid. En þegar mótmæli og andstreymi umkríngir oss, þegar samvitskan ásakar oss, þegar heimurinn yfirgéfur oss, edur vér egum ad yfirgéfa heiminn, þegar vér þá liggjum einmana, þenkjandi um vorar syndir, um Gud, um dóminn, um eilífdina, þá munum vér komast ad raun um þad, ad ecki einn einasti af Jesú lærdómum er gagnslaus edur ónaudsynlegur; heldur mun hvørr einn heilagur sannleiki, sem oss nú þykir lítid til koma, verda oss þá markverdur og dýrmætur.

## 22. Kapítuli.

### Um Jesú Spádóma.

Fyrir spádóm skiljum vér fyrisøgn óframkominna atburda, sem ecki eru grundvalladir á nátlúrunnar reglulega gángi, edur á samanhángandi kédju orsaka og verkana; heldur á svoddan tilfallandi atvikum, sem enginn mannlegur skilníngur gétur fyrirséd. Ad Stjørnuspekíngar fyrisegja, á hvada

ári, degi og stundu sólar-formyrkvan muni innfalla, er enginn spádómur; því þessi atburður er grundvallaður á náttúrunnar reglulega gángi; en þegar Esajas fyrirsegir hérum 200 árum áður, að fæðast mundi Kóngur nockurr að nafni Cýrus, að hann mundi inntaka Babýlon, að hann mundi géfa Gydíngana lausa úr því babýloniska fángelsi, og leyfa Jerúsalems og musterisins uppbyggíngu, Es. 44, þá er þetta spádómur, eður fyrisögn þvílíkra atburða, sem eru öldúngis tilfallandi og enginn mannlegur skilníngur gétur séð fyrifram, og þegar vér sjáum þvílíka spádóma uppfyllast í ýtrasta máta, þá megum vér gjöra þá skynsamlegu ályktun, að þeir hafi sinn uppruna frá þeirri alvitru veru.

Vér höfum ogsvo þvílíka spádóma eptir Kristum, um hvörra guddómlega uppruna vér höfum allteinsꝛ litla orsök að efast. Eg vil ecki að þessu sinni fá mér til orða Krists spádóm um hans eginn dauða og upprisu, Matth. 20, um Júdasar svik, Jóh. 6; um Péturs afneitun, Jóh. 13. Það kynni máské að vera mögulegt, að skarpvitur maður, sem þeckti Gydínganna, Júdasar og Péturs þenkíngar-hátt, hefði kunnað að renna grun í allt þetta, þó hann ecki hefði verið útbúinn með yfirnáttúrlegum gáfum. Vér þurfum ei heldur að taka þessa spádóma til að sannfærast um Kristí alvitsku, þar vér höfum aðra, sem eru fullkomlega sannfærandi; jafnvel þó þetta, að hann fyrisagði Pétri, hvörsu opt hann mundi afneita honum, makléga megi reiknast meðal þeirra tilfallandi atvika, sem eckert mannlegt auga gat fyrisjeð. Eg vil ei heldur

tala um, ad hann fyrisagdi Pétri hans píslarvætt-
is dauddaga, Jóh. 24; ad hann fyrisagdi Gydíng-
um þeirra útskúfun frá því ad vera Guds fólk,
Matth, 21; jafnvel þó þad fyrra megi maklega
reiknast med þvílíkum tilfallandi atburdum, sem eng-
inn madur gat til vissu fyrirsjed, því þad var allt-
eins møgulegt, ad hann hefdi kunnad ad deya nátt-
úrlegum daud-daga. Þad sídara um Gydínganna
útskúfun grundvallast á þeirra vidvarandi forherd-
íngu; en hvørsu ómøgulegt var ad segja fyrir víst,
ad Gydíngarnir, sem þá forkøstudu Kristó kynnu ecki
innan skamms ad fá adra þánka, og tilbidja þann,
sem þeirra Messías, hvørn þeir høfdu krossfest, sem
íllrædis mann? mannlegum skilníngi var því ómøgu-
legra ad fyrisjá þetta, sem eptir Krists dauda var
brúkud hin sterkasta vidleitni til þeirra umvendunar.
Á nockrum þúsundum opnudust þar af augun, svo ad
þeir þecktu þeirra villu, umvendtust og urdu Guds
fólk; og þar þad var møgulegt fyrir nockrar þúsund-
ir, þá hefdi þad ogsvo gétad verid møgulegt fyrir
alla þjódina. En eg vil láta mér nægja, ad hafa
einúngis nefnt þessa tvo spádóma; því hvad Péturs
píslar-vættis dauda áhrærir, þá er enginn efi á, ad
Krists spádómur þar um hefir uppfylltst; en upp-
fyllíngin kann þó ecki ad sannast med ómótmælan-
legum røksemdum, þar menn ecki hafa óhultar frá-
sagnir þar um, svo sem menn ei heldur hafa ánægi-
leg røk til ad neita henni; og hvad Krists spádóm
um Gydínganna vidvarandi forherdíngu, og þeirra
þar af fljótandi útskúfun áhrærir, þá kynnu menn
máské ad segja: ad Kristur, sem nákvæmlega þeckti
Gydínganna þenkíngar-hátt, og allar þær hindrau-

ir, sem optrudu þeirra umvendun, hafi audveldlega gétad fyrissed, ad þvílík almenn umvendun allrar þjódarinnar mundi verda ómøgnleg. Eg vil þess vegna einúngis framfæra tvo af Jesú spádómum, á móti hvørjum eckért verdur med skynsamlegum røk-um haft. Sá eini hljódar um útbreidslu hans trúar-bragda medal Heidíngjanna, um Heidíngjanna fús-leika ad medtaka þau, og þeirra inntøku í hans kirkju, Jóh. 10. Matth. 21. Hinn annar hljódar um musterisins og Jerúsalems eydileggíngu. Matth. 23. 24. Lúc. 19.

Kristur fyrirsagdi Gydíngum, ecki einúngis ad hans trúarbrøgd mundu verda bodud Heidíngjum, heldur einninn, ad Heidíngjarnir mundu medtaka þau. Varla gat mannleg skynsemi til vissu fyrisagt þad fyrra, og enn sídur þad seinna. Þad fyrra var sumpart undir því komid, hvada hughreysti hans lærisveinar mundu hafa til þessa markverda fyrir-tækis, þegar þeir sæu þeirra Herra og Lærimeist-ara med smánarlegasta hætti ofurseldann í daud-ann; sumpart, undir því, hvada kjør fyrir þeim láu á medal Gydínganna eptir hans dauda. Hefdu Jesú lærisveinar mist módinn, hvørn þeir án Guds sérlegrar adstodar naudsynlega hefdu hlotid ad missa, edur hefdu Gydíngarnir tekid fyrir sig ad krossfesta lærisveinana ásamt med þeirra lærimeistara, og mak-lega megum vér undrast yfir, ad þad ecki skédi, einkum þar Kristí lærisveinar gengu í fótspor þeirra Meistara; en hefdi þad skéd, þá hefdu Jesú trúar-brøgd kjæfst strax í fædíngunni, en ecki borist út á medal Heidíngjanna. En hvørr endanlegur skiln-íngur gat med svoddan vissu fyrissed lærisveinanna

stöduglyndi í því ad kunngjöra lærdóminn og Gydínganna vægd vid þá, sem bodudu hann? mannlegur skilníngur, sem einúngis af því nærveranda gétur dæmt um það ókomna, hlaut miklu framar ad gjöra þessa ályktun: ad lærisveinarnir, sem ætíd audsýndu sig hrædda og huglitla á medan Kristur var enn þá hjá þeim til ad vernda þá, mundu nú verda öldúngis módlausir, þegar þeir sæu Gydínganna medferd med þeirra Lærimeistara; og ad Gydíngarnir sem krossfestu Kristum, mundu ecki heldur hlífa þeim, sem honum vóru vid hönd, þegar þeir færu ad útbreida þann sama lærdóm, fyrir hvörs sakir þeir höfdu krossfest hann.

Allt fyrir það fyrisagdi Kristur ecki einúngis ad hans trúarbrögd mundu verda bodud Heidíngjunum, heldur það, sem var enn meira, ad Heidíngjarnir mundu medtaka þau. Eckért var ólíklegra, enn uppfyllíng þessa spádóms. Ef vér berum saman þær hindranir, sem á medal Heidíngjanna settu sig á móti medtöku Jesú trúarbragda vid þau medöl, sem brúkud vóru til ad burtrýma þeim, þá sýnist eckért ólíklegra, enn ad Heidíngjarnir mundu láta yfirtala sig til ad medtaka Jesú trúarbrögd. Hér stódu í vegi þær meiníngar, sem þeir höfdu inndruckid í uppeldinu, og hvörsu sterka makt hafa þær yfir manneskjunum? hvörsu torveldt er, ad hafna trúarbrögdum sinna forfedra? flestar manneskjur hafa ecki önnur rök fyrir sannleika sinna trúarbragda, heldur enn þau, ad allir þeirra forfedur hafa trúad þeim, og hvörsu veik sem þessi röksemd er, sem hinn rángi lærdómur hefir vid ad stydjast, þá er hún þó optastnær nógu sterk til þess ad fá

betri áheyrslu, heldur enn þær lángtum øblugri røksemdir, sem sá sanni lærdómur er uppá bygdur. Hér stódu í vegi þeirra tímanlegu gagnsmunir; sá, sem tók kristna trú, hlaut ad vera vidbúinn, fyrir sinna trúarbragda sakir, ad leggja í sølurnar sínar eignir, sín metord, samqvæmi sinna ástvina, sína rósemi og hægdir, og þad sem er meira enn allt þetta, hann hlaut ad vera vidbúinn í ofsóknunum ad leggja af sjálft lífid og lída hinar sárustu og vanvirdilegustu píslir. Hér stódu í vegi holdlegar girndir, hvørjar i heidindóminum høfdu fullkomid frelsi, og hvørra mettan var ein tegund af trúarbrøgdum. Ad medtaka Jesú trúarbrøgd var þad sama, sem ad gjøra hátídlegt loford, ad madur vildi dempa sínar fyrri girndir, leggja af sinn vonda vana, krossfesta sitt hold med þess girndum og tilhneigíngum, hreinsa sig frá allri saurgun holdsins og andans og fullenda sína helgun i Guds ótta. Hvørsu litil líkindi vóru til þess, ad Jesú trúarbrøgd, sem høfdu fundid svo mikla mótstødu hjá Gydíngum, mundu fá inngáng hjá Heidíngjum, gégnum svo margar og sterkar hindranir, af hvørjum einúngis ein sýnist nóg til ad hindra trúarbragdanna medtøku.

Já, ef ad þau medøl, sem vóru brúkud til ad útbreida trúarbrøgdin, hefdu ad minnsta kosti verid svo ásigkomin, ad menn af þeim hefdu kunnad ad vænta slíkra verkana; en þad sýnist miklu framar, ad þau medøl, sem brúkud vóru til Heidíngjanna umvendunar, hafi einúngis verid hæf til ad hindra hana. Ef vér lítum til kénnendanna: þá vóru þeir ecki ad ætt og uppruna einúngis Gydíng-

ar, og vegna þess sama foraktadir af Grykjum; heldur vóru þeir þaradauki af þeim lítilmótlegasta almúga, menn án uppeldis, án lærdóms, án mælsku. Ef vér lítum til lærdómsins: þá var hans høfudinntak um krossfestann Gydíng, um hvørn þeir søgdu: ad hann væri guddómleg persóna og ætti ad dýrkast sem Gud. Ómøgulega gat nockur mannleg skynsemi fyrisjed, ad þvílík, og eptir útvortis áliti svo veik medøl, mundu géta framleidt svo stórar verkanir, þar sem svo miklar hindranir vóru á adra hønd. Ef ad einhvørr Kóngur í Nordurálfunni sendi tólf þvílíka menn til Austurálfunnar til ad umvenda Mahómedønum og Indíanískum, þá mundu menn álíta hann fyrir heimskíngja, og útfallid mundi vissulega sýna, ad hann væri þad. Engu ad sídur fyrirsá Kristur þessa trúarbragdanna endurbót, sem hans lærisveinar mundu framqvæma; med fullkominni vissu, og greinilegustu ordum fyrisagdi hann hana, og reynslan sýnir, ad þessi spádómur hefir uppfyllst.

Hinn annar spádómur um musterisins og Jerúsalems eydileggíngu er allteins sterk røksemd fyrir Krists alvitsku. Þessi atburdur var á Krists døgum allteins ólíklegur, sem hinn fyrri. Gydínga lýdur lifdi á þeim tíma í ró og fridi. Þeir vóru ad sønnu undir Herradæmi Rómverja; en þeir vóru þó ecki offséktir vegna þeirra gudsþjónustu, miklu heldur forsvaradir í þeirri sømu. Þad var ecki líklegt, ad Gydíngar mundu verda svo ákafir ad setja sig upp á móti þeim mektugu Rómverjum, er med sigursæld sinni høfdu undir sig lagt nærstum því allann þann þeckta heim. Og jafnvel þó ad

Kristur vegna Gydínganna þá verandi þeckíngar-máta og þess ástands, sem þeir vóru í, hefdi kunn-ad ad géta þess til, ad þeir einhvørntíma mundu gjøra uppreist, þá gat hann þó ómøgnlega af ein-samalli mannlegri forspá-fyrissjed, ad þeirra upp-reisn mundi draga svo skadlegar afleidíngar eptir sig. Rómverjar gátu engu ad sídur straffad Gyd-ínga, án þess ad eydileggja þeirra høfudborg og musteri; þad strídi jafnvel á móti þeirra forsjálni í stjórnar-stands efnum ad eydileggja fornaldar-innar minnis-merki. Þeim var minna um ad gjøra ad stjórna yfir eydimørkum, heldur enn bygd-um borgum. Vér sjáum líka þess vegna, ad sá rómverski Hershøfdíngi vildi hafa hlíft musterinu frá eydileggíngu, og ad þad var brennt á móti hans vilja. Og samt fyrirsagdi Kristur þessa eydilegg-íngu, og þad hérum 40 árum ádur enn hún skédi. Þessi spádómur má þess vegna efunarlaust álítast guddómlégur, eckért mannlegt auga gat fyrirsjed þad, sem Kristur hér sá, enginn gat án ofdirfsku svo greini-lega og nákvæmlega fyrisagt þad, og ad þessi fyri-søgn hafi uppfyllst, vitna Sagna-bækurnar ánæg-janlega.

Hvada álycktun skulum vér draga af þessum Jesú spádómum? vér sønnum án efa meira med þeim, heldur enn þeir géta sannad, þegar vér beintfram gjørum þessa álycktun: Jesús Kristur hefir fyrisagt óordna hluti, sem ecki eru grundvalladir á náttúr-unnar fastsetta hlaupi, þá hluti, sem í þeirra nátt-úru eru tilfallandi, sem einúngis eru grundvallad-ir á mannanna þenkíngar-máta og þeirra ásetn-íngi, hverja enginn gétur til vissu fyrisjed utan

Gud sjálfur, sem einsamall þekkir mannanna hjörtu; þess vegna er Kristur alvitur, þess vegna er hann guddómleg persóna. Þessi álýktan er of-bráð. Spámennirnir hafa og svo fyrisagt óordna hluti, og þó vóru Spámennirnir ekki alvitrir. Nei, þar Kristur hefir fyrisagt þvílíka óordna hluti, sem einkis manns auga gat fyrisjed, þá fylgir þar af fyrst einúngis þetta: ad hann var guddómlegur sendibodi, ad sá alvitri Gud veitti honum þá þekkíngu, sem mannlegur skilníngur ekki gat af sjálfum sér haft án guddómsins medverkunar. En af þessari álýktun, sem brýnast liggur fyrir, flýturaptur þessi: þar Kristur er guddómlegur sendibodi, þá er hann trúverdugur. Gud, sú heilagasta vera, sem ekki gétur elskad, og ekki gétur eblt utan heilagleika og sannleika, kann ekki ad meddeila þeim sína alvitsku, sem blandar til samans sannleika og villu til ad leida afvega hans skynsemdarfullu sképnur. Þess vegna má madur óhult reida sig uppá Jesú Krists vitnisburd, svo sem þess, er var Guds sendibodi; þess vegna er þad og trúverdugt, sem hann vitnar um sjálfann sig. Nú hefir hann sagt sig ad vera Guds Son og guddómlega persónu; vér kunnum þess vegna ei heldur ad efast um, ad hann sé þad, sem hann sagdist vera. Þessi álýktan er skynsamleg og á föstum grundvelli bygd, hún gyldir um alla Jesú Krists lærdóma, hún gyldir þess vegna líka um þennann.

---

Þar ed nú Jesús Kristur er guddómleg persóna; þar ed sú alvitska, med hverri hann fyrisagdi óordna hluti, ekki er annarlegur kraptur, heldur

hans eginn; þar hann brúkadi þessa sína alvitsku jafnvel í sinni djúpu nidurlægíngu, hvörsu miklu framar mun hann þá ei brúka hana nú í sinni upphafníngu? skyldum vér þá ecki þenkja til þess, ad vér ætíd gaungum fyrir Jesú Krists augum? í dygdugs og réttskickads manns nærveru blygdumst vér vid ad gjøra nockud þad, sem honum er til styggdar; og sé hann vor vinur eda velgjørari, hvörsu miklu athugasamari erum vér þá um vorar athafnir? en sé hann vor Yfirmadur edur Kóngur, undir hvørs vilja øll vor tímanleg lucka er komin, hvörsu vigtum vér þá sérhvørt ord, mælum sérhvørt fótmál, pøssum uppá sérhvørja fellíngu í voru andliti, ad vér ecki styggjum hann! hvörsu miklu varkárari ættum vér þá ecki ad vera fyrir Jesú augliti? hann er vor ædsti velgjørari, vor ædsti Yfirherra. Hvørsu litla þánka mega þeir gjøra sér um Jesú alvitsku, sem ecki svífast ad troda hans heiløgu bodord undir fótum sér, og ecki vÿla fyrir sér ad ana fram frá einum lesti til annars. Látum oss ætíd þenkja til Jesú alskygna auga, med hvørju hann sá fordum inní hjørtu sinna vina og óvina, og vér munum þá skelfast fyrir sérhvørjum syndsamlegum þánka, sérhvørri óleyfilegri girnd, sérhvørri heftugri gédshræríngu, sem hreyfir sér í vorum hjørtum; vér munum þá med mesta athygli hafa gát á vorum ordum og athøfnum; vér munum þá kappkosta ad hreinsa oss daglega meir og meir af vorri spillíngu, ad prýda vor hjørtu med Jesú Krists dygdum, ad vera audmjúkir, sem hann, hógværir sem hann, medaumkunarsamir, sem hann, þolinmódir í mótlætinu, sem hann, svo ad vér dag frá degi gjætum

ordid veglegri fyrir hans augum, og honum þóknanlegri.

Ef umþenkíng Jesú Krists alvitsku bæri svo sælufulla ávexti í vorum hjørtum, þá væri hún ecki framar óttaleg, heldur gledileg og huggunarfull fyrir oss. Svo skélfilegt, sem það er fyrir forherdtann syndara að þenkja til þess, að Jesús Kristur, er sídar meir mun verda vor Dómari, med sínu alsjáandi auga, sjer inní mannanna hjørtu, þeckir alla þess leyniligustu þánka, og sídar meir mun leida í ljós það, sem í myrkrunum er hulið; svo gledilegt er það fyrir þann sannkristna að þenkja um Jesú Krists alvitsku. Gledilegt má það vera fyrir hann í øllu lífsins andstreymi að þenkja til þess, að Jesús Kristur situr á Födursins hásæti, þeckir allt hans mótlæti, telur hans tár, heyrir hans heimuglegu andvarpanir, og í náð sinni lítur til hins audmjúka og þolinmóda kristna. Gledilegt má það vera, þegar vér ángrumst af vorum breskum og breiskleika, að þenkja til þess, að Jesús Kristur, sem sjer vorar ávirdíngar og yfirsjónir, sjer líka undir eins þær freistíngar, og það ofurefli, sem vér høfum vid að strída, sjer líka vora veiku, en þó alvarlegu vidleitni, að yfirvinna sjálfa oss og sigra vora spillíngu. Þannig verdur lærdómurinn um Jesú alvitsku oss til huggunar og rósemdar, þegar hann fyrst hefir þénad oss til betrunar og helgunar. En náist ei sá sídari tilgángur, þá eblist ei heldur sá fyrri.

## 23. Kapítuli.

### Um Jesú Krapta-verk.

Þeir sem skrifað hafa Jesú lífs-søgu, vitna all-

víða, að hann hafi læknað sjúka, útrekið ílla anda, gèfið þeim blindu sýnina, þeim daufu heyrnina, þeim málláusu málið, og gjört mørg ønnur stór og dásamleg verk. En hèr kynni einhvørr að spyrja: hvaða vissu hafa menn um, að Kristur hafi gjört þvílík verk? og hafi hann gjört þau, hvað sannfærir oss þá um, að þessi verk hafi verið yfir=náttúrleg?

Hvað því fyrra spursmáli viðvíkur, þá svara eg: að menn fyrir þessum Jesú krapta=verkum hafa ecki einúngis sømu, heldur og svo lángtum stærri historíska vissu, enn menn hafa, edur géta haft fyrir þúsund ødrum atburðum, sem menn þó hljóta að meðtaka fyrir sanna. Þeir, sem skrifað hafa Jesú lífs=søgu, segja ecki einúngis frá því, sem þeir hafa sèð með þeirra egin augum, heldur samantaka þeir og útgéfa Jesú lífs=søgu í því sama landi, hvar allt þetta átti að hafa viðborið, og á þeim tíma, þá flestir þeir enn þá vóru á lífi, sem høfðu verið vitni til Jesú athafna. Þeir tiltaka náqvæmlega í þeirra frásøgum, bæði tímann, nær þvílík verk hafi skéð, og staðinn, hvar þau hafi verið gjørð. Hvílík óskammfeilni útheimtist til að skrøkva upp þvílíkri frásøgu, á meðan sèrhvørr gat enn þá komist eptir sannleikanum! og hvílík furðanleg lucka mátti það vera, að þeir ei skyldu verða reknir til baka og spottaðir sem svikarar, ef þeir hefðu skrøkvað upp øllu þessu, já, þó ecki hefði verið utan einu einasta af þeim verkum, sem þeir tilleggja Kristó? og það er svo lángt frá, að jafnvel sjálfir Jesú fjandmenn hafi vogað að neita þessum Guðspjallamannanna vitnisburði um Kristum,

að þeir miklu framar staðfesta hann. Þau voru svo alkunnug, að þeir ecki þorðu að neita þeim. Gýðíngarnir leitast að sönnu við að nidra og gjöra lítið úr Jesú krapta-verkum; en ei neita þeir, að að þau hafi sannarlega skéð. Pétur dirfist jafnvel á Hvítasunnu hátíðinni, skommu eptir að allt þetta var skéð, að gánga fram fyrir allann Gýðínga-lýð í Jerúsalem og bríxla þeim þannig: Þér Ísraels menn! gétið gjætur að þessum orðum: Jesúm af Nazareth, þann mann, sem var frá Guði, hvørr eð var nafnfrægur á medal yðar af máttugum verkum og undrum og teiknum, sem Guð lét hann gjöra á medal yðar, hvað þér og sjálfir vitið, þann sama, eptir að hann, eptir Guðs ályktuðu ráði og fyrirhyggju, var ofurseldur, tókuð þér, krossfestuð og aflífuðuð hann með óguðlegum höndum, Post. g. b. 2. Þó að Pétur hefði verið svo óskammfeilinn að ljúga þessu uppí opin augu á Gýðingunum, mundu þeir þá ecki strax hafa grýtt hann í hel, sem þann blygðunarlausasta lygara. En hvørki veittu Gýðíngar honum áráfir fyrir þesSi bríxlyrði, né leituðust við að reka til baka þennann vitnisburð um Kristum. Og á engu hefði þeim þó riðið meira, enn að hrinda bæði Péturs og Guðspjallamannanna vitnisburði um Krists kraptaverk. Með að uppgøtva og auglýsa ósannindin í þeirra vitnisburði um Jesú Krists athafnir, hefðu þeir strax gétað stemmt stiga fyrir hans trúarbrøgðum, þeir hefðu þá hvørki þurft bál né brand til að aptra þeim.

Má þetta ecki nægja til að sannfæra osS um trúverdugleika þesSara frásagna? eg þarf ecki að

tala um, ad þessar fráſagnir vitna ſjálfar um þeirra trúverdugleika med þeim einfalda og vidhafnarlauſa ſannleiks-búnadi í hvörjum þær eru framſettar; eg þarf ei ad tala um, ad þeir innſigludu þeirra vitnisburd um Kriſtum med þeirra egin blódi. Og þess vegna hafa þessir vitnisburdir um Kriſts verk ecki einúngis øll þau kénnimerki uppá hiſtoríſkann trúverdugleika, sem nockur fráſaga gétur haft; heldur hafa þeir og svo þau kénnimerki, sem engin ønnur fráſaga hefir til ad bera; því nær hefir nockurr Sagnaſkrifari dáid til ad ſtadfeſta ſannleika ſinna fráſagna? ályktanin verdur því þessi, ad vér annadhvört hljótum ad neita allri hiſtoríſkri viſsu, ellegar ef vér tøkum ádrar hiſtoríſkar fráſagnir trúanlegar, þá hljótum vér líka ad trúa Gudſpjallamannanna fráſøgu um Kriſts verk, hvør ed ſtadfeſt eru bædi af vinum hans og óvinum.

En ſé þad óefanlegt, ad Jesús hafi gjört þessi verk, hvad gjørir oss þá viſsu um, ad þessi verk ſéu guddómleg? ad þau yfirſtígi alla náttúrunnar krapta? eg þenki, ad menn ecki þurfi ad halda á djúpſettri eptirgrenſlun til ad ſvara uppá þetta ſpursmál. Eg vil gjarnan medkénna, ad vér enn þá ecki þeckjum øll náttúrunnar løg og krapta, ad vér þess vegna ecki í øllum náttúrunnar umbreytíngum gétum til viſsu ſagt, hvørt þær ſké af náttúrunnar egin kroptum, edur einúngis af Guds krapti, hvørt þær þess vegna eru náttúrlegar edur yfir-náttúrlegar og guddómlegar. En Jesú verkum er ſvo varid, ad vér ecki heldur þurfum ad þeckja øll náttúrunnar løg og krapta, til ad dæma um þau. Nockur løg og nockra krapta í náttúrunni þeck-

jum vér þó með fullkominni vissu; vér vitum þessvegna ogsvo með fullkominni vissu, að allt það, sem yfirstígur þessa krapta, og stríðir á móti þessum alkunnu løgum, hlýtur að vera yfir-náttúrlegt. Það eru, t. d. løg í náttúrunni, að sólar-formyrkvan innfellur aldrei með fullu túngli, og þetta skéði þó við Kristí dauða; því þá vóru Páskar, og Gyðíngar, slátruðu ecki þeirra Páskalambi nema með fullu túngli. Það eru løg í náttúrunni, að ef vatnið skal bera líkama uppi, þá hlýtur sá partur vatnsins, sem víkur úr stað fyrir þeim líkama, sem í það er niðursøckt, að hafa sømu þýngd, sem líkaminn, er í vatnið er niðursøcktur. En nú géck Kristur á hafinu, og allir sjá þó, að sá lítill partur af vatni, sem veik úr stað fyrir Jesú iljum, gat ecki verið eins þúngur, sem allur Jesú líkami, Jóh. 6. Það eru løg í náttúrunni, að þegar hún hefir géngið aflaga, þá þarf hún að hafa vissann tíma til að komast í lag aptur. Að sjúkur maður, já, jafnvel þó vel þó hann sé holdsveikur, géti með laungum tíma læknast af náttúrunnar kroptum, er møgulegt; að limafallssjúkur maður géti af náttúrunnar kroptum smámsaman feugið aptur heilsu sína, er møgulegt; en að þvílíkt géti skéð á einu augna-bliki, án brúkunar allra náttúrlegra meðala, það hlýtur að vera yfir-náttúrlegt og guddómlegt; því þannig gétur náttúran ecki verkað. Hún hlýtur að hafa tíma til að verka, og meðøl, fyrir hvør hún verkar.

Þannig var øllum Jesú verkum háttað, að þau yfirstigu alla náttúrunnar krapta. Vér þurfum lángt frá ecki að þeckja øll náttúrunnar løg og krapta, til að verða fullkomlega sannfærðir um, að hans

verk hafi skéd fyrir krapt þeirrar veru, er sjálf hefir fastsett náttúrunnar løg, og einsømul kann ad raska þeim. Vér erum øldúngis ecki hræddir um, ad nockurr muni seinna meir komast svo lángt í náttúrunnar þeckíngu, ad hann géti gjørt Jesú verk til skammar, ad hann géti læknad sjúka med einúngis skipun, med handa uppáleggíngu, edur einúngis med því ad snerta hann, ellegar ad hann med sínum einsømlum vilja géti læknad þá, sem eru fjærlægir. Vér erum øldúngis ecki hræddir um, ad nockurr muni seinna meir verda svo útlærdur í náttúruspekinni, ad hann einúngis med því ad hasta á bylgjurnar og storminn, lægi þeirra ædigáng, edur ad hann, med því ad kalla til fiskanna í hafinu, safni þeim tilsamans á augabragdi. Ef þad væri møgulegt í eitt skipti med náttúrunnar krøptum ad gjøra þau sømu verk, sem Jesús gjørdi, þá væri líklegt ad menn nú á vorum tímum finndu nockur líkindi til þessarar vonar, vegna þeirra miklu framfara, sem menn hafa tekid, og þess þroska, sem menn hafa nád í øllum mannlegum vísindum. En þar til finnast jafnvel ecki minnstu líkindi. Med þeirri stærri og djúpsettari þeckíngu, er menn nú á døgum hafa fengid um náttúrunnar løg, hafa menn ad sønnu komist svo lángt, ad þeir hafa framleidt þvílíkar umbreytíngar í náttúrunni, sem af einføldu fólki eru álitnar fyrir hálf-gyldis furdu-verk; en híngad til hefir enginn gjørt neitt þad, sem kann ad samlíkjast med Jesú krapta-verkum.

Á móti þessu mætti máské hafa þad, ad á seinni tímum hafa géfist dæmi uppá krapta-verka lækníngar, sem hafa allt eins mikinn historískann

trúverdugleika, sem Jesú verk, og sýnast allt eins yfir=náttúrleg, sem hans. En hér vid er tvennt athugandi: sumpart nádu þvílíkar krapta=verka lækníngar aldrei til allra sjúkdóma án mismunar, heldur einúngis til vissra tilfella; hvad ed ánægjanlega sýnir, ad ecki óendanlegur, heldur endanlegur kraptur hefir verkad í þvílíkum tilfellum. Jesú máttur þarámóti var eins framqvæmdarsamur í øllum tilfellum; enginn sjúkdómur var honum ofvaxinn, enginn sjúklíngur géck huggunarlaus frá honum, enginn án hugsvølunar. Sumpart skédu þvílíkar krapta=verka lækníngar, hvar náttúrleg læknismedøl ecki vóru brúkud, med tilstyrk ímindunarkraptarins. Því, ad þeir sjúkdómar séu til, sem géta læknast einúngis med ímindunar=kraptinum, er enginn efi á, og ad margir hafi þar af læknadir verid, því verdur ecki neitad. En í þvílíkum tilfellum hlýtur sá sjúki ad vera í því ásigkomulagi, ad ímindunar=krapturinn kunni ad hræraſt og ørfast; þó þetta kynni máské ad segjast um nockur af Jesú krapta=verkum, þá kann þad þó lángt frá ecki ad segjast um þau øll, og ecki utan um þau færstu af þeim. Eg vil framfæra nockur af Jesú krapta=verkum, um hvørra guddómlegleika vér ecki gétum efast, ef vér ecki høfum tekid fyrir oss ad efast um alla hluti.

Eptir Jóhannis frásøgu læknadi Kristur mann nockurn, sem blindur var borinn Jóh. 9. Þetta krapta=verk var þarí merkilegra heldur enn øll ønnur, ad um þad var haldin opinberleg vitnaleidsla, hvaraf verkid fær þá fullkomnustu historisku vissu. En mun þá þetta verk hafa gétad skéd

af náttúrunnar egin krøptum? allt hvad Kristur gjørdi, var einúngis þetta: ad hann hrækti á jørdina, gjørdi þar af saur, hvørn hann bar á augu hins blinda, og skipadi honum ad þvo sér í dýkinu Silóa, hvar af hann strax fékk sjónina. Hvar fyrir Kristur hafi brúkad hér þessi umsvif, og ecki í þetta sinn eins og endrarnær vid slík tækifæri, géfid honum strax sjónina med einsamalli skipun, þurfum vér ei ad grenslast eptir; en svo mikid gétum vér þó skilid, bædi ad þessi saur, sem borinn var á augu hans, ecki hefir gétad géfid honum sjónina, og líka, ad ímindunar-krapturinn hefir ecki heldur gétad gjørt þetta ad verkum. Þetta heyrir ecki til þesshàttar tilfella, sem ímindunarkrapturinn gétur sýnt sína verkun á. Aldrei hafa menn nockurt dæmi til þess, ad sá, sem var fæddur blindur, hafi fengid sjónina aptur, med einsømlum tilstyrk ímindunar-kraptarins.

Þad annad eptirdæmi, hvar ímindunar-krapturinn gat allt eins lítid ad verkum gjørt, er í þeim kríngumstædum, þar sem sá sjúki ecki hefir verid sjálfur nálægur. Jesús gengur inn í Kapernaum, hér kémur Høfudsmadur nockurr til hans, og bidur hann um hjálp fyrir þjón sinn, sem lá heima og var limafalls-sjúkur. Kristur lofadi ad koma. En þegar Høfudsmadurinn af virdíngu fyrir Kristó, afbad þetta, sendi Jesús hann burt med þessum ordum: gack hédan, verdi þér eptir þvi, sem þú trúir, Matth. 8. Gudspjallamadurinn segir: ad sá sjúki hafi ordid heill á þeirri sømu stundu. Mun þá ímindunar-krapturinn hafa gétad géfid þessa heilsubót? þegar hann skal gjøra nockud ad verk-

um, þá hlýtur hann ad uppørfast, og þad sterklega; en þad skédi hér ecki. Sá sjúki sá ecki Kristum sjálfur, hann heyrdi ecki sjálfur þessa skipun, og þó féck hann heilsu og krapta á sama augabragdi, sem þessi skipan útgéck af Jesú munni. Þad sama má og segja um þá daudu, sem Kristur kalladi aptur til lífsins. Svo ómøgulegt, sem þad er, ad þvílíkt géti skéd eptir náttúrunnar edlislega gángi med einsamalli skipun, allt eins ómøgulegt var þad líka, ad þad gjæti hér skéd, fyrir tilhjálp ímindunarkraptarins.

Eg vil ecki hér vid bæta utan einu einasta eptirdæmi, nefnilega: því mikla kraptaverki, þá Jesús mettadi 5000 manns fyrir utan konur og børn, med fimm braudum og tveimur fiskum, Marc. 6. A engu Jesú krapta-verki gétur verid minni vafi enn þessu, þar þad var gjørt í nálægd svo margra sjónar-votta. Jesú lærisveinum var audveldt ad vita tøluna á þessu fólki, þar þeir, ádur enn Jesús útbítti braudinu á milli þess, skiptu því í vissa adgreinda hópa, settu hundrad í suma, og fimmtýgi í suma. Þad hafdi, medan þad dvaldi hjá Jesú, eydt þeim litlu vistum, sem þad hafdi med sér fært. Nú tók þad til ad húngra, en var stadt á eydimørku, og Jesú lærisveinar høfdu ei hjá sér meiri vistir enn fimm braud og tvo fiska. Lærisveinarnir hugsudu þad sama, sem sérhvørr skynsamur mundi hafa hugsad í sømu kríngumstædum, ad þetta hrycki ecki til ad metta svo marga; þeir vildu þess vegna, ad Kristur skyldi láta fólkid fara frá sér, svo þad í kríngliggjandi þorpum gjæti keypt sér þad, sem þad medþurfti. En í almættis-

ins hønd verdur ecfért ad nockru. Kristur vildi nú ad lyktum med því stærsta og þreifanlegasta kraptaverki innsigla þann guddómlega lærdóm, sem hann hafdi framflutt fyrir þessum fjølmenna søfnudi. Hann lét fólkid þess vegna setjast nidur í bestu reglu, og skipta því í vissa flocka, bædi til ad koma í veg fyrir alla óreglu, og líka svo enginn skyldi verda á bakanum í svo stórri þyrpíngu. Hann tók sjálfur þau fimm braud og þá tvo fiska, braut þau í mola, og fékk sínum lærisveinum molana, svo þeir skyldu aptur útbluta þeim á medal fólksins. Allir neyttu nú og urdu mettir, og af þessum litlu vistum vard svo mikid afgángs, ad þeir fylltu þar med tólf karfir.

Getur nockurt verk verid ófanlegra enn þetta, sem skédi í svo fjølmennri samkomu, og framqvæmt var med svo reglulegum hætti, ad engin forblindan gat stad haft? edur mun þetta máské hafa verid eldúngis náttúrlegt? géta menn þá fengid af sér ad trúa, ad fimm braud skyldu med náttúrlegum hætti hafa kunnad ad útblutast á medal 5000 manns, ad qvinnum og børnum óreiknudum; ad allir skyldu hafa gétad fengid sadníngu sína, og ad samt skyldi verda svo mikid afgángs, ad menn med leyfunum fylltu tólf karfir. Varla er þad skiljanlegt, hvørnin svo litlar byrgdir, sem Jesú lærisveinar høfdu med sér tekid handa sjálfum sér, kunnu ad útblutast milli svo margra, þó hvørr einn hefdi fengid aldrei svo lítid. Enn nú torveldara er ad skilja, hvørninn svo margir kunnu ad sedjast af því; en ad þeir ecki einúngis skyldu mettast, heldur ogsvo, ad þar skyldi verda svo mikid afgángs, þad yfirstíg-

ur alla skynsemi og allann þánka. Varla mun hér nockurr vilja skírskota til símindunarkraptarins; aldrei hafa menn heyrt ad ímindunar=krapturinn hafi stillt húngur. Hvílík verkan ímindunar=kraptarins hjá svo mørgum þúsundum í senn, er mér óskiljanlegri heldur enn sjálft krapta=verkid. Vér flækjumst í þá stærstu vantrú, ef vér ecki viljum trúa, ad þad sama almætti, sem í fyrstu framleiddi alla hluti af engu, hafi hér drýgt þau á milli Jesú handa, sem maklega mátti álítast sem eckért.

Þad væri audveldt, ad sýna þannig guddómlegleika allra Jesú krapta=verka; en sé einúngis eitt af Jesú verkum yfir=náttúrlegt og guddómlegt, þá hljóta líka øll hin ønnur ad vera þad; sé einúngis eitt af Jesú verkum yfir=náttúrlegt og guddómlegt, þá hlýtur hann líka ad vera guddómlegur sendibodi, þá hljóta líka allir hans lærdómar ad vera gudleg sannindi. Þessar ályktanir hánga svo náqvæmlega hvør af annari, ad þær ecki verda adskildar. Kristur gjørdi sín krapta=verk í því tilliti, ad hann med þeim vildi stadfesta sína guddómlegu sendíngu, þess vegna vitnar hann hvervetna til sinna verka. Þegar Jóhannes í fángelsinu sendi sína lærisveina til hans, til ad spyrja hann ad, hvørt hann væri sá Kristur sem koma ætti, þá vísadi hann þeim til sinna verka: farid, segir hann, og segid Jóhanni, hvad þér heyrid og sjáid, blindir fá sýn, haltir gánga, líkþráir hreinsast, daufir heyra, daudir upprísa og voludum verdur Evangelíum bodad, Matth. 11. Þegar Jesús fyrirgaf limafallssjúkum manni nockrum hans syndir, og nockrir af hinum skriftlærdu álitu þad fyrir gudlast, þá sannadi Jes=

us sinn rétt til ad fyrirgéfa mønnunum þeirra syndir med því ad lækna þann limafallssjúka: svo ad þér vitid, segir hann, ad mannsins Sonur hefir vald til ad fyrirgéfa syndir á jørdu, þá (sagdi hann til hins limafallssjúka) stattupp, tak upp sæng þína og gack í þitt hús, Matth. 9. Þegar Jesús rak þá út af musterinu, sem vanhelgudu þad, og Gydíngarnir heimtudu røksemd fyrir því ad hann hefdi af Gudi fengid vald til þess, þá vísar hann þeim til þess mikla krapta-verks sinnar upprisu; nidurbrjótid þér þetta musteri, og innann þriggja daga vil eg uppbyggja þad, Jóh. 2. Þegar Gydíngar einusinni umkríngdu Kristum, og søgdu til hans: hvørsu lengi dregur þú oss á tálar; ef ad þú ert Messías, þá seig oss þad berlega? hvørnin leitadist Jesús vid, ad fría þá frá þessum efa? hann vísar þeim til sinna krapta-verka: eg hefi sagt ydur þad, en þér trúid því ecki; þau verk, sem eg gjøri eptir míns Fødurs skipun, þau bera vitni um mig, Jóh. 10. Og í ødrum stad segir hann: þau verk, sem Fadirinn hefir fengid mér ad fullkomna, þessi verk, sem eg gjøri, vitna um mig, ad Fadirinn hefir sendt mig, Jóh. 5.

Þannig eru Jesú Krists krapta-verk fullnóg røksemd fyrir því, ad hann er gudlegur sendibodi, já, ecki einúngis ad hann sé gudlegur sendibodi, heldur og svo ad hann sé guddómleg persóna. Kristur vitnar ad sønnu, ad hann gjøri sín verk fyrir Fødursins krapt: Fadirinn, segir hann, sem er í mér giørir þessi verk, Jóh. 14. En hann segir þar hjá, ad hann gjøri þau af sínum eginn krapti. Þad mesta krapta-verk, sem Kristur gjørdi,

og hvarmed hann krýndi øll sín ønnur guddómlegu krapta-verk, var hans egin upprísa frá daudum, og þetta verk tileinkar hann sjálfum sér: þar fyrir, segir hann, elskar Fadirinn mig, ad eg géf út mitt líf, þó svo, ad eg taki þad aptur. Enginn tekur þad af mér, heldur legg eg þad sjálfur frá mér; og eg hefi vald til þad af ad leggja, og eg hefi vald til þad aptur ad taka; þetta bodord féck eg af mínum Fødur, Jóh. 10. Hvørr kunni ad segja þetta, ad hann hefdi vald til ad leggja sitt líf frá sér, og ad hann hefdi vald til ad taka þad aptur, þegar hann væri búinn ad leggja þad frá sér, utan sá, sem var guddómleg persóna? já, Kristur vitnadi jafnvel med þeirri adferd, hvar med hann gjørdi sín krapta-verk, ad hann tileinkadi sjálfum sér þennann mátt til ad gjøra krapta-verkin, og ad hann gjørdi þessi almættis-verk ecki med Fødursins krapti einúngis, heldur og svo med sínum eginn. Spámennirnir og Postularnir brúkudu þann vana, ad þegar þeir komu til nockurs sjúks manns til ad lækna hann, þá løgdu þeir hendur yfir hann, og bádust fyrir yfir honum, hvar med þeir gáfu til kynna, ad þeir ecki af þeirra eginn, heldur einúngis med Guds krapti gætu læknad þann sjúka, edur, ef hann var daudur, uppvakid hann til lífsins. En þegar Gydíngarnir beiddu Kristum, ad leggja hendur yfir einhvørn sjúkann, þá gjørdi hann þad aldrei, heldur brúkadi einúngis skipun. Þar med vitnadi hann, ad hann ecki, eins og Spámennirnir, þyrfti fyrst ad ákalla Gud um hans adstod, ad hann þar fyrir af eginn krapti gjørdi sín dásemdarverk, ad hann þess vegna ecki, sem Spámennirnir,

væri einúngis madur, heldur guddómleg persóna. Og ad Kristur í þessum vitnisburdi um sjálfann sig ecki hafi vikid frá sannleikanum, stadfestist med hans krapta-verkum. Hefdi Kristur tileinkad sér þá tign, sem honum ecki tilheyrdi, þá hefdi hann misbrúkad sín krapta-verk, misbrúkad þau til ad stadfesta med þeim gudløstun, misbrúkad þau til ad leida heiminn í villu, og hvørninn skyldi Gud þá hafa kunnad ad styrkja hann til slíks? ad trúa því, væri gudlastan.

Þessi lærdómur um Jesú Krists krapta-verk á ad þéna oss til ad styrkja oss í trú vorri. Jesú krapta-verk, sem hafa øll møguleg kénniteikn til þess, ad þau hafi sannarlega vidborid, og líka ad þau séu guddómleg, eru hinn øruggasti skjøldur á móti øllum trúarbragdanna óvinum, og líka móti øllum efasemdum vors spillta hjarta. Þessa røksemd gétur jafnvel sá einfaldasti skilid: þar Jesús Kristur hefir gjørt þvílík verk, sem einúngis kunna ad framqvæmast af Guds almætti, og þar þad er ó-møgulegt ad Gud kunni ad styrkja nockurn svikara til ad leida hans skyndsemdar-fullu sképnur í villu, þá hlýtur Jesús Kristur ad vera sú persóna, sem hann sagdist vera; hann hlýtur ad vera guddómleg persóna, því hann hefir sagt ad hann væri þad; hann hlýtur ad vera heimsins Endurlausnari, því hann hefir sagt ad hann væri þad; hann hlýtur ad vera Guds sendibodi til mannanna, þvi hann hefir sagt ad hann væri þad. Hans lærdómar, hvørsu sem þeir eru vorum skilníngi óskiljanlegir, hljóta þess

vegna samt ad vera guddómleg sannindi. Þessi álýktan er svo einføld, ad sá einfaldasti gétur skilid hana. Hér á grundvallar vor skynsemi sína rósemi og sína sannfæríngu; meira þarf hún ecki ad vita. Nú, látum vid leyndardóma vera leyndardóma; vér hyljum vor andlit, kennumst vid þau þraungu takmørk vorrar skynsemi, og tilbidjum í djúpri audmýkt þann óransakanlega vísdóm hinnar ædstu veru, er lángt yfirstígur vorn sljóffskigna skilníng. Einúngis ef vér vitum þetta eina, og vitum þad til vissu: þannig hefir Kristur kénnt, þannig stendur, skrifad, þad er hans lærdómur, sem af himni var sendur til ad uppfræda mig, þannig á hann ad skiljast, og kann ecki ad skiljast ødruvísi. Þegar vér einúngis vitum þetta, og fyrir ópartiskann lesara er þad ecki torveldt ad vita þetta, þá er vor trú bygd á traustum grundvelli; þessi trú er skynsamleg og sómir þenkjandi manneskju.

## 24. Kapítuli.

### Um Jesú heilaga Líferni.

Ad allt Jesú líferni hafi verid heilagt og ósaurgad af syndinni, þad kénnir skynsemin, þad stadfestir Ritníngin. Sjálf skynsemin, þegar hún annars medtekur hina adra Ritníngarinnar vitnisburdi um Krist, hlýtur líka ad medtaka þennann, og þó Ritníngin aldrei vitnadi þad, þá hlyti hún þó af sjálfri sér ad géta sjed þad, ad Jesús Kristur gat ei verid saurgadur af syndinni, eins og adrar manneskjur. Ritníngin segir: ad Jesú manndómlega náttúra

hafi ecki verid gétin eptir náttúrunnar edlislegum hætti, heldur af Guds medalslausum almættis krapti; þess vegna kom hans manndómlega náttúra beinleidis frá Skaparans höndum, og þad, sem kémur réttlínis frá höndum þeirrar heilögustu veru, hlýtur naudsynlega ad vera hreint og heilagt. Kristur var þess vegna ecki í sínum gétnadi saurgadur med syndinni, eins og adrir Adams nidjar. Ritníngin segir: ad Jesús Kristur hafi verid guddómleg persóna, og ad hans manndómlega náttúra hafi med hinum náqvæmasta hætti verid sameinud vid guddóminn; skynsemin sjer þess vegna audveldlega, bædi ad guddómurinn gat ei verid svo náqvæmlega sameinadur þeirri veru, sem var saurgud af syndinni, og líka ad sú guddómlega náttúra, sem allt frá gétnadinum var svo náqvæmlega sameinud Krists manndómlegu náttúru, ad hún var svo sem sálin í Jesú sál, og stjórnadi öllum hans þaunkum, girndum, ordum og athöfnum, ad hún, segi eg, kunni líka svo ad vardveita Jesú manndómlegu náttúru, svo ad hún ecki vanvirdtist edur vanhelgadist af neinni syndsamlegri saurgun. Ritníngin segir, ad Jesús Kristur hafi átt ad gjöra forlíkun fyrir alls heimsins syndir; og skynsemin sjer audveldlega, ad sá, sem átti forlíka fyrir annara manna syndir, hlaut sjálfur ad vera frí fyrir synd, og ad Kristur, ef hann sjálfur hefdi verid syndugur, þá hefdi hann ei gétad borgad sína egin sekt, miklu sídur annara. Þannig kann skynsemin, þegar hún ádur er upplýst af Ritníngunni, ad þéna til ad stadfesta Ritníngarinnar lærdóma. Ef ad Ritníngin eptir allt þetta, sem hún hefir kénnt um Krist, tillegdi honum samt

sídferdislegann ófullkomlegleika, þá mundi skynsemin strax sjá hvørsu það mótsegði sér sjálft.

En svo sem skynsemin sjer, að þvílík persóna, sem Jesús Kristur var, hlaut naudsynlega að vera hrein af allri syndsamlegri saurgun, svo staðfestir Ritníngin líka það sama um Krist. Spámennirnir segja ecki einúngis um þeirra tilkomandi Messíam, að hann mundi elska réttlætið, en hata ógudlegleikann, Psálm. 45. Að hann ecki mundi gjøra ofríki, og engin svik mundu finnast í hans munni, Es. 53. Heldur staðfesta Postularnir það sama um Krist; allstaðar finnum vér þessa vitnisburði um hann: að hann ecki hafi gjørt synd, 1 Pét. 2; að hann hafi verið hreinn af synd, 2 Cor. 5; að ecki hafi verið synd hjá honum, 1 Jóh. 3; að hann hafi verið reyndur í øllum hlutum, að syndinni fráteknni, Ebr. 4.

Eins og Ritníngin í þessu efni staðfestir skynsemina, svo staðfestir Jesú gjørvalla lífs-saga aptur Ritníngarinnar vitnisburð. Í øllu Jesú framferði gétur jafnvel ecki það skarpskygnasta auga uppgøtvað þann minnsta blett, hvaraf álýktað verður um spillt hjarta. Hér verðum vér ecki varir við þær óreglulegu girndir, þær offrekú sinnis-hræríngar, þau skilníngarvitanna yfir-ráð yfir skynseminni, sem hjá oss láta daglega í ljósi þá vanart, sem oss er meðfædd. Hvørsu megum vér dáðst að því, hvørsu Kristur var ætíð ánægður með það, sem hann naudsynlegast medþurfti, og var rólegur einninn þó það bristi. Refar hafa holur, segir Kristur, og himinsins fuglar hafa hreiður; en mannsins sonur hefir ecki það, hvar að hann géti hall-

ad sínu höfdi, Matth. 8. Hvílík stadfost þolinmædi í öllum hans líkamlegu og andlegu lídunum! hvílík vidqvæm tilfinníng, þegar hann sá mannanna eymd, er jafnvel braust út í tárum, þá hann setti sér fyrir sjónir Gydínganna yfirhángandi ófarir! hvílík ósigrandi hógværd vid hans óvini og foraktara! honum var formælt, hann blessadi; hann var ofsóktur, hann þoldi þad. Pétur, sem var sjónar-vottur til Jesú heilaga framferdis, afleggur þessa játníngu um hann: hann galdt ecki smánar-ord fyrir smánar-yrdi, hann brúkadi ei heitíngar-yrdi þá hann leid; heldur fól þad honum á hendur, sem rétt dæmir, 1 Pét 2; þá einúngis upptendradist hans heilaga vandlætíng, þegar dýrd hans Födurs var annarsvegar, Jóh. 2. Hvílík forlíkunarsemi vid þá, sem hann aflífudu! Fadir! þannig bad hann á krossinum, fyrirgéf þeim, því þeir vita ei hvad þeir gjöra, Lúc. 23. Hvílík rósemdarfull undirgéfni undir vilja síns Födurs, einninn þegar hann sá fyrir höndum þann hryllilegasta daud-daga: minn Fadir! sagdi hann, sé þad mögulegt, þá lát þennann kaleik víkja frá mér, þó ecki sem eg vil, heldur sem þú vilt, Matth. 26.

Þvílíkur madur, er vid sérhvört tækifæri og í öllum lífsins kríngumstædum sýndi þad, hann aktadi lítid fyrir heiminn og jardneska hluti, er audsýndi svo mikla þolinmædi í mótlætinu, svo mikid vorkunlyndi vid breiskleika sinna vina, svo mikla hógværd og forlíkunarsemi vid sína óvini, svo mikla undirgéfni undir Guds vilja, svo mikla stjórn yfir sínum skilníngar-vitum og sínum sinnis-hræríngum, um þvílíks manns hjarta gétum vér ecki haft

þá minnstu grunsemi, svo lengi hann sýnir eckért það, sem þessn er gagnstædt. Af hvílíkum manni, hvörs þenkíngar-máti er svo ágætur og ypparlegur, kunna menn ei að vænta annars, enn þeirra fegurstu og ágætustu athafna; og þvílíkar vóru Jesú Krists athafnir. Guðs dýrð og mannanna farsæld var það einasta takmark allrar hans viðleitni; ætíð hafði hann þetta takmark fyrir augum sér, og veik aldrei frá því.

Vér fremjum opt margar fagrar og ágætar athafnir; en ef vér lítum eptir tilgánginum, þá er það ecki Guðs dýrð, heldur vor egin vegsemd, sem vér leitum eptir. En þannig var því ecki háttað fyrir Kristi: ef eg vegsama mig sjálfur, segir hann, þá er mín vegsemd engin; minn Faðir er sá, sem vegsamar mig, um hvørn þér segið, að hann sé ydar Guð; og þér þeckið hann ecki, en eg þecki hann, og ef eg segði, að eg þeckti hann ecki, þá væri eg lygari, eins og þið; en eg þecki hann og held hans orð, Jóh. 8. Kristur sagði ecki einúngis, að hann ecki leitaði sinnar, heldur Föðursins dýrðar; heldur og sannaði hann með verkunum, hvað hann sagði. Engin manneskja kann að tileinka sjálfri sér vegsemdina fyrir sínar athafnir, þareð allt hvað vér erum, allir vorir kraptar og fullkomlegleikar ecki tilheyra oss, heldur eru ófor-þént Skaparans gáfa; Kristur einsamall, svo sem guðdómleg persóna, hefði með réttu mátt tileinka sér sjálfum alla sína lærdóma og krapta-verk; og þó vildi hann heldur tilreikna sínum Föður allt þetta heldur enn sjálfum sér, svo hans Faðir kynni að vegsamast fyrir hann; trúir þú ecki, segir Krist-

ur, að eg er í Föðurnum og Faðirinn í mér? Þau orð, sem eg tala til yðar, tala eg ekki af sjálfum mér; og Faðirinn, sem í mér er, hann gjörir þau verk, Jóh. 14. Öll sú vegsemd, sem Kristur leitaði eptir, var þarí innifalin, að hann kynni að framqvæma vilja síns Föðurs, sem hafði sendt hann, og afljúka því erindi, hvörs vegna hann var útsendur. Þess vegna útbrýst hann með þessa bæn til síns Föðurs: Faðir! stundin er komin; vegsama Son þinn, svo að þinn Sonur einninn vegsami þig; svo sem þú hefir géfið honum vald yfir öllu mannkyninu, að hann géfi öllum þeim, er þú gafst honum, eilíft líf. En það er eilíft líf, að þeir þecki þig, þann einasta sanna Guð, og þann þú sendir Jesúm Krist. Eg hefi vegsamað þig á jörðunni, eg hefi aflokið því verki, sem þú féckst mér að gjöra. Vegsama mig nú, Faðir! hjá sjálfum þér með þeirri dýrð, er eg hafði hjá þér, áður enn heimurinn var til. Eg hefi opinberað þinn lærdóm fyrir mönnunum, hvörja þú gafst mér af himninum, þeir vóru þín-ir og þú gafst mér þá, og þeir hafa varðveitt þín orð. Nú þeckja þeir, að allt hvað þú gafst mér, er frá þér. Því þann lærdóm er þú gafst mér, hefi eg géfið þeim; og þeir hafa meðtekið hann, og þeckja sannlega, að eg er frá þér út-genginn, og trúað, að þú hafir sendt mig, Jóh. 17. Hvörsu ljóslega vitnar þessi ágæta bæn um Jesú Krists heilaga framferði? Guði tileinkar hann allt, en ekért sjálfum sér, utan þá æru, að hann hafði breytt eptir vilja síns Föðurs, og uppfyllt þann tilgáng, hvar fyrir hann var í heiminn send-

ur; hvørt líf kann að kallast heilagt, ef ecki það, sem ølduúngis er brúkað Guði til dýrðar?

En vér eblum ecki Guðs dýrð, vér gjørum ecki hans vilja og uppfyllum ecki þann tilgáng, hvar fyrir vér erum til, utan vér líka brúkum vort líf til að ebla farsæld vorra meðbræðra. Þetta stóra takmark hafði Jesús Kristur líka ætíð fyrir augum. Ef vér athugum Jesú lærdóma, þá miðuðu þeir allir til að gjøra vor hjørtu farsæl með dygðinni, að hughreysta oss í lífsins andstreymi, að gjøra vora samvitsku rósama, að auka oss djørfúng á móti dauðanum, grøfinni og eilífðinni. Ef vér athugum Jesú verk, hvørsu góðgjørn vóru þau? aldrei brúkaði hann sitt almætti til að straffa sína óvini, eður lét sína mótstøðumenn kénna á þeim krapti, sem í honum var, og sem þéir svo þrásinnis spottuðu; heldur sumpart til að þrycfja guðdómsins innsigli á sína góðgjørðasømu lærdóma, svo manneskjurnar skyldu verða þess fúsari til að meðtaka þá, og með því að meðtaka þá, skyldu verða þess farsælli; sumpart líka til að létta af manneskjunum þeirra líkamlegu neyð. Hjá honum fengu þeir blindu sjónina, þeir heyrnarlausu heyrnina, þeir mállausu málið, þeir limafalls-sjúku hreystina; af honum vóru þeir líkþráu hreinsaðir, þeir djøful-óðu fríaðir frá íllra anda yfirráðum, og þeir dauðu aptur uppvaktir til lífsins. Hvørsu góðfúsar vóru þá ei allar Jesú athafnir? hvørsu var þetta heilaga líf útgéfið til að gjøra gott? með hvílíkri kostgæfni géck hann með erfiði og bæn og føstu frá einni borg til annarar, frá einu þorpi til annars, svo að manneskjurnar skyldu allstaðar verða aðnjótandi hans góðgjørðasama almættis? þess vegna

géck engin bæn óbænheyrd til baka; enginn nauðstaddur fór synjandi af hans fundi; engin staður var án vitnisburðar um hans kjærleika til mannanna; allstaðar hlutu menn að játa, að guðdómurinn væri á jørðina ofanstíginn, til að gjøra þá farsæla, sem á henni búa.

Gétum vér þá eitt augna-blik efast um Jesú lífernis heilagleika? svo hreint var þetta líf frá blettum, svo eldúngis útgéfið til Guðs dýrðar og mannanna tímanlegrar og eilífrar farsældar. Hvað var að undra, þó hann þyrði að gánga fram fyrir sína óvini, og krefja þá til vitnisburðar: hvørr af yður gétur sannfært mig um nockra synd? Jóh. 8. Ef nockurr annar maður væri svo djarfur að krefja slíks, mundi hann ei bráðlega verða til skammar fyrir sína ofdyrfsku? hvað var að undra, að sjálfir hans óvinir hlutu að bera vitni um hans heilaga líferni og óstraffanlegu hegðun? Júdas sjálfur, sem sveik hann, hlaut að afleggja þessa játníngu fyrir því stóra Ráði: eg hefi illa gjørt, að eg sveik saklausann mann. Pílatus, sem dæmdi hann til dauða, hlaut optar enn sex-sinnum að játa, að hann fyndi enga dauða-søk hjá honum. Hans húsfrú bað hann, að hann eckért skyldi hafa að gjøra með þennann réttláta. Heródes hlaut að hengja yfir hann hvítt klæði, til merkis um hans sakleysi, og senda hann aptur til baka til Pílatum. Høfuðsmaðurinn, og hinir aðrir, sem horfðu á hans dauða, hlutu opinberlega að afleggja þann vitnisburð, að hann væri Guðs Sonur. Fleiri røk þarf ecki að framfæra til að staðfesta heilagleika Jesú líffernis.

Þegar vinir og óvinir verda hér samsaga í þeim sama vitnisburdi, þá hefir hann fullkomid abl.

---

Þessi sannleiki, ad Jesú gjørvalla líf var heilagt og ósaurgad, á ecki einúngis ad þéna oss til huggunar-ríkrar fullvissu um fullkomlegleika hans fridþægíngar; því hefdi hann sjálfur verid saurgadur af syndinni, hvørninn gat hans daudi þá verid þeirri heiløgustu veru þægilegt offur, fyrir vanheilagra manna syndir? en þar hann sjálfur var hreinn af synd, þá kunni Gud ad álíta hann sem syndara í vorn stad, og fyrir hans sakir gátum vér ordid réttlátir fyrir Gudi, 2 Cor. 5. En þessi sannleiki á einninn ad uppørfa oss, sem Jesú Krists sanna áhángendur, til ad feta í hans eptirbreytnisverdu fótspor. Oss ber, sem kristnum, ad feta í Krists fótspor bædi á mótlætisins og dygdarinnar vegi. Fúsir eigum vér, eins og Kristur, ad beygja oss undir þad mótlæti, sem vor fadir á oss leggur, og lída þad þolinmódlega. Eckért mótlæti gétur oss tilfallid í heiminum, sem er svo þúngt, sem Jesú Krists, þar hann gaf sig í svo miklu hardara strid; hvørninn kunnum vér, sem heita viljum hans eptirfylgjendur, ad mæla oss undan því léttara? til ad gánga í Krists fótspor eigum vér ecki sjálfir ad hlaupa út í mótlætid, edur steypa oss í þann háska, sem vér gétum umflúid, þad væri ad freista Guds; en oss skal ei heldur þykja undarlegt edur bregdast ókunnugir vid, þó vér hljótum ad lída, þar vor stóri fyri-rennari hefir lidid á undan oss.

Þess vegna segir Kristur svo: hvørr, sem vill

vera minn lærisveinn, hann taki sinn kross uppá sig og fylgi mér eptir, Lúc. 14. Med stødugleika og hughreysti eigum vér ad fylgja á eptir, þar Jesús Kristur hefir gengid á undan. Jesús Kristur gékk ígégnum pínuna inn til sinnar dýrdar; ef vér viljum gánga inn í dýrdina med honum, þá þurfum vér ei ad undrast yfir, þó vér eins og hann, hljótum fyrst ad gánga ígégnum ýmsar mótlætíngar. Einúngis sá, sem hér nidri hefir strídt med Kristi, kann ad vænta ad krýnast med honum sídar meir.

En vér eigum líka ad eptirfylgja Kristi á dygdarinnar vegi. Þar í er vor sanna tign og upphefd innifalin, ad vér líkjumst Kristi og berum hans ímind. Vér leitum almennt æru í því, ad géta líkst þeim, sem í tilliti til þeirra stands, embættis og metorda eru oss fremri; og Jesú Krists eptirdæmi, sem var bædi Gud og madur, skyldi ecki uppørfa oss! hans fyrirmindan skyldi enga verkun gjøra í vorum hjørtum! hvílík vanvirda fyrir oss! hann, Sonur þess allrahæsta, skyldi nidurstíga á jørdina, hann skyldi gánga dygdarinnar veg á undan oss, hann skyldi eptirláta oss þau fegurstu dæmi, eptir hvørjum vér svo óhult gétum fetad fram til farsældarinnar, og vér skyldum vera kaldir og dofnir þá vér høfum svo stóra fyrirmind? Jesú eptirdæmi, sem launar sínum eptirfylgjurum med eilífri sælu, skyldi verka minna hjá oss, enn heimsins syndsamlegi vani, sem gjørir oss óluckulega! gétum vér hugleidt þetta án þess ad rodna? gétum vér hugsad til þess, hvørsu kostgæfnir vér erum í því, ad líkjast Guds óvinum, og hvørsu dofnir vér erum í því, ad breyta eptir Jesú heilaga eptirdæmi, án þess ad

þeckja, hvørsu djúpt vér niðurlægjum sjálfa oss, og hvørsu lángt vér erum frá þeirri tign, sem vér erum tilkallaðir? vér gjørum það, sem er ófullkomið, að formi vorra athafna, og vér apturlykjum augunum fyrir Jesú Krists fullkomnustu fyrirmindum! hvílíkt niðurdrep fyrir oss!

Ef vér annars høfum nockra sanna sóma-tilfinníngu í voru brjósti, þá eigum vér að metta hana með því, að gánga í Jesú Krists fótspor, svo øll veröldin megi þeckja, að vér erum hans eptirbreytendur. Annars hrósum vér oss forgéfins af vorum kristinndómi, forgéfins nefnum vér oss eptir hans nafni, forgéfins segjumst vér elska Krist og heiðra hann. Hjá þeim, sem eg elska og virði, finn eg fullkomlegleika. þessir fullkomlegleikar verða mér elskuverðir, eg leitast við að líkjast þeim, af því eg veit, að eg aldrei gét framar þóknast þeim, sem eg elska, heldur enn þegar minn þenkíngar-háttur, mínar girndir, mínir siðir koma saman við hans. Ef vér høfum nockurn sannann kjærleika til, og virðíngu fyrir Jesú Kristi, þá hlýtur sú sama lyst til að líkjast honum að upplífga vor hjørtu. Þegar vér erum þolinmóðir í mótlætinu, sem hann; undirgéfnir undir Guðs vilja, sem hann; vorkunlyndir við veikleika vorra vina, sem hann; forlíkunarsamir við vora óvini sem hann; þegar vér verjum vort líf, eins og hann varði sínu, Guði til dýrðar og mønnunum til farsældar, þá erum vér sann-kristnir, sannir Jesú eptirfylgjarar; annars ecki.

25. Kap-

## 25. Kapítuli.

Um Jesú friðþægjandi Dauða.

Eg hefi hér að framan fært rök til þess, að annarleg forlíkun sé nauðsynleg, ef syndugar manneskjur skulu umflýja dómarans reiði, og brotlegar skepnur komast aptur í sátt við þeirra Skapara. En var það nauðsynlegt, að Frelsarinn skyldi deya, til að útvega manneskjunum sælufullann ódauðlegleika? var blóðugt offur samgvæmast Guðs heilagleika, hans vísdómi og hans réttlæti? þetta spursmál skal hér ransakast.

Ritníngin kénnir allvíða að Endurlausnarinn hafi hlotið að deyja, ef hans friðþægíng skyldi vera fullgyld. Án blóðs úthellíngar skéður engin forlíkan segir Páll, Ebr. 9. Kristur ségir: að hans blóð mundi úthellast til syndanna fyrirgéfníngar. Esajas segir: að hann mundi géfa sitt líf til skuldaoffurs, Es. 53. Meira þyrftum vér ekki að vita; þessi álygtan mætti vera nóg: þannig kénnir Ritníngin; með útþryckilegum orðum segir hún oss, að heimsins Endurlausnari hafi hlotið að deyja, ef heimurinn skyldi forlíkast fyrir hann. Oss mætti nægja að álykta þannig: Guð heimtaði þetta offur, Kristur frambar það til að forlíka fyrir heiminn, og Guðs réttlæti er gjørð fullnægja með því, þess vegna hlýtur þetta offur að hafa verið nauðsynlegt. En jafnvel þó Ritníngin kénni ánægilega, að Endurlausnarans dauði hafi verið nauðsynlegur til vorrar friðþægíngar, þá sjáum vér samt enn þá ekki nógu greinilega þessa nauðsyn. Ef vér viljum þeckja hvørsu þessi friðþægjandi dauði var nauðsyn-

legur, þá hljótum vér að gjöra þessa álýktun: sérhvør synd er vanbrúkan lífsins; það náttúrlegasta straff fyrir vanbrúkað líf, er sviptir lífsins, edur dauðinn; Kristur géck í syndaranna stað, hann hlaut þess vegna að líða syndaranna straff, hann hlaut að sviptast lífinu, hann hlaut að deyja. Eg vil með fáum orðum útlista þessa álýktun.

Sérhvør synd er vanbrúkan lífsins. Þá brúkum vér hvørja eina gáfu réttilega, þegar vér brúkum hana eins og gjafarinn hefir tilætlast; þá vanbrúkum vér hana, þegar vér brúkum hana þannig, að gjafarans tilgángur annaðhvørt ecki uppfyllist, edur hindrast. Hvørr var nú Skaparans tilgángur, þá hann kallaði oss fram af engu og lét oss verða til? Vér munum allir svara: að Skaparinn, sem vegna síns óendanlega vísdóms, ecki getur gjört neitt forgéfins, hlýtur að hafa haft fyrir augnnum einn edur annann tilgáng, sem vér áttum að framqvæma, og að auglýsíng hans dýrðar hljóti meðal annars að hafa verið hans tilgángur. Þetta er verulegur tilgángur allra Guðs sképna, að þær þéna þeirra Skapara til dýrðar. Himnarnir, segir Davíð, framsegja Guðs dýrð, og sú útþanda festíng verkin hans handa, Ps. 19. En, ecki einúngis himnarnir, ecki einúngis sú útþanda festíng; arið í sólar-geislanum allteins vel, sem sólin; sand-kornið ecki síður enn jarðar-hnötturinn; ormurinn í moldunni allteins vel, sem høfuð-engillinn frammi fyrir Guðs hásæti, framsegja Skaparans dýrð, og kunngjøra verkin hans handa. Tøkum það minnsta gras, gætum með athygli að því minnsta skriðqvikindi, og vér gétum ei neitað því, að það kunngjøri

dýrd síns Skapara, og vegsami þad almætti, vís-dóm og gædskn, sem þad tilbjó. Á þeim minnstu, sem þeim stærstu sképnum má sjá Skaparans dýrd. Allar hrópa þær til vor: þid skynsömu sképnur! skodid á ockur Skaparans hátign, dáist ad og til-bidjid þá veru, sem mindadi ockur.

En sé þad eitt af augna-midum allra sképna, ad þær auglýsi hátign þeirra Skapara og alla hans óendanlegu fullkomlegleika, ad svo miklu leiti, sem þeir géta af þeim augljósir ordid; hvørsu miklu fram-ar mun þá manneskjan hafa þetta augnamid? mann-eskjan, sú ædsta af öllum sýnilegum sképnum? hvørsu miklu framar hlýtur hún ad vera sköpud til þess, ad hún skyldi þéna Skaparanum til dýrdar? og hvørninn eblum vér þetta augnamid? máské med því haglega smídi vors líkama? máské med þeim dá-samlega skapnadi vorrar skynjandi sálar? máské med því, ad láta sjá þær ágætu gáfur, sem Skaparinn hefir gædt oss med? já, uppá þennann máta veg-sömum vér vorn Skapara; en med sama hætti veg-samast hann einnig af því minnsta skrid-qvikindi; þared á því, allteins vel sem á oss, má sjá Skap-arans hátign. Mun Gud ecki heimta af oss, ad vér vegsömum hann med ødrum hætti, þar vér erum skynsamar og ædri sképnur? vér høfum svo miklu ædri náttúru, mun Gud þá ecki hafa miklu ædra augna-mid med oss? jú! vér finnum þad hjá oss, ad vér erum þannig skapadir, ad vér gétum þeckt vilja vors Skapara; hann hefir opinberad oss þann sama; hann hefir innskrifad sitt løgmál í vor hjørtu; vér finnum hjá oss, ad vér gétum breytt eptir, edur brotid á móti vilja vors Skapara. Þegar vér und-

irkøstum oss þessu løgmáli, þegar vér uppfyllum þennann Skaparans vilja, þá vegsömum vér hátign vors Skapara med vorri sjálfkrafa hlýdni, med vorri hlýdni játum vér hans yfirdrottnun, hans alvitsku, hans ósaurgada heilagleika, fyrir hvørjum þánkinn sjálfur ecki er hreinn, hans stránga réttlæti, fyrir hvørju tilgángurinn sjálfur er fordæmanlegur.

Med þessum hætti eigum vér, sem skynsemdarfullar og frjálsar verur, ad vegsama vorn Skapara; med þessum hætti eigum vér, sem ædri sképnur, ad kunngjøra vors Skapara óendanlegu fullkomlegleika, fleiri fullkomlegleika, heldur enn þá, sem kunngjørast af þeim daudu og skynlausu sképnum. Þad er eitt af þeim augna-midum, hvar fyrir Gud gaf oss lífid og lét oss verda til; en þá er þessi ályktan líka rétt: þess vegna er sérhvør synd vanbrúkan vors lífs; þess vegna gjørum vér med sérhvørri vísvitandi óhlýdni ad engu þad augnamid, hvørs vegna Gud skapadi oss. Syndarinn verdur ad sönnu enn þá meistara-stycki Skaparans almættis, vísdóms og gædsku; í þessu á hann sammerkt vid dýrin og grøsin, ad hann hlýtur ad vegsama þessa eginlegleika síns Skapara; en ecki sjáum vér á honum Skaparans yfir-drottnun, hans alvitsku, allstadar nálægd, heilagleika og réttlæti; því væri hann Drottinn, mundi hann þá ecki hlýda honum? væri hann alvitur, mundi hann þá brúka myrkrid til ad hylja sína glæpi? væri hann allstadar nálægur, mundi hann þá ecki blygdast vid ad gjøra þad, sem íllt er, í guddómsins nálægd? væri hann heilagur, mundi hann þá ecki hreinsa sig af øllum saurugleika holdsins og andans? væri hann

réttlátur, mundi hann þá ecki óttast hann? það er þess vegna óneitanlegt, að sérhvør synd, sérhvør vísvitandi óhlýðni er afneitan Skaparans stærstu fullkomlegleika; sérhvør synd, sérhvør vísvitandi óhlýðni er þess vegna vanbrúkan þess lífs, sem oss var géfið, til að vegsama með því vorn Skapara.

Eg vil setja þennann sannleika fyrir sjónir með ødrum hætti: þegar Guð skapaði oss, þá hefir hann ecki einúngis haft það almennilega augna-mið með oss, að vér skyldum þéna hans dýrð til vegsemdar; heldur hlýtur hann einnig að hafa haft sérlegri tilgáng, sem af oss átti að framqvæmast í hans stóra, takmarkalausa ríki. Vér gétum ecki neitað því um manneskjuna, sem vér hljótum að meðkénna um sérhvørja skynlausa sképnu. Hvørsu litla ímyndun, sem vér gétum gjørt oss um Guðs óransakanlega vísdóm, þá gétum vér þó séð svo mikið, að engin sképna er til af hendíngu, engin án stórs og vigtugs tilgángs. Þær minnstu grastegundir allteins vel, sem eikin og greni-tréð; þau smáu skorqvikindi er fæðast að morgni og deyja að qvøldi, allt eins vel sem fíllinn, hafa augna-mið í náttúrunni, sem af þeim á að framqvæmast; án tilgángs tilbjó Skaparinn þau ecki. Vér føllum að sønnu í stærstu forundrun, þá vér þenkjum til þessa; en það er líka þessi hugar-hræríng, sem á að upplífga vor hjørtu, svo opt vér skoðum Skaparann í sképnunum. En sé það óneitanlegt, að sérhvør sképna, sú auðvirðilegasta allt eins vel sem hin stærsta, hafi sitt augna-mið í náttúrunni, fyrir hvørs skuld hún er til; skyldi þá manneskjan, og hvør ein manneskja út af fyrir sig, eckért augna-mið hafa? hún

væri þá lángtum minniháttar enn þær skèpnur, sem fyrir vorum augum eru þær audvirdilegustu. Og sé þad satt, ad vèr høfum vort augna=mid, sem af oss á ad framqvæmast, hvørninn gètum vèr þá eitt augnablik forsómad ad uppfylla þad, án þess ad vanbrúka vort líf? þær daudu og skynlausu skèpnur leidast til þess takmarks, sem þær eru tilætladar, med þeirri náttúrlegu fýsn, sem Skaparinn hefir inngèfid þeim; og, manneskjunum til blygdunar, uppfylla þær med nágvæmasta hætti augna=mid þeirra lífs. Vèr þarámóti erum skynsemdarfullar og frjálsar verur, oss fyrirskrifadi Skaparinn einúngis sitt løgmál, med ómótstædilegum krapti kunnum vèr ecki ad leidast til vors takmarks. Og þetta løgmál, hvad er þad annad enn auglýsíng þess tilgángs, vegna hvørs Gud skapadi oss, og þess augnamids, til hvørs hann hefir ætlad oss. Ad yfirtroda þetta løgmál, er þess vegna ad víkja frá því takmarki, sem vèr erum tilætladir; ad yfirtroda þetta løgmál, er ad gjøra ad engu tilgáng vors lífs. Hvør ein ásetníngs synd, hvør ein vísvitandi óhlýdni er þess vegna vanbrúkan vors lífs.

Eg vil nú draga hèraf þá álýktun, sem leidir mig nær því, sem eg er um ad tala: sé þad satt, ad sèrhvør synd sé vanbrúkan vors lífs, hvørt er þá hid maklegasta og náttúrlegasta straff fyrir vanbrúkad líf? eg vil framsetja annad spursmál, sem líkt er þessu: þegar vèr høfum gèfid einhvørjum gáfu nockra, og hann annadhvørt brúkar hana ecki, ellegar vanbrúkar hana þvertámóti vorum tilgángi; hann vanbrúkar hana oss til vanvirdu, edur ødrum mønnum til skada, ellegar sjálfum sèr

til ólucku; hvørt straff er þá það maklegasta? hvørt það náttúrlegasta og réttvísasta? vér vitum allir að svara: að það náttúrlegasta og viðurqvæmilegasta straff sé, að svipta hann aptur þeirri vanbrúkuðu gáfu. En með þessu svari fellum vér dóminn yfir sjálfa oss og allt mannkynið. Vér erum allir syndarar, allir yfirtroðslu-menn Guðs løgmáls; sérhver yfirtroðsla er vanbrúkan vors lífs: sviptir lífsins eður dauðinn er þess vegna hið náttúrlegasta og viðurqvæmilegasta straff, sem Guðs réttlæti hlaut að leggja á syndarana. Þar á er grundvallaður þessi Guðs dómur: á hvørjum degi, sem þú etur af því, skaltú dauða deyja. Þar á er bygður þessi Postulans Páls lærdómur: dauðinn er syndarinnar verðlaun, Róm. 6. Eins og syndin er fyrir einn mann innkomin í heiminn, og dauðinn fyrir syndina, svo hefir dauðinn innþreyngt sér til allra manna, af því allir hafa syndgað, Róm. 5.

Nú sjáum vér, hvørsu nauðsynlegur Jesú Krists dauði var; nú skiljum vér, hvar fyrir sá, sem átti að friðþægja fyrir heiminn, hlaut einnig að deyja fyrir heiminn; því sá, sem átti að gjøra forlíkun fyrir syndarana, hlaut að bera syndaranna straff, og þetta straff er dauðinn. Jesús Kristur gékk í syndaranna stað: hann var það Guðs lamb sem bar heimsins syndir, eins og Jóhannes sagði, Jóh. 1. Dómarinn lagði þess vegna á hann og lét koma niður á honum þann dauða, sem allir syndarar, allir hans løgmáls yfirtroðslu-menn tilvinna, sem vanbrúka þeirra líf á móti gjafarans tilgángi, og með vanbrúkuninni gjøra sig þess ó-

verduga. Offranir Gamla Testamentisins vóru ad vísu bílæti uppá þennann sannleika. Þegar menn frambáru þessar blódugu offranir, þá var það eins og menn segdu: Guð! Drottinn! Løggjafari! þetta er sá daudi, sem við forskuldum! þannig útheimtir þitt réttlæti, ad vér sviptumst lífinu, því lífi, er vér áttum ad brúka þínu nafni til dýrdar, og til ad framqvæma þinn góda og vísdómsfulla tilgáng, en, sem vér svo svívirdilega misbrúkum þér til vanheidurs. En þó ad þessi blódugu offur væru bílæti Guðs reidi og þess straffs, sem allir løgmálsins yfirtrodslu-menu tilvinna, og sem heimsins Endurlausnari átti sídarmeir ad lída í syndaranna stad, þá gátu þó þessi bílæti ecki annad enn gjørt sálina hrædda og óttaslegna, því þau vóru ecki fridþægjandi, þau afmádu ecki syndina, þau gjørdu ecki fullnustu Dómarans réttlæti, þau gátu ecki af eginn krapti útvegad fyrirgéfníngu. Jesú daudi þaramóti var fridþægjandi daudi. Hann stód fyrir dómaranum, sem syndari í allra stad; réttlætid lagdi þess vegna á hann þann dauda, sem allir syndarar verdskulda, er vanbrúka þeirra líf Skaparanum til vanheidurs, þvertámóti hans vísdómsfulla og góda tilgángi; hann lofadi einnig øllum þeim, sem med lifandi og ávaxtarsamri trú medtóku hann, þeim lofadi hann, fyrir hans skuld, sælufullum ódaudlegleika, þar hans réttlæti tilreiknast þeim, og það straff, sem hann leid í þeirra stad, álítst eins og þeir hefdu sjálfir lidid það. Þéss vegna segir Páll: Þann, sém var hreinn af synd, áleit hann, sem syndara í vorn stad, svo ad vér fyrir hann, skyldum verda réttlátir fyrir Gudi, 2 Cor. 5. Krists

dauði var þess vegna ecki einúngis píslar-vættis dauði, ecki þvílíkur dauði, með hvörjum hann einúngis, eins og Postularnir staðfesti sínar guddómlegu kénníngar; jafnvel þó Krists dauði sé einninn í þessu tilliti sterk røksemd uppá, að hann ecki var svikari, og að hann þess vegna var sá, sem hann sagdist vera; heldur var hans dauði sannarlega friðþægjandi dauði, þvílíkur dauði, sem var nauðsynlegur til að forlíka syndarana við Dómarann, og Skaparann við þær sképnur, er með syndinni høfðu vanbrúkað þeirra líf, og með vanbrúkuninni brotið það af sér.

---

Með Krists friðþægjandi dauða erum vér að sønnu ecki frelsaðir frá þeim líkamlega dauða. Ódauðlegleiki í þessu lífi væri engin lucka fyrir oss, heldur ólucka, eptir heimsins nærverandi ástandi; heldur er oss með Krists friðþægjandi dauða opnaður vegur ígégnum dauðann til sælufulls ódauðlegleika. Skyldum vér æskja oss að vera ódauðlegir hér á jørðunni? skyldi þessi ódauðlegleiki kunna að álítast fyrir velgjørníng? hér, hvar lífsins yndislegasti sætleiki er blandaður með beiskleika; hvar vér sífeldlega plágumst af gremju yfir því umliðna, óánægju með það nálæga, og ótta fyrir því ókomna; hvar kristins manns himin aldrei er fullkomlega heiðríkur, og sú fegursta sól er formyrkvun undirkøstuð; hvar sú eina manneskja er annarar óvinur, og sá eini bróðir hins annars svikari; hvar enginn óhultur griða-staður er fyrir náttúrunnar ásókn og frum-efnanna æði-gángi. Eg vil segja

enn nú meira: skyldum vèr æskja oss ódauðlegleika í þessum heimi, hvar syndin býr? hvar sál hins heilaga varla hefir eins augna-bliks rósemi fyrir freistíngum hins synduga líkama; hvar ímindunar-krapturinn forblindar, skilníngar-vitin tæla og geðs-hræríngarnar þrífa af taumana; hvar holdið girn-ist á móti andanum og andinn á móti holdinu, og vèr í þessu hættulega stríði svo opt hrösum, svo opt dettum, og eygum svo bágt með að standa upp aptur. Páll óskaði sèr ecki þessa ódauðlegleika: það góða, sem eg vil, gjöri eg ecki, sègir hann, og það vonda, sem eg vil ecki, gjöri eg; eg finn eitt annað lögmál í mínum limum, sem mótstríðir mínu hugskots lögmáli, og herleiðir mig til synd-arinnar lögmáls, sem er í mínum limum. Þess vegna óskaði hann sèr, að frelsast frá þessum dauðlega líkama, Róm. 7.

Nei, ódauðlegleiki í þessu lífi, væri enginn velgjörníngur af Guðs hendi; en það var þvílíkur velgjörníngur, sem syndugar mannèskjur einúngis kunnu að æskja sèr, en ecki eptir að vænta, að Guð með Krists dauða opnaði oss veg ígégnum dauðann til sæluríks ódauðlegleika. Nú getum vèr vongóðir og hughraustir á gráfar-backanum undir-tekið með Postulanum Páli: hvörr vill ákæra Guðs útvalda? Guð er sá, sem rèttlætir. Hvörr er sá, sem fordæmir? Kristur er sá, sem dáið hefir, já, miklu framar sá, sem upp aptur er vakinn, hvörred og er til hægri handar Guði og biður fyrir oss, Róm. 8. Hvörsu sæluful hugg-un! hvörsu stór von! þessi fullvissa, að Jesús er dáinn til að útvega oss lífið, hvílíka rósemi ætti

hún ad inngéfa ofs? já, rófemi, en ecki svefn, ecki dofinleika í því ad képpast eptir sáluhjálpinni; því hann útgaf sig sjálfann fyrir ofs, ad hann endurleysti ofs frá øllu óréttlæti, og hreinsadi sér sjálfsum fólk til egindóms, þad kostgjæfid væri til gódra verka, Tít. 2. Já, kostgjæfna og ástundunarsama ætti þessi fullvissa ad gjøra ofs, ad Jesús med sínum dauda hefir útvegad ofs lífid. Hvílíkann brennandi kjærleika ætti hún ad uppvekja hjá ofs til velgjørarans, til þess, fyrir Krist, forlíkada føðurs? og þessi kjærleiki, hvílíka kostgjæfni og ástundun ætti hann ad fæda af sér til dygdanna og gódra verka ydkunar? ef øll frelsis von væri úti fyrir ofs, þá væri þad ecki ad undra, þó vor ástundan til þess góda hvirfi undir eins og vonin, þó hugurinn biladi, og vorir kraptar dofnudu! en nú, þar hnossid blasir á móti ofs, ættum vér þá ecki ad strída og hlaupa, svo vér gjætum nád því? eilífdin, já, sælufull eilífd er aptur opnud fyrir ofs, ættum vér þá ecki ad képpast eptir, med dygd og heilagleika ad búa ofs meir og meir undir þessa eilífd? án þessa strids, án þessarar alvørufullu kostgjæfni, kémur Jesú pína, hans daudi og fridþæging ofs ad engu gagni. Hann dó, og vér fyrirførumst.

## 26. Kapítuli.

### Um Endurminníngar-máltíd Jesú fridþægjandi Dauda, edur þá heiløgu Qvøldmáltíd.

Kitlu ádur enn Jesús géck til sinnar pínu, innsetti hann þá heiløgu qvøldmáltíd, sem endurminníngar-máltíd síns fridþægjandi dauda. Hann héldt

fyrst heilaga Páskalambs-máltíðina með sínum læri-sveinum, og þegar hún var á enda, tók hann brauðið, gjørði þackir, gaf lærisveinunum það, og sagði: takið, etið! þetta er minn líkami. Síðan tók hann bikarinn, gjørði þackir, gaf þeim hann og sagði? dreckið allir héraf! því þetta er mitt blóð, þess nýa sáttmála blóð, sem úthellast skal fyrir marga til syndanna fyrirgéfníngar' Matth. 26. Lúcas segir: að Kristur hafi bætt því við: að þeir skyldu gjøra þetta í hans minníngu, Lúc. 22.

Það er skaði, að þessi heilaga athøfn, sem hefir svo vigtugann tilgáng, er orðin að þrætu-epli í kristilegri kirkju, og á meðan þeir kristnu stríða um leyndardóm þessarar athafnar, hvørn þeir þó ecki géta skilið, fara þeir opt á mis við þau sálu-hjálplegu not, sem þeir ættu af honum að hafa. Góður og skynsamur kristinn maður, í staðinn fyrir að hnýsast eptir því, sem hann ecki skilur, og legg-ja hatur á aðra, sem ecki skilja það eins og hann, gætir hann að Jesú tilgángi með þessa stiptun, og kappkostar, að þessi góðgjarni tilgángur uppfyll-ist á sjálfum honum. Kristur hefir sagt: þetta er minn líkami, þetta er mitt blóð. Þetta lætur hann sér nægja, að Kristur hefir sagt það; meira þarf hann ecki að vita. Hefði hann í þessu efni þurft að vita meira, eður hefði hann gétað skilið meira hér um, þá hefði Kristur líka sagt meira. Hvørninn brauðið er Krists líkami; hvørninn vínið er hans blóð, hvørninn þessir hlutir eru sameinaðir hvørr við annann, hvar í þessi sameiníng er innifalin, þessi spursmál gjøra hann ecki óróssamann; til sáluhjálplegrar-nautnar

þeirrar heilögu qvöldmáltídar útheimtist ecki, ad hann géti svarad uppá þau. En þad rídur honum á ad vita, í hvada tilgángi sú heilaga qvöldmáltíd er innsett, og hvad hann eptir Krists tilgángi á eginlega ad gjöra, svo hann géti notid hennar verduglega, og þetta er nögu augljóst, þar um er enginn efi edur ágreiníngur.

Ádur enn eg útskíri höfud=tilgánginn, hvarfyrir Kristur innsetti þá heilögu qvöldmáltíd, vil eg fyrst stuttlega minnast á einn auka=tilgáng, edur þó heldur afleidíng þessarar heilögu stiptunar, er Páll sétur þeim fyrstu kristnu fyrir sjónir. Hann vill gjöra þeim skiljanlegt, ad þeir ecki gjætu ordid hluttakandi Heidíngjanna offur=máltída, án þess ad játa sig opinberlega til þeirrar heidínglegu afguda þjónustu, og til sönnunda þar um, leidir hann þeim fyrir sjónir, sumpart, ad Israelítarnir, med því ad éta af fórnunum, standi í sameiníngu vid altari Gydíngánna guds=þjónustu, og þess vegna játi sig til Gydínganna kirkju og guds=þjónustu; sumpart, ad þeir kristnu, med því ad halda þessa heilögu máltíd, játi sig til Krists og kristilegrar kirkju. Hans ord hér um eru þessi: svo sem vid skynsama tala eg; dæmid þér hvad eg segi: sá blessunarinnar kaleikur, hvörn vér blessum, er hann ecki sameiníng Kristi blóds? braudid, hvört vér brjótum, er þad ecki sameiníng Kristi líkama? svo sem þad er eitt braud, svo erum vér margir einn líkami. Hyggid ad þeim náttúrlegu Israelítum! munu þeir ecki, sem eta af fórnunum, vera í sameiníngu vid altarid? segi eg þar fyrir, ad Skurdgodid sé nockud, eda ad Skurdgoda=offrid sé

nockud? en það segi eg, að hvað Heiðíngjarnir offra, því offra þeir Afgudunum, og ecki Gudi, en eg vil ecki að þér séuð sameinadir Afgudunum. Þér gétið ecki druckið kaleik Drottins og Afgudanna kaleik; þér gétið ecki hluttakandi orðið bordhalds Drottins og bordhalds Afgudanna, 1 Cor. 10. Þegar vér athugum þessi Páls orð, þá sjáum vér greinilega, að nautn þeirrar heilögu qvöldmáltíðar, er, eptir Postulans meiníngu, medkénníng Krists, opinberleg játníng, að vér heyrum til Krists kirkju, og erum limir þessa andlega líkama. Hvar af fylgir, bædi það, að enginn á að medtakast til Guds borðs, utan þeir, sem sannarlega eru limir kristilegrar kirkju, og líka að vér ecki að ósekju megum halda oss frá Guðs borði; því séum vér Krists tilbidjendur, og viljum álítast fyrir það, þá eigum vér líka med þessari athöfn að sýna, að vér séum það; og loksins, að allir þeir, sem ecki gánga til Guds borðs, útilyktja sig sjálfa frá kristilegri kirkju, og eiga ecki að álítast, sem hennar limir.

En þetta er einúngis auka-tilgángur þeirrar heilögu qvöldmáltíðar, hvörn oss ber þó að hafa fyrir augum, þá vér gaungum til Guðs borðs. Höfuð-tilgáng þessarar stiptunar hefir Jesús sjálfur sagt oss, þá hann innsetti hana. Sá fyrri höfuð-tilgángur er þessi, að vér skulum halda þessa heilögu máltíð í hans minníng. Þess vegna er sú heilaga qvöldmáltíð endurminníngar-máltíð, innsett að sönnu til að minnast allra Krists velgjörnínga, en sérílagi til að minnast á hans pínu og dauða, og þá friðþægíngu, sem hann gjörði þar med fyrir heimsins syndir; þess vegna segir Páll: svo opt,

sem þér etið af þessu braudi og dreckið af þessum kaleik, skuluð þér kunngjøra dauða Drottins, þángað til hann kémur, 1 Cor. 11. Hvílíkar endurminníngar-máltíðir hafa verið brúkanlegar á fyrri tímum, og enn þá á vorum døgum eru þær ei øldúngis aflagðar. Hvílík endurminníngar-máltíð var páska-lambið, sem var innsett til árlegrar endurminníngar þess stóra velgjørníngs, sem Guð auðsýndi Israels fólki, þegar hann útleiddi það af Egyptalandi. En svo miklu vigtugri, sem sú frelsun er, sem Guð hefir veitt oss fyrir Krist, svo miklu vigtugri og hátíðlegri á þessi endurminníngar-máltíð að vera oss. Það er nauðsynlegt fyrir manneskjurnar, sem eru svo gjarnar á að gleyma jafnvel Guðs allra stærstu velgjörníngum, að þær þess á milli séu minntar á þá sømu. Þetta er tilgángur þessarar heiløgu stiptunar. Sá, sem þessvegna forsómar þessa dýrmætu endurminníngarmáltíð Krists dauða, hann géfur þar með til kynna, að honum þyki ecki mikið koma til Jesú endurlausnar, hann lætur í ljósi það skammarlegasta vanþacklæti fyrir Guðs allrastærsta velgjørníng, sem hann hefir veitt syndugu mannkyni í dauða síns sonar.

En svo sem það er svívirðilegt óþacklæti við Guð og Jesúm Krist, þegar menn eru tómlátir og hyrðulausir í að endurminnast hans friðþægjandi dauða, þá er þó ecki sérhvør endurminníng hans friðþægjandi dauða af þeirri réttu tegund. Skuli þessi endurminníng Jesú dauða verða nytsamleg, sáluhjálpleg og samqvæm hans gjæðska-ríka og vísdómsfulla tilgángi, þá hlýtur hún að vera gaumgjæfileg, lifandi og ávaxtarsøm. Við þetta tæki-

færi hugleiðir sann-kristinn maður orsøkina til Jesú dauða, nefnilega: mannanna syndir. Í Jesú dauða sjer hann, hvørsu syndirnar eru stórar og Guðs réttlæti óendanlegt, sem ecki varð friðstillt utan með svo stóru offri og lausnar-gjaldi. Hann álýktar um stærð sinna synda af stærð lausnargjaldsins, sem fyrir þær hlaut að útleggjast, og þessi álýktan uppvekur hjá honum heilaga hræðslu fyrir Guðs réttlæti, sem krafðist þvílíks lausnargjalds til að þyrma syndurunum; heilaga hræðslu fyrir sérhvørjum syndsamlegum þánka, sérhvørri vanheilagri girnd, sérhvørri offsterkri géðshræríngu, sem hefði orðið honum til fordæmíngar, ef Jesú friðþægíng hefði ecki á milli komið. Við þetta tækifæri hugleiðir sá sann-kristni, hvørsu stórar píslir Endurlausnarinn hlaut að líða, þegar hann var að forlíka fyrir mannkynið; hann fylgir honum í huga sínum frá grasgarðinum Gethsemane, hvar hann sveittist blóðinu undir birði alls heimsins synda, til fjallsins Golgatha, hvar hann lét sitt lif fyrir þær sömu. Hann sjer, að hann við hvørt fótmál er hógvær við sína óvini, elskuríkur við sína vini, undirgéfinn vilja síns føðurs, þolinmóður í sinni inn- og út-vortis pínu, og þessi sjón vitnar í hans sálu um þann innilega kjærleika, hvar með Kristur elskaði heiminn. Við þetta tækifæri hugleiðir sá sann-kristni þær sáluhjálplegu verkanir Jesú dauða. Hann dó, svo að vér skyldum lifa; fyrir hans dauða høfum vér fengið frið samvitskunnar, huggun í dauðanum og djørfúng móti eilífðini. Með hans dauða er oss opnaður inngángur ígégnum dauðans myrkur til sælufulls óðauðlegleika;

vegna hans dauda høfum vér adgáng til nádarstólsins, og megum vænta ad finna þar fridstilltann fødur. Þessa sáluhjálplegu ávexti Krists dauda finnur sann-kristinn madur stadfasta og innsiglada í sinni sálu, þegar hann nýtur þeirrar heiløgu qvøldmáltídar. Þegar hann medtekur braudid, finnur hann hjá sér þessa rósemdarfullu og sáluhjálplegu fullvissu: svo sannarlega, sem eg nýt þessa brauds, svo sannarlega verd eg og hluttakandi Jesú líkama og allrar þeirrar pínu, sem hann leid á sínum heilaga líkama, fyrir hvørrar sakir eg á ad nádugann Gud og fridþægdann fødur; þegar hann medtekur vínid, finnur hann med sjálfum sér þessa huggunarríku fullvissu: svo sannarlega, sem eg nýt þessa víns, svo sannarlega verd eg hluttakandi hans blóds, og hans blóds úthellíngar, fyrir hvørrar skuld mínar syndir eru fyrirgéfnar og mínar misgjørdir útsléttar. Af þessari sáluhjálplegu fullvissu kémur fridur, huggun, gledi og rósemi aptur í samvitsku þess manns, hvørs hjarta var ádur sundurknosad af løgmálsins bølvun og samvitskunnar ákløgunum. Hvílík endurminníng, þvílík lifandi og gaumgjæfileg endurminníng Jesú fridþægjandi dauda, hvørninn gétur hún verid ávaxtarlaus? hvad skyldi hún af sér fæda í kristins manns hjarta, ef þad er ecki elska, innileg, heit og brennandi elska til Endurlausnarans aptur á móti, og þessi elska, hvørninn gétur hún annad enn verid frjófsøm og fædt af sér dygdugar, ágjætar og kristnum manni verdugar athafnir. Því þad mótsegir sér sjálft, ad nockur elski Krist, ef hann ecki fúslega undirkastar sig hans heiløgu skipunum, ef hann ecki med gladværri hlýdni lifir eptir

þeim. Þetta er þá sá fyrrí tilgángur þessarar heilögu máltídar, er vér eigum fyrir augum ad hafa og um ad þenkja í hvört sinn, sem vér viljum verda hennar hlut-takandi, ad vér eigum ad halda hana til þacklætisfullrar endurminníngar Jesú fridþægjandi dauda.

Hinn annar tilgángur þeirrar heilögu qvöldmáltídar, er sá: ad vér þá eigum med hátídlegum hætti ad endurnýja þann sáttmála, sem Jesús Kristur hefir gjört á milli Guds og vor. Innsetníngar ordin eru framfærd med nockrum mismun. Matthæus framfærir þau þannig: hann tók kaleikinn, gjördi þackir, gaf þeim hann og sagdi: dreckid allir héraf! því þad er mitt blód, þess nýja sáttmála, hvört ed fyrir marga mun úthellast til syndanna fyrirgéfníngar, Matth. 26. Lúcas hefir þau þannig: hann tók kaleikinn og sagdi: þessi kaleikur er nýr sáttmáli fyrir mitt blód, sem fyrir ydur verdur úthellt, Lúc 22. Og nærstum því eins frammfærir Postulinn Páll þau, 1 Cor. 11. Þessi litli mismunur á ordunum gjörir enga verulega umbreytíngu í sjálfri meiníngunni. Svo mikid sjáum vér augljóslega, ad Kristur talar hér um sáttmála, þvílíkann sáttmála, sem hann med sínu blódi, þad er, med sínum dauda, ætladi ad gjöra á milli Guds og vor. Kristur kallar þennann kaleik nýjann sáttmala í sínu blódi, edur fyrir sitt blód, og lítur þar med til þess gamla sáttmála, sem Gud gjördi fyrr meir vid Israels fólk fyrir Móses medalgaungu. Þegar Gud vildi gjöra sáttmála vid sitt fólk, þá slátradi Móses nockrum dýrum til ad offra, sídan las hann fyrir fólkinu sáttmáls-bókina, og

þegar allt fólkið hafði svarað: vér viljum gjöra allt það, sem Drottinn hefir boðið og vera honum hlýðnir, þá stökkti hann offur-dýranna blóði á fólkið og sagði: sjáið! þetta er blóð sáttmálans, hvørn Drottinn hefir gjørt við yður yfir øllum þessum orðum, 2 Mós. b. 24. Nú segir Kristur: þessi kaleikur er nýr sáttmáli fyrir mitt blóð, sem fyrir yður úthellist. Það er auðsjeð, að hann með þessum orðum lítur til þess gamla sáttmála, sem Guð gjørði við sitt fólk, fyrir Móses meðalgaungu; og þess vegna, þegar vér gaungum til þeirrar heilögu qvøldmáltíðar, þá endurnýjum vér við Guð þann sáttmála, sem í Jesú dauða gjørðist milli Guðs og manna. Skilmálarnir í þeim gamla sáttmála vóru þessir: gjør það, og muntu lifa. Skilmálarnir í þeim nýja sáttmála eru þessir: trú þú á Kristum, svo skalt þú verða sáluhólpinn; en þín trú á að vera krøptug fyrir kjærleikann, frjóssøm af dygðugum og góðum verkum, er sæma kristnum manni. Þetta eru þau heit, sem vér gjørum Guði, þegar vér gaungum til Drottins qvøldmáltíðar, þetta er sá sáttmáli, sem vér inngaungum við Guð, þvílíkur sáttmáli, sem er allteins vigtugur, allteins heilagur og hátíðlegur, sem sá, er Israels fólk gjørði forðum við hann. Að vísu ættum vér á hvørjum degi að endurnýja þennann sáttmála við Guð, á hvørjum morgni ættum vér að gjøra Drottni heit, heit elskunnar, heit trygðarinnar, heit þakklætisins; en vissir dagar eru oss vigtugri og minnisstæðari enn aðrir; og hvørsu vigtugir og minnisstæðir eru þá þeir dagar, á hvørjum vér gaungum til Drottins qvøldmáltíðar, hvørsu vigtugur og minnisstæður ætti oss að

vera sá sáttmáli, sem vér á þessum døgum endurnýjum vid Gud, og þad loford, sem vér gjørum honum, þad loford, sem vér gjørum fyrir Guds alsjáanda augliti, og í hans helgidómi, hvar hann hefir lofad med sérdeilislegum hætti ad vera nálægur; þad loford, sem vér stadfestum og innsiglum med blódi þess nýja sáttmála; þad loford, sem vér gjørum í augsýn vorra samkristinna medbrædra, sem hér á jørdunni eru vitni til, ad vér høfum gjørt þad, og á sídarsta degi géta vitnad á móti oss, ef vér rjúfum þad af ásettu rádi. Hættulegt er ad gjøra Gudi þetta loford, ef vér ecki høfum einlægann ásetníng til ad halda þad. Ef vér af ásettu rádi bregdum út af þessu lofordi, þá høfum vér enga huggun af þeirri heiløgu qvøldmáltíd, og Jesú fridþægjandi daudi verdur oss ad engum notum; vér førum á mis vid þá sælu, sem hann hefir oss afrekad, og bætum því ofaná allar vorar adrar syndir, ad vér verdum meinsæris-menn vid Drottinn vorn Gud.

---

Pared þad er svo vigtugt og mikilvægt áform, ad halda þessa heiløgu endurminníngar-máltíd Jesú dauda, þá er þad ei heldur án orsaka, ad hinn heilagi Páll gaf þeim fyrstu kristnu þessa áminníngu: hvørr madur prófi sig sjálfur, og eti svo af þessu braudi og drecki svo af þessum kaleik, 1 Cor. 11. Ádur enn kristinn madur vogar ad gánga til Guds bords, ber honum fyrst í kyrrd og ró, ad ransaka sinn evangeliska verdugleika til þessarar heiløgu máltídar, og í náqvæmasta máta ran-

saka sitt hjarta, hvørt það er svo áſigkomið og hvørt það hefir þá eginlegleika til að vera, sem Kristur heimtar af sínum verdugu borðgéstum.

Kristins manns evangelíski verdugleiki er enganveginn innifalinn í hans góðverkum, hvørsu álítleg, sem þau kunna að sýnast, eru þó sumpart ófullkomin, sumpart einúngis skyldu-verk, og kunnum vér því ecki að vinna til neins góðs með þeim, þó þau væru fullkomin, og í því lagi, sem Guðs lögmál áskilur, hvað þá mikln síður þar þau brestur svo mikið uppá það. Þegar þér, segir Kristur, hafið gjørt allt það, sem yður var boðið, þá segið: vér erum ónýtir þjónar; því vér gjørðum einúngis það, sem oss bar að gjøra, Lúc. 17. Ei heldur er þessi verdugleiki innifalinn í vissum útvortis undirbúníngi. Vér megum ei hugsa, að vér séum verdugir borðgéstir við Herrans borð fyrir það, þó vér nockra daga áður enn vér meðtøkum þessa heilögu máltíð, lesum, sýngjum eða biðjum nockuð meir enn vér erum annars vanir. Sá ógudlegi gétur hermt allt þetta eptir, án þess að betrast við það, og þess vegna einnig án sannarlegs verdugleika.

En á hina síðuna egum vér ei heldur að hugsa, að vér séum óverdugir borðgéstir, þó vér ecki finnum hjá oss neitt sérlegt andlegt húngur og þorsta eptir þessari heilögu máltíð. Þann besta kristinn mann vantar opt þessa eptirlaungun, það er Guðs velgjørníngur að hafa hana; en það er þó engin røksemd uppá óverdugleika, þó menn vanti hana. Opt kémur þessi eptirlángan af áſigkomulagi náttúru-farsins; en sá sanni kristinndómur er ecki inni-

falinn í hugar-hrærîngum náttúru-farsins. Ecki heldur megum vér álíta oss sjálfa óverduga fyrir þad, þó vér þess á millum finnum hjá oss, óhreinar girndir edur sterkar gédshræríngar; þessar syndugu hugrenníngar eru óadskiljanlegar frá því dupti, sem vér á oss berum; sjálfur hinn heilagi Páll hlaut ad qvarta yfir þessum hugrenníngum; einúngis ef vér hötum þær, einúngis ef vér strídum alvarlega á móti þeim, þá kunnum vér med þessum syndugu hugrenníngum ad vera verdugir géstir vid Drottins bord. Nei, kristins manns óverdugleiki er innifalinn í skorti sannrar ydrunar, í skorti lifandi trúar á Krist, í skorti heilags ásetníngs ad betra sinn lifnad.

Þá gaungum vér verduglega til Drottins qvöldmáltídar, þegar vér gaungum til hennar í þeim sama tilgángi, í hvörjum Jesús innsetti hana. Og þetta er þad, sem hvörr kristinn á ad prófa hjá sér, ádur enn hann gengur til altaris. Sá fyrri tilgángur þessarar heilögu qvöldmáltídar er sá, ad vér skulum endurminnast Jesús Krists fridþægjandi dauda, sem hann leid fyrir heimsins syndir; þess vegna hljótum vér ad prófa sjálfa oss, hvört vér med sanni og lifandi trú medtökum Krist, sem vorn Endurlausnara. En aldrei gétum vér medtekid Krist, sem vorn Endurlausnara, nema vér þeckjum vorar syndir, hvörsu margar, hvörsu stórar, hvörsu straffsverdar þær eru; af þessari þeckíngu hlýtur ad qvikna í vorum hjörtum ótti fyrir syndinni, hrædsla fyrir Guds réttlæti og hrygd yfir vorum óteljandi afbrotum, med hvörjum vér höfum styggt vorn góda velgjörda-födur, samt laungun eptir ad verda hluttak-

andi í Jesú endurlausn, sem hefir borgað fyrir syndina. Þessi hrygð yfir syndinni uppørfar og rekur eptir kristnum manni að grípa til þess forlíkunarmeðals, sem honum er géfið í Jesú Kristi; hann leitar þess með trúnni, en með þvílíkri trú, sem er lifandi, kroptug og frjóssøm af góðum og dygðugum verkum. Aður enn vér gaungum til Guðs borðs, hljótum vér þess vegna með vissu að géta svarað uppá þessi tvø spursmál; það fyrra er þetta: finn eg í hjarta mínu nockurt sannarlegt ángur yfir mínum fyrri brestum, breiskleika og yfirsjónum? auðmýki eg mig fyrir Guði með sannri yðrun? þecki eg, hvørsu eg er óverðugur þeirrar náðar, sem mér er auðsýnd í Jesú Kristi? er það mín alvarleg ósk, að það vonda, sem eg hefi gjørt, mætti vera ógjørt? það síðara spursmál er þetta: er eg sannfærður um, að Jesú dauði sé forlíkan svo vel fyrir mínar, sem alls heimsins syndir? er hans dauði sá einasti grundvøllur, sem eg byggi á mína von um náð, syndanna fyrirgéfníngu og forlíkun við Guð? meðtek eg þetta náðar-meðal með sannri, lifandi og ávaxtarsamri trú? knýr þessi trú mig til að elska Krist aptur á móti, sem elskaði mig allt til dauðans? er þessi elska svo sterk hjá mér, að eg vilji alvarlega kappkosta að þjóna honum í heilagleika og réttlæti alla mína lífdaga?

Hinn annar tilgángur þeirrar heiløgu qvøldmáltíðar er sá, að vér eigum að endurnýja þann sáttmála, sem Kristur með sínum dauða hefir gjørt á milli Guðs og vor. Þess vegna, þegar vér gaungum til Guðs borðs, þá lofum vér Guði því, að vér viljum vera honum hlýðnir og lifa heilaglega,

Vér lofum med hátídlegum hætti, ad vér, med Guds adstod, viljum kappkosta ad afleggja meir og meir vora fyrri bresti, vorn vonda vana, vorar syndsamlegu tilhnegíngar; ad vér, med Guds adstod, viljum meir og meir keppast eptir ad verda fullkomnir. En þá flýtur hér af, ad ádur enn vér gaungum til Guds bords, hljótum vér gaumgjæfilega og án yfirdrepskapar ad ransaka vort egid hjarta, svo ad vér þeckjum bædi þad góda og vonda hjá oss, bædi vora bresti og þad, sem vér høfum gott til ad bera; því hvørninn gétum vér ástundad ad afleggja þad ílla, og efla þad góda, utan vér þeckjum hvørt um sig? ádur enn madur medtekur þessa heiløgu máltíd, hlýtur hann ad spyrja sjálfann sig ad þessum tveimur spursmálum, og géta med vissu svarad uppá þau; þad fyrra spursmál: hvørjir eru mínir brestir? hvad er þad, sem mitt hjarta festir sig mest á, og gjørir ad sínum hjágudi? er þad tímanleg audlegd? er þad veraldlegur heidur? ellegar sællífi? til hvørrar syndar er eg hellst hneigdur? hvørt til stollts, edur ágirndar, edur vellystar? edur finn eg hjá mér keim af øllu þessu? hvada veikleika finn eg hjá mér? er þad øfund yfir annara luckur? edur hefndar-girni vid þá, sem mér hafa á méti gjørt? ellegar óþolinmædi í mínu mótlæti? edur óánægja med mín kjør? edur reidi? edur baktal? o. s. fr. og aptur á hina síduna hefi eg nockud gott til ad bera? gjøri eg nockur gódverk? og hvar eru þau? af hvada uppsprettu framfljóta þau? koma þau af hreinum edur óhreinum tilgángi? þegar vér þannig høfum ransakad sjálfa oss, þá hljótum vér ad géta svarad uppá

sídara spursmálid: er þad nú minn einlægur og alvarlegur ásetníngur, ad dempa þessar vondu tilhnegíngar, ad afþvo þessa bletti, ad strída á móti spillíngu minnar náttúru, ad yfirvinna mig sjálfann, og keppast eptir fullkomlegleikanum, ad hreinsa mig af allri saurgun holdsins og andans, og fullkomna mína helgun í Guds ótta? þegar vér þannig höfum prófad vor hjörtu, þegar vér rétt af alvöru höfum framsett fyrir sjálfa oss þessi spursmál, og vor samviska hefir án sérhlífni svarad uppá þau, þegar vér finnum hjá oss, ad vér höfum þessa ydrun, þessa trú á Krist, þennann heilaga og stadfasta ásetníng til ad bera, þá vér ætlum ad gánga til Guds bords, þá vitum vér, ad vér gaungum til þess verduglega, því þá kémur sá tilgángur, í hvörjum vér njótum þessarar heilögu máltídar, saman vid þann tilgáng, hvar fyrir Jesús innsetti hana handa oss.

## 27. Kapítuli.

### Um Jesú Upprisu.

Ad Jesús Kristur, sem var guddómleg persóna, sem ecki dó fyrir sínar egin, heldur annara syndir, hafi einnig, eptir ad forlíkunar-verkinu var aflokid, hlotid ad uppvekjast frá daudum, þad er þvílíkur sannleiki, sem heilbrygd skynsemi med gódum rökum hlýtur ad leida sér í hug, þegar hún einúngis medtekur hina adra Ritníngarinnar lærdóma um Krist. Allir Ritníngarinnar lærdómar hánga þannig hvör af ödrum, ad menn ecki géta medtekid einn, án þess ad tilbidja alla hina adra, og hlýtur ad kasta burt hinum ödrum, þegar madur er svo djarfur ad burt-

kasta einum þeirra. Þannig er því og háttað með Ritníngarinnar vitnisburð um Jesú Krists upprisu. Sé eg fyrst sannfærður um þessi tvø sannindi, bæði að Kristur var guðdómleg persóna, og líka að hann sjálfur var í sinni náttúru hreinn og heilagur, og dó þess vegna ecki fyrir sínar egin, heldur annara syndir; þegar eg fyrst er sannfærður um þessi tvø sannindi, segi eg, þá veitir minni skynsemi ecki torveldt að meðtaka þau þriðju, nefnilega: að Jesús Kristur hlaut að upprísa frá dauðum. Bágara mundi henni veita að trúa því, að dauðinn hefði haldið Kristi æfinlega føstum, eins og øðrum syndugum mønnum.

Ef vér hugleiðum Jesú Krists guðdómlegu hátign, þá høfum vér stærstu orsøk að géta þess til, að sú persóna, sem var svo óendanlega hátt upphafin yfir allar aðrar verur, hafi ecki gétað orðið gresinni og rotnuninni að herfángi. Guð uppvakti hann, segir Pétur, og leysti dauðans bønd, þar það var ómøgulegt, að hann kynni að haldast fánginn af honum, Post. g. b. 2. Það var ómøgulegt, segir hann, að Kristur kynni að haldast fángaður af dauðanum; og vegna hvørs var það ómøgulegt? hefði Kristur ecki verið utan einúngis maður, hefði hann ecki verið neitt meira enn hvørt annar almennilegur sendiboði Guðs til mannanna, hefði hann ecki verið meiri heldur enn Móses, Elíssæus, Esajas og svo margir aðrir þvílíkir menn, sem Guð á ýmsum tímum hefir útsendt trúarbrøgðunum til gagns og dygðinni til eblíngar; hefði Kristur ecki verið meiri enn einhvørr af þessum, hvar fyrir gat hann þá ecki verið kyrr í grøfinni?

þeir eru daudir, og ordnir rotnuninni ad herfángi; hvar fyrir skyldi Kristur þá undantakast frá þessu almennilega løgmáli? hvørsvegna var það ómøgulegt, ad daudinn kynni ad halda honum eins og fánga? óneitanlega vegna þess hann var lángtum ædri persóna, enn allar skapadar verur; hann, sem var inntekinn í þá náqvæmustu sameiníngu vid guddóminn; hann, sem vegna þessarar sameiníngar var svo óendanlega hátt upphafinn yfir alla adra menn, hvørninn skyldi hann géta ordid daudanum og grofinni ad æfinlegu herfángi? nei, hann hefdi þá ecki verid Guds Sonur, og ecki guddómsins mustéri; traudlega mundum vér þá géta álitid hann meiri enn einn af hinum gømlu Spámønnum, sem Gud fyrrum hefir sendt heiminum.

Ef vér hugleidum orsøkina til Jesú dauda, þá sjer skynsemin sømuleidis hvørsu uaudsynlegt það var ad Jesús Kristur skyldi aptur uppvekjast til lífsins, eptir ad tilgángur hans dauda var uppfylltur. Orsøkin til vors dauda eru vorar syndir; daudinn er syndarinnar verdlaun; fyrir einn mann er syndin innkomin í heiminn og daudinn fyrir syndina, segir Páll. Hefdi Gud fyrirsjed, ad manneskjurnar mundu standa stødugar í þeirra medskapada heilagleika og sakleysi, þá hefdi hann ecki skapad þær þannig, ad þær skyldu vera dauda og rotnun undirorpnar; nú þarámóti erum vér daudlegir, af því vér erum syndugir. En Kristur var í sinni náttúru hreinn og heilagur; allt hans líf var ein kédja af heiløgum athøfnum, Gudi til dýrdar og mønnunum til farsældar; hann hafdi aldrei vanbrúkad sitt líf, og vann þess vegna ecki til ad missa það. Hefdi hann

ecki géngid í syndakanna stad, mundi hann hafa verid ódaudlegur. En nú bar hann annara syndir, nú leid hann, sá réttláti fyrir þá ránglátu; vegna heimsins synda, var hann svíptur því lífi, sem hann sjálfur ecki hafdi af sér brotid. Hvad var þá náttúrlegra og réttvísara, enn ad hann skyldi aptur eignast lífid; strax, sem augna-mid hans dauda var uppfyllt og heimurinn fridþægdur. Omøgulega gat sá, sem í sinni náttúru var hreinn og heilagur, til lengdar verid herfáng daudans, til hvørs hann sjálfur ecki hafdi unnid. Þetta er øblug tilgáta, sem heilvita skynsemi hlýtur adgjøra sér; þó Jesú Postular ecki hefdu vitnad um hans upprisu frá daudum, þá hefdi samt lítill eptirþánki hlotid ad géta leidt oss til þeirrar tilgátu, ad hann, sem var bædi Gud og madur, ecki hafi gétad legid kyrr í grøfinni; ad Gud hafi hlotid ad gésa honum aptur þad líf, sem hann sjálfur ecki hafdi af sér brotid; þad líf, sem hann fyrir heimsins sakir hafdi svo fúslega frá sér lagt. Og hefdu Jesú lærisveinar vitnad, ad hann hefdi verid kyrr í grøfinni, þá mundu allir hinir adrir lærdómar um Krist, um hans guddómlegu hátign, um hans fullkomna heilagleika og hans saklausa dauda, allir þessir vigtugu lærdómar, segi eg, mundu hafa ordid óupplysanlegum mótsøgnum undirorpnir.

En nú hafa Jesú lærisveinar vitnad ad hann sé upprisinn, og med þeirra vitnisburdi stadfest skynseminnar tilgátur. Þeirra vitnisburdur er grundvøllur vorrar fullvissu. Jesú upprisa er atburdur, og fyrir þeim atburdi, sem vér ecki sjálfir høfum séd, gétum vér ecki haft adrar enn históriskar rok-

semdir. Þegar þær eru ánægjanlegar og hafa øll þau kénniteikn til ad bera, sem útheimtast til þess, ad frásagan kunni ad álítast trúverdug, þá er skynsamlegt ad leggja trúnad á slíkann vitnisburd, og óskynsamlegt ad vilja neita honum. Til þess, ad frásaga nockur kunni ad álítast sønn og trúverdug, útheimtist þetta fernt: atburdurinn, sem frá er sagt, má hvørki vera í sinni náttúru øldúngis ómøgulegur, né ólíklegur; menn hljóta ad vera fullvissir um, ad vitnid vilji segja sannleika, og hafi ecki ásetníng ad pretta oss; ad þad líka viti sannleikann, og sé ecki sjálft á tálar dregid; og loksins, ad þad hafi látid sér vera annt um, ad fá fullkomna vissu um þann atburd, sem þad ødrum frásegir. Þegar allar þessar røksemdir eru sameinadar, kunnum vér ei annad enn álíta þá frásøgu trúverduga, sem á þeim er bygd. Ef vér nú finnum þetta allt hjá Jesú Postulum, sem vitna um hans upprisu, þá hljótum vér annadhvørt ad falla uppá þá fáheyrdu heimsku, ad neita sannleika allra frásagna, edur, ef vér trúum ødrum historiskum frásøgum, þá hljótum vér líka ad trúa Jesú upprisu.

Um þad fyrsta þarf eg ecki ad vera lángordur; Jesú upprisa er þvílíkur atburdur, sem ad sønnu yfirgengur náttúrunnar, en þar fyrir ecki almættisins krapta. Þar Gud med sínum óendanlega krapti skapadi þann fyrsta mann af moldunni, og gaf honum líf og hræríngu, þá hlýtur hann med þeim sama óendanlega krapti miklu framar ad géta uppvakid til lífsins þann líkama, sem skapadur er, já, þann líkama, sem enn þá ecki var farinn ad rotna. Þad einúngis er Guds almætti ómøgulegt,

sem í sjálfu sér er ómøgulegt, það er: sem mótsegir sér sjálft, og stríðir annaðhvørt á móti hlutarins náttúru, ellegar á móti Guðs náttúru, og móti hinum øðrum hans háu og óendanlegu eginlegleikum; en þannig er ecki háttað Jesú uppvakníngu til lífsins. Hún er hvørki í sjálfri sér ómøguleg, ecki heldur er hún ótrúleg, miklu heldur hefi eg sýnt hér að framan, að skynsemin hlýtur að álíta þennann atburð yfrið líklegann, og hlyti þvertámóti að álíta ólíklegt, ef þvílík persóna, sem Jesús Kristur var, hefði orðið dauðanum og rotnuninni að herfángi. Þar það þess vegna er óneitanlegt, að skynsemin finnur eckért ómøgulegt, og eckért ólíklegt í frásøgunni um Jesú upprisu, þá þurfum vér einúngis að grenslast eptir hinum øðrum kénnitéiknum, sem finnast ega hjá trúverðugu vitni, svo vér vitum, hvørt vér høfum orsøk til að medtaka Postulanna vitnisburð um Krists upprisu, eður vér høfum orsøk til að neita honum.

Það annað spursmál um historískann trúverðugleika, er þetta: vill vitnið einnig segja satt? kunna menn að vera fullvissir um, að það ecki hafi þann tilgáng að svíkja oss með ósønnum vitnisburði? í þessu falli er vitnið svikari; en sá, sem vill selja lýgi fyrir sannleika, sá, sem hefir þann tilgáng að svíkja aðra, hlýtur annaðhvørt að vænta sér einhvørs gagns af sinni lýgi, eður þá, að minnsta kosti, gjøra sér von um, að hún verði af øðrum vel medtekin; géti hann ecki með neinum rökum ætlast til annarshvørs af þessu, en hafi miklu framar orsøk að ótt ast fyrir því, sem er þvertámóti, þá væri stærsta fásinna að kappkosta að útbreiða ósatt rykti. Og

høfdu Jesú lærisveinar, sem vitnudu um hans upprisu, minnstu von um ábata edur ljúfa medtøku þeirra vitnisburdar? edur hofdu þeir ecki miklu framar stærstu orsøk til ad óttast þad gagnstæda?

Þeir kénndu fyrst Gydíngum. og útdreifdust sídan medal Heidíngja, til ad afleggja allstadar þeirra vitnisburd um Jesú upprisu. Hvada ábata gátu þeir vænt sér af þessum vitnisburdi? Kristur hafdi sagt þeim fyrifram hvørra launa þeir mættu sér vænta: sjá, segir hann, eg sendi ydur, sem saudi medal úlfa; verid þess vegna forsjálir sem høggormar, og hógværir sem dúfur. En vaktid ydur fyrir mønnunum; því þeir munu framselja ydur fyrir Rádid, og húdstrýkja ydur í þeirra samkunduhúsum, og fyrir mínar sakir munud þid verda framleiddir fyrir Landshøfdíngja og Kónga, til ad vitna fyrir þeim og fyrir Heidíngjunum, Matth. 10. Og í ødrum stad segir hann: menn munu ofurselja ydur í harmqvæli og ydur líf svipta, og þér munud verda fyrir hatri af øllum þjódum fyrir míns nafns sakir, Matth. 24. Engum ødrum kjørum hafdi Kristur heitid þeim, á engum ødrum launum áttu þeir von fyrir þeirra vitnisburd um hann; þeir sáu strax á lífláti Stephans vid hvørju þeir máttu búast. Þeir hlutu ecki einúngis ad yfirgéfa eignir sínar, og setja til sídu alla þeirra tímanlegu gagnsmuni til ad útbreida allavega þeirra vitnisburd um Krist, heldur hlutu þeir einnig ad leggja sig undir allar lífsins þjáníngar, mædu, ónædi, spott, líkamlegar píslir og loksins þann qvalafyllsta daud-daga. Páll Postuli útmálar þeirra kjør á þennann hátt: allt til þessarar stundar þolum vér

sveingd og þorsta og klædleysi og kinnhesta, og höfum engann vissann samastad, og erum þreyttir, þar vér erfidum med vorum egin höndum. Þegar vér erum hrakyrdtir, blessum vér, þegar vér erum ofsóktir, þá lídum vér þad þolinmódlega, þegar vér erum spottadir, þá áminnum vér. Vér erum ordnir eins og afhrak í heiminum og allra manna sкóþurka inn til þessa dags, 1 Cor, 4. Þessi sami Postuli lýsir því í ødrum stad, hvad hann siálfur vard ad lída vegna vitnisburdarins um Krist: Eg hefi meira erfidad, eg hefi meiri högg lidid, optar í fángelsi verid, opt í daudans hættu. Af Gydíngum hefi eg fimmsinnum fengid fiørutíu sløg, einu færra. Þrisvarsinnum hefi eg húdstrýktur verid, einusinni grýttur, þrisvar hefi eg skipbrot lidid, dag og nótt hefi eg verid í siáfar-djúpi. Opt hefi eg í ferdum verid, eg hefi verid í háskasemdum til vatns, í háskasemdum medal ræníngja, í háskasemdum medal minna landsmanna, í háskasemdum medal Heidíngja, í háskasemdum í borgum, í háskasemdum á eydimørku, í háskasemdum á sió, í háskasemdum medal falskra brædra. Í mædu og erfidi, opt í vøkum, í húngri og þorsta, opt í føstum, í kulda og klædleysi, 2 Cor. 11. Þegar vér heyrum þessa útmálun yfir Postulanna ástand, hvørninn gétum vér þá leidt oss í hug ad þeir hafi verid svikarar og ad þeir, þvertámóti betri vitund, hafi viljad frambera svo stórgérda lýgi? er þetta þá sá ávinníngur, sem svikarinn sækist eptir? hvar hafa menn dæmi uppá, ad nockurr hafi, til ad innprenta ødrum ósannindi, undirkastad sig spotti, ofsókn, øllum lífsins bitrustu harmqvælum, og loksins þeim sár-

(20*)

aſta dauð=daga? og þetta gjørðu þó Jesú lærisvein=ar, þar þeir þó, ef þeir hefðu viljað falla frá þess=um vitnisburði, hefðu ecki einúngis gétað sneidt hjá øllu þessu, heldur mátt vænta sér drjúgra launa hjá Gýðíngum, hvørjum um það var að gjøra, að rykt=ið um Jesú fæðíngu hefði niðurkjæfst strax í fyrstu. Hvaða álgktun skulum vér þá draga hér af, ef vér viljum gæta réttdæmis? verður hún ecki þessi: að Jesú Postular, sem fyrir hans meðkénníngar sakir høfnuðu svo fúslega allri tímanlegri rósemi, og svo þolinmóðlega undirkøstuðu sig offókn og dauða, hafa hlotið að vera hreinlyndir menn, að minnsta kosti hafa þeir sjálfir orðið að halda það fyrir satt, að Jesús væri sannarlega uppriſinn frá dauðum; ein=úngis þessi fullvissa gat gésið þeim þá hugprýði og sinnis rósemi, hvar með þeir gengu út í øll þeirra harmqvæli.

Já! þeir, sem á móti þeirra egin sannfæríngu skulu leitast við að ljúga að heiminum, hljóta að vænta sér einhvørs ávinníngs af lýgi þeirra; en géti þeir ecki vænt eptir neinum ávinníngi, þá hljóta þeir þó að minnsta kosti, að gjøra sér grundaða von um, að hinn ósanni framburður þeirra verði vel meðtekinn. Hvar þessi tælandi von ecki er á aðra síðuna, þar veit eg ecki hvað komið gétur nockrum manni til að setja sig út til að svíkja aðra. En hvørninn gátu Jesú Postular tilætlast, að margir mundu meðtaka þeirra vitnisburð, ef sannleikurinn hefði eckt talað ígégnum þeirra munn? þeir vóru flestir einfaldir og ólærðir menn, er hvørki með málsnylli né veraldlegum vísdómi gátu vænt sér að yfirtala sína tilheyrendur, og locka þá til að sam=

sinna sér; þeir vóru lítilsháttar og fyrirlitnir menn, hvørra útvortis álit ecki gat mælt fram med þeirra vitnisburdi; heldur hlaut miklu framar ad vera þeirra vitnisburdi til stórrar hindrunar allstadar, hvar þeir aflögdu hann. Ef vér gætum ad á hina síduna, fyrir hvørjum þeir vitnudu um Jesú upprisu, þá vóru þad sumpart Gydíngar, hvørjir ad sönnu, ad Sadúcæunum frátéknum, trúdu upprisu hinna daudu, en vildu samt ecki játa Krists upprisu, hvørri þeir ecki gátu játad, án þess ad fordæma sjálfa sig, og géfa þeim kristnu fullkominn sigur yfir sér. Sumpart vóru þad Heidíngjar, sem ad sönnu trúdu, ad annad líf væri eptir þetta, en trúdu samt ecki líkamanna upprisu, hvar fyrir Páll vard ad athlátri, þegar hann taladi fyrir Athenuborgar-mönnum um upprisu þeirra daudu, Post. g. b. 17. Á medal þeirra voru líka lærdir og skarpir heimsspekíngar, sem allt frá úngdómi höfdu lagt sig eptir öllum mannlegum vísindum, og sem ecki vildu trúa ödru enn því, sem þeir gátu gripid med skynsemi sinni. Ad eg ecki tali um, ad þessi vitnisburdur um Jesú upprisu midadi til þess, ad hrinda Godunum nidur af þeirra stöllum, ad nidurbrjóta þeirra öltaru, ad uppbrenna þeirra lunda, ad afmá þeirra vidhafnar-miklu Godaþjónustu, sem vegna hennar elli var í þeirra augum einka æruverdug, ad svipta Goda-prestana þeirra miklu inntektum, og Keisarana þeirra gudlega heidri, sem þeim var veittur eptir daudann. Þegar vér hugleidum allt þetta, allar þær miklu hindranir, sem settu sig á móti Postulanna vidleitni, ad útbreida og stadfesta ryktid um Jesú upprisu, hvada von gátu þeir þá gjört sér, ad þessi

vitnisburdur mundi nockurntíma verda medtekinn í heiminum, ef þeir ecki hefdu verid fullkomlega sannfærdir um, ad hann var grundvalladur á sannleikanum? á hvørn kautinn sem vér lítum á þetta efni, þá hljótum vèr ad trúa, ad Jesú Postular hafi verid ærlegir og hreinskilnir menn, sem einúngis hafa verid framknúdir af sannleiks-elsku, og ad minnsta kosti sjálfir haldid þad fyrir satt, sem þeir kénndu ødrum; því annars hefdu þeir ecki byrjad þennann lærdóm, og enn sídur innsiglad hann med þeirra blódi. Sé þess vegna þeirra vitnisburdur um Krists upprísu frá daudum ósannur, þá hljóta þeir sjálfir ad hafa verid dregnir á tálar. En var þad møgulegt fyrir þá, ad dragast á tálar, þó aldrei hefdu þeir verid svo athugalausir. Þetta spursmál hljótum vér einnig stuttlega ad rannsaka.

Þad er lángt frá ecki nóg ad medtaka einn vitnisburd, þó madur hafi enga orsøk ad efast um vitnisins hreinskilni; madur hlýtur líka ad vera fullviss um, ad vitnid hafi einnig gétad vitad sannleikann, svo þad sjálft hafi ecki blindast edur verid dregid á tálar. Høfum vèr líka þessa fullvissu um Postulanna vitnisburd vidvíkjandi Krists upprísu? til ad svara uppá þetta spursmál, vil eg leggja þad til grundvallar, svo sem óneitanlegt, ad þegar vér komumst ad raun um eitthvad, ecki einúngis einusinni, heldur opt og margsinnis, med réttri og tilhlýdilegri brúkun óskérdtra og fullkominna skilníngarvita, þá géta engin svik eda blindni stad hafst. Ad vilja mótsegja þessari reglu, væri ad gjøra alla mannlega þeckíngu óvissa, og øldúngis ad kollkasta reynslunni, hvør þó er sá grundvallar-stólpi, sem

øll vor vísindi eru uppá bygd. En kann þessi regla þá ecki ad øllu leiti ad heimfærast uppá Jesú Postula? þeir vitna ecki þad, sem þeir hafa heyrt af ødrum, heldur hvad þeir sjálfir med fullkominni brúkun þeirra skilníngar-vita, hafa komist ad raun um; þeir sáu hann ecki einúngis í eitt skipti, heldur opt; þeir sáu hann á albjørtum degi, þegar þeir gátu vidneytt allra sinna skilníngar-vita, og engar misssýníngar gátu blindad þeirra augu; þeir ecki einúngis sáu hann, heldur heyrdu hann tala, þreifudu á honum, sáu og tóku á nagla-førunum í hans høndum og fótum; þeir átu og drucku med honum eptir hans upprisu. Þeir gátu þess vegna brúkad hér øll þau skilníngar-vit, sem á þarf ad halda, til ad verda viss um sannleikann; og þessi skilníngarvit vóru ecki af elli sljóf ordin. Þad var ei heldur einúngis einn, heldur fleiri, er sáu hann í þá 40 daga, sem hann eptir sína upprisu umgéckst hér á jørdunni. Já, hann var ecki einúngis sjedur af Postulunum, heldur af **500** ødrum, sem tóku kristilega trú, 1 Cor. 15. Var þad møgulegt í þvílíkum kríngumstædum ad dragast á tálar edur blindast? í þvílíkum kríngumstædum, hvar menn ecki þurftu meir enn almennilega brúkun skilníngar-vitanna, til ad vera óhultir fyrir øllum prettum? gétum vér hugsad, ad vér, ef vér hefdum verid Jesú Postular, mundum hafa ordid dregnir á tálar,, ad vér mundum hafa ímindad oss, ad vér sæum og heyrdum þad, sem eckért tilhæfi var til. En þá hljótum vér líka ad hugsa þad sama um Jesú lærisveina. Ad minnsta kosti gétum vér ecki neitad því, ad þeir vóru í þeim kríngumstædum, ad þeir ecki urdu á tálar dregnir,

framar enn þeir sjálfir vildu, og ad þeir audveldlega gátu vitad sannleikann og ordid sannfródir um hann, ef þeir einúngis vildu.

Satt er þad, ad møgulegt er ad hafa þau á-nægilegustu medøl í høndunum til ad verda fullvíss um sannleikann; en madur kann ad forsóma ad brúka þau af hyrduleysi og dofinleika; menn eru andtrúa, edur fyrifram inntekuir af ógrundudum meiníngum, og kann þess vegna audveldlega ad ské, ad madur taki sannleikans skugga fyrir sannleikann sjálfann; gat þad ecki skéd, ad Jesú lærisveinar væru undirorpnir þessum veikleika? hafa þeir látid sér nógu annt um vera, ad vita sannleikann? hafa þeir útbúid sig med nógri forsjálni, til ad dragast ecki á tálar? þetta er þad sídasta kenni-teikn, sem útheimt-ist til þess, ad frásaga nockur kunni ad álítast sønn og trúanleg. Til ad svara sjálfum oss uppá þetta spursmál, þurfum vér ei annad, enn einúngis ad at-huga þær ýmislegu kríngumstædur, undir hvørjum þeir, eptir Gudspjallamannanna frásøgu sáu Krist og umgengust med honum, og dæma sídan, hvort jafnvel hinn hyrdulausasti og athugaminnsti gat blindast og dregist á tálar í þvílíkum kríngumstæd-um; uppá þvílíka sjónar- og heyrnar-villu munu menn valla géta framfært nockurt eptirdæmi af Sagna-frædinni. En vér høfum þar fyrir utan nóg rok til þess, ad Jesú lærisveinar vóru ecki aud-trúa, miklu heldur vantrúadir. Þeir høfdu vænt, ad hann mundi endurleysa **Israel**, Lúc. 24; en nú var hann daudur, hvørr átti nú ad vidrétta **Israels** ríki, þar hann ecki hafdi vidrétt þad? þeir sáu, ad Jesús var ecki framar í grøfinni; en hvad

af honum var ordið, vissu þeir ecki; að hann væri upprisinn frá dauðum, leiddu þeir sér ecki í hug; þeir hugsudu að einhvørr hefði tekið hann burt úr grofinni, Jóh. 20. Þeir vóru daprir og stúrandi af hrygð, Lúc. 24. Hræðsla og hugar-výl hafði fengið yfirhønd hjá þeim, Jóh. 20. Í þessu sorgar-myrkri var øll þeirra von horfin; nockrir, frá sér numdir af gleði, kunngjørdu Krists upprisu, aðrir álitu þennann boðskap, sem mælgi og sumir vóru milli vonar og ótta, og vissu ecki hvað þeir ættu að halda hér um, Lúc. 24. Jesús Kristur hlaut að tala við þá, hann hlaut að útleggja fyrir þeim Spádómana, hann hlaut að eta og drecka með þeim, áður enn þeir vildu trúa því, að hann sannarlega væri sá Jesús sem krossfestur hafði verið. Thómás géck enn lengra áfram í sinni forsjálni heldur enn hinir aðrir; hann ásetti sér að trúa ecki neinu af því, sem hinir lærisveinarnir søgðu, fyrr enn hann sjálfur hefði séð naglaførin í hans høndum, stúngið sínum fíngrum í þau, og lagt sína hønd í hans síðu, Jóh. 20. Svo margar røksemdir hlaut Kristur að géfa þeim uppá sína upprisu, áður enn þeir vildu trúa henni; þeir vóru þess vegna ecki auðtrúa, þeir vildu ecki dragast á tálar, heldur fullkomlega sannfærast.

Látum oss nú safna til samans øllum þessum kénni-teiknum. Jesú upprisa er atburður, sem ecki inniheldur neitt ómøgulegt eður ólíklegt; Jesú Postular, sem hafa vitnað um hans upprisu, hafa verið hreinlyndir menn, hvørra ásetníngur ecki gat verið að gabba heiminn; það er líka ómøgulegt, að þeir sjálfir hafi verið gabbaðir, þar þeir ecki

einúngis høfdu tíd og tækifæri til ad grenslast eptir sannleikanum; heldur brúkndu líka alla þá varúd, sem útheimtist til ad fá fullkomna vissu og sannfæríngu. Jesú lærisveinar hafa þess vegna alla þá eginlegleika til ad bera, sem trúverdugt vitni nockurntíma gétur haft. Vér hljótum ad trúa þúsund ødrum hlutum, um hvørja vér lángt frá ecki gétum haft svo trúanlega og fullkomna historíska vissu, sem þá, er vér høfum um Jesú uppprisu. Ef vér neitum þessum atburdi, edur efumst um hann, þá hljótum vér af sømu røkum ad burtkasta øllum ødrum historískum frásøgnum, uppá hvørjar vér høfum ádur byggt. Allt verdur þá efasamt, sem vér ecki sjálfir høfum sjed og heyrt, og vér mættum jafnvel ecki reida oss uppá þad, sem vér heyrdum og sæum; því hafi þad verid møgulegt, ad Jesú lærisveinar kynnu í þvílíkum kríngumstædum ad tælast af þeirra skilníngar-vitum, hvar fyrir kynnum vér þá ecki allt eins ad tælast af vorum.

---

Þetta mikla og guddómlega krapta-verk Jesú Krists uppprisu, er fullnóg røksemd fyrir hans guddómlegu sendíngu og guddómlegum uppruna allra hans heiløgu lærdóma. Engin álykt'an er skiljanlegri og einfaldari enn þessi: sé Jesús Kristur ecki guddómleg persóna, heimsins Frelsari, Guds Spámadur, eins og hann sagdist vera, þá er hann svikari, og sá stærsti svikari, sem undir dygdarinnar og trúarbragdanna skini leitadist vid ad leida allann heiminn í villu; en þvílíkann mann hefdi Gud ecki kunnad ad uppvekja frá daudum; hans daudi hefdi

verid réttvíst straff fyrir hans misgjörníng; ad géfa honum aptur lífid, hefdi verid ad launa gudlastid, ad krýna illgirnina, ad innsigla hans villu = lærdóma, og med ómétstædlegum krapti ad steypa heiminum í blindni og villu. Nei, þar Jesús Kristur er fyrir Guds krapt upp aptur risinn frá daudum, þá vitum vér, ad hann var sú persóna, sem hann sagdist vera, svo ad vér ecki þurfum á fleiri roksemdum ad halda. Med þessari einu roksemd gétum vér sigrad sérhvörja efasemi, sem hreifir sér hjá oss á móti sannleikanum: svo hefir Jesús Kristur kénnt, og hann er upprisinn frá daudum; en hefdi hann ecki verid sannleikans spámadur, þá hefdi Gud ecki uppvakid hann til lífsins aptur; þess vegna hlýtur hann ad hafa verid guddómlegur lærimeistari, þess vegna hljóta allir hans lærdómar ad hafa verid gudleg sannindi, því annars hefdi Gud ecki uppvakid hann frá daudum; nú hefi eg nóg mér til sannfæríngar; þessi eina álykťan gjorir mig óhultann fyrir allri villu.

Jesú upprisa er einnig roksemd uppá hans fridþægjandi dauda, og ad hann hafi gyldur verid oss til forlíkunar. Jesús sagdist ad sönnu vera sú persóna, sem med sínum dauda mundi forlíka heiminn; en hans upprisa erþad, sem gjörir oss fullvissa um, ad hans daudi hafdi þennann fridþægíngar = krapt. Mannanna forlíkan útheimti, ad Gud sjálfur hlaut ad útvelja þetta forlíkunar = medal, og áqvarda Krist til ad framqvæma þad. Þad tilheyrir ecki sakamanninum sjálfum, ad útvelja þad medal, fyrir hvört hann vill komast í sátt vid lög = gjafarann; en hvad gjörir oss vissa um, ad Gud sjálfur hafi kjörid Krist

til að framqvæma þetta mikla verk? það er Jesú upprisa. Hefði Guð ecki sjálfur falið honum á hendur þennann forlíkunar-dauða, þá mundi hann ecki hafa aptur uppvakið hann frá dauðum. Jesú friðþægíng útheimti, að hann hlaut sjálfur í sinni náttúru að vera hreinn og ósaurgaður; það offur, sem átti að framberaſt fyrir Guð, hlaut að vera heilagt. Sá eini syndari gat ecki gjørt forlíkun fyrir hinn annann, og ecki svo mikið, sem fyrir sjálfann sig. Hvað géfur oss þessa fullvissu? hvað sannfærir oss um þennann Jesú óflekkaða heilagleika, vegna hvørs hann gat verið þægilegt offur fyrir þá vanheilögu? það er Jesú Krists upprisa. Hefði Jesús dáið fyrir sínar egin syndir, mundi Guð þá hafa uppvakið hann aptur til lífsins? hvað gjørir oss vissa um, að Jesú friðþægíngar-dauði hafi haft allt það til að bera, sem útheimtist til að réttlæta oss fyrir Guði? vér sjáum að sönnu ecki nógu greinilega verkun þessarar friðþægíngar; oss er það að sönnu ecki í øllu tilliti vel skiljanlegt, hvørninn hans dauði kunni að frítaka oss frá løgmálsins straffi og løggjafarans réttlæti. Í þessu finnum vér nockuð myrkt, nockuð leyndardómsfullt, sem enginn mannlegur skilníngur gétur útskírt til fulls. Og hvað gjørir oss þá vissa um, að Jesú dauði hafi verið friðþægjandi, og að hans dauði sé af dómaranum álitinn gyldur oss til forlíkunar? það er Jesú Krists upprisa. Hefði Jesú dauði ecki verið fullgyldt forlíkunar-meðal, hefði hann ecki þar með fullkomlega framqvæmt þann tilgáng, vegna hvørs hann deyði, mundi Guð þá hafa aptur uppvakið hann til lífsins? og nú, þar hann hefir aptur vakið hann upp

frá daudum, hvørsu grundada vissu gésur þad oss, ad hans daudi sé af dómáranum medtekinn, sem gyldt offur fyrir vorar syndir.

Lokfins er Jesú upprisa audsjáanleg røksemd uppá ódaudlegleika vorrar sálar, uppá upprisu vorra líkama, og annad líf eptir þetta. Fyrir øllum þessum vigtugu og rósemdar-fullu sannindum hofum vér ad sønnu þær skírustu røksemdir í Ritníngunni, og sjálf skynsemin gétur þess til, sem Ritníngin kénnir. En þessi røksemd er því krøptugri og sterkari, sem hún talar til vorra skilníngar-vita. Því þar Jesú sála er aptur sameinud vid hennar líkama, þar hans líkami er aptur uppvaktur til lífsins, þat hann med sálu og líkama er fluttur til annars lífs, þá er vor sála ei heldur forgengileg, þá hlýtur ad vera annad líf eptir þetta, þá er þad møgulegt ad líkamir þeirra daudu uppvekist aptur til lífsins, og svo høfum vér allir þá vissu von, ad þegar vér í þessu lífi gaungum í Jesú Krists fótspor, ad vér munum þá sídar meir med sálu og líkama verda fluttir til þess ódaudlega lífs, í hvørt Jesús Kristur, eptir sína upprisu, er inngenginn. Svo vigtugur er lærdómurinn um Jesú Krists upprisu; svo stóra huggun og rósemi veitir hann bædi vorum skilníngi og vorri samvitsku. Ætti þá ecki þessi lærdómur, hvørjum vér eigum svo mikid gott ad þacka, ad vera oss heilagur og tilbeidsluverdur.

## 28. Kapítuli.

### Um Jesú Himna-før.

Eptir ad Kristur hafdi í 40 daga umgengist med

sínum lærisveinum, til ad sannfæra þá um, ad hann væri sannarlega upprisinn, skildi hann vid jørdina ad sýnilegri nálægd, og sté upp til himna. Eckért var vidurqvæmilegra, eckért samqvæmara Guds vísdómi og gædsku, enn ad vor Endurlausnari skyldi eptir sína pínu afstadna, verda fullkomlega adnjótandi þeirrar sælu og dýrdar, til hvørrar hann hafdi þann fullkomnasta rétt. Þad er sú regla, sem Guds vísdómur hefir tilsett, ad eptir lífsins mædu fylgir daudinn, eptir daudann upprisan, og eptir upprisuna eilíf nautn þeirrar himnesku sælu. Nú var Kristur daudur og upp aptur risinn; eckért var þess vegna náttúrlegra, enn ad hann nú skyldi verda adnjótandi himneskrar sælu. Eckért var náttúrlegra, enn ad Jesú manndómlega náttúra, er svo náqvæmlega var sameinud vid guddóminn, skyldi nú, eptir ad hans erindi í heiminum var aflokid, upphefjast til þess stadar, hvar Gud opinberar sína sérdeilislegu nálægd, og hefir svo sem uppreist sitt hásæti. Skynsemin finnur þess vegna eckért ólíklegt í þeim lærdómi, ad Jesús Kristur, eptir ad hans sýnilega nálægd á jørdunni var ecki lengur naudsynleg, var uppnuminn til himins, svo hann eignadist og nyti þeirrar dýrdar og vegsemdar, er honum tilheyrdi sem Gudi og manni. En þó þad sé mikid skynsamlegt ad þenkja þannig um Krist, hvada røksemdir høfum vér fyrir því, ad þad hafi sannarlega skéd? allir sjá audveldlega, ad Krists himna-før gétur einúngis haft historískar røksemdir, eins og hans upprisa, og ad øll vor vissa um þennann stóra atburd er einúngis byggd á Postulanna vitnisburdi, hvørjir vitna, ad þeir sjálfir hafi sjed hann

uppstíga til himna. Verdi hér, eins og vid Krists upprisu, sannad, ad hvørki Postularnir sjálfir hafi gétad dregist á tálar vid þennann atburd, né heldur viljad draga oss á tálar med ósønnum vitnisburdi, þá er sú trú, sem vér leggjum á þeirra frásøgu hér um, skynsamleg og á gódum grundvelli byggd.

Hvad því fyrra vidvíkur, þá finnum vér, ad Kristur hefir hér brúkad fjøgur medøl til ad sannfæra bædi Postulana og adra, er seinna mundu lifa, ad hér véru engin svik møguleg, og ad þad, sem þeir sáu, vóru ecki sjón-hverfíngar, heldur nockud sannarlegt. Fyrst var þad partur af Jesú vísdómi, ad hann ecki hvarf og vard ósýnilegur á medal þeirra. Eptir sína upprisu plagadi hann stundum ad birtast þeim øldúngis óforvarandis, og aptur allteins óforvarandis ad hverfa fyrir þeirra augum; máské hann hér med hafi viljad sannfæra þá um, ad sá líkami, sem hann í upprisunni færdi med sér úr grøfinni, hefdi adra og ædri eginlegleika, heldur enn sá líkami, sem nidur var lagdur í grøfina. En nú, þegar hann vildi skilja vid jørdina, útheimti annar tilgángur adra hegdun. Hefdi hann nú horfid á medal þeirra, þá hefdu þeir sjálfir enga vissu haft um hans himna-før, og enn sídur hefdu þeir gétad gjørt þá vissa þar um, sem lifa mundu eptir þeirra daga. Vor Endurlausnari vard þess vegna hægt og sýnilega uppnuminn til himins. Lúcas segir: þá hann hafdi talad þetta, vard hann ad þeim áhorfandi uppnuminn, þar til eitt ský burttók hann frá þeirra augum, Post. g. v. 1. Skýid burttók hann frá þeirra augum; ecki er þad meiníngin, ad

ský hafi niðurstígið frá himni, umkríngt hann og fært hann burt; því hann segir: að þeir hafi horft á, þegar hann varð uppnuminn; og þess vegna hvarf hann ecki fyrir þeirra augum, heldur leið sýnilega upp í loptið, þar til þeir mistu sjónar á honum í einu skýi.

Sá annar partur af Jesú vísdómi var það, að hann útvaldi Olíuviðar-fjallið, til að halda það-an sína himna-för. Enginn stadur gat verið hent-ugri hér til, enn þessi. Þetta fjall lá eina Sab-baths-reisu frá Jerúsalem, þeir höfðu þess vegna nóglegt tækifæri til að sjá og gæta að Jesú undir berum himni, hvar eckért skyggði á. Hann talaði við þá á leiðinni, gaf þeim út sínar skipanir, í-trekaði sitt loforð um heilagann Anda, sem hann ætlaði að senda þeim, og blessaði þá. Vegna all-ra þessara atvika gátu þeir ómögulega efast um, að Jesús væri það sjálfur, sem géck með þeim, talaði við þá og steig með þeim uppá fjallið. Þetta fjall var og það hærsta í kríngum Jerúsalem; hér var þess vegna víðsýnt og hreint lopt, svo þeir gátu gløggt virdt fyrir sér þennann vigtuga atburð.

Sá þriðji partur af Jesú vísdómi var það, að hann einúngis færði með, sér sína lærisveina, þegar hann vildi uppstíga til himins. Menn spyr-ja: hvar fyrir Kristur ecki hafi hér samansafnað øllum sínum óvinum, til að sannfæra þá alla í einu með þessu guddómlega krapta-verki um þeirra van-trú og hans guddómlegu sendíngu? eg gæti svarað miklu uppá þetta spursmál; eg gæti svarað: að þetta krapta-verk mundi hafa allt eins lítið sannfært þá, sem øll hin ønnur. Kristur hafði gjørt svo

mørg krapta = verk bædi í lífinu og líka í daudanum, og øll høfdu verid ávaxtarlaus. Þetta kraptaverk hefdi máské ecki áunnid meira. Gydíngarnir tileinkudu djoflinum øll hans krapta = verk; þeir gátu þess vegna sagt þad sama um þetta. Þegar mannesskjan er ordin svo forherdt, þá stoda engar sannfæríngar framar. Þar hjá uppsté Kristur ecki til himins til ad sannfæra heiminn um sannleika hans trúarbragda og hans guddómlegu sendíngu; heldur til ad setjast ad þeirri dýrd, sem vegna hans íbúandi guddóms tilheyrdi honum eptir afstadna hans pínu. Eg sje þess vegna enga orsøk, hvar fyrir Kristur skyldi uppstíga í augsýn sinna óvina; en eg sje vigtuga orsøk hvar fyrir hann ecki skyldi gjøra þad. Ef Kristur hefdi kunngjørt opinberlega á hvørjum tíma og hvørjum stad hann ætladi ad uppstíga til himins, þá hefdi hann án efa dregid til sín alla Jerúsalems innbyggjara; því hvørr er sá, er ecki finnur hjá sér nýúnga = girnina, og hvørr mundi hafa talid eptir sér ad gánga lítinn spøl til ad horfa á svo markverdugann atburd? en hvílíkt rydl, hark og hárepsti mundi ecki hafa ordid í þvílíkum fólks = grúa, hvar einn þreyngir ad ødrum, hvar allir vilja vera nærstir, og sá eini rydur hinum ødrum frá sér, eins og ein bylgjan rekur hina adra á undan sér. Hér af fylgir, ad enginn, edur mjøg fáir géta haft naudsynlegt athygli á því, sem skédur. Allir gánga burt óánægdir, af því þeir annadhvørt hafa eckért sjed, edur einúngis hálf = sjed þad, og þar af koma aptur þær ýmislegu, hvor annari gagnstædu frásøgur, er sídan berast út, og gjøra allann atburdinn grunsamann. Mundi ecki

eins hafa farid hér, ef Kristur hefdi samankallad Gydíngana til ad vera vid hans himna-før? hans lærisveinar, sem áttu ad vitna um þennann vigtuga atburd í heiminum, og sem þess vegna hlutu sjálfir ad hafa þá fullkomnustu vissu um Jesú hinna-før, þeir hefdu verid sundurdreifdir og adþreyngdir hér og þar innanum þennann mannfjølda; enginn af þeim mundi hafa vitad, hvar Jesús var í svo stórri þyrpíngu; og á því augnabliki, sem hann hefdi lidid upp í loptid, hefdu þeir kannské verid ad gæta ad ødrum hlutum; einn hefdi máské sjed hann, annar ecki; einn mundi þess vegna hafa uppástadid, ad hann hefdi sannarlega uppstígid; annar þarámóti ad hann hefdi verid kyrr á medal fólksins; og hvada vissu hefdu seinni aldirnar þá gétad haft um svo vigtugann atburd; ef vitnin sjálf hefdu verid í óvissu og ecki ordid samsaga? þad var þess vegna Krists vísdómur, ad, þar hann eptir sína upprisu lét svo marga sjá sig, fyrir utan hans 11 lærisveina, hann nú einúngis í augsýn sinna lærisveina vildi uppstíga til himna, svo ad þeir í engann máta skyldu hindrast í þeirra athygli, heldur rólega og hindrunar-laust géta horft á allann þennann atburd frá upphafi til enda; því undir þeirra vissu um Krists himna-før er vor vissa komin.

Sá fjórdi partur af Jesú vísdómi var þad, ad tveir menn í hvítum klædum birtust Jesú lærisveinum, og upp-órfudu þá med þessum ordum: Þér galilæiskir menn! hvar fyrir standid þid og horfid upp í himininn? Þessi Jesús, sem uppnuminn er frá ydur til himins, mun koma aptur med sama hætti, sem þid hafid sjed hann til himins

uppfara, Post, g. b. 1. Þessi sjón var hentugt medal til ad styrkja þá í þeirra trú; þeir høfdu ad sønnu med þeirra egin augum sjed Jesúm uppstíga; en nú koma fram óforvarandis tveir menn, sem hljóta ad hafa verid tveir englar í mannlegri ásýnd, er stadfesta þad sama, sem þeir høfdu sjed, ad hann sé sannarlega uppstíginn til himins, og telja þeim trú um, ad hann muni sídarmeir koma aptur til baka. Jesú lærisveinar sáu hér aptur allir þad sama, og heyrdu þad sama; hér var þess vegna engin svik edur blindni møguleg.

Er þad møgulegt, ad ímindunar-kraptur-inn skyldi hafa gétad tælt Jesú lærisveina undir øllum þessum kríngumstædum? nær hafa menn heyrt, ad nockur manneskja hafi á albjørtum degi, í þeim stad, hvar eckért skyggir á, og í hóp annara manna, verid þannig dregin á tálar af eintómum hugar-burdi, ad hún hafi meint sig ad sjá og heyra þad, sem hún hvørki hefir sjed né heyrt? þetta hlyti ad vera meira enn almenn verkun ímindunar-kraptarins, þad væri sannarlegt ædi. Og ef allt þetta hefdi verid einsamall hugar-burdur, hvørninn gat þá ímindunar-krapturinn brugdid øldungis því sama fyrir sjónir á 11 mønnum, svo ad þeir allir á sømu stundu skyldu sjá þad sama, heyra þad sama, og dáost ad því sama? þvílík samlíking milli heilans á svo mørgum mønnum, er ótrúleg og dæmalaus. Edur mun þessi atburdur máské hafa verid eintóm sjónar-villa? en, sé þad møgulegt, ad augun géti þannig villt sjónir fyrir manni, þá kunnum vér af sømu røkum ad álíta alla hluti fyrir sjónarvillu. Og hvada vissu høfum vér þá framar um þá hluti, er

vér sjálfir sjáum og heyrum, ef vér ekki megum reiða oss uppá óskérdt og vel brúkuð skilníngarvit? ef Skaparinn hefði undirkastað oss þvílíkri óumflýjanlegri villu, þá væri vor besta þekkíng efasøm, og vort líf sífeldur draumur.

Látum oss setja oss í stað Jesú lærisveina, og íminda óss, að það sama hefði komið fram við oss undir sømu kríngumstæðum. Vér gaungum að heiman með vin vorum, hvørjum vér lengi hofum verið gagn-kunnugir; vér erum fáir í hóp, svo að allir sjá hann og heyra til hans; hann skémtir oss á veginum með nytsamlegu og þægilegu samtali; loksins stígur hann með oss uppá hátt fjall, frá hvørs toppi vér sjáum lángt í burtu á allar síður; hér erum vér einsamlir hjá vorum vin, lángt burtu frá øllum hávaða; ekkért glepur sjón vora eður athygli; en nú kunngjørir hann oss tilgáng þessarar reisu, og segir oss, að hann hljóti að skilja við oss, hann meddeilir oss sínar síðurstu skipanir, er vér eptir hans burtfør eigum að framqvæma; hann blessar og hughreystir oss; síðan hefst hann hægt og hægt upp frá jørðunni, og vér horfum eptir honum, þángað til hann hverfur oss í skýjunum. Mundum vér géta leidt oss í hug, að vér undir øllum þessum kríngumstæðum hefðum verið dregnir á tálar af draumi, af hugar-burði, af sjónar- eður heyrnar-villu; allur þessi atburður er oss að sønnu óskiljanlegur og leyndardóms-fullur; en vér gétum þó ekki trúað að vér séum prettaðir; því þessi prettur væri oss skiljanlegri enn sjálfur atburðurinn. En þá hljótum vér líka að dæma það sama um Jesú lærisveina, sem vóru í þessum sømu kríngumstæðum.

Að þeir hafi verið dregnir á tálar, að þeir hafi ímindað sér, að þeir hefðu sjeð Krist fara til himins, án þess að þvílíkt hafi sannarlega skéð, það er ólíklegt. Sjálfir hljóta þeir endilega að hafa verið fullvíssir um, hvørt Kristur sté upp til himins eður ekki; en hafa þeir þá kannské viljað draga seinni aldirnar á tálar? hafa þeir máské skrøkvað øllu þessu upp með øllum þessum atvikum?

Þetta spursmál er þess verdt, að það sé rannsakað; eg vil ransaka það fylgislaust. Eg vil ekki framfæra allar þær røksemdir, sem hér sameina sig til að réttlæta Jesú Postula í þessu efni; það má nægja, að drepa stuttlega á fáeinar; og eg segi þá fyrst: að það er ekki líklegt, að Jesú Postular hafi tekið sig saman til að pretta heiminn með ósønnum vitnisburði. Þegar vér høfum einhvørs hreinskilni misgrunaða, þá hljótum vér í hans hegðun að verða varir við eitthvað, sem uppqveikir hjá oss þessa grunsemi, annars er vor misþánki óleyfilegur og ógrundaður. En við þesshátttar verðum vér ekki varir í Postulanna hegðun; vér finnum miklu framar það, sem gagnstædt er. Í øllum þeirra lifnaði og lærdómi gétum vér ei uppgøtvað annað enn fullkomnustu hreinskilni og sannleiks-elsku. Þær frásagnir, sem vér høfum um Krist, eru einfaldar og forðildar-lausar; sérhvørr segir frá hlutnum, eins og hann hefir sjeð hann eður heyrt, skiptandi sér ekki af vitnisburði sinna sam-erfiðara, hvørt hann mótsegir þeim eða ekki, hvørt hans frásaga kémur saman við þeirra eður ekki. Þar af koma þær ýmislegu mótsagnir, sem vér þykjumst finna milli Guðspjallamannanna, hvørjum þó auðveldt er saman

að koma, þá vel er adgád, hvar af vér sjáum, að ekkért aftal hefir verið milli Jesú Postula, ekkért sameginlegt undirlag, með hvørju þeir vildu pretta heiminn, sem þó nauðsynlega hlýtur að vera milli svikara. Já, vér gétum varla haft stærri røksemd uppá þeirra hreinlyndi enn það, að þeir svo afdráttar-laust segja frá brestum og yfirsjónum þeirra sam-erfidara, án þess að affaka þá í minnsta máta, er þeir þó vel hefðu kunnað að þegja um, án þess að yfirtroða hreinlyndisins løgmál; því hreinskilnin útheimtir ecki, að menn segi allt, hvað þeir vita. Kunnum vér að ætlast til slíks af þeim mønnum, sem hafa tekið sig saman til að svíkja heiminn? mundu þeir ecki hafa útmálað sjálfa sig og sína stallbræður, sem þá bestu, þá vitrustu, þá fullkomnustu af øllum mønnum? um það gétum vér ómøgulega efast, ef vér annars þeckjum mannsins hjarta og svikarans hjarta. Hvørsu óviðurqvæmilegt er þá fyrir oss að efast um Jesú Postula, og hvørsu ólíklegt er, að þeir, sem af sannleiks-elsku vildu jafnvel ecki þegja um þeirra egin bresti, er þeim horfðu til vanvirðu, skyldu skrøkva upp þeirri stærstu lýgi, til að efla Jesú heiður?

Ef vér gætum að Postulanna líferni, þá finnum vér, að þeir sjálfir vóru þau stærstu og fegurstu dæmi þeirra dygða, er þeir upporfuðu aðra til. Svikarinn kann að vísu vel og lengi að bera á sér ham þess dygðuga og réttskickaða; en um síðir dettur þó gríman frá andlitinu; hann verður þó einhvørntíma uppvís, ef ecki fyrri, þá samt, þegar hann er búinn að ná þeim tilgángi, hvar fyrir hann tók á sig dular-klæðin. Svikarinn hlýtur að hafa

eitthvad af þessu þrennu fyrir augnamid: hann vill fullnægja sínum holdlegu girndum, edur hann vill audga sig med eigum hins einfalda og audtrúa, edur hann vill útvega sér stórt nafn í heiminum og fólk til fylgis, svo hann kunni ad ná tign og metordum. Varla mun neinn taka sér fyrir hendur ad svíkja adra, ef hann ecki hefir í sinni eitthvad af þessu áðurtøldu; sérdeilis ef þvílík svik kunna ecki ad setjast í verk án hans egin mædu og fyrirhafnar. En finnum vér nockur røk til, ad Jesú Postular hafi sókt eptir nockru af þessu? edur kénnir ecki reynslan miklu framar, ad þeir hafa foraktad og hafnad þessum fáfengilegu hlutum, vegna hvørra manneskjurnar þó almennt leggia í sølurnar dygd, guds ótta, vitnisburd gódrar samvitsku, Guds dýrd og þeirra egin velferd. Já, hafa þeir gjørt svo mikid, sem gánga þann veg, er leidir til þessa takmarks? ad prédika dygd, hóf semi, bindindi, forakt fyrir því jardneska, þad getur ecki gefid lærimeistaranum sjálfum frelsi til ad metta þeirra holdlegu girndir; heldur uppáleggur honum miklu framar þá skyldu, ad hann sjálfur afneiti þeim; ad lasta þær girndir, sem manneskjurnar elska, ad fordæma þeirra lesti, ad neita þeirra kjærustu tilhneigíngum um vidurværi, þad er ecki hid hentugasta medal til ad ávinna þeirra kjærleika. Med forøktudum og høtudum lærdómi ad vopna allann heiminn á móti sér, er ecki sá beinasti vegur til maktar og herradæmis.

Látum oss hér af draga þá skynsamlegu ályktun: þar vér í Postulanna athøfnum verdum ecki varir vid annad enn hreinskilni og sannleiks-elsku; þar vér eckért getum uppgøtvad, sem hneckir þess-

ari gódu meiníngu um þá; þar þeir í ǫllu þeirra líferni vóru sjálfum sér líkir, þar þeir ecki leitudu eptir launum svikaranna, heldur höfnudu þeim miklu framar, hvorsu grundvallar-laus og óvidurqvæmileg er þá sú grunsemi, ad Jesú lærisveinar hafi haft þann ásetníng, ad svíkja heiminn med ósönnum vitnisburdi? svo höfum vér þá allteins vel orsök til ad trúa þeim, þegar þeir vitna, ad þeir hafi sjed hann uppstíga til himna, eins og þegar þeir segja frá því, ad hann hafi verid hæddur, húdstrýktur og krossfestur.

Ef vér nú bætum því hér vid, sem eg hér ad framan sagt hefi af Postulanna vitnisburdi um Jesú upprisu, ad þeir ecki leitudu neins tímanlegs ávinníngs med þeirra vitnisburdi um Krist, heldur miklu framar höfnudu öllum jardneskum ábata, já, undirkostudu sig hádi og ofsóknum, svo ad þeir gætu allstadar útbreidt þennann vitnisburd um Krist, hvorjum þeir þó ecki hefdu verid skyldugir um hvorki elsku, hlýdni né lotníngu, hefdi hann ecki, eptir lofordi sínu, upprisid frá daudum og uppstígid til himins; því þá hefdi Kristur ecki verid sú persóna, sem hann sagdist vera, þá hefdi hann verid svikari, med sínum svikum hefdi hann misbrúkad þeirra trú-girni og umbreytt þeirra rósemi í órósemi. Ef vér bætum þessu enn nú hér vid, ad þeir ecki mældu sig undan ad innsigla þeirra vitnisburd um Krist med þeirra egin blódi, og gengu med gledi út í daudann, hvorn þeir hefdu gétad umflúid, í vissri von um, ad verda hlut-takandi þeirrar farsældar, til hvorrar Kristur inngéck í sínni himna-för, og sem hann hafdi lofad ad tilbúa þeim í síns födurs húsi,

svo er það ecki einúngis ólíklegt, að Jesú Postular hafi haft þann tilgáng, að draga heiminn á tálar með ósönnum vitnisburði um Krist, heldur er það líka hærst fráleitt að vilja leida sér slíkt í hug um þá. Trautlega mun neinn setja sig út til að vera svikari, hafi hann einkis ávinníngs að vænta; en miklu sídur mun hann setja sig út til þess, þegar hann má búast við háði, forsmán, ofsókn og hinum qvala-fyllsta dauð-daga.

Postulanna vitnisburður um Krists himna-för hefir þess vegna ecki einúngis öll þau kénniteikn til trúverdugleika, sem nockur frásaga gétur haft; heldur hefir hann það og fram yfir allar aðrar frásagnir, að vitnin hafa stadfest þeirra vitnisburð með þeirra eginn dauða. Vér hljótum þess vegna, annaðhvört að efast um allar historiskar frásagnir, og snara þeim öllum burt, eður vér hljótum að géfa Postulanna vitnisburði um Krist þann sama rétt, um hvörn vér ecki neitum nockri annari frásögu, þegar hún hefir öll þau kénniteikn, sem útheimtast til hennar trúverdugleika.

---

Hvar fyrir skulum vér með svo mörgum röksemdum líka sem þvíngast til að medtaka þann lærdóm, sem þó er fyrir oss svo huggunar-fullur og heilsusamlegur. Þar Kristur er uppstíginn til himins, þá hofum vér þá sterkustu röksemd uppá fullnustu hans endurlausnar, uppá hans himnesku sendíngu og hans guddómlegu hátign; því hefdi Jesús ei verið sú persóna, sem hann sagdist vera, og hefdi hann ecki fullkomlega uppfyllt það augnamið, vegna

hvørs hann kom í heiminn, þá hefdi honum ecki verid opnadur þessi heilagi bústadur. Nú, þar vér med trúarinnar augum sjáum vorn Medalgángara í hásæti síns fødurs, þá þegir vor samvitska, þá fridast vor skilníngur og vort hjarta, og Evangelii nádar-fyrirheit géfa oss dug og krapta til ad reisa oss af vorn falli og keppast eptir hnossinu. Þar Jesús er uppstíginn til himins, þá hefir hann opnad oss inngáng í þennann gledinnar og sælunnar samastad, þá er hann burtu farinn ad tilbúa oss stad í síns fødurs húsi; vor von er nú á grundvelli byggd, ad vér sídar meir munum fylgja honum eptir; því hvar høfudid er, þángad munu limirnir samansafnast. Þar Jesús er uppstíginn til himins, hvílíkur heidur er þad fyrir oss, ad Kristur, sem er vor bródir eptir sinni manndómlegu náttúru, situr í dýrdarinnar hásæti á himnum og stjórnar oss. Skyldum vér med lastafullu líferni gjøra oss þessa heidurs óverduga, edur med efasemd og vantrú svipta sjálfa oss þeirri fullvissu, ad þessi vegsemd tilheyrir oss? þar Jesús er uppstíginn til himins, þá ættum vér ad snúa øllum vorum þaunkum, óskum og girndum til Jesú dýrdar-sætis. Þángad sem Jesús er inngenginn á undan oss, þar er vort takmark, vort føducland, sem vér eigum til ad keppast; hér nidri erum vér einúngis framandi og útlendíngar; vér eigum þess vegna, á medan vér dveljum hér í líkamanum, ad vera med vorum þaunkum og óskum á himnum; vér eigum ad meta lítils þad jardneska, sem er forgengilegt, losa oss smámsaman vid jørdina, sem tekur oss til fánga, og keppast eptir því eilífa og óforgengilega sem vor

Endurlausnari, með sinni inngaungu í það allra-helgasta, hefir tilbúið oss.

## 29. Kapítuli.

Um Jesú Stjórnun með Guði.

Kitníngin kénnir allvíða, að eptir það Jesús Krist-ur var uppstíginn til himna, hafi hann að sér tek-ið til fullkominna umráða það ríki, sem honum, vegna hans íbúandi guðdóms, frá eilífð tilheyrði, og að hann nú stjórni með Guði yfir øllum hlutum. Gleð þig mjøg, Zíons dóttir! segir Sachar-ías, hrópa með føgnuði Jerúsalems dóttir! sjá, þinn Kóngur mun koma til þín, hann er rétt-látur og Frelsari, Sach. 9. En Kristur átti ept-ir spádómum Spámannanna ecki einúngis að vera Kóngur yfir Zíon, heldur átti hann að vera Stjórn-ari alls heimsins. Oska þú af mér, segir Faðirinn til síns Sonar, þá vil eg gefa þér heiðnar þjóðir til arfleifðar, og jarðarinnar enda til eignar. Þú skalt sundurslá þá með járnspíru; líka sem leirkér skaltú sundurbrjóta þá, Psálm. 2. Í spádóms-anda sá Davíð Messías upphafðann til herra-dæmis yfir allann heiminn; hann sá hann útrétta sinn veldissprota frá einu sjáfar-hafinu til annars; hann sá alla Kónga tilbiðja hann, og alla Heið-íngja þjóna honum, Ps. 72. Ritníngin tilleggur líka Kristi þess vegna, sem Kóngi, øll einkénni kon-únglegrar hátignar. Svo sem Kóngarnir eru smurð-ir, svo heitir það líka um Krist, að hann sé smurður. Þú elskaðir réttlætið, segir Davíð, og hataðir ó-guðlegleikann, þar fyrir hefir, ó Guð! þinn Guð,

smurt þig með gleðinnar olíu fram yfir þína meðbræður, Ps. 45. Svo sem kórónan er höfuðprýði Kónganna, svo er Kristur einnig krýndur með heiðri og vegsemd, eins og Postulinn Páll segir, Ebr. 2. Svo sem Kóngarnir sitja í hásæti, og hafa veldis-sprota í hendi sér, sem kénni-teikn þeirrar maktar, sem þeir hafa til að skipa, svo verður Kristi tillagt það sama: Guð! segir Davíð um Messías: Þinn stóll varir um aldur og að eilífu; þíns ríkis-sproti, er réttur sproti, Ps. 45. En það, sem enn nú meir sannfærir oss um Jesú Krists konúnglega verðugleika, er sú makt, sem Ritníngin tilleggur honum til að dæma heiminn, að útbluta straffi og launum til sérhvörs eptir hans tilverknaði. Pétur segir: að hann sé af Guði tilsettur að vera dómari lifendra og dauðra, Post. g. b. 10. Kristur vitnar það sama um sjálfann sig: Faðirinn, segir hann, dæmir engann, heldur hefir hann Syninum allann dóm í hendur fengið, svo að allir skuli heiðra Soninn, eins og þeir heiðra Föðurinn, Jóh. 5. En skuli Jesús Kristur vera allra dómari, skuli hann hegna og launa sérhvörjum eptir hans verkum, þá hlýtur hann líka nauðsynlega að vera allra Kóngur og Herra. Þessi Jesú konúnglega tign, útmálast með því orðatiltæki: að hann sitji til Guðs hægri handar, til hægri handar á tignar-stólnum á himnum, Ebr. 8. Marc. 16. Þessi talsháttur er dreginn af gamalli siðvenju í Austur-álfunni. Þegar Kóngarnir fóru í stríð, vóru þeir vanir að útnefna Son sinn sér til eptirmanns, til þess, ef þeir kynnu að falla í bardaganum, að koma í veg fyrir innbyrðis upphlaup, sem

orsakast kynni útaf ríkisstjórninni. Þessi útnefníng skédi med þeim hætti, ad Kóngurinn upphafdi Son sinn í hásætid sér til hægri handar, í hvorri hann héldt á veldis-sprotanum, og kunngjordi þar med fyrir fólkinu, ad hann hefdi gjört Son sinn til síns med-stjórnara, og ad hann hefdi þess vegna full-komna makt og myndugleika til ad stjórna ríkinu á-samt honum. Nú heitir þad um Krist: ad hann sitji til Guds hægri handar, þess vegna hefir hann full-komna makt og myndugleika til ad stjórna med Gudi øllum hlutum. Þetta vald hefir hann frá ei-lífd haft í tilliti til guddómsins; en nú er hans manndómlega náttúra med nákvæmasta hætti sam-einud vid guddóminn; þess vegna er Jesús Kristur bædi sem Gud og madur upphafinn til þessarar tignar; sem Gud og madur stjórnar hann nú med Gudi gjörvøllum heiminum og øllum skepudum hlutum.

Ad vísu er þad satt, ad þegar Ritníngin talar um Jesú ríki, þá meinast þar med sérdeilis hans andlega ríki, edur kirkja, hvar høfud-tilgáng-ur hans stjórnunar er sá, ad leida manneskjurnar til þeckíngar, med þeckíngu til dygdar, med dygd til farsældar. En sé þad óneitanlegt, ad Jesús Kristur stjórni sinni kirkju, sé þad óneitanlegt: *ad Gud hafi lagt alla hluti undir hans fætur, og sett hann yfir alla hluti til høfuds safnadarins, Eph. 1.* þá er þad allteins óneitanlegt, ad Jesú stjórnan hlýtur ad hafa stóra verkun í þeim veraldlegu rík-jum; á milli þeirra veraldlegu ríkja og Jesú kirk-ju er hin nákvæmasta sameiníng. Vér vitum allir hvørsu stórri verkun stjórnar-standid veldur í trúar-

brøgdunum, og trúarbrøgdin í stjórnar-standinu. Hér er land, sem hindrar kirkjunnar útbreidslu: þad hlýtur ad eydileggjast; þar er annad, sem kann ad þéna til þessa augna-mids, þad hlýtur ad blómgast og stadfestast. Hid rómverska veldi hlýtur ad útbreidast yfir allann heiminn, sem menn þá til þecktu, og øll heimsins ríki sameinast undir eina stjórnun, svó ad Jesú kirkja kynni því audveldlegar ad útbreidast. Nú var tilgángur þessarar sameiníngar uppfylltur, Jesú kirkja var grundvøllud, hans kirkja var búin ad ná fullum þroska, nú hlaut þad mikla rómverska ríki ad uppleysast í þess fyrstu parta. Hér er ógudlegt land, sem á ad straffast, og annad hlýtur ad vaxa ad makt og veldi, svo þad verdi hefndarinnar sverd í hønd þess ædsta stjórnara, þar til þetta sídara hefir líka uppfyllt mælir sinna synda, og hlýtur sjálft ad finna til Guds strøffunar réttlætis. Nú á Jesú ríki ad útbreidast í framandi og ókunnugt land. Kristnir hljóta ad finna þad, kristnir hljóta ad leggja þad undir sig, svo þeir ásamt med þeirra vopnum innføri þeirra trúarbrøgd í þad sama. Nú er þar annad land, sem vanbrúkar þad ljós, er Gud hefir géfid því; þess ljósa-stjaki hlýtur ad burt-takast, þad hlýtur ad inntakast af Heidíngjum, hvørjir til þess verks framqvæmdar hljóta ad útbúast med makt og luku. Þess vegna, sé þad sannleikur, hvar um enginn kann ad efast, ad Jesús Kristur stjórni sinni kirkju, hvørrar høfud hann er, þá er þad líka sannleikur ad Jesú stjórnan hlýtur ad hafa mikla verkun í þeim veraldlegu ríkjum, þvílíkur sannleikur, sem enginn kann ad efast um, er þeckir þad náqvæma

og óadskiljanlega sambaud, sem er á milli Jesú andlega ríkis og veraldarinnar ríkja. Þess vegna tileinkar Kristur líka sjálfum sér eydileggíngu borgarinnar Jerúsalem og Gydínganna stjórnar-standS, Matth. 24. Og allir vita, hvada verkun þessi eini atburdur hefir haft, og hefir enn nú sífeldlega í ødrum heimsins ríkjum.

Eg vil setja þennann sannleika fyrir sjónir med ødrum hætti: vér kunnum ecki nóglega ad sannfærast um þessa Jesú ótakmerkudu makt, svo vér ecki þenkjum, ad hún sé einúngis bundin vid hans andlega ríki edur kirkjuna. Þar um efast enginn, ad Jesús Kristur stjórni sinni kirkju, og sé høfud þessa andlega ríkis, sem hann sjálfur hefir stiptad; þar um efast enginn, ad þad sé tilgángur Jesú stjórnunar í þessu andlega ríki, ad gjøra sérhvørn lim í þessu ríki ad gódum og trúum þegni hér á jørdunni, svo ad hann sídar meir géti gjørt hann ad farsælum borgara í eilífdinni. En þá kunna menn ei heldur ad efast um, ad hann hljóti einnig ad stjórna þeim veraldlegu ríkjum, og þeirra førløgum. Ef vér annars þeckjum mannanna náttúru, þá vitum vér, hvørsu mikid vorar tímanlegu kríngumstædur gjøra til vors andlega ástands, og þad andlega til vors eilífa. Sumir forherdast vid mótlætid, adrir audmýkjast; sumir taka af tímanlegri velgengni tækifæri til synda, adrir leidast þar med til yfirbótar. Nockrir hljóta hér í heimi ad fá umbun fyrir þeirra hlýdni og trúmennsku, til ad uppørfast enn meir til þess góda; adrir hljóta ad finna til hans hirtandi handar sjálfum þeim til leidréttíngar, og ødrum til advørunar. En øll þessi sér-

deilislegu tilfelli, sem koma fram vid sérhvørn undirsáta í Jesú andlega ríki, þessar mótlætingar, þessi luckukjor, þessi laun og þetta straff, sem hvørjum einum úthlutast eptir hans ásigkomulagi, allt þetta gjørir vissa umbreytíngu í því veraldlega ríki, það gjørir ecki einúngis umbreytíngu á høgum þeirrar manneskju, sem fyri því verdur, heldur er það gjørvalla ríkinu annadhvørt til gagns edur ógagns. Ad þetta sé sannleikur, kann enginn sá um, ad efast, sem ber skynbragd á, hvørsu náqvæmlega allir hlutir í einu ríki eru samankédjadir hvørr vid annann; og þess vegna, ef Jesús skal stjórna sinni kirkju, sínu andlega ríki, ef hann skal ná tilgángi sinnar stjórnunar, þá hlýtur hann líka ásamt ad stjórna øllum heimsins veraldlegu ríkjum, þá hlýtur hann ad vera Kóngur allrar veraldarinnar; þetta flýtur af hans endurlausn. Þar hann hefir endurleyst og endurkeypt allann heiminn, þá er hann líka hans eign, Tit. 2. Hann tilheyrir honum; hann hefir endurkeypt hann, sem Gud og madur, sem Gud og madur hlýtur hann þá einnig ad stjórna honum, svo ad sá tilgángur uppfyllist, vegna hvørs hann endurleysti hann; og það er þess vegna ecki ofdjarft talad, þó eg segi, ad høfud-tilgángur Jesú stjórnunar yfir þeim veraldlegu ríkjum, sé enginn annar enn sá, ad útbreida, stadfesta og forsvara hans andlega ríki; og ad høfud-tilgángur þeirra vigtugustu umbreytínga í þeim veraldlegu ríkjum sé, ad efla farsæld og blómgun hans andlega ríkis. Þau veraldlegu ríkin eru einúngis til vegna þess andlega, eins og tíminn vegna eilífdarinnar.

Þó skulum vér ecki binda Jesú ríki einúngis

vid þennann heim; eins og þau veraldlegu ríki eru náqvæmlega sameinud vid Jesú andlega ríki, edur hans nádar-ríki, svo er aptur á móti hin náqvæmasta sameiníng á milli hans nádar-ríkis hér á jørdunni og hans dýrdar-ríkis á himnum. Sá, sem sídarmeir vill verda farsæll undirsáti í þessu, hlýtur hér í heimi ad vera réttskickadur borgari í hinu fyrra ríkinu. Endurlausnar-verkid géfur honum fullkominn rétt til ad stjórna yfir þeim sálnhólpnu á himnum, og hans íbúandi guddómur géfur honum sama rétt til ad vera stjórnari þeirra fullkomnu anda, sem ecki þurftu vid hans endurlausnar. Þess vegna setur Postulinn Páll Krist fyrir sjónir, sem Herra yfir øllum skynsemidarfullum verum, þar hann segir: þar fyrir hefir Gud hátt upphafid hann, og géfid honum þá tign, sem er yfir øllum tignum, svo ad fyrir Jesú tign, skulu øll kné beygja sig, þeirra sem á himnum og jørdunni og undir jørdunni eru, og allar túngur skulu vidurkénna, ad Jesús Kristur sé Drottinn, Gudi Fødur til dýrdar, Phil. 2. Þar fyrir segir sami Postuli: ad Gud hafi undirlagt Kristi alla hluti, og þad svo fortakslaust, ad enginn er þar frá undantekinn, utan Gud sjálfur; hann hefir, segir hann, undirlagt honum alla hluti; en þegar hann segir: ad allir hlutir sén honum undirlagdir, þá er þad ecki ad skilja um þann, sem honum hefir undirlagt alla hluti, 1 Cor. 15. Þetta er sú óendanlega hátign, í hvørri Jesús Kristur situr til fødursins hægri handar. Allir sáluhólpnir á himnum tilbidja hann; allir jardarinnar Kóngar eru hans umbodsmenn, allir hlutir eru

honum undirlagdir. Himininn er hans hásæti, og jördin hans fótskör.

---

Þar Jesús Kristur er vor og alls heimsins Yfir-herra, skyldi hann þá ei kunna að heimta af oss þær sömu skyldur, sem jarðneskir Kóngar heimta af þeirra undirsátum. Þessar eru: lotníng, elska, hlýðni; og hvorsu straffsverdir erum vér, þegar vér neitum Kristi um það, sem vér svo fúslega látum í tje jarðneskum Konúngum. Jarðneskur Konúngur kann maklega að heimta lotníngu af þegnum sínum; Jesús Kristur kann með miklu stærra rétti að heimta af oss þessa hugar-hræríngu. Hjörtum vorum er svo háttað, að sannir yfirburðir og fullkomlegleikar uppvekja hjá oss lotníngu og virðíngu. Og hvar fyrir finnum vér svo lítið hjá oss af þessari lotníngu fyrir þeim, yfir allar endanlegar verur svo hátt upphafða Kóngi? eg vil einúngis framfæra eina, og þó þá linustu orsök til þessa dofinleika; vér hugleiðum Jesúm svo opt í hans niðurlægíngu; vér hugleiðum hann máské ecki nóg í hans upphafníngu. Vér skoðum hann svo opt, sem þann stríðandi, líðandi og hæðda Endurlausnara; vér virðum hann ecki nóglega fyrir oss, sem þann sigrihrósandi, og yfir alla sína óvini upphafða sigurvegara. Já einusinni géck hann á meðal mannanna hæddur og forsmáður; nú er hann krýndur með dýrð og heiðri. Einusinni var hann spottaður og ofsóktur; nú tilbiðja hann allir Guðs englar og himinsins voldugir. Einusinni var hann herfáng sinna óvina, af því að hann, fyrir vora skuld, vildi vera það; nú

beygja sig fyrir honum kné allra þeirra, sem á himni, á jördu og undir jördunni eru. Einusinni var hann negldur á krossinn og upphengdur milli himins og jardar; nú situr hann til hægri handar tignarinnar á hædum, og rædur öllum hlutum. Vér skulum þess vegna ecki álíta Krist einúngis í hans nidurlægíngu, sem er á enda; heldur einnig í hans upphafníngu, sem varir ad eilífu. Þessi hans guddómlega tign, þessir hans óendanlegu fullkomlegleikar, hvörsu djúpa lotníngu ættu þeir ad uppvekja hjá oss? hvörsu litlir ættum vér ad verda í vorum egin augum? hvorsu djúpt ættum vér ad audmýkja oss fyrir honum? hvörsu vareygdarlega ættum vér ad hegda oss fyrir augliti svo stórs Koníngs?

En Kristur heimtar ecki einúngis vora lotníngu, heldur heimtar hann líka vora elsku. Hún er þvílík hugar-hræríng, sem sérhvörr gódur Kóngur kann maklega ad áskilja sér, og hvörsu miklu framar kann þá himnanna Koníngur ad skilja sér hana af oss? hvad er fagurt, gott, ágætt, yndarlegt, ad vér ecki finnum þad í honum? ef velgjörníngar uppvorfa oss til elskunnar, hvörn skyldum vér þá elska, ef vér ecki elskum hann? hann niðurlægdi sig til vors audvirdilegleika, svo hann kynni ad upphefja oss til síns verdugleika. Hann géck í strídid og bardist fyrir oss, svo vér skyldum ega sigri ad hrósa. Hann gaf sitt líf í daudann, svo vér skyldum eilíflega lifa. Hvílík elska var hjá Jesú Kristi! hvörn Kóng skyldum vér elska, ef vér ecki elskum hann? og hvörsu óþacklátir erum vér, hvörsu óverdugir ad kallast hans undirsátar, ef vér ecki elskum hann?

Lokſins eigum vér ad ſýna vora lotníngu og elſku med hlýdniuni. Hvørr, ſem mig elſkar, ſegir Kriſtur, hann heldur mín ord. Hlýdni er ſú fyrſta og fremſta ſkylda, ſem ſérhvørr Kóngur heimtar af þegnum ſínum; hvørſu miklu framar kann ſá ad heimta hana, ſem er Konúngur himins og jardar? forgéfins hróſum vér oſs af borgarrétti í Jeſú Kriſts ríki, ſvo lengi oſs breſtur þennann eginlegleika. Skuli ríki nockurt ſtandaſt, þá hlýtur undirſátanna vilji ad koma ſaman vid Stjórnarans. Skuli ríkid blómgaſt, þá hlýtur þegnanna og Kóngſins tilgángur ad vera ſá ſami. Hvørr, ſem þenkir ødruvíſi, er ecki þegn, heldur upphlaupsmadur í ríki ſíns Konungs. Og hvørſu margir kriſtnir, ſem þó hafa hyllt Kriſt, ſem þeirra Konúng, verdſkulda þá ad heita þegnar í þeſsu ríki? hvørſu margir munu þá á ſídaſta degi verda í tølu upphlaups-mannanna? hvørſu fáir eru þeir, hvørra tilgángur er ſami og Jeſú Kriſts, hvørra vilji kémur ſaman vid hans vilja? en hvørſu fáir munu þeir þá líka verda, er á ſídarſta degi verda hluttakandi þeirra launa, ſem Jeſús Kriſtur hefir ætlad ſínum ſønnum þegnum? því þad er ecki nóg ad hrópa: Herra! Herra! þegar vér gjørum ecki vilja fødurſins ſem á himnum er.

## 30. Kapítuli.

### Um heilags Anda ſendíngu yfir Poſtulana.

Þeſsi viktugi atburdur, ſem hefir ollad ſvo ſtórum umbreytíngum í heiminum, og hvar med grundvøllurinn var lagdur til útbreidſlu Jeſú trúarbragda,

hefir laungu ádur verid fyrirsagdur af Spámønnum gamla Testamentisins. Eg vil, segir Drottinn, úthella yfir Davíds hús, og yfir sérhvørn, sem býr í Jerúsalem, nádarinnar og bænarinnar Anda, og þeir skulu siá mig, hvørn þeir hafa gégnumstúngid, Sach. 12. Spámadurinn Jóel hefir kunngjørt þad sama; þad skal ské þar eptir, ad eg vil úthella mínum anda yfir allt hold, og ydar synir og ydar dætur skulu spá, ydar øldúnga skal drauma dreyma, og ydar æsku-menn sjónir siá; og einninn yfir þjóna og þjónustu-qvinnur vil eg á þeim sømu døgum úthella mínum anda, Jóel. 2. Þetta loford, sem Gud svo laungum tíma ádur hafdi géfid fyrir munn Spámannanna, endurnýjadi Kristur vid sína lærisveina: Þad er ydur gagnlegt, segir hann, ad eg fari hédan; því fari eg ecki hédan, þá kémur þessi lærimeistari ecki til ydar; en ef eg fer burt, þá vil eg senda hann til ydar. Eg hefi enn nú margt ad segja ydur, en þér gétid ecki skilid þad í þetta sinn; en þegar hann kémur, sá sannleikans andi, þá mun hann leida ydur til alls sannleika, Jóh. 16. Eg vil bidja fødurinn, svo mun hann géfa ydur annann lærimeistara, sem sífeldlega skal vera hjá ydur, nefnilega, sannleikans anda, hvørn þeir veraldlega sinnudu géta ecki medtekid, því þeir siá hann ecki, og þeckja hann ecki; en þér þeckid hann, af því hann blífur hjá ydur, og mun vera í ydur. Og strax hér á eptir segir hann: Lærimeistarinn, sá heilagi Andi, hvørn fadirinn mun senda mín vegna, hann mun kénna ydur alla hluti, og minna ydur á allt þad, sem eg hefi sagt ydur, Jóh. 14. Og í ødrum stad

géfur hann þeim það sama fyrirheit: þegar þeir ofurselja yður, skuluð þér ecki bera umhyggju fyrir, hvørninn, eða hvað þér skuluð tala; því það skal géfast yður á sömu stundu, hvað þér skuluð tala; því þér eruð ecki þeir, sem tala, heldur Andi yðar føðurs, sem talar í yður, Matth. 10. Loksins skipar Kristur sínum lærisveinum rétt undir sína himnaför: að þeir skyldu vera kyrrir í Jerúsalem til að taka á móti heiløgum Anda, sem hann hafði lofað þeim, Lúc. 24.

Lúcas vitnar, að þetta loforð hafi líka uppfyllst á þeim: þá Hvítasunnu hátíðin var komin, segir hann, vóru þeir allir með einum huga til samans í einum stað, og þar kom skyndilega þytur af himni, svo sem af sterkum blásandi vindi, og uppfyllti allt húsið, hvar þeir sátu inní. Og þeir sáu eins og aðgreinda elds-loga, er settu sig á sérhvørn þeirra. Og þeir urðu allir fullir af heiløgum Anda, og tóku að tala með framandi túngum, eptir því, sem heilagur Andi gaf þeim út að tala, Post. g. b. 2. Þessi atburður, hvørsu frábrugðinn, sem hann var, er þó í hærsta máta trúverðugur. Sé hann ecki trúverðugur, þá hlýtur annaðhvørt Sagnaskrifarinn að hafa skrøkvað honum upp, eður sjónar-vottarnir að hafa sjeð rángt. Hvørttveggja er eins ótrúlegt. Að þeir heiløgu Sagnaskrifarar hafi verið hreinskilnir menn, að þeir að minnsta kosti hafi breytt eptir því, sem þeir vissu réttast, er sá vitnisburður, sem jafnvel trúarbragðanna óvinir fyrirverða sig að neita þeim um. Þar þurfti og meir enn almennilega óskammfeilni, og meir enn almennilega lucku til, að bera þvílíkt

fram á þeim tíma, þá allir þeir gátu enn nú lifad, og mikill partur af þeim vísfulega hlýtur ad hafa verid á lífi, sem eptir hans søgn hefdu átt ad vera sjónar-vottar ad þessum atburdi, og vera ecki rekinn til baka, og vera ecki opinberlega gjørdur ad spotti. Ef hann hefdi sagt, ad þetta hefdi skéd í einhvørjum afkima Gydínga-lands, innann luktra dyra; medal nockra Jesú vina, þá kynni máské nockur grunsemi ad hafa stad; en ad segja frá atburdinum med øllum þessum atvikum, ad tilgreina bædi stadinn og tímann, ad segja, ad þad hefdi skéd ad nálægum nockrum þúsund sjónar-vottum, og ad hann samt skyldi ecki verda til skammar, og ad framgángur Jesú trúarbragda, skyldi ecki hindrast allt í einu bædi á medal Gydínga og Heidíngja, þad er mér óskiljanlegra enn sjálfur atburdurinn. Þad er ecki heldur Lúcas einsamall, sem segir frá þessum atburdi; Postulinn Páll getur einnig um þessa yfirnáttúrlegu gáfu til ad tala framandi túngum; já, hann vitnar útþryckilega, ad þessi gáfa findist hjá þeim søfnudum, sem hann skrifadi til, 1 Cor 12. Hann vitnar til þessa jafnvel í sínu Sendibréfi til þess corinthiska safnadar, hvar hann átti marga óvini og mótstødu-menn. Væri þetta skrok-saga mundi þá Postulinn, án þess ad gjøra sig ad athlátri, hafa getad skrifad til safnadanna, ad þeir hefdu þær gáfur, sem þeir høfdu þó ecki? þó menn vildu neita, ad þessir Jesú vottar hafi haft þá hreinskilni, sem útheimtist af trúverdugum Sagnaskrifara, þá eiga menn þó ei ad neita þeim um almennilegt mannvit og mannlega skynsemi.

En gæti menn ecki neitad sannleika frásagnar-

innar, er þá ecki uggvænt, ad allt þetta hafi sinn uppruna af því, ad sjónar-vitnin hafi sjed rángt? þetta spursmál kémur mér fyrir sjónir, eins og ef einhvörr vildi spyrja: höfdu innbyggjararnir í Jerúsalem augu og eyru? vóru þeirra augu og eyru eins á sig komin, og annara manna skilníngar-vit? því hér þurfti ecki á meiru ad halda, til ad dragast ecki á tálar. Ad heyra þyt af himni, þar menn heyrdu þó eckért; ad sjá eld, þar menn sáu þó eckért, er þvílík blindni, sem menn gétaímindad sér, hjá einum edur fáum, sem eru skérdtir á ræninni, en ecki hjá nockrum hundrudum, ecki hjá nockrum þúsundum, ecki hjá innbyggjurum heillrar borgar. Pad, sem þetta krapta-verk eptir sig leiddi, sannfærir oss líka um; ad krapta-verkid sjálft hafi sannarlega skéd. Á sama tíma, sem þetta skédi, stendur Pétur upp útbúinn med Anda Drottins, hann heldur rædu til Gydínganna, og hér um 3000 Gydíngar láta yfirtala sig til ad hafna trúarbrögdum sinna forfedra, til ad medtaka Jesú Krists trúarbrögd, og verda limir hans kirkju. Hvad kom til, ad Pétur ávann hér miklu meira á einum degi, heldur enn Jesús Kristur hafdi áunnid í þrjú ár med öllum sínum kröptugu kénníngum. Hvörninn sannfærdi hann á einum degi svo marga Gydínga um þann guddómlega uppruna Jesú trúarbragda? Gydínga, sem af virdíngu fyrir Mósis lögum vóru allstadar adkomnir til Jerúsalem, til ad dýrka þeirra fedra Gud. Hvörninn yfirtalar hann þá til ad hafna Mósis lögmáli, en medtaka Krists lögmál? ad vísu er þad satt, ad Péturs ræda er mikid sterk, kröptug og sannfærandi; en vóru þá Jesú rædur

síður sterkar og kröptugar? og hvar fyrir lesum vér þá aldrei, að þessar hans ræður hafi gjört sömu verkun? ef vér þess vegna viljum dæma skynsamlega og ecki forherða oss á móti allri grundvallaðri sannfæríngu, þá hljótum vér að játa, að þetta stóra og guðdómlega krapta-verk, sem fylgdi Péturs ræðu, hljóti að hafa géfið hans ræðu þann krapt, með hvörjum hún allt í einu sló til jarðar svo marga Jesú óvini, og féck svo vegsamlegann sigur yfir öllum þeirra inngrónu hleypidómum og þverúð. Þess vegna hlýtur þetta krapta-verk að hafa skéð; því annars væri oss það öldúngis óskiljanlegt, hvaða orsök verið hefir til þessarar verkunar. Að svo margar þúsund manneskjur skyldu géta ímindað sér, að þær hefðu heyrt og séð það, sem þær þó hvörki heyrðu né sáu; að þessi ímindan skyldi géta komið því til leiðar hjá þeim, að þeir sigruðu allt í einu allar þeirra inngrónu meiníngar, sem þeir höfðu mætur á, því gétur enginn trúað, utan sá, sem hefir enga þecking á manneskjunni.

Það er satt, að menn kynnu máské að segja, að sá þytur, sem heyrðist af himnum, hafi verið skrugga; að eldurinn, sem sást, hafi verið skruggueldur, eður annar rafkraptaður eldur; að allur þessi atburður hafi þess vegna verið öldúngis náttúrlegur. En vóru þá einnig allir þeir stóru eginlegleikar náttúrlegir, sem Jesú Postulum veittist allt í einu? ef vér gætum að Jesú Postulum fyrir og eptir þennann tíma, hvörsu öldúngis umbreyttir vóru þeir, svo vel í tilliti til þeirra skilníngs, sem þeirra hugarfars? ef vér athugum þá í tilliti til skilníngsins,

hvörsu lítil var þeirra þecking, hvörsu rángar, hvörsu ósamanhángandi þeirra meiníngar um Jrsú persónu? hvörsu veraldlegur var sá tilgángur, hvar fyrir þeir eptirfylgdu hönum? hvörsu jarðneskir vóru þeirra þánkar um það augnamið, hvar fyrir hann kom í heiminn? hvörsu mikið, sem hann hafði prédikað fyrir þeim um sína persónu og sitt mikilvæga erindi, þá héldu þeir þó, að hann væri einúngis kominn til þess að leggja undir sig heiminn. En á þessum degi upprann allt í einu öldúngis yfirnáttúrlegt ljós í þeirra skilníngi; allt í einu sundurdreifðist sú þoka, sem áður hafði skyggt á þeirra skynsemi. Hvörsu fagrir og ágætir eru þeir þánkar, sem þeir gefa oss um Guð, um heimsins Skapara, um þá forsjón, sem stjórnar heiminum, um manneskjuna, hennar náttúrlega og ókomna tilstand, um þá sönnu guðsdýrkun, um dygðina og hennar rétta ásigkomulag, um eilífðina, um góðverkin, um það verð, sem þau hafa, og það verð, sem þau ekki hafa, um þann ódauðlegleika, sem vér eigum von á, og þann veg sem vér eigum að gánga, til að verða síðar meir hluttakandi sælufulls ódauðlegleika. Og þeirra þecking á Kristi, hvörsu hrein var hún nú, hvörsu samqvæm þeim hugar = gripum, sem hann sjálfur hafði gefið um sína persónu og tilgáng sinnar komu í heiminn. Hvaðan kom þeim þessi nýa og háa þecking, sú þecking, sem þeir skörpustu veraldar vitríngar, með svo mikilli fyrirhöfn, höfðu eptirleitað; sú þecking, sem að miklu leiti stríddi á móti þeirra inngrónu meiníngum, sem þeir höfðu í uppeldinu inndrúckið; já, sú þecking, sem allt til þessa dags hefir útstaðið skynseminnar skörpustu ransókn, og hvörri

menn ad sönnu hafa mótsagt, en ecki gétad til baka rekid? þessi þecking gát ecki verid verkan þeirra eg-in náttúru-gáfna. Náttúru-gáfurnar géta ecki af sjálfs dádum ordid upplýstar allt í einu, svo ad í hugskotinu upprenni ljós í stadinn myrkurs, sannleiki í stadinn villu. Þessi þecking gat ei heldur komid einúngis af Jesú samtali og uppfrædíngu; vér sjáum, ad þeirra hleypidómar fylgdu þeim til þess Jesús dó; hans greinilegustu og kröptugustu rædur megnudu ecki ad burtdrífa þeirra myrkur. Og hvad-an komu þeim öll þessi hreinu og ágætu hugar-grip, sem allt í einu upplýstu þeirra skilníng? vér hljót-um annadhvört ad forherda oss á móti allri grund-adri sannfæríngu, og hafa öldúngis gleymt sálar-innar seinu gaungu fram til þeckíngarinnar, edur vér hljótum ad trúa, ad Jesú loford hafi uppfyllst á þeim, ad heilagur Andi, sem þeim var heitinn, hafi upplýst þeirra skilníng, og leidt þá í allann sannleika.

Sömu skyndilegu umbreytíngu, sem vér verd-um varir vid í þeirra skilníngi, uppgötvum vér einn-ig í þeirra hjarta. Eg vil einúngis tala um þá hugprýdi, sem þeir létu í ljósi upp frá þessum degi. Ef vér gætum ad Jesú Postulum ádur enn þeir öd-ludust heilagann Anda, hvörsu huglausir vóru þeir strax, sem minnsta hætta var á ferdum? hvörsu hræddir, þó þeir einúngis sæu hættuna álengdar? hvörsu litid þordu þeir ad voga vegna Jesú dýrd-ar? þegar hann er gripinn af sínum óvinum, þá flýja þeir; þegar þeirra játníng útheimtist, afneita þeir honum; þegar hann er krossfestur, byrgja þeir sig innan luktra dyra, svo þeir yrdu ecki fyrir sömu

kjørum; og ef vér gætum ad þeim eptir þennann dag, fáum vikum seinna, hvílíka umbreytíngu, hvílíkann hug, hvílíkann óskélfdann stødugleika finnum vér hjá þeim; þeir sømu Lærisveinar, sem ádur høfdu innilokad sig af hrædslu fyrir Gydíngum, gánga fram opinberlega á medal þeirra og játa Krist. Sá sami Pétur, sem af hrædslu fyrir Gydíngum hafdi afneitad sínum Herra, hann gengur nú fram fyrir þá med trúarbragdanna strídsmerki í hendinni, vitnar um þann krossfesta, en upp aptur risna Krist; leidir þeim fyrir sjónir þeirra blindni og fáfrædi í Spámannanna skrifum; bríxlar þeim um þeirra misgjørníng, ad þeir hefdu krossfest þeirra Messías, og áminnir þá ad tilbidja þann sama Krist, sem þeir høfdu krossfest. Já, þeir hofdu ecki einúngis hug til ad medkénna Krist, heldur hofdu þeir stødugleika til ad innsigla þeirra medkénníngu med þeirra egin blódi. Þetta var ecki skammvinnt uppblossandi hita-kast, sem upptendradist í svip og dodnadi strax aptur; nei, þad var lángvinnur og grundvalladur stødugleiki, sem fylgdi þeim í gégnum húngur, þorsta, kulda, klædleysi, spott, offsóknir, allt til daudans, allt til þess smánarlegasta og qvalrædisfyllsta dauda. Hvar af kom þessi umbreytíng, þessi óskélkada hughreysti, þessi snøgglegu umskipti frá þeirri djúpustu trøppu af hrædslu, til þeirrar hæstu trøppu af hugprýdi? gat þetta verid sálarinnar egid verk? høfum vér nockurt dæmi uppá, ad sálin géti af sínum eginn kroptum á einu augabragdi þannig umskapad sig sjálf? alkunnugt er, hvørsu ómøgulegt þad er þeim hrædslu-gjarna, ad upphefja sig til hetjunnar hugprýdis, og þó þad

væri mögulegt, þá getur það ecki skéð, utan með tímalengd, æfíngu og daglegri umgengni við háskann. Ef vér þess vegna viljum dæma skynsamlega og fylgislaust, þá hljótum vér að trúa, að þessi hetjulega hugprýði hafi verið verkan heilags Anda, með hvörjum þeir, eptir Jesú loforði, áttu að útbúast.

Enn, þessi sami andi, sem útbjó þeirra skilníng með þeckíngu, og þeirra hjarta með hugprýði, hann gaf þeim þaraðauki bæði gáfur til að gjöra krapta-verk, og líka gáfu til að tala framandi túngum. Eg vil seinna tala um það fyrra, hér vil eg einúngis víkja á það síðara. Aldrei getur nockurt krapta-verk verið óefanlegra, eður betur staðfest enn þetta, það var ómögulegt, að nockur svik eða blindni gætu haft stað við þetta krapta-verk. Vér finnum að sönnu að sumir spottuðust að þessum atburði; en það hafa líklega verið Gydíngarnir í Jerúsalem, sem ecki skildu þessi framandi túngumál, þeim hafa heyrst þessar framandi túngur vera eins og óskiljanlegt fugla-qvak. Þeir framandi Gydíngar þarámóti, sem heyrðu þetta, könnuðust við, að þetta var Guðs dásemdar verk. Þeir heyrðu þeirra föðurlands túngumál, þá rak í stans og sögðu hvörr til annars: sjá! eru ecki allir þessir, sem tala, úr Galílæa, hvörninn heyrir þá hvörr einn af oss þá tala vors lands túngumál, þar vér erum inni fæddir? Post. g. b. 1. Til að gjöra þetta mikla krapta-verk því óefanlegra, og undir eins til að útbreiða ryktið þar um þess fljótar um heiminn, hagaði Guðs vísdómur því svo, að þetta krapta-verk til trúarbragðanna staðfestíngar skyldi ské á einni af Gydínganna stór-há-

tídum, á þeim tíma, þá mikill fjöldi af framandi Gydíngum frá lengst burtliggjandi stödum vóru samansafnadir í Jerúsalem til ad tilbidja Jsraels Gud. Gydinganna höfud-borg var nú full af adkomnum Gydíngum frá Parthía, Media, Persía, Mesópótamía, Kappadocía, Pontó, Asía, Phrygia, Egyptalandi, Lybía og Róm. Þessum var ecki vorkun ad géta dæmt um þad, hvört Jesú Postular, væru gæddir þeirri gáfu ad tala framandi túngum, edur ecki; og þeir gáfu þeim þann vitnisburd, ad þeir töludu þeirra lands túngumáli, í hvörju þeir vóru fæddir. Gat þad verid mögulegt, ad nockur blindni hefdi hér stad? er þad mögulegt ad heyra einhvörn mann tala, og vera þó óviss um, hvört hann talar mitt módurmál edur ecki, hvört hann talar þad túngumál, sem eg skil, edur ecki? edur var þessi gáfa hjá Jesú Postulum náttúrleg? var hún útvegud med kunst og ástundun? þad er allt of kunnugt, hvada fyrirhöfn þad kostar, ad læra eingöngis eitt túngumál, og hér vóru svo mörg, sem var hvört ödru ólíkt; því ad arabiskt, grískt og rómverskt Túnga, séu hvör annari ólíkar, vita allir. Hvar ættu Jesú Postular ad hafa lært þær? þeir menn, sem aldrei höfdu farid út yfir takmörk Gydínga-lands; þeir menn, sem til ad útvega sér sitt naudsynlegt lífs uppheldi, höfdu ecki lagt annad fyrir sig enn ródur og fiski-veidar. Þeir, sem lærdastir vóru í túngumála kunnáttunni í þær mundir, skildu þad gríska og rómverska túngumál; en Jesú lærisveinar vóru ecki í tölu þessara lærdu manna. Ad uppruna vóru þeir Galílæar, og ad handverki fiskarar. Hvörsu fráleitt er þá ad hugsa, ad þeir hafi lært þessi

túngumál með náttúrlegum hætti? allt í einu tala þeir svo margar framandi túngur, allt í einu safnast til samans í þeirra minni öll þau teikn, með hvörjum framandi þjóðir géfa til kynna þeirra þánka; allt í einu urðu þeirra túngur og varir mjúkar og liðugar til að minda allt það ýmislega hljóð og úttal, hvar með eitt túngumál ætíð aðskilur sig frá hinu öðru. Ef vér gétum trúað, að allt þetta hafi verið náttúrlegt, þá er ekkért svo fráleitt, að vér ecki gétum trúað því. Og sé þessi gáfa, sem Jesú Postulum var veitt, ecki náttúrleg, þá hlýtur hún að vera yfirnáttúrleg, þá hlýtur hún að vera Guðs Anda verk, sem eptir Jesú fyrirheiti átti að auðsýna sig kroptugann í Postulunum, og útbúa þá með öllum þeim gáfum, sem þeir meðþurftu til að géta með nytsemi staðið í þeirra postullega embætti.

---

Þessi mikli atburður er aptur staðfesting uppá guddómlegann uppruna þeirra kristilegu trúarbragða, og í því tilliti er hann uppteiknaður. Þessa ályktun ættum vér að gjöra, og þessi álylktan er skynsamleg, þar þetta krapta-verk er skéð; þar vér höfum enga orsök að efast um þess sannleika; þar því er svo háttað, að það einúngis gat skéð fyrir Guðs krapt, þá hefir Guðs Andi innsiglað trúarbragðanna sendiboða, þá eru þau trúarbrögð, sem vér tilbiðjum, allt eins guddómleg, sem þetta kraptaverk, með hvörju Postularnir vóru gjörðir hæfilegir til að kunngjöra og útbreiða þau. Sé grundvöllurinn til þessarar ályktunar óyggjanleg, þá hlýt-

ur álpktanin, sem vér drøgum þar af, ad vera allt eins óneitanleg. Ad þetta krapta = verk hafi skéd, vitnar sú frásaga, er hefir þau somu kénni = teikn uppá trúverdugleika, sem nockur ønnur frásaga gét= ur haft; ad þetta dásemdar = verk yfirgángi alla náttúrunnar krapta, og géti einúngis skéd fyrir Guds almættis = krapt, þar um vitna skynsemi og reynsla; álpktanin hér af verdur þess vegna ómót= mælanlega sú, ad Jesú trúarbrøgd, sem Postularn= ir bodudu, hefir guddómlegann uppruna, ad þeir hafi verid innsigladir af Guds Anda, og ad svo vel þeirra munnlegu, sem skriflegu lærdómar hafi verid blásnir þeim í brjóst af heiløgum Anda.

Hvørsu óhult megum vér þá reida oss uppá þeirra lærdóma, á móti øllum þeim efasemdum og mótsøgnum, sem vantrúin og vort égid spillta hjarta uppáfinnur, á móti Ritníngarinnar heiløgu lærdóm= um? þó vér ecki gétum svarad uppá, og med røk= um rekid til baka hvørja eina mótsøgn, sem gjørd er á móti sannleikanum, þá þurfum vér þess ei heldur med, vorum skilníngi til rósemdar. Oss er nóg þegar vér einúngis vitum þetta, ad Postul= arnir hafa kénnt þannig, og ad þessir Læri = fedur hafa verid innsigladir af Guds Anda. Þó vér medal þeirra lærdóma finnum nockra, sem yfirstíga vora skynsemi, nockra, sem vér ecki gétum komid saman vid ønnur sannindi, er vér þeckjum, sem vér þess vegna ecki gétum fullkomlega skilid, þá er oss nóg, ad vér einúngis vitum þetta, ad sannleikstins Andi hefir vísad þeim veginn í øllum þeirra lær= dómum, og ad þeir hafa kénnt þannig, tilknúdir af þessum anda. Meira þurfum vér ecki til ad gjøra

vora skynsemi rósama, á móti øllum efasemdum og mótsøgnum.

En, þó ad vér trúum ad allir lærdómar Jesú Postula, séu verkanir heilags Anda, sem upplýsti þeirra skilníng og stjórnadi þeirra þaunkum, þegar þeir kunngjørdu sannleikann, þá erum vér ecki þar fyrir kristnir, ecki þvílíkir, sem Jesús Kristur vill álíta fyrir sína sanna áhángendur. Þar lærdómur Jesú Postula, er heilags Anda lærdómar, þar þessir Lærifedur eru einúngis sá rennu-stockur, gégnum hvørn þessi lærdómur hefir runnid nidur til vor af himnum ofan, hvørsu dýrmæt ættu þessi sannindi þá ad vera oss? hvørsu vareygdarlega og med hvílíkri lotníngu ættum vér ad hafa þau um hønd? hvørsu gjarnir ættum vér ad vera á ad heyra, og hvørsu fúsir á ad laga vorn lifnad eptir þeim? því ad eins, ad vér breytum eptir þeim, forþénum vér ad heita Jesú sannir tilbidjendur; því ad eins, ad vér breytum eptir þeim, géta þau gjørt oss farsæla. Á sama stendur, hvørt vér erum kalladir Kristnir, Gydíngar, Mahómetanar edur Heidíngjar, þegar sá lærdómur, sem skilníngurinn medtekur, betrar ecki hjartad, og er ecki ávaxtarsamur af dygdugum, ágætum, og kristnum manni verdugum athøfnum. En, þó stendur þad ecki øldúngis á sama; því þess stærri, réttari og grundvallaðri, sem vor þecking er, þess stærri er vor reikníngskapur, þess meira heimtar Gud af oss, meira heimtar hann af oss, heldur enn af Mahómetanum og Heidíngjanum, og hvørsu uggvænt er, ad þegar sá gódi Heidíngi verdur á sídarsta degi settur Jesú til hægri handar, margur hvørr kristinn, sem hefir

verid stolltur af sinni andlegu þeckíngu og fordæmt Heidíngjann, muni finnast vid hina vinstri.

Guds Andi leitast enn nú, med sínum lærdómi, kroptuglegá til vid kristinna manna hjørtu; en vér høfum það. ógæfulega frelsi, ad vér géitum mótstadid Guds Anda, og gjørt hans vidleitni ávaxtarlausa; og því verr! ad vér svo opt misbrúkum þetta frelsi oss til ólucku, þess vegna verdur lærdómurinn ávaxtarlaus hjá svo mørgum. Vér heyrum Guds raust, vér samsinnum henni; en vér gaungum burt og gjørum þvertámóti. Vér heyrum Guds raust, vér lesum hana, og vér hugsum ad vér høfum aflokid allri vorri skyldu, þegar vér einúngis høfum heyrt edur lesid hana; þared þó vor skylda byrjast fyrst hér. Vér heyrum Guds raust, vér lesum hana; en vér heimfærum hana ecki uppá sjálfa oss, heldur uppá adra; vér hugsum almennt, ad vér séum ecki þeir, sem til er talad, vér tøkum þad ecki til vor, og lagfærumst því ecki. Ef vér viljum hafa sannarleg not af lærdómum Jesú Postula, þá megum vér aldrei gleyma því; ad høfud-tilgángur Jesú trúarbragda er betran hugar-farsins. A sídasta degi mun ecki verda spurt ad því, hvad mikid vér høfum vitad, heldur hvad mikid vér høfum gjørt af því, sem vér vissum, og ecki þeir, sem hér í heimi hafa verid hinir vitrustu og hinir lærdustu, heldur þeir, sem hafa verid hinir bestu, hinir dygdugustu, hinir rádvøndustu, munu sídarmeir verda hinir farsælustu.

31. Kap-

# 31. Kapítuli.

## Um Postulanna Kraptaverk.

Fyrir kraptaverk skiljum vér umbreytíngu í náttúrunni, sem annaðhvört yfirgengur, ellegar er þvertámóti náttúrunnar krøptum og hennar løgum, að minnsta kosti á þeim tíma, þegar hún skéður, sem þess vegna ekki gétur skéð nema fyrir Guðs almættis-krapt, er alleinn kann að skipa náttúrunni. Að dauður líkami, sem farinn er að rotna, lifni að nýju, eður að þurr stafur beri blómstur og ávexti, er umbreytíng í náttúrunni, sem ekki gétur skéð af hennar egin krøptum, einnig þó hún hefði hundrað ára frest. Að fíkju-tré visni, að sólar formyrkvan hylji jørðina, það eru umbreytíngar, sem náttúran sjálf gétur framleidt, þegar hún hefir þann tíma, sem þar til útheimtist; en þegar vér sjáum, að þvílíkar umbreytíngar ské á þeim tíma, þegar þær eptir náttúrunnar løgum ekki géta skéð, þá vitum vér, að náttúrunnar Herra hefir verkað hér meðalslaust. Eg segi þess vegna, að kraptaverk sé umbreytíng í náttúrunni, sem ekki gétur skéð af náttúrunnar krøptum, annaðhvørt øldúngis ekki, eður að minnsta kosti ekki á þeim tíma, sem hún skéður. Krapta-verkin raska þess vegna ætíð náttúrunnar reglu, víkja frá hennar løgum, og innleiða umbreytíngar í hlutanna keðju, sem án Skaparans almættis hefðu annaðhvørt øldúngis ekki skéð, eður að minnsta kosti ekki á þeim tíma, ef náttúran hefði látin vera sjálfráð.

Að þvílík krapta-verk séu møguleg, kann enginn um að efast, sem þekkir almætti þeirrar æðstu

veru. Náttúrunnar løg eru ecki í sjálfum sér nauðsynleg; þau eru einúngis tilsett af Skaparans frjálsráðum vilja, sem hefir tilbúið náttúruna eins og hún er, hefir géfið sképnunum þá krapta, sem þær hafa, og hefir þannig sameinað orsakirnar og þeirra verkanir, eins og vér nú finnum þær. En sá, sem hefir sett einhvør log, hann kann líka að upphefja þau, þegar vísdómsfullur tilgángur útheimtir það; sá, sem hefir géfið einhvørri sképnu þessa eður hina krapta, hann kann líka að svipta hana þeim, þegar hann vill. Þar Skaparinn hefir tilsett þessa orðu í náttúrunni, þar hann þó hefði kunnað að tilsetja eina aðra, þá kann hann líka að upphefja þessa orðu, og aptur innleiða aðra, þegar hans vísdómsfulli tilgángur útheimtir það. Þar hann hefir géfið eldinum þann krapt, að hann skuli bera birtu og brenna, þá gétur hann aptur svipt hann þessum krapti, eður hindrað hans verkun. Þar Skaparinn hefir verið nógu almáttugur til að framleiða alla hluti af engu, til að regla, innrétta og samtengja alla hluti þannig, sem vér sjáum þá, svo hlýtur hann líka að vera nógu almáttugur til að gjøra nýjar umbreytíngar í sinni byggíngu, til að upphefja, útvíðka eður lina þau løg, sem hann hefur náttúrunni fyrirskrifað, strax, sem hans vísdómur útheimtir það. Sá, þess vegna, sem neitar kraptaverkanna møguglegleika, hann gjørir annaðhvørt heiminn að guðdómi, hvar allir hlutir eru nauðsynlegir, eilífir, óumbreytanlegir, ellegar hann gjørir Skaparann að endanlegri og takmarkaðri veru, sem sjálf er undirkøstuð náttúrunnar løgum.

Nú mætti einhvørr spyrja: þó að þvílíkar yfir-

náttúrlegar verkanir séu mögulegar, fylgir þá þar af, að þær sannarlega hafi skéð? séu þær mögulegar, þá kunna þær líka að framqvæmast af Guðs almætti, þegar hans vísdómsfullur tilgángur krefur þess; en hvörr er þessi tilgángur; vegna hvörs Guð skyldi verka án, eður þvertámóti náttúrunnar lögum? eg svara hér til; að þar gétur verið tvennslags tilgángur, vegna hvörs Guð kynni að upphefja náttúrunnar lög, og verka meðalslaust bæði yfir og á móti hennar kroptum. Sumpart er það hans almennilega og sérdeilislega stjórnan í heiminum, sumpart staðfestíng þeirra sönnu trúarbragða, og stundum eru máské þessi augna-mið sameinuð hvört við annað. Í fyrra tilliti kunna krapta-verkin að vera hulin fyrir manneskjunum, þar vér eínúngis erum Guðs undirsátar, en ecki hans meðstjórnendur; í síðara tilliti, þegar þeirra tilgángur er, að staðfesta trúarbragðanna sannleika, þá hljóta þau að vera sýnileg, auðsjen og svo á sig komin, að þau ecki einúngis sjáist og þeckist, heldur einnig hljóti að álítast fyrir sannarleg krapta-verk; því hvörninn géta þau annars haft krapt til að sannfæra?

Í því fyrra tillíti, að því leiti, sem þeirra kynni máské viðþurfa í heimsins almennilegu eður sérdeilislegu stjórnun, gétum vér ecki sagt með vissu, hvört ecki ské daglega þvílík kraptaverk í náttúrunni, hvör Skaparinn verkar meðals-laust, og hlýtur nauðsynlega að verka þannig, ef hann skal ná tilgángi sínnar stjórnunar í heiminum. Ef heimurinn væri einúngis sígur-verk, hvörs umbreytíngar fylgðu nauðsynlega hvör á eptir annari

eptir fastsettum hræríngar=løgum, þá mundi þvílíkra kraptaverka ecki viðþurfa í náttúrunni; heimurinn mundi þá, eins og hvørt annað sigurverk framhalda sínum umbreytíngum eptir þeim løgum og krøptum, sem hann einusinni hefði fengið án þess að Skaparans almætti þyrfti að hafa hønd í verki með; það væri nóg, að Skaparinn viðhéldi þessum løgum og krøptum. En, þar skynsemdarfullar og frjálsráðar verur eru líka partar af heiminum, hvørjar ecki eru undirkastaðar þvílíkum ómótstæðilegum løgum; þar gjørvalla náttúran er til vegna þeirra; þar þær svo opt misbrúka þeirra frjálsræði, og fylgja jafnvel ecki skynseminnar løgum; þar þeirra óreglulegu athafnir ná svo víðt út, þá er það møgulegt, að Skaparinn, í þvílíkum heimi, hljóti þess á milli að verka meðals=laust, stundum til að burtrýma vissum óreglum, sem mundu hafa raskað því gjørvalla, stundum til að koma í veg fyrir afleidíngarnar af þeirra fríviljugum athøfnum, hvørjar ecki koma ætíð saman við Skaparans tilgáng; eins og menn þess á milli hljóta að lagfæra það besta sigur=verk, þegar børn eður óvitar hafa aflagað það, og endrum og sinnum færa vísirinn eður hjólin.

Þó þvílík krapta=verk kynnu að ské, hvørju vér með engum røkum gétum neitað, þá er það þó møgulegt, að þau standi í vissu sambandi við náttúrunnar krapta. Vér kunnum með vissum hætti að setja oss Guðs nærveru í heiminum fyrir sjónir, eins og sálarinnar nærveru og verkun í líkamanum. Líkaminn hefir sínar reglulegar og fastsettar hræríngar, sem ské eptir líkamans skapnaði, krøptum og

hræríngarinnar lögum, t. d. lúngnanna, hjartans, slag-æðarinnar og blóðsins hræríngar. En hann hefir líka frívíljugar hræríngar, hverjar að sönnu ské samqvæmt líkamans skapnaði, en hánga þó af sálarinnar frjálsræðum vilja; t. d.: fótanna, handanna, höfuðsins og túngunnar hræríngar. Þessar hræríngar mundu annaðhvört ecki ské, eður ecki ské þannig, á þeim tíma, sem þær ské, ef líkaminn hefði verið látinn vera sjálfráður, og sálin ecki hefði stjórnað honum til þessara hræringa. Að Skaparinn með sama hætti kunni að verka í sínum sképnum, að hann endrum og sinnum kunni að framleiða þvílíkar umbreytíngar í náttúrunni, sem að sönnu ské samqvæmt náttúrunnar lögum, en, sem ecki mundu samt skéð hafa eptir náttúrunnar reglulega gángi, að minnsta kosti ecki á þeim tíma, sem þær ské, ef Guð hefði ecki verkað meðals-laust; að þvílíkt kunni að ské, og máské daglega í náttúrunni, þegar Guðs almennilega stjórnan og hans vísdóms-fulli tilgángur útheimtir það, því gétum vér ecki neitað, eins og vér ecki heldur gétum sagt það með fullkominni vissu. En það gétum vér sagt með fullkomnustu vissu, að mörg sýnileg og þreifanleg krapta-verk eru skéð í heiminum til trúarbragðanna staðfestíngar.

Þvílík krapta-verk hafa sérdeilis skéð á þremur aðgreindum tímum: fyrst á Mósis dögum, þá Guð vildi safna sínu fólki saman í reglulegt stjórnar-stand, og innleiða þá levítisku Guðs-þjónustu á meðal þess. Síðan á Elíæ og hans eptirmanns Elísæi dögum; nú var sú sanna Guðs-þjónusta nærstum því undir lok liðin, svo nafnið var varla

eptir; Afgudunum vóru uppreist ölturu og færdar fórnir; Baal vard Gydínganna Gud; dygd og réttvísi vóru trodnar undir fótunum, á medan ránglætid sat í hásætinu. Til ad stemma stígu fyrir þessari íllsku, sem nú hafdi fengid yfirhönd, sendi Gud sínu fólki Elíam og Elísæum, og til ad færa sönnur á, ad þeir sannarlega væru af honum sendir, lét hann þá gjöra mörg og mikil krapta-verk. Loksins kom Kristur, nýr stjórnunar-máti átti ad innleidast í heiminn, sú levítiska Guds-þjónusta átti med Jesú trúarbrögdum ad aftakast, ljósid átti ad útbreidast um heiminn, og burtreka heidinndómsins myrkur. Hvörninn átti þessi mikli tilgángur ad uppfyllast, þar svo margar og sterkar hindranir settu sig þarámóti? þad hlaut ad ské med krapta-verkum, med hvörjum Jesús stadfesti sína egin og sinna Postula guddómlegu sendíngu.

Þad er óskynsamlegt, ad vilja spyrja, hvört þvílík krapta-verk séu naudsynleg trúarbrögdunum til stadfestíngar? því þar þau hafa ské, þá þurfum vér ecki fleiri röksemdir uppá, ad þau hljóta ad vera naudsynleg; hefdi þetta medal ecki verid naudsynlegt, þá hefdi Guds vísdómur ecki heldur útvalid þad. Svo mikid sjáum vér af reynslunni, ad þetta medal var hentugt og ánægjanlegt, til ad framqvæma þad, sem þad var tilætlad, og ad þad þess vegna var verdugt þeim ædsta vísdómi. Gydíngar vóru svo hlydnir, ad þeir ecki vildu medtaka neinn lærdóm fyrir gudlegann, þegar hann ecki var stadfestur med krapta-verkum, hvar fyrir Kristur segir: **Þegar þér ecki sjáid teikn og stórmerki, þá trúid þér ecki.** Og þess vegna, ef Jesú trúarbrögd

skyldu fá inngáng hjá þessu harðsvírada fólki, þá hlutu þeim að fylgja þvílíkar røksemdir, er þeir á-litu gyldar. Manneskjurnar vóru líka í þær mund-ir, eins og þær eru enn þá, bæði Gydíngar og Heidíngar, að þær framar stjórnuðust af skilníngar-vitunum heldur enn skynseminni, þær hlutu þess vegna að fá þær røksemdir, sem skilníngarvitin genguſt fyrir. Hefðu þeir átt fyrst að ransaka alla trúarbragðanna lærdóma eptir skynseminnar leidar-vísir, áður enn þeir høfnuðu þeirra forfedra átrún-aði og meðtóku Jesú trúarbrøgð, hvørsu margir mundu þeir þá hafa orðið, er hefðu tekið þessa trú? hvørsu fáir eru þeir af alþýðu, er hafa tíma til að leggja sig eptir slíkum ransóknum? og þó þeir hefðu tíma, hvørsu margir eru færir til þess? og þó þeir væru færir til þess, hvørsu margir hafa lyst og nenníngu til að taka sér fyrir hendur slíka eptirgrenslun, sem er svo torveld og svo mæðusøm? að eg ecki tali um, að ógrundaðar meiníngar, sem menn hafa í uppeldinu inndrukkið, eru hjá flestum full-sterkar til að glepja sjónir fyrir þeirri bestu og skørpustu skynsemi, jafnvel þó hana hvørki bristi tíma, krapta né lyst til að grenslast eptir sannleik-anum. Ef að Jesús og hans Postular hefðu ein-úngis með skynsamlegum fortølum átt að ryðja trú-arbrøgðunum veg hjá Gydíngum og Heidíngum, þá mundu þau ecki hafa komist lángt. Aldrei hafa nein ný trúarbrøgð með þessum hætti útbreiðst um heiminn, og aldrei mundu þau géta útbreiðst með þessum hætti, þar minnsti partur af manneskjun-um er fær um að taka á móti skynsamlegum for-tølum, sérdeilis þegar skynsemin á í høggi við inn-

grónar meiníngar. Krapta = verk eru þarámóti hentug til þessa, þar þau tala til skilníngar = vitanna og skynseminnar undir eins; sá einfaldasti getur ályktad þannig, án þess hann þurfi ad mæda sig med lángri ransókn: þessi madur gjørir þau verk, sem yfirgánga náttúrunnar og alla mannlega krapta, og sem einúngis kunna ad gjørast af Guds almættis=krapti, hvored getur skipad náttúrunni og umbreytt hennar løgum, þar hún er hans sképna; þess vegna er Gud í verki med þessum Lærimeistara; þess vegna hljóta hans lærdómar ad vera gudleg sannindi; því sú ædsta vera getur ecki verid í verki med neinum svikara, getur ecki styrkt svikarann med sínu almætti, og steypt þar med sínum skynsemdarfullu sképnum í óumflýjanlega villu. Þessi ályktan er skynsamleg, hún er skiljanleg, allt eins audveld fyrir Bóndann, sem Heimsspekínginn. Reynslan sýnir einninn ad þetta medal var bædi hentugt og ánægjanlegt til ad efla þann tilgáng, sem þad var brúkad til, og meira þarf ecki til ad réttlæta Guds vísdóm í þessu efni.

Vér sjáum nú orsøkina, hvar fyrir Postularnir, sem vóru ætladir til ad innleida þau kristilegu trúarbrøgd medal Gydínga og Heidíngja, vóru, eins og fordum Móses og Spámennirnir, útbúnir med krapta = verka = gáfu, og hvar fyrir krapta = verkin vóru þad innsigli, sem Guds almætti þrykti á sín himnesku sannindi. Og ad þeir hafi gjørt þvílíkt verk, þar um er allt eins lítill efi, sem um Jesú Krists krapta = verk. Kristur lofadi þeim ecki einúngis skømmu ádur enn hann skildi vid þá, ad þeir skyldu ødlast þvílíkar gáfur: þessi eru þau krapta = verk,

segir hann, sem þeir trúudu munu gjøra: í mínu nafni munu þeir útreka anda, tala framandi túngur, taka upp høggorma, og, ef þeir drecka nockud banvænt, skal þad þeim ecki granda; yfir sjúka munu þeir hendur leggja, og þá mun þeim batna, Marc. 16. Heldur kémnir frásagan oss, ad þetta loford hafi vissulega uppfyllst. Vér høfum ad vísu ecki margar frásagnir um krapta-verk Postulanna og þeirra fyrstu kristnu; en vér høfum þó svo margar, sem oss nægja til sannfæríngar. Eg vil ecki tala um, ad Páll, í sínu Sendi-bréfi til safnadarins í Corinthu-borg, vitnar opinberlega til þessara krapta-verka-gáfna, hvar med margir í søfnudinum vóru útbúnir, 1 Cor. 12; hvad hann ecki hefdi vogad, ef þær ecki hefdu sannarlega verid til. Eg vil ei heldur tala um, ad oss væri þad øldúngis óskiljanlegt, hvernig Jesú Postular, þessir lítilmótlegu og einføldu menn, hefdu gétad, án þess ad vera styrktir af þessu medali, haft svo stóran framgáng, bædi á medal Gydínga og Heidíngja, þar svo margar og sterkar hindranir settu sig þó á móti þeirra vidleitni, ad útbreida sannleikann. En Lúcas framfærir einnig í Postula-søgunum adskiljanleg eptirdæmi þessara krapta verka. Pannig læknadi Pétur med einni einustu skipun þann mann, sem hrumur hafdi verid frá módur-lífi, og hlaut ad berast af ødrum, svo ad hann á sama auga-bragdi stód upp og gékk, Post. g. b. 3. Pannig datt Ananías, og sídan kona hans Sapphira daud nidur fyrir fætur Péturs, Post. g. b. 5. Pannig læknadi hann í Lydda einúngis med einu ordi mann, ad nafni Æneas, sem í átta ár hafdi verid sæng-

ur=liggjandi og límafallssjúkur, Post. g. b. 9. Þannig uppvakti hann í Joppe frá daudum konu nockra, ad nafni Tabítha, Post. g. b. 9.

Þessa atburdi uppteiknar Sagnaskrifarinn med þeirri nákvæmni, sem vitnar um þad góda málefni, og ad hann var sannfærdur um sannleikann. Hann segir frá þessu, svo sem um þær persónur, er vóru alkéndar, hann tilgreinir bædi nøfn þeirra, á hvørjum þessi krapta=verk skédu, og líka stadinn, hvar þau skédu. Svo nákvæmlega skrifar ecki sá, sem samansetur lýgi; hann skrifadi þessa frásøgu um Postulanna gjornínga hérum 30 árum eptir Krists himna=før, þá margir af þeim gátu enn þá verid á lífi, sem høfdu verid sjónar=vottar þeirra atburda er hann frá segir. Hvørninn mundi hafa farid, ef hans Theophilus, hvørjum hann tilskrifadi þessa bók, hefdi fyrirspurt sig um þessa atburdi á þeim stødum, sem hér eru tilgreindir, og honum hefdi verid svarad: ad Pétur hefdi engann krypling læknad fyrir musteris=dyrunum; ad enginn Ananías edur Sapphíra hefdu fallid daud nidur fyrir hans fætur; ad enginn, ad nafni Æneas, hefdi verid læknadur af honum; ad engin kona, ad nafni Tabítha, hefdi verid af honum uppvakin frá daudum; fyrir hvílíku spotti mundi Lúcas þá hafa ordid, og hvørsu óyfirvinnanlegar hindranir hefdi hann þá lagt í veginn fyrir trúarbrøgdin, er einúngis kynnu ad vidhaldast med ósønnum frasøgnum. Og ef vér høfum orsøk til ad trúa sannleika þessara frásagna, þá kunnum vér ei heldur af efast um þann guddómlega krapt, sem framqvæmdi þessi verk; því ad lækna þann einúngis med einu ordi á auga=bragdi, sem hrum=

ur hafði verið frá móðurlífi, og þann, sem í 8 ár hafði verið limafalls-sjúkur og legið í kör, það mun enginn skynsamur álíta fyrir náttúrunnar egið verk.

Það er satt, að þegar vér tølum um Pöstulanna krapta-verk, þá viljum vér ecki segja þar með, að þeir hafi gjørt þessi krapta-verk af eginn mætti, eins og Jesús Kristur. Sérhvört krapta-verk er umbreyting í náttúrunni, sem yfirgengur alla náttúrunnar krapta, og einúngis kann að framqvæmast af Guðs almætti; en Skaparinn kann ecki að meðdeila neinni endanlegri skepnu sitt almætti; að vera endanlegur, og þó almáttugur, mótsegir sér sjálft. Þess vegna, þegar sagt er um Postulana, að þeir hafi gjørt krapta-verk, þá á það svo að skiljast, að Guð hafi sameinað sitt almætti við þeirra útvortis athafnir; þeir vóru ecki sjálfir krapta-verka gjørendur, heldur einúngis meðals-persónur við hvílík krapta-verk; þar fyrir tilreikna þeir aldrei sjálfum sér þessi verk. Þess vegna sagði Pétur, þá hann hafði læknað þann fyrir musteris-dyrunum, sem krummur hafði verið frá móðurlífi: Þér Israels menn! hvar fyrir undrist þér yfir þessu? eður hvar fyrir stárið þér á oss, eins og vér af eginn krapti eður heilagleika hefðum gjørt þennann gángandi. Abrahams og Isaaks og Jacobs Guð, vorra feðra Guð hefir auglýst sinn Son Jesúm, hvørn þér ofurseldud og afneitudud fyrir Pilató, þá hann fríkénndi hann. Þér afneitudud þeim heilaga og réttláta, og beiddust að manndráparinn skyldi yður géfast; en lífsins høfðíngia aflífuðuð þér, hvørn Guð hefir uppvakið frá dauðum, þar erum vér

vottar að. Og fyrir trúna á hans krapt, hefir hans kraptur styrkt þennann, hvørn þér sjáið og þekkið, Post. g. b. 3. Eins þegar Pétur læknaði þann limafallssjúka Æneam, talaði hann þannig til hans: Ænea! Jesús Kristur gjöri þig heilbrygðann, statt upp og búðu um rúmið þitt, Post. g. b. 9.

Postularnir tilreiknuðu þess vegna ecki þeirra krapta-verk þeirra eginn, heldur Guðs krapti, sem var í verkinu með þeim; og þar Guðs kraptur verkaði með þeim, þá eru þessi dásemdar-verk einnig ánægjanleg røksemd uppá sannleika þeirra trúarbragða, sem þeir hafa boðað heiminum. Aðaltilgángur Postulanna krapta-verka var enginn annar enn sá, að þeir vildu opna lærdóminum inngáng í tilheyrendanna hjörtu, koma þeim til að trúa þeirra kénníngum og sannfæra um þeirra guddómlegu sendíngu. Þar fyrir vitnuðu þeir ætíð til þeirra krapta-verka, þau vóru það guddómlega innsigli, sem þeir þryktu á þeirra lærdóma til merkis, að þeir væru af himnum komnir. Eg vil gjöra við, að þeirra lærdómar ecki hefðu verið guddómlegir, ecki verið himneskir, þá hefðu þeir verið svikarar, sem með raungum framburði hefðu einúngis leitast við að pretta heiminn, og það með því meðali, hvar með hann naudsynlega hlaut að prettast. Kunni Guð þá að vera í verki með þvílíkum svikurum? kunni hann að ljá þeim sitt almætti til að framqvæma svo ógudlegann tilgáng, hvar með ótal manneskjur með ómótstæðilegum hætti niðursteyptust í villu? hvaða þánka mundum vér þá géta gjört oss um hans heilagleika, gæðsku og kjærleika? edur þó

þeir hefdu ecki verid svikarar, þó þeir sjálfir hefdu ályítid þeirra villu fyrir sannleika, og í bestu meiníngu leitast vid ad útbreida hana, þá hefdi þad samt engu ad sídur verid villa, og hvørninn hefdi þá sú ædsta vera, uppspretta alls sannleika, kunnad med sínu almætti, ad þrycja sínu innsigli á þessa villu, og gésa þar med mannlegum draumnum álit himneskra sannínda? þetta er svo fráleitt, ad vér án þess ad útlista þessa røksemd meira, kunnum strax ad gjøra þá óhultu og óyggjanlegu álycktun, ad þar Postulanna krapta-verk vóru guddómleg, þá hljóta líka allir þeirra lærdómar ad vera guddómlegir; því þeirra lærdómar og þeirra krapta-verk vóru svo náqvæmlega sameinud, ad annadhvørt hlýtur hvørttveggja ad vera ósatt og uppdiktad, ellegar hvørttveggja hlýtur ad vera satt og himneskt.

---

Þared Gud hefir látid sér svo annt og umhugad vera ad rótfesta og útbreida trúarbrøgdin, þá sjáum vér þar af, hvørsu vigtug og naudsynleg þau hljóta ad vera fyrir manneskjurnar, þar sá alvísi Gud hefir svo opt raskad náttúrunnar ordu og þeim løgum, sem hann hefir henni sett, til ad sannfæra heiminn um þeirra guddómlega uppruna, hvørsu vigtug hljóta trúarbrøgdin þá ad vera, og hvørsu straffs-verdir erum vér, þegar vér ecki brúkum þessa himnesku gáfu eptir gjafarans tilgángi, edur høfum hana ecki um hønd med þeirri virdíngu og lotníngu, sem svo guddómleg sannindi af oss heimta?

Ef vér ecki viljum medtaka þær røksemdir, sem ádur eru géfnar til trúarbragdanna stadfestíngs-

at, þá kunnum vér ecki ad vænta fleiri. Þad væri ofdyrfska ad vilja heimta þær, og merki til þess, ad vér ecki þeckjum vísdóm þeirrar ædstu veru, ef vér ætlumst til þeirra. Eptir sínum vísdómi kann Gud ecki ad framqvæma neitt medalslaust, þar sem ánægjanleg medöl eru til ad efla hans tilgáng. Ný krapta-verk, trúarbrøgdunum til styrkíngar, væru á vorum døgum ónaudsynleg; þar þau eru studd af svo morgum røksemdum, ad þau í øllu tilliti eru verd ad medtakast af hvørjum skynsømum manni, sem ecki er blindadur af illgirni edur inngrónum raungum meiníngum. Þau krapta-verk, sem ádur hafa gjørd verid, hafa enn þá þann sama krapt til ad sannfæra skilnínginn, þar þau eru í rit færd af þeim mønnum, sem hafa øll kénnimerki til þess, ad þeir segi satt. Vér þurfum þess vegna ecki vid nýrra kraptaverka til ad sannfærast; hér á þad heima, sem Kristur segir: ef þeir ecki hlýda Mósi og Spámønnunum, þá mundu þeir ecki heldur trúa, þó nockurr upprisi frá daudum, Lúc. 16. Vér megum þess vegna maklega álíta alla þá fyrir svikara, sem enn nú tala um ný krapta-verk til trúarbragdanna stadfestíngar, þar vér vitum, ad Gud eptir sínum vísdómi, ecki kann ad gjøra neitt ónaudsynlegt, edur ad þarfleysu raska náttúrunnar ordu og hennar løgum. Ad þenkja ødruvísi er ecki trú, heldur hjá-trú.

Þad er ecki sídur hjá-trú, þegar vér í vorum tímanlegum efnum væntum kraptaverka, í stadinn fyrir ad brúka þau náttúrlegu medøl, sem Gud hefir oss í hendur fengid. Þegar vér t. d.: til ad

afvenda einhvørju íllu, grípum til þeirra medala, sem í sjálfum sér ecki hafa neinn krapt til ad koma því til vegar, sem vér brúkum þau til. Sérhvør verkan hlýtur ad hafa orsök, og þessi orsök hlýtur ad vera ánægjanleg til ad framleida þá verkun, sem til er ætlad. Ad viss grøs, þegar þau eru brúkud, géti skadad manneskjuna, ad ønnur géti læknad hana, þad gét eg skilid, þó eg ecki gløggt sjái, hvørninn þau verka; en þad gét eg ei skilid, hvørnin viss ord edur látædi, géta gjørt manni nockud íllt, edur fríjad hann frá því; eg skil miklu framar, ad þvílíkt er ecki møgulegt, því eg finn eckért samanhengi á milli orsakarinnar og verkunarinnar. Ad hugsa, ad látædi, ord, óskir, blessan edur bølbænir dragi nockra verkun eptir sig, er hjá-trú.

Ef vér viljum vera óhultir fyrir þessari saurgun, sem er svo vanvyrduleg fyrir vora vitsmuni, og svo skadleg fyrir vort hugar-far, þá hljótum vér ad kosta kapps um ad þeckja náttúruna og hennar krapta. Þetta þeckíngarleysi var þad, sem á fyrri tímum gat af sér hjátrúna. Þess vegna héldu menn, ad halastjørnur bodudu stórar land-plágur, og meinlausar lopt-sjónir væru himinsins reidi-teikn; þess vegna gjørdu menn sér í lund, ad margt hvad hefdi heimuglega og yfirnáttúrlega krapta, sem þó verkadi øldúngis náttúrlega; þess vegna héldu menn allt þad yfirnáttúrlegt, sem menn ecki gátu strax skilid. Vilji madur þess vegna vakta sig fyrir þessari hjátrú, þá hlýtur madur ad læra ad þeckja náttúrunnar krapta, og því betur vér þeckjum þá, því hægra munum vér

ega med ad sjá, ad allmargt, sem vorir forfedur hafa álitid yfirnáttúrlegt, hefir øldúngis náttúrlegar orsakir; en aldrei munum vér komast svo lángt í náttúruspekinni, ad Jesú og hans Postula kraptaverk verdi útskírd af náttúrlegum røkum. Þessi verk eru oss enn þá allt eins óskiljanleg, sem þau vóru þeim, er á þau horfdu, jafnvel þó vér séum miklu lengra áleidis komnir í þeckíngu náttúrunnar.

En skuli þessi hjá-trú nockurn tíma upprætast, þá hlýtur þad ad byrjast í úngdœminu, þá hljóta menn ad hafa vakandi auga yfir því, ad þetta eitur ecki smeygi sér inn í sálina á medan hún er enn þá ofveik til ad standa á móti þess skadlegu verkunum. Unglíngar mega ei heyra neinur frásøgur um vofur, drauga, galdra, drauma edur þesshattar. Børnunum þykir ætíd gaman ad heyra þesshattar hluti, þeir festa djúpar rætur í hugskotinu og verda óútsléttanlegir. Þegar skynsemin seinna meir er búin ad ná fullum þroska, þá verdur madur annadhvørt fastheldinn vid þær skadlegu meiníngar, sem madur hefir fyrst inndruckid, edur madur, til ad losa sig vid þessi skammarlegu fjøtur, fellur allt í einu frá hjá-trú til vantrúar, og trúir nú engum hlut framar, þar hann ádur trúdi øllum hlutum.

## 32. Kapítuli.

### Um Postulanna Píslarvætti.

Menn framfæra almennt Postulanna píslarvættis dauda, sem roksemd uppá trúarbragdanna guddómlega sannleika, og þessi røksemd er grundud,

þegar hún er rétt brúkuð. En áður enn vèr brúkum hana, hljótum vèr fyrst að gjöra skil fyrir því, að Jesú Postular hafi verið sannir píslar-vottar; því opt finnast bæði sannir og falskir píslar-vottar. Heiðíngjarnir hafa einnig hafi þeirra píslarvotta; þau sönnu trúarbrögð hafa einnig haft þvílíka, sem ecki kunna að reiknast á meðal þeirra sönnu. En þó þar finnist falskir píslar-vottar, þá fylgir ecki þar af, að allir sèu það; þó nockrir hafi gèfið út þeirra líf vegna villunnar, þá fylgir ecki þar af, að Kènnendanna píslarvættis dauði gèti aldrei verið gyld røksemd uppá lærdómsins sannleika. Þar finnast kènniteikn, með hvørjum þeir sönnu og følsku píslarvottar verða aðgreindir hvørr frá øðrum, og þessi kènniteikn vil eg fyrst framsetja.

Það er møgulegt að leggja lífið í sölurnar til að forsvara villuna, þegar menn hafa þá von, að þeirra nafn muni æfinlega uppi vera hjá eptirkomendunum vegna slíks hetjulegs dauða. Uppá þvílíka píslar-votta, ef þeir annars forþèna þetta nafn, hafa menn nóg dæmi, einnig meðal heiðinna manna, og ecki þarf að undrast yfir, þó þvílík dæmi finnist, þegar menn á aðra síðuna aðgæta þá hølðlegu þánka, sem þeir gjørðu sèr um það eptirkomanda líf, og á hina síðuna þann lofstýr, sem þeir þar með útvegaðu sèr hjá þeim eptirlifandi. Þeim veitti ecki svo torveldt, að þola fárra augna-blika qvalir til að ná tveimur svo tillockandi augnamiðum, af hvørjum einúngis annað gat náðst með náttúrlegum dauða.

Það er møgulegt, að uppeldis hleypidómar

géti útbrynjad mann med hugar=hreysti til ad deyja fyrir ósønn trúarbrøgd. Allir vita hvada makt þessir hleypidómar hafa yfir mannsins skynsemi. Þau trúarbrøgd, sem vorir forfedur hafa haft, og hvør vér líka sem høfum inndruckid med módur=mjólkinni, þau álitum vér optast fyrir sønn, án þess ad prófa þau. Vér finnum þess vegna ecki allfáa, sem heldur hafa lagt lífid í sølurnar, enn afneita þeirra forfedra trúarbrøgdum, í þeirri von, ad þetta mundi þeim í hinu ødru lífi verda ríkuglega endurgoldid, og þvílíka finnum vér medal Indían=iskra, Mahómetiskra, allt eins vel sem á medal Kristinna.

Loksins kann sá svo kalladi Enthúsíasmus ad vera uppsprettan til þess hetju=móds, med hvør=jum madur, jafnvel fyrir raung trúarbrøgd, kann ad leggja líf sitt í sølurnar. Þessi sinnis=veiki, hvøred til adgreiníngar frá annari af sømu teg=und, kann ad kallast sá andlegi edur trúarbragd=anna Enthúsíasmus, er þar í innifalinn, ad mad=ur ímindar sér, ad Gud verki yfirnáttúrlega med honum og í honum. Heitur og upptendradur ímind=unar=kraptur málar fyrir hans áugum missýníng=ar, inngéfur honum, eptir hans meiníngu, opinber=anir, ósidvanalegar, gladar hugar=hræríngar, hvørjar hann álítur fyrir himneska, sterka og ó=mótstædilega upphvatníng, til ad tala edur gjøra eitthvad frábrugdid. Því þægilegri, sem þessar ímindunar=kraptarins verkanir eru, þess stærri verdur laungunin eptir þeim, og því meir, sem laung=unin eptir þeim ver, þess meira aukast þær. Menn virda þessar sjónir svo lengi fyrir sér í huganum

med lyst og ánægju; menn endurnýja svo opt þánk-ann um þær, að þær magnast meir og meir, og lokfins ekunst vér ecki um, að allt sé svo í raun og veru, sem oss sýnist. Af þvílíkum spilltum ímindunar-krapti kann manneskjan, sérílagi þegar annara eptirdæmi hjálpa til, auðveldlega að leiðast til þess, að hún líður heldur þær grimmustu qvalir, enn að hún meðkéuni að, þessar sjónir séu heimska.

Þessar eru orsakirnar til þess falska píslar-vættis-dauða, stollt eður rángar meiníngar í uppeldinu inndrucknar, eður Enthúsíasmus. Eg vil ecki neita, að bæði á fyrri og seinni tímum hafi verið margir kristnir, sem tilknúðir af einni eður annari af þessum orsökum, hafa fúsir og glaðir lagt lífið í sölurnar, til að gánga ecki frá trú sinni. En kunnum vér að géta þessa til um alla? kunnum vér með nockrum rökum að géta þess til um Jesú Postula? og þeir eru það einúngis, sem eg hér um tala. Oss má ríða á litlu, hvað alla aðra kristna hefir dregið til að deyja fyrir þeirra trúarbrögð, þegar vér einúngis erum sannfærðir um, að upp-sprettan til Postulanna píslarvættis dauða, hefir verið hrein og ómeinguð.

Hjá Jesú Postulum var það ecki stollt, ecki tillockandi von um að gjöra þeirra nafn ódauðlegt hjá eptirkomendunum, sem kom þeim til að géfa út þeirra líf fyrir þau trúarbrögð, sem þeir boðuðu heiminum. Það gétum vér skilið, að þeir menn, sem með þeirra lærdómi hafa útvegað sér stórt nafn í veröldinni, kunni að ætlast til að géfa þeirra áliti enn þá fegri glansa hjá eptirkomendunum, þegar þeir með hetjulegum dauða innsigla þeirra

lærdóm, og heldur vilja láta lífið enn lærdóminn; en fyrir Jesú Postulum var því ecki þannig varið. Þeir boðuðu Krist, fyrir hvørs nafns sakir þeir vóru offóktir af Gyðíngum, og hæddir af Heiðíngjum. Páll játar: að þeir fyrir Krists sakir væru orðnir að skoðunar-spili fyrir heiminum, fyrir englum og mønnum, að þeir væru orðnir eins og skarn í heiminum. og allra skó-þurka, 1 Cor. 4. Hvørninn gátu þeir þá vænt, að þeir mundu útvega sér stórt nafn í veroldinni, þó þeir dæu fyrir þann lærdóm, sem var forakaður? því, þó þeir undir bøðuls-hendinni mistu lífið, eins og óbóta-menn, þá gat það ecki gjørt þeirra dauða æruverdari á meðal mannanna, heldur enn þeirra líf var. Þar þeir vóru foraktaðir í lífinu, hvørsu miklu framar hlutu þeir að vera það í dauðanum?

Allir vita og, að trúarbragðanna og uppeldisins hleypidómar hafa allt eins lítið verið orsøk til þeirrar hugprýði, með hvørri þeir gengu út í dauðann fyrir þeirra trúarbrøgð. Þetta kynni máské að segjast um nockra af þeim píslar-vottum, sem á annari og þriðju øld létu lífið vegna trúarbragðanna, hvørjir fæddir vóru af kristnum foreldrum; hér kynnu uppeldis hleypidómar máské að hafa gjørt mikið að verkum. En þetta kann ecki að segjast um Jesú Postula. Þeir vóru uppaldir í þeim trúarbrøgðum, sem vóru þeim kristilegu øldúngis gagnstæð; þeir dóu ecki fyrir þeirra forfeðra trúarbrøgð, heldur fyrir annarleg. Þeir løgðu fyrst niður þeirra gømlu og af þeirra elli æruverðu trúarbrøgð, til að taka á móti Jesú Krists trúarbrøgðum, og

síðau løgðu þeir lífið út fyrir þessi nýju, sem þeir høfðu meðtekið.

Ecki heldur gétum vér leidt oss í hug, að blindur ákafi hafi verkað hjá þessum trúarbragðanna hetjum. Vér finnum ecki hjá Postulunum þá eginlegleika, sem vanir eru að fylgja þessari sinnishræríngu; að þessi sinnisveiki hafi hjá sumum á seinni tímum gjørt meira að verkum enn grunduð sannfæríng, þar á er enginn efi; þess vegna finnum vér í sagna-bókunum, að sumir, sem af rasandi ráði hlupu sjálfir út í dauðann, stóðust ecki píslirnar, heldur spottuðu sannleikann, og afneituðu þeirra trúarbrøgðum til að frelsa lífið. Hjá Jesú Postulum finnum vér það ecki. Sá, sem hefir þessar heila-grillur, álítur þær fyrir guðlegar opinberanir; og þessar grillur eru allt eins heimskulegar og fráleitar, sem ímindunar-krapturinn, er gétur þær af sér. En hvaða óreglu finnum vér í þenkíngar-hætti Jesú Postula, sem géfur til kynna, að þeir hafi verið haldnir af slíkum heila-grillum? aldrei munum vér géta komið með einúngis einn af þeirra lærdómum, sem með réttu kann að álítast, sem afqvæmi aflagaðs ímindunar-kraptar. Þegar þeir framsetja trúarinnar lærdóma, þá er þeirra kénníng greinileg og sannfærandi; þegar þeir tala um lífernis skyldurnar, þá heimta þeir eckért meira af manneskjunum, heldur enn samqvæmt er skynsemi, samvitsku og góðum siðum, og þeirra krøfur eru bygðar á sønnum grundvelli; þegar þeir segja frá Krists dásemdarverkum, þá skrifa þeir tilgjørðar- og viðhafnarlaust. Hvørki þeirra lærdómur né lærdóms-máti géfur þess vegna til kynna neitt það, sem finnst hjá

enthúsíastiskum manni. Svo sem Enthúsíastinn er trubladur í skilníngínum, svo er hans hjartalag ecki heldur betra, brádlyndur í gédsmunum sínum, hefndargjarn vid óvini sína, beiskluñdadur vid alla þá, sem ecki vilja fallast á hans meiníngar. Hjá Jesú Postulum sinnum vér gagnstædann þenkíngar-hátt. Þeir neyddu ecki þeirra tilheyrendur til ad medtaka þeirra lærdóm, þeir heimtudu miklu framar, ad þeir skyldu prófa hann, ádur enn þeir medtækju hann; í allri sinni hegdun vid þeirra mótstödumenn vóru þeir medaumkunar-samir, hógværir, kjærleiksfullir, audmjúkir, lítillátir. Páll segir um sig og hina adra Postulana: þegar vér erum hrakyrdtir, blessum vér; þegar vér erum ofsóktir, lídum vér þad þolinmódlega; þegar vér erum spottadir, þá áminnum vér, 1 Cor. 4. Enthúsíastinn hleypur sjálfur út í háskann, framknúdur af falskri ákéfd; Jesú Postular flúdu hættuna, svo lengi þeir gátu, og gengu þá hid fyrsta med stöduglyndi út í daudann, þegar ómögulegt var ad flýja. Vér finnum þess vegna hjá Jesú Postulum ecki einn einasta af þeim egiulegleikum, sem eru kénnimeikn Enthúsíastans, heldur finnum vér þad, sem er þvertámóti; af hvada rökum skyldum vér þá hugsa, ad þessar trúarbragdanna hetjur hafi verid Enthúsíastar?

Eg vil taka til einn af Jesú Postulum til ad upplýsa þetta: allir þeckja Postulann Pál, hans lærdóm, hans lærdóms-máta, hans sinnislag, hans fyrra lifnad, ádur enn hann vard kristinn, og tækifærid til hans aptur-hvarfs. Allir vita, ad Páll var ad uppruna Gydíngur, af Pharíséanna flocki,

og þess vegna svarinn óvinur Krists og hans lærdóms. Hann dó þess vegna ecki fyrir trúarbrøgd sinna forfedra, heldur fyrir annarleg, sem hann ádur hafdi med grimmilegasta hætti offókt. Allir vita líka, og sérhvørr réttsýnn dómari hlýtur ad játa, ad þessi mikli Póstuli ecki var tældur til ad skipta um Gydínganna trúarbrøgd fyrir þau krístnu; heldur ad hann hid fyrsta eptir hina sterkustu og greinilegustu sannfæríngu hvarf frá gydínga-dóminum til kristinndómsins. Bædi var þessi Postuli lærdur, skarpur, og í sínu óumvendta tilstandi, eptir þeirra tíma hætti, mikid upplýstur madur, sem audveldt er ad sjá af þeim skrifum, sem hann hefir eptir sig látid; þad var þess vegna ecki svo hægt ad pretta hann; og líka var hann ákafur ofsóknari þeirra krístnu, þar þurftu þess vegna meira enn ordin tóm til ad sefa hans offóknar-anda, og yfirtala hann til ad umfadma þau trúarbrøgd, sem hann af øllum kroptum leitadist vid ad uppræta; og loksins var tækifærid til hans apturhvarfs svo markverdugt, ad allir prettir vóru ómøgulegir. Rétt í því hann ætladi ad úthella allri sinni hefnd yfir þá krístnu, sá hann skyndilega ljós af himni, og heyrdi raust, sem taladi greinilega til hans. Páll ansadi. Hann heyrdi sídan þessa raust í annad sinn. Hann ansadi aptur; og nú heyrdi hann Guds raúst í þridja sinni, eptir hvørja himneskú sjón, hann vard yfirfallinn af blindni, sem varadi í þrjá daga, Post. g b. 9. Hér gátu engir prettir hast stad; med sínum egin eyrum heyrdi hann þessa raust, og þad optar enn einusinni; med sínum egin augum sá hann þetta ljós, og blindnin, sem varadi í þrjá

daga, hlaut að sannfæra hann um, að allt þetta hefði hvørki verið þrettir eða misfýníngar.

Það var þess vegna af grundvallaðri sannfæríngu, að Páll skipti um Gyðínganna trúarbrøgð fyrir þau kristilegu. Og hvør var orsøkin til þeirrar hugar-hreysti, hvar með hann forsvaraði þau allt til dauða-dags? var það sú sama sannfæríng, sem kom honum til að fallast á þau, eður var það máské stollt? var það Enthúsíasmus? mun það máské hafa verið stollt? mun hans tilgángur hafa verið, að gjøra sig þar með nafnfrægann hjá eptirkomendunum? ef vér gætum að hans fyrri líferníshættum, þá sjáum vér að hann leitaði sinnar æru í því, að ofsækja þá kristnu með báli og brandi. Hvørninn gat hann nú á einu augna-bragði umbreytt sínum þenkíngar-hætti og leitað sinnar æru í því, að hann sjálfur væri ofsóktur fyrir Krists nafns sakir. Nei, vér sjáum miklu framar af øllum Páls sendibréfum, að þó hann áður hefði verið stolltur, þá høfðu þau kristilegu trúarbrøgð nú gjørt hann auðmjúkann. Hvørr er Páll, segir hann, hvørr er Appolló, utan þénarar, fyrir hvørja þér eruð komnir til trúarinnar, og það eptir því, sem Guð hefir útskipt hvørjum einum? eg hefi plantað, Appolló hefir vøkvað; en Guð gaf ávøxtinn, 1 Cor. 3. Þessi mikli Postuli afleggur þann auðmýkjandi vitnisburð um sjálfann sig: eg er minnstur allra Postulanna, og ecki verður að eg skuli Postuli heita, vegna þess eg ofsókti Guðs søfnuð. En af Guðs náð er eg, það eg er, og hans náð við mig hefir ecki til ónýtis verið; því eg hefi erviðað meir enn allir hinir, þó ecki eg,

heldur sú Guðs náð, sem með mér er, 1 Cor. 15. Mér, segir hann í öðrum stað, hinum allra minnsta af öllum heilögum er gèfin þessi náð, að kunngjöra meðal Heiðíngjanna Krists óransakanlega ríkdóm, Eph. 3. Og hvörsu margar þvílíkar greinir mætti ecki framfæra, ef þörf gjörðist, er fullkomlega sannfæra oss, að þó stollt hefði verið Páls hefuð-brestur í hans óumvendta tilstandi, þá vóru Jesú trúarbrögð búin að leiða hann nú til lifandi þeckíngar síns óverðugleika og lítilmótlegleika. Það var þess vegna ecki stollt, ecki von um að útvega sér heiður, sem gjörði hann svo stöðugann í öllum þeim harmqvælum, sem hann hlaut að þola fyrir trúarbragðanna sakir; þessari tilhneigíngu hefði hann lángtum betur gètað fullnægt í sínu föðurlandi með því að offækja þá kristnu, enn með því að láta offækja sjálfann sig.

En mun það þá hafa verið Enthúsíasmus, sem gjörði hann svo hughraustann í öllum hans ofsóknum? sú grunsemi kann einúngis að qveikjast hjá þeim, sem ecki þeckir Pál, sem aldrei með tilbærilegu athygli hefir lesið hans sendi-bréf. Finnum vér hjá Páli nockur af einkénnum Enthúsíastans? finnum vèr hjá honum þá áðurnefndu óreglu í skilnínginum og sinnislaginu, eður finnum vér ecki Pál allstaðar, sem djúpt þenkjandi, kjærleiks-fullann, siðvann og forsjálann mann? hvörsu djúpsæra og sterka greind, og hvörsu mikla hlífð við hans mótstöðumenn finnum vér allstaðar í hans sendi-bréfum? hvörsu mikla forsjálni brúkar hann ecki, þegar hann er leiddur fyrir Yfirvaldið, til að umflýja ofríki sinna mótstöðu-manna, svo lengi, sem

leyfilegt var ad umflýja þad? Lúcas hefir, í Postulanna=gjørníngum, gefid ofs eptirdæmi þar uppá, þau eru alkunnug, og þarf eg því ecki ad framfæra þau. Er þetta Enthúsíastans hegdan? og hvad hefir þá styrkt huga hans í øllum lífsins harmqvælum? hvad hefir gjørt hann hug=hraustann til ad gánga út í daudann fyrir þau trúarbrøgd, sem hann ecki hafdi í arf tekid eptir sína forfedur? óneitanlega eckért annad, enn sú sterka og grundvallada fullvissa, sem hann fann hjá sér um sannleika lærdómsins, sem hann vídurkénndi, og von þeirrar eptirkomandi farsældar, hvar hann vænti launanna fyrir sína nærverandi mædu. Þess vegna segir hann einnig: eg held, ad mótlæting þess nærverandi tíma, séu ecki aktandi á móti þeirri dýrd, sem vid ofs mun opinber verda, Róm. 8; og í ødrum stad: vorar nærverandi hørmúngar, sem eru léttar, útvega ofs eilífa yfirmáta vigtuga dýrd.

Enginn réttsýnn dómari þarf eitt augnablik ad hugsa sig um, hvørt hann eigi ad telja Pál med þeim sønnu píslar=vottum, og þad sem eg hefi sannad um hann, er allt eins audveldt ad sanna um hina adra Postulana, ef þess gjørdist þørf. En hvada skynsamlega álýktun skulum vér þá draga hér af? vér erum án efa of brád=dæmir, þegar vér álýktum þannig: Jesú Postular hafa gefid út þeirra líf fyrir trúarbrøgdin, þeir hafa innsiglad þau med þeirra blódi, þess vegna hljóta trúarbrøgdin ad vera guddómleg. Þessi álýktan er of brádlát. Af þeirra gladværa og hughrausta píslarvættis dauda, getum vér ecki dregid adra álýktun enn þessa: Jesú Postular dóu fyrir þann lærdóm, sem þeir bodudu

heiminum, þess vegna hljóta þeir sjálfir að hafa álitið þennann lærdóm fyrir guðleganu, þess vegna hafa þeir fundið hjá sér þá sterkustu fullvissu að hann væri það. Þessi ályktan er skynsamleg, eður vér hljótum að öðrum kosti að álíta Jesú Postula fyrir þá allra óskynsömustu af öllum mönnum, og það vóru þeir þó ekki, það hefi eg áður sýnt. Að láta lífið fyrir þann lærdóm, sem þeir sjálfir álitu fyrir villu, hefði verið þvílík fásinna, sem menn varla geta ímindað sér, í það minnsta ekki hjá Jesú Postulum, hvörjir, eins og eg hefi áður sannað, framknúðust hvörki af uppheldis hleypidómum, stollti né Enthúsíasmó. Þess vegna hafa Jesú Postular verið hreinskilnir menn, þess vegna hafa þeir að minnsta kosti trúað því sjálfir, sem þeir kénndu, þar um vitnar sú rósemi, sú hughrýði og gleði, hvar með þeir gengu í dauðann fyrir lærdómsins skuld. En var þá þeirra fullvissa á grundvelli byggð? þetta er eitt annað spursmál, sem fyrst verður uppá að svara, áður enn þeirra fullvissa gétur orðið að vorri. Því var það ekki mögulegt, að þeir kynnu að álíta villu fyrir sannleika, þeir hefðu þá dáið fyrir villuna, og verið þó engu að síður hreinskilnir menn. Vér megum þess vegna maklega spyrja: hvörr var grundvöllurinn til þessarar stöðugu og óhræranlegu fullvissu, sem ekki veiktist hjá þeim, þó þeir sæu þann smánarlegasta dauða fyrir augunum? það vóru viss verk, vissir atburðir, að hvörjum þeir sjálfir höfðu verið sjónar-vottar. Það vóru Jesú Krists krapta-verk, hans upprisa, hans himna-för. Þessa miklu atburði höfðu þeir séð með þeirra egin augum, og þar í gátu þeir

ecki farid villt; því þeim var öllum svo háttad, ad hér gátu engir prettir stad haft. Þessir miklu atburdir sannfærdu þá um Krists guddómlegu sendíngu, og þess vegna líka um sannleika allra hans guddómlegu lærdóma; þess vegna vóru þeir svo fúsir ad leggja sitt líf í sölurnar fyrir þau sannindi, sem þeir höfdu lært af Kristi, og sem þeir bodudu heiminum. Þeirra píslarvættis daudi er þess vegna sú sterkasta röksemd, ad þessi verk hafi sannarlega skéd, því á þeim var þeirra fullvissa byggd;og hafi þessi verk sannarlega skéd, þá drögum vér af þeim þá sömu óyggjanlegu álykun, sem Postularnir gjördu: Jesús Kristur er guddómlegur sendi-bodi, allir hans lærdómar eru gudleg sannindi, og vér megum óhult reida oss uppá þá. Med þessum álygtunar-máta gétur Postulanna píslarvættis daudi verid röksemd fyrir sannleika þeirra kristilegu trúarbragda.

---

Pared Jesú Postular hafa svo gladir og svo hughraustir lagt út þeirra líf fyrir Jesú nafns sakir, þá er þad líka vor skylda, ad géfa út vort líf, þegar Guds dýrd útheimtir þad. Þad er audveldt ad vera kristinn, þegar oss kostar þad ekkért; þad er enginn kunst, ad heidra trúarbrögdin, á medan madur í fridi og rósemi má heidra þau, og madur þarámóti mætti afneita þeim strax, sem hörmúngar og ofsóknir uppá koma fyrir þeirra sakir. Þó vér medkénnum Krists nafn, þegar engin hætta er á ferdum, þá er þad veik röksemd fyrir því, ad vér séum sannir Jesú Krists tilbidjendur; en ef

vér ættum að verða fyrir sverði og eldi vegna sannleikans, þá mundi það sýna sig, hvað marga sanna vini hann hefði á meðal þeirra kristnu. Og megi marka þá litlu reynslu, er menn hafa, þá er uggvænt, að á meðal þess mikla fjølda kristinna manna mundu þeir verða allfáir, er hefðu þá heilegu hugprýði Jesú Postula til að bera, ef til kæmi.

Vér lifum fyrir Guðs náð a þeim tíma, sem trúarbrøgðin blómgast í ró og friði undir vernd kristilegra Kónga. Vér megum opinberlega tilbiðja Krist, og þurfum ei að vera hræddir um að vér munum missa vort góz eður vort líf vegna vorrar játníngar; en vér fáum stundum ámæli fyrir það. Háð og spott er ekki all sjaldan þeirra laun, sem auðsýna Kristi og hans lærdómi nockuð meir enn almennilega lotníngu, að vilja í opinberu samqvæmi tala um Krist, að vilja hrósa hans velgjørníngum við manneskjurnar, eður þeirri miklu nytsemi hans trúarbragða, já, að vilja forsvara hans dýrð, þegar spottast er að henni, það væri að ávinna sér athlátur lauslyndisins. Og hvað margir eru þeir þá, sem hafa hug til að þola, þó ekki sé meir enn þessi hlátur, fyrir trúarbragðanna og Jesú nafns sakir? hvað margir hafa hug til að nefna þetta nafn í vorum samkomum, þetta nafn, fyrir hvørju øll kné skulu beygja sig, þeirra, sem á himnum, á jørðunni og undir jørðunni eru? vér fyrirverðum oss aldrei að tala um vora framliðnu velgjørða-menn, að hrósa því, sem vorir Kóngar gjøra vel, að hæla réttvísi Aristídis, stjórnar-speki Lycúrgi, vísdómi Platónis; vér leitum oss jafnvel ágætis með að sýna, að vér høf=

um lesið tit heiðinna Heimsspekínga, vér höfum í munni þeirra máltæki, og prýðum oss með þeirra fögru snilli-yrðum, sem vér höfum hjá þeim til láns tekið; en hvað márgir eru þeir, sem hafa hug til að hrósa Kristi? hvað margir eru þeir, sem hrósa sér af því, að þeir hafi gaumgæfilega þenkt um hans guðdómlega lærdóm, sem er þó svo miklu ædri enn hinna, sem himininn er hærri enn jörðin? hvar af kémur þessi skammarlega þögn um Krist í kristilegu samqvæmi? orsökin er engin önnur enn sú, að vér annaðhvört sjálfir finnum ecki hjá oss neina elsku, neina lotníngu, fyrir Kristi, eður ef vér finnum hjá oss nockuð af þessu, þá er þessi tilfinníng svo veik hjá oss, að hún ecki er megnug um að yfirvinna þann lángtum sterkari ótta, sem vér hjá oss finnum, að vér munum verða samqvæminu að spotti, hjá hvörju vér leitum framar eptir heiðri, enn hjá Jesú Kristi. Þessi skammarlega hræðsla er røksemd fyrir því, hvörsu vorir siðir eru spilltir, hvörsu kristinndómurinn er kominn á fallanda fót hjá oss, hvörsu vér erum dofnir í trúarbragðanna efnum, og hvörsu lítinn kjærleika vér höfum til Krists, hvörs elska ætti að uppfylla alla vora sálu. Meira þurfum vér ecki enn þessa einu reynslu til að sannfærast um, að oss brestur mikið uppá þá heilögu vandlætíngu, sem upplífgaði Jesú Postula, sem fyrir Jesú nafns sakir ecki einúngis tóku uppá sig alls heimsins spott, heldur einnig lögðu sjálft lífið í sölurnar.

Hvörninn mundi þá fara, ef Guð reyndi oss með sama hætti sem þá? ef vér ecki gétum yfirunnið svo veikar freistíngar, hvörninn mundum vér

þá géta yfirunnið þær, sem eru lángtum sterkari? þar oss brestur svo mikið uppá þeirra heilögu hugprýði, hvörsu mikið mun oss þá seinna meir bresta á þeirra vegsemd? ef vér ekki stríðum með þeim, hvörninn kunnum vér þá að vænta eptir að krýnast með þeim? já, þó vér ekki þurfum að reyna svo hardt stríð, sem þeir, þá ættum vér þó að hafa til að bera þá sömu hugar-hreysti, sem þeir, sama kjærleika til Krists, sömu vandlætíngu fyrir hans dýrð, sömu heilaga lyst til að géfa út það, sem vér höfum kjærast, fyrir hans sakir, sem gaf sig sjálfann út fyrir oss; og þá kunnum vér að vænta að verda hluttakandi í sigur-kransi þessara heilögu píslar-votta.

## 33. Kapítuli.

### Um uppbyggíngu kristilegrar Kirkju af Postulunum.

Það stærsta og furdanlegasta af öllum þeim krapta-verkum, sem Kristur og hans Postular hafa gjört, er óneitanlega stiptan og útbreiðsla kristilegrar kirkju um allann heiminn. Þetta eina krapta-verk er nóg sannfæríng uppá sannleika allra hinna annara, sem í frásagnir eru færð um þessar trúarbragðanna hetjur. Ef þær frásagnir, sem vér höfum um Krists og hans Postula krapta-verk, væru skrök-sögur einar, þá væri það fyrir oss sá óskiljanlegasti atburdur, sem nockurntíma hefir viðborið í heiminum, hvörninn Jesú kirkja gat af svo litlum upptökum fengið svo stórann framgáng. Að Mahómet gat breidt sín trúarbrögð svo vídt út um heiminn, þar hann hafði sverdið í annari, en jard-

nesskar vellystíngar í annari hendi, það er þeim ekki óskiljanlegt, sem þekkja mannsins hjarta. En að 12 menn af lítilmótlegasta almúga koma frá Gyðingalandi, að þeir hrista allann heiðinndóminn, prédika trúarbrøgðin með ávexti í ølla Róma-ríki, og stipta allstaðar safnaði, sem kénna sig við þann krossfesta Krist, já, leggja grundvøll til þeirrar víðt útbreiddu kirkju, sem ecki einúngis stendur allt til þessa dags, heldur einnig sífeldlega útbreiðist víðar um heiminn, það er þvílíkur atburður, sem er allteins óskiljanlegur, sem hann er viss; viss er hann, því vér sjáum hann fyrir augunum, og øldúngis óskiljanlegur mundi hann vera oss, ef það væri ecki allt satt, sem í rit er fært um Krist og hans Postula.

Með øldúngis ótrúlegum hasti útbreiddist Jesú kirkja um allt Grykkland. Í Skytía (køldu Svíþjóð), Medía, Persía, Æthiopia (Blálandi), fékk hún medlimi. Á aðra síðuna þreyngdi hún sér til Indía-lands, og með sama hasti útbreiddist hún á hina síðuna um Norður-álfuna. Einnig sú stollta Rómaborg, heimsins Drottníng, sá kristinn sofnuð vaxa upp miðt í heiðinndóminum á hans rústum. En þessi takmørk vóru enn þá of þraung, hún útbreiddist til ytstu takmarka Norðurálfunnar. Spanía og Portúgal sáu afguðadýrkendurnar umbreytast og verða að Jesú Krists tilbiðjendum. Þaðan útvíðkaðist Jesú kirkja á aðra síðuna til Englands, og á hina síðuna til Suður-álfunnar. Og þvílíkann framgáng hafði hún á einum mannsaldri. Meðan Jesú Postular enn þá lifðu, sáu þeir þessa stóru ávexti af þeirra erfiði. Páll skrifar til safnaðarins í Róm: að þeirra raust væri útgeng-

in um allann heiminn og allt til jardarinnar enda, Róm. 10. Hann segir um sjálfann sig: ad hann frá Jerúsalem og allt um kríng inn til Illyricum hefdi kénnt Krists Evangelíum, og vildi nú fara um Róma-borg til Spanía, Róm. 15. Pétur skrifar sín bréf til þeirra safnada, sem þá þegar vóru slíptadir í Pontó, Galatía, Kappadocía, Asía og Bithynía, 1 Pét. 1.

Þegar vér athugum þennann skýtir, med hvörjum Jesú kirkja útbreiddist um heiminn, þá hljótum vér ad leidast til ad trúa, ad yfirnáttúrlegur kraptur hafi hjálpad til hennar útbreidslu. Enginn straumur er svo sterkur eda stríður, ad ecki megi stemma stigu fyrir honum; enginn eldur svo ákafur, ad hann ecki verdi slocktur; eckért mannlegt áform svo slæglega uppfundid, edur med svo sterkri makt framfylgt, ad því ecki verdi hamlad, þegar jafnbodinn kraptur kémur þar á móti. En Jesú Evangelíum gat engin mótstada hamlad, þad braust ígégnum allar þær hindranir, sem mannanna íllska, veldi skilníngar-vitanna, herra-dæmi géds-hræríngaanna, medfæddir hleypidómar og Yfirvaldsins makt lögdu í veginn fyrir þess útbreidslu. Ef vér viljum dæma réttilega um skjótleika eins hlutar, þá hljótum vér undir eins ad gæta ad þeim hindrunum, sem setja sig á móti hans framgángi; og hvörsu margar og miklar vóru þær hindranir, sem settu sig á móti framgángi kristilegrar kirkju. Hér vóru á adra síduna holdlegar gyrndir, sem ecki gátu stadist med Jesú Krists heilögu lærdómum. Allar Postulanna kröfur lutu ad því, ad menn skyldu krossfesta sitt hold med þess gyrndum og tilhneg-

íngum; að menn skyldu hreinsa sig frá allri saurgun holdsins og andans; að menn skyldu afneita sjálfum sér, og því, sem mønnum þókti vænst um í heiminum; að menn skyldu afklæðast þeim gamla manni með hans girndum og tilhneigíngum; að menn skyldu íklæðast þeim nýia manni, sem eptir Guði væri skapaður í sannarlegu réttlæti og heilagleika; að frillulífis-menn, afguða-dýrkarar, hór-karlar, sælgjætíngar, þeir sem skømm drýgja með karlmønnum (syndga á móti náttúrunni) þjófar, ágjarnir, ofdrykkju-menn, orðhákar og ræníngjar mundu ei erfa Guðs ríki. Hvorsu nærstum því óyfirvinnanlega mótstoðu hlaut þvílíkur lærdómur að fyrirhitta í hjørtum þeirra manna, sem áður hofðu óhindrað látið eptir sér allt hvað þeirra spillta náttúra eggjaði þá á, já, þóktust jafnvel heiðra sín trúarbrogð og dýrka sína Guði með því, að láta þetta eptir sér. Á hina síðuna høfðu þeir grundaða orsøk að óttast fyrir missir allra sinna tímanlegra muna; að meðtaka Jesú trúarbrøgð, og gjørast limur hans kirkju, var á þeim tímum þvílíkt afbrot, vegna hvørs menn undir ossókunum hlutu að niðurleggja sitt embætti og metorð, skilja við hús og heimili, missa þeirra tímanlegu eignir, og jafnvel sjálft lífið. Og til endurgjalds fyrir þessa sjálfs afneitun áttu þeir ecki von á øðru, enn húngri, þorsta, kulda, klæðleysi, fjøtrum, sverði og eldi, og til að umflýja það versta af øllu þessu, til að forða lífinu, hlutu þeir að flýja úr einum stað í annann. Allt til þessa tíma, segir Páll, þolum vér sveingð og þorsta og nakleik og pústra, og høfum engann vissann samastað, 1 Cor. 4.

Eg vil enn þá bæta hér við þeim óteljandi rangu meiníngum, sem þeir höfðu vanist á í uppvextinum, og inndrukkið með móður-mjólkinni. Það vóru ekki einúngis börn, sem gjörðust limir Krists kirkju, heldur fullorðið fólk, sem frá úngdómi hafði uppalist í öðrum trúarbrögðum og annari guðsþjónustu; í þvílíkri guðsþjónustu, hvørrar útvortis viðhöfn skémti augunum og ímindunar-kraptinum; í þvílíkri guðsþjónustu, sem höfð var í heiðri af þeirra höfðíngjum og spekíngum, og sem þeirra forfeður í svo mörg hundruð ár höfðu í há-vegum haft; í þvílíkri guðsþjónustu, sem einúngis var innifalin í útvortis sanfalegum athöfnum, og sýndist fyrir þá sök að vera þess skiljanlegri fyrir alþýðuna. Nú vóru þeim þar á móti boðuð þau trúarbrögð, hvar allt var andlegt, hvar menn í anda og sannleika áttu að tilbiðja ósýnilegann Guð. Hvørsu sterkar vóru þá ei þær hindranir, sem settu sig á móti framgángi kristilegrar kirkju? vér skulum einúngis hugsa eptir, hvørsu mikið það kostar að dempa einúngis eina girnd, sem maður elskar, og sá, sem vildi verða meðlimur Jesú kirkju hlaut að lofa því, að hann vildi kappkosta að yfirvinna þær allar. Vér skulum hugsa eptir, hvørsu nauðugt manni er að meðtaka þann lærdóm, sem útheimtir af honum, þó ekki sé nema lítilfjörlegt, af hans tímanlegum munum; og til að verða meðlimur Jesú kyrkju hlutu þeir að fara á mis við þá alla. Vér höfum nóg dæmi til, að laus-lyndir menn hafa fyrir tímanlegann ávinníng skipt um sinna forfeðra trúarbrögð fyrir önnur ný; en vér megum lengi leita, til að finna skynsama menn, sem hafa lagt

nidur þeirra gömlu, en tekið ný trúarbrögð, sem ecki hafa áunnið þeim annað, enn skömm, smán, fátækt og offsóknir, sem hafa brynjað böðlana með fángelsi, báli og brandi á móti þeim. Oss mundi bresta þvílík dæmi, ef vér ecki vildum sækja þau til kristinndómsins fyrstu tíma. Vér skulum hugsa eptir hvörsu torveldt manneskjunni veitir, jafnvel í hinu minnsta, að afleggja forfeðranna meiníngar, sem madur hefir vanist á í uppeldinu. Ef einhvörr kjæmi til vor og bodaði oss öldúngis ný trúarbrögð, sem viki í öllum pörtum frá þeim, sem vér nú höfum; ef hann skipaði oss að rífa nidur vorar kirkjur, umturna vorum ölturum, brjóta þess krossfesta Jesú bílæti, að selja vort góts, og skipta því á medal fátækra, að hlaupa ósköttadir út í vatn og eld, að slíta oss úr örmum vorra kjærustu vina, og allt þetta, til að medtaka þennann nýja lærdóm, hvörninn mundum vér taka á móti þvílíkum kénnifödur? mundum vér gjöra svo mikið, sem unna honum vors athyglis? mundum vér taka uppá oss það ómak að ransaka hans lærdóm? og vegna hvörs? vegna þess vér álítum vor egin trúarbrögð fyrir sönn; þau eru trúarbrögð vors lands, trúarbrögð vorra forfedra, þau trúarbrögð, sem svo margir lærdir og ypparlegir menn álíta fyrir guddómleg. Og eru það ecki flestir kristnir, sem ecki vita annann grundvöll fyrir sannleika þeirra trúarbragða, enn þennann? en, fyrir Heidíngjunum var því viðlíka háttað; á medan þeir gengu í þeirra blindni, álitu þeir einnig þeirra nótt fyrir dag, þeirra myrkur fyrir birtu, og þeirra skröksögur fyrir gudleg sannindi. Og samt hafa þeir afneitað sjálfum sér,

samt hafa þeir yfirunnið þeirra inngrónu hindurvitni, samt hafa þeir lagt í sölurnar alla þeirra tímanlegu muni, til að gjörast meðlimir Jesú kirkju. Getum vér þá nógsamlega dádst að þeim fljótleika, hvar með Jesú kirkja útbreiddist um heiminn, þar hún átti svo margar og miklar hindranir við að stríða, sem bæði í og utan við manneskjurnar settu sig á móti hennar framgángi. Hljótum vér ecki að géta til að guddómlegur kraptur hafi verið hér í verkinu með, þvílíkur kraptur, sem engin mannleg mótstaða gat hindrað.

Hvað var það annars, sem kom Heidíngjunum til að taka borgar = rétt í Jesú ríki? finnum vér nockuð hjá Jesú Postulum sjálfum, sem menn, eptir náttúrlegum hætti, hefðu kunnað að géta til að leidt hefði svo mikilvæga umbreytíngu eptir sig í heiminum? eg vil ransaka þetta spursmál. Jesú sendibodar kryddudu ecki þeirra framburð með málsnyllinnar blómstrum, heldur framsettu þeir þessi heilögu sannindi í þeirra nakta sakleysi, án þess að klæða þau í fagrann búníng, án þess að prýða þau með mælsku = kunstinni. Hér var ecki sú fegurð og sá orðsnyllinnar glampi, hvar með mælsku maðurinn leitast við að ávinna sína tilheyrendur. Þegar eg kom til yðar, segir Páll, þá kom eg ecki með glæsilegri mál = snylli eður vísdómi, að kunngjöra yður þau guðlegu sannindi, 1 Cor 2. Enn þá síður brúkuðu þeir kunstugar skynsemis ályktanir, með hverjum auðveldt er að fánga þann einfalda, sem ecki er fær um að skilja lánga kéðju af saman hángandi sannindum. Til þvílíkrar torveldrar kénníngar vóru Postularnir ecki hæfir, sem í uppvextin=

um høfðu notið lítillra eður engrar uppfræðíngar, sem aldrei høfðu æft þeirra skynsemi og aldrei skérpt þeirra greindar-krapt. Tøkum fiski-mann, sem allt til þessa hefir eiuúngis þenkt um netið sitt og aungulinn, ellegar bónda, sem allann sinn aldur hefir ecki lagt annað fyrir sig enn slá og róa, ellegar þann, sem sífeldt hefir verið í sjóferðum, og ecki fengist við annað enn segl og kaðla, leiðum þá inn í kristinna manna samkomur, og látum þá stíga í ræðu-stólinn, hvørsu mikillar mælsku, veraldlegs vísdóms ellegar stráugra skynsemis álykana kunnum vér að vænta hjá þessum kénnifeðrum? Páll var lærður eptir þeirrar aldar-máta, og án efa sá lærðasti af Jesú Postulum, en hann nýtti sér það ecki. Mín ræða og mín prédikun, segir hann, var ecki innifalin í snyldar-orðum mannlegrar vitsku, heldur í kroptugum sannfæríngum Evangelii, svo að yðar trú skyldi ecki vera byggð á mannlegum vísdómi, heldur á Guðs krapti, 1 Cor. 2. Hvað var það þá, sem yfirtalaði heiminn til að afleggja heiðinndóminn og gjørast meðlimur Jesú kirkju? hafa Jesú Postular máské lofað þeim stórum launum, sem tóku borgar-rétt í Jesú ríki? já, þeir lofuðu þeim eilífri sælu, en þessi laun vóru ósýnileg, þau vóru ecki fyrir augunum, þau kunnu ecki að sjást nema svo sem i þoku og lángt burtu, og alkunnugt er, hvørsu litla verkun andlegir, ósýnilegir og eptirkomandi hlutir hafa í mannsins hjarta, sem festir sig við það jarðneska, og leitast við svo mikið sem møgulegt er, að snúa sínum þaunkum frá grøfinni og eilífðinni. Hvað var þá, sem útvegaði Jesú kirkju svo marga meðlimi? var það lær

dómurinn sjálfur, edur álit þeirra, sem med hann fóru? menn prédikudu trúna á einn mann, sem í Gydinga-landi, hvort ed jafnvel af Heidíngjunum var foraktad, hafdi verid krossfestur med ødrum íllrædis-mennum. Menn søgdu ad sønnu um hann, ad hann væri guddómleg persóna, ad hann hefdi gjort stór krapta-verk, ad hann af eginn krapti hefdi risid upp frá daudum, og uppstígid til himna; en eckért af þessu høfdu Heidíngjarnir sjálfir séd, heldur hlutu ad trúa því, sem Jesú vottar søgdu; og þessir vottar heimtudu nú, ad þeir skyldu trúa á þennann krossfesta mann, ad þeir skyldu halda hann fyrir þeirra Gud og tilbidja hann. Og þetta heimtudu Jesú Postular, sem vóru Gydíngar ad ætterni, fiskarar ad handa-verki, menn án lærdóms, án kurteysi, án útvortis álits. Þessir ólærdu og umkomulausu menn gánga fram, og heimta af Heidíngjunum, ad þeir skyldu leggja nidur þeirra gømlu og vidhafnar-mikiu gudsdýrkun, sem þeirra høfdíngjar, þeirra vísinda-menn og þeirra Prestar høfdu í heidri, til ad tilbidja þann krossfesta Krist. Og med øllu þessu gjørdust þó margar þúsundir medlimir Jesú kirkju. Hvørninn skiljum vér þetta, án þess vér trúum, ad yfirnáttúrlegur kraptur hafi hér verid í verkinu med, ad sannleikurinn hafi talad fyrir sig sjálfann, styrktur med þeim krapta-verkum, hvar med Jesú sendibodar vóru útbúnir, og med krapti þess anda, sem upplífgadi Lærimeistarana, erfidadi med þeim og blessadi þeirra erfidi.

Med þessum krapti þreyngdu trúarbørgdin sér smámsaman inn í skóla hinna lærdu, fengu um sídir sigur yfir sjálfum þeim krýndu høfdum, og stigu

upp í hásætid, þar til þau loksins öldúngis kollköstudu afgudanna bílætum, umveltu þeirra ölturum, qveiktu eld í þeirra lundum, afsettu þeirra Presta, og nádu til sín Einvalds-maktinni yfir öllu Rómaveldi. Þurftu þau ecki á gudlegum krapti ad halda, til ad vinna svo vegsamlegann sigur? þau hösdu hér ecki einúngis sömu hindranir vid ad strída, sem eg hefi ádur umtalad, heldur hösdu þau enn þá fleiri og stærri. Heidíngjanna Kóngar vóru eptir þeirra dauda settir í Guda-tölu, og dýrkadir med gudlegum heidri. Þessi heidur féll burt med Jesú trúarbrögdum. Goda-prestarnir, og allir þeir, sem hösdu nockurn ávinníng af þeirri útvortis gudsþjónustu mistu vid þetta þeirra drjúgu tekjur. Heims-spekíngarnir, sem ádur máttu kénna eptir lund sinni hvad þeim sjálfum sýndist, og sem vegna þeirra vísdóms vóru af öllum virdtir og heidradir, þeir hlutu nú ad undirkasta þeirra skynsemi Ritníngarinnar lærdómi, nú var lagt hapt á þeirra þánka-frelsi, margar af þeirra fyrri meiníngum hlutu ad leggjast fyrir ódal, öll þeirra lærdóms bygging hlaut ad umbreytast; þeir hlutu ad þenkja ödruvísi, og tala ödruvísi; þeir hlutu þess vegna ad játa opinberlega ad þeirra fyrri vísdómur hefdi ad miklu leiti verid heimska. Hvílík sjálfs afneitan útheimtist til þessarar játníngar! ef vér bættum því hér vid, ad lærdómurinn um Krist, hafdi sín upptök hjá þeim audvirdilegasta almúga; hvörsu torveldt mátti þad þá veita þeim lærdu og mektugu ad forakta ecki þann lærdóm, sem hafdi svo lítilmótlegann uppruna? eptir því, sem almennt vid gengst í heiminum, hljóta þeir, sem eru minnihattar, ad gjöra

eptirdæmi þeirra, sem eru meiriháttar, að finni mælisnúru; þeirra meiníngar, vani og siðir eru løg; og þar þvertámóti, það, sem í þeim lægri stéttum er loflegt og prísverdugt, er opt viðbjóðslegt fyrir þær æðri. En hér sjáum vér með forundrun það, sem er þvertámóti. Þau kristilegu trúarbrøgð uppstigu frá moldar-kofum hinna fátæku til Kónga-hallanna, og akuryrkju-mannsins meiníngar urdu meiníngar heims-spekíngsins. Þetta var einn partur Guðs vísdóms. Ef þeir voldugu á jørdunni hefðu orðið fyrstir til að gjørast meðlimir Jesú kirkju, þá mundu menn hafa álitið slíkann Kóng fyrir einfaldann og auðtrúa; menn mundu hafa hugsað, að hann hefði látið tæla sig af Jesú sendi-boðum; og ekkért er almennara, enn að undirsátarnir, uppþvattir af egingagni, stollti eða hræsni, skrifa undir meiníngar síns Koníngs. En hér vóru þeir voldugu ekki hinir fyrstu, heldur hinir síðurstu; Kóngurinn fetaði í sinna undirsáta, og sá lærði í þess einfalda fótspor. Sá auðvirdilegi vísaði veginn, og sá heiðraði fylgdi honum.

Með øllum þessum hindrunum, sem úr øllum áttum settu sig á móti framgángi kristilegrar kirkju, hefir hún ekki einúngis útbreiðst um heila heimsálfu, heldur er varla nockurt það land í heiminum, sem menn til þeckja, hvar ekki eru að minnsta kosti nockrir, er játa sig til þessarar kirkju. Þetta er rekfemd fyrir Guðs sérdeilislegu-forsjón, sem vakir yfir þessari kirkju, og, sem allstaðar vill qveikja trúarbragðanna ljós jafnóðum og þeir kristnu víðar og víðar útbreiðast, og sá samleikans sæði í heiðinn akur. Enginn þarf að skilja við sitt føður-

land, enginn þarf ad taka uppá sig lánga reisu til ad fá uppfrædíngu í þeim kristnu trúarbrøgdum. Sérhvørr gétur í sínu egin landi fengid þá naudsynlegu þeckíngu; og séu enn þá til þau lønd, hvar enginn kristinn er, þá sjáum vér, ad Guds forsjón er enn þá ecki aflátin, ad brúka þá kristnu til ad útbreida þetta ljós vídar og vídar. Árlega gjøra trúarbrøgdin nockurn lítinn framgáng á medal Heidíngjanna; árlega midar þeim um nockur fet áfram. Þad er sérlegt merki Guds vísdóms, ad Gydíngarnir og þeir kristnu, hvørjir annars eru ad sidferdi, guds-þjónustu, þeníngar- og lifnadar-hætti, svo ólíkir hvørjir ødrum, skuli vera þeir einustu af øllum jardarinnar kynqvíslum, er þannig útbreida sig allstadar um heiminn. Ad vísu hafa ecki þeir kristnu, og enn sídur Gydíngarnir þann tilgáng med þeirra ferdalagi, ad útbreida Jesú kirkju, en þetta er þó án efa Guds tilgángur medfram; sá ædsti vísdómur lætur menninna fylgja þeirra tillhnegíngum, en stjórnar afleidíngum þeirra tilhnegínga þannig, ad hans eginn tilgángur uppfyllist. Hvørs vegna lét Gud flytja Ísraels fólk stundum til Egyptalands, stundum til Assyría, og loksins til Babýlon? hvørs vegna lét hann þá stundum vera undir Grycksja, stundum Rómverja yfirdrottnun? Jóseph, sem innleiddi þad í Egyptaland, hefir haft sinn tilgáng, Salmanassar annann, og Nebúchadnezar þann þridja; en Gud hefir vissulega sérílagi haft þad augnamid ad géfa Heidíngjunum tækifæri til ad þeckja þann sanna Gud. Þess vegna fylgdu þessu fólki allstadar svo stór og guddómleg krapta-verk, svo ad þad, vegna þess audvirdilegleika, ecki skyldi

liggja í hlé óadgætt á medal svo stórra og mekt-ugra þjóða, og Guds tilgángur med það þannig ónýtast. Þau somu medöl brúkar Gud enn þá þann dag, sem í dag er; stundum brúkar hann á-girni þeirra kristnu, stundum þeirra stjórnunar-sýki, stundum þeirra forvitni, til ad gjöra trúarbrögd þeirra kristnu allstadar kunnug, og smásaman ad útvídka takmörk kristilegrar kirkju.

Nú mætti einhvörr spyrja: hvörs vegna þau kristilegu trúarbrögd séu ecki þau einustu, sem hafa yfirhönd í heiminum? hvörs vegna Mahómethan-anna og Heidíngjanna villa enn þá útbreidi svo svart myrkur yfir þau stærstu og mektugustu heims-ins ríki? og menn eru opt svo djarfir ad draga þar af þá ályktun, ad Jesú trúarbrögd séu ecki framar guddómleg, heldur enn oll hin önnur, þar þau ecki eru almenn, og hafa ecki yfir-ráð yfir öllum hinum ödrum. Þessi ályktan kemur mér fyrir sjónir, eins og ef einhvörr vildi segja: dygd og rádvendni eru ecki annad enn verkanir af svörtu blódi, og fóstur af rugludum heila, þar vér sjá-um svo mikla spillíngu á medal mannanna; því væri dygdir svo ágæt og svo himnesk gáfa, mundi Gud þá ecki uppræta alla vanart á medal mannanna, og láta dygdina allstadar sitja í öndvegi? edur, ef menn vildu álykta þannig: það er ecki nein sérleg lucka ad vera heilbrygdur, þar Gud leyfir svo mörgum mönnum ad spilla þeirra heilsu med vellystíngum, óhóffemi og ödrum löstum. Hvörninn lítst oss á þessa ályktun? og allt eins ó-skynsamleg er hin, ad Jesú kirkja sé ecki guddómleg stiptan, ad hans trúarbrögd hafi ecki gudlegann

uppruna, þar þau einsømul hafi ecki yfirhønd í heiminum. Stiptari þessarar kirkju er allteins vísdómsfullur, sem góður. Einusinni hefir hann látid innbjóda øllum mønnum til ad verda þegnar í þessu andlega ríki; einusinni hefir hann med svo miklum og óneitanlegum krapta-verkum stadfest þann himneska uppruna sinna lærdóma; Jesú trúarbrøgdum er líka svo háttad, ad sá, sem einúngis vill rannsaka þau med sannsýni, hlýtur ad medkénna, ad annadhvørt eru þessi trúarbrøgd þau sønnu, edur ad þar eru engin sønn, engin hrein trúarbrøgd til í heiminum; og loksins hefir Guds forsjón hagad því svo, ad Evangelíi ljós gétur af þeim kristnu útbreidst um allann heiminn, einúngis ef mannanna illska og afskiptaleysi af sannleika og villu stædu ecki á móti sannleikans framgángi. Hvørninn ætti Gud ad burtrýma þessum hindrunum? máské med nýjum krapta-verkum? svo ætti hann enn þá ad útsenda Spámenn og Postula; hann ætti ad útbúa þá med nýjum kraptaverka-gáfum; hann ætti á hvørju augna-bragdi ad raska náttúrunnar ordu; nockur þúsund af píslar-vottum ættu ad nýju ad leggja út lífid til ad ávinna nockra blinda og balstýruga, sem þverskallast á móti sannleikans eginn krapti. Nei, stiptari vorra trúarbragda er allt eins vísdómsfullur, sem gódur. Sá sigur, sem Jesú kirkja hefir einusinni unnid yfir van-trú og hjá-trú, er fullnóg røksemd fyrir hennar guddómlegn stiptun; en þó ad þessi kirkja hafi enn þá sín takmørk, þá er þad ecki røksemd þará móti.

Hvörsu stóra, hvörsu ósegjanlega stóra lucku höfum vér framyfir Mahómetanana og Heidíngjana, ad vér erum medlimir Jesú kirkju, og höfum fengid borgar=rétt í hans andlega ríki? alla þá hreinni, réttari og grundadri þeckíngu, sem vér höfum um Skaparann og sjálfa oss, um tímann og eilífdina, um forsjónina, um endurlausnina, um bygdina og vorar skyldur, alla þessa þeckíngu, sem svo mjög prýdir vorn skilníng og huggar vort hjarta, hafa Krists þegnar framyfir þá, er rása í vantrúarinnar og hjátrúarinnar myrkri. Ættum vér þá ecki ad kannast vid þessa lucku, ad vér erum undirsátar í Krists ríki, og brúka hana oss til sannrar lucku og farsældar. Tvær höfud=skyldur liggja á sérhvörjum undirsáta í þeim veraldlegu ríkjum; þær sömu liggja einninn á oss, sem erum þegnar í Jesú andlega ríki; nefnilega þessar: ad vér þeckjum lög vors Konúngs, og ad vér fúsir og gladir uppfyllum þau. Þad er ómögulegt ad uppfylla lög Jesú ríkis, ef vér ecki þeckjum þau; en til einkis er, þó vér þeckjum þau, ef vér ecki uppfyllum þau. Skuli þess vegna sú lucka, ad vér erum limir Jesú kirkju, verda oss ad nockri sannarlegri lucku, þá hljótum vér gaumgæfilega ad gæta þeirra skyldna, sem liggja á oss, sem hennar sönnum limum.

Sá, sem vill vera sannur undirsáti í Jesú andlega ríki, hlýtur ad láta sér vera annt um ad þeckja þessa ríkis ásigkomulag, þess fyrirskriftir, grundvallar=lög og tilskipanir. Heilög girnd og brennandi laungun eptir ad grípa fegins hendi sérhvört tækifæri, sem kann ad auka vid vora þeckíngu

á þeim heilögu lærdómum Jesú trúarbragda, er þad rétta kénniteikn, sem adgreinir þann sann-kristna frá þeim munn-kristna. Þannig breytir sérhvörr, sem fylgir einhvörjum vissum flocki í mannlegum vísindum; sliptari þess flocks er honum æruverdugur, hans lærdóms-bygging þykir honum vigtug, hans lærdómar og meiníngar kunna ecki nóglega ad útgrundast; sérhvörr sannleiki er honum heilagur, hann kann ecki nóglega ad ransakast, ecki nóglega ad prófast. Med kostgæfni ástundar hann ad uppgötva ný sannindi til ad auka þeckínguna, og nýjar roksemdir til ad stadfesta hana. Kristinn madur, sem vill verdskulda ad heita sannur þegn í Krists ríki, kann ecki ad þenkja ódruvísi, og ef hann þenkir ödruvísi, þá forþénar hann ecki þetta nafn. En, því midur! reynslan kénnir, ad mikill fjöldi þenkir ödruvísi! hvörsu margir láta ecki nytsamlegt tækifæri sleppa sér úr hendi ónotad, sem hefdi kunnad ad géfa þeirra andlegu þeckíngu nýjann vidur-auka, nýja styrkíngu. Þessi forsóman géfur til kynna vort virdíngarleysi fyrir Jesú heilögu lærdómum. Ef ad þessir lærdómar gæfu oss nýja þeckíngu í náttúrufrædinni edur mannlegum vísindum; ef ad þeir tilbyggju hug-hraustann stríds-mann, skarpann heims-speking, vitrann náttúru-skodara, reyndann læknir edur duglegann lögvitríng, þá værum vér fúsari til ad ransaka þá; og samt gætu þeir ecki med öllri þessari þeckíngu tilbúid utan þvílíkann þegn, sem væri brúkanlegur hér í tímanum. Géta þeir hughreyst oss í lífsins andstreymi? géta þeir gjört oss rósama, þegar samvitskan áklagar oss? géta þeir géfid oss dug, þegar daudinn nálgast? géta þeir veitt oss

sælufulla eilífd? géta þeir leidt oss til bygdarinnar, vegna hvørrar vér verdum þócknanlegir þeirri ædstu veru? géta þeir gésid oss krapta til ad sigra sjálfa oss og vorá spillíngu? í øllu þessu, og þetta er þó þad allravigtugasta fyrir oss, eru øll vor veraldlegu vísindi oss ónýt. Hér er þad, sem Jesú Krists lærdómar audsýna þeirra guddómlega krapt. Skyldum vér þá leggja þvílíkt kapp á ad útvega oss þá þeckíngu, sem skilur vid oss á grafar-backanum, en forsóma þau andlegu vísindi, hvørra kraptur og nytsemi fylgir oss til daudans, og ígégnum daudann inn í eilífdina? hvørninn kunnum vér med svo svívirdilegu afskiptaleysi af sannleikanum ad verdskuldá, ad heita sannir limir Jesú Krists kirkju?

En samt er þad ecki nóg, þó vér þeckjum lærdóma kristilegrar kirkju, ecki nóg, þó vér leggjum alúd á ad þéckja þá, hér med eru ecki allar vorar skyldur á enda kljádar, heldur byrjast þær hér fyrst. Jesú lærdómar eru ecki einúngis handa skilnínginum, heldur handa hjartanu. Ef vér viljum álítast fyrir sanna medlimi hans kirkju, þá hljótum vér med gladri og fúsri hlýdni ad breyta eptir þeim. Jesús Kristur vill ecki hafa neina naudúngar þegna í sínu andlega ríki. Hvad heimtar hann af oss, sem vér ecki gladir og fúsir ættum eptir ad breyta? eru hans kröfur órýmilegar? eru þær ómøgulegar? strída þær á móti mannsins náttúru? hann heimtar kjærleika, kröptugann og ávaxtarsamann kjærleika, sem þá réttu uppsprettu til allra gódra og ágætra athafna. Hann vill, ad vér elskum Gud af øllu hjarta, af allri sálu,

af öllu hugskoti, af öllum kröptum. Skyldi oss þá veita það svo torveldt að elska Guð, að elska vorn æðsta velgjörða-föður? og sé það yndæl skylda að elska sinn velgjörara, skyldi oss þá vera torveldt að laga vorn vilja í öllum hlutum eptir hans vilja? er þetta ecki sú verkan sem hreinskilin og heitur kærleiki á hvörjum degi fæðir af sér í hjörtum vorum? hann vill, að vér skulum elska vorn náúnga, sem sjálfa oss. Og skyldi þessi kærleiki þá vera oss svo torveldur, oss, sem finnum í vorum hjörtum eina, oss af Skaparanum innplantaða áfýsíngu til kærleika? og þegar vér elskum vorn náúnga, sem sjálfa oss, skyldi oss þá veita torveldt að uppfylla þær skyldur, sem vér erum honum um skyldugir? já, eg vil gjöra við, að allt þetta væri torveldt fyrir oss, sem af náttúrunni til erum spilltir, hefum vér þá ecki Guðs náð, sem styrkir oss í þessu torvelda stríði? vitum vér ecki, að hans kraptur er máttugur í vorum vanmætti? eg vil gjöra við, að Guðs skipanir séu torveldar fyrir oss, eru þá skipanir vorrar vanartar auðveldar? útheimta þessar ecki opt og tíðum meira stríð, meiri yfirvinníngu, meiri sjálfs afneitun af oss, enn Guðs skipanir? hljótum vér ecki daglega að afneita einni girndinni til að fullnægja annari? og launin fyrir þess sjálfs afneitun er um síðir óróleg samvitska, vanvirðuleg elli, ángistarfullur dauði, og ólucknleg eilífð, þar eð vor hlýðni við Jesú lög umbunast með ódauðlegleikans sigur-krönsum. Skyldum vér þá með gleði uppfylla lög vorrar spillíngar, og einúngis með óánægju undirkasta oss Jesú Krists lögum? hvörs leitar stiptari vorrar kirkju með öllum þeim tilskipun-

um, sem hann hefir fyrirskrifad sínum þegnum? vill hann máské einúngis sýna það vald, sem hann hefir yfir oss, og láta oss finna til þess, að vér erum honum undirgéfnir? munum vér þá mega leida oss það í hug um hann, sem vér ecki að ó-sekju megum þenkja um jardneskann Konúng, sem er vitur og gódur. Nei, hann vill gjöra oss luckulega í tímanum og luckulega í eilífdinni; og það er einúngis dygdin, sem gétur gjört oss luckulega, eins og lestirnir einúngis géta gjört oss óluckulega um tíma og eilífd. Kristur hefir þess vegna rétt til að heimta glada og fúsa hlýdni af undir-sáttunum í sínu ríki, því hann heimtar einúngis það, sem vér sjálfir óskum eptir, hann heimtar að gjöra oss farsæla. Ef þessi fúsa hlýdni audsýnir sig í vorum hjörtum, ecki einúngis þar, hvar Jesú vilji kémur saman við vorn vilja; heldur einnig þar, hvar vor spillta náttúra bakspyrnir á móti hans heilögu lögum, þá erum vér sannir limir hans kirkju, annars ecki; þá er það lucka fyrir oss, að vér erum ordnir hennar limir.

## 34. Kapítuli.

### Um Inntökuna í kristilega Kirkju með Skírninni.

Að skírnin sé af Kristi tilsett, sem medal til að verda medlimur hans kirkju, og inntakast í sátt-mála við Gud, vita allir, sem lesið hafa Krists sídustu skipun til sinna lærisveina: farið, gjörið allslags þjódir að mínum lærisveinum, og skírið þær til nafns Födursins, Sonarins og Þess hei-

laga Anda, Matth. 28.. Eptir Krists vilja hefir skírnin tvøfaldann tilgáng; sá fyrri tilgángur er þessi: að manneskjurnar skulu þar með inntakast, sem meðlimir, í sameiníng hans kirkju. Þetta vitnar Kristur, er hann segir: nema svo sé, að nockurr verði fæddur af vatni og anda, þá getur hann ecki orðið borgari í Guðs ríki, Jóh. 3. Það er með øðrum orðum: nema svo sé, að nockurr verði skírður, þá kann hann ecki að álítast, sem meðlimur minnar kirkju. Þess vegna segir líka Páll: fyrir einn anda erum vér allir í skírninni orðnir að einum líkama, hvørt heldur vér erum Gyðíngar eða Grycki, þrælar eður frjálsir, 1 Cor. 12. Skírnin er þess vegna meðal, fyrir hvørt manneskjurnar ega að inntakast í Krists kirkju, og í þessu tilliti var skírnin orðin alkunnug meðal Gyðínga fyrir Krists daga. Þegar Heiðíngjarnir tóku Gyðínganna trúarbrøgð, vóru þeir ecki einúngis umskornir, heldur einnig skírðir, og var þeim við þessa athøfn gefið til kynna, að þeir framvegis skyldu vera hreinir af þeirra heiðíngslegu saurindum. Þar fyrir sjáum vér einnig, að Gyðíngarnir ecki hafa furðað sig á skírn Jóhannesar, svo sem á nýjn og ókunnu skicki. Þeir spyrja hann ecki, hvað þessi skírn ætti að þýða; heldur einúngis: hvaða rétt hann hefði til að skíra, Jóh. 1. Þessa alkunnu siðvenju helgaði Kristur og innleiddi hana í sína kirkju. Sumpart eru manneskjurnar sansalegar, það er: gefnar fyrir því, sem augun sjá og eyrun heyra, við eckert vikna þær svo mjøg, sem það, er gengur ígégnum skilníngar-vitin inn í skilníngin, og vísdómurinn út-

heimtir, ad menn, svo mikið, sem leyfilegt er, hagi sér eptir mannanna náttúru og þeirra þenkíngarhætti. Sumpart eru manneskjurnar ætíð hneigðari til að halda við þeirra gömlu siðvenjur, heldur enn að taka á móti nýjum. Þær eru jafnvel auðleiddari til að umbreyta einni eður annari meiníngu í trúarbrøgðunum, heldur enn vissum siðvenjum í þeirri útvortis guðsþjónustu. Forsjálnin útheimtir þess vegna, að menn ekki án nauðsynja umbreyti gømlu skicki, svo lengi það er ekki til skaða. Þannig þenkti Kristur, hann þeckti manneskjuna, hann þeckti, hvørsu þær eru gefnar fyrir því sansalega, hann valdi þess vegna sýnilegt meðal, og rétt það sama, er áður hafði brúkað verið í sømu kríngumstæðum hjá Gyðíngum, hann tilskipaði, að manneskjurnar, með þessari athøfn, skyldu inntakast, sem bergarar í hans andlega ríki, með þessum hætti skyldu þeir, sem réttir þegnar, undirkasta sig løgum hans ríkis, og með því að uppfylla þau, skyldu þær verða hluttakandi gæðanna í hans ríki.

Hinn annar tilgángur þessarar heiløgu stiptunar er sá, að manneskjurnar með skírninni eiga að inntakast í sáttmála við Gud. Þar fyrir segir Pétur: skírnin er ekki burttekt líkamlegs saurugleika, heldur loforð til Guðs um góða samvitsku, 1 Pét. 3. Skírnin er sáttmáli eður loforð á Guðs síðu til mannsins, og á mannsins síðu til Guðs. Guð lofar þeim, sem skírist, hlut-tekníng í Jesú friðþægíngu, og øllum þeim sáluhjálplegu ávøxtum, sem þessi friðþægíng af sér færir fyrir manneskjurnar um tíma og eilífð. Maðurinn lofar

Gudi, ad hann med trúuni vilji medtaka Jesú Krists fridþægíngu, hvøred einúngis dugir honum til frelsis; ad hann vilji umfadma alla Jesú heiløgu trúarbragda lærdóma, og ecki einúngis medtaka þá med skilnínginum, heldur einnig fylgja þeim med viljanum. Í þessu tilliti eru trúargreinirnar framsettar fyrir þann, sem skírist, uppá þær sver hann, þær eru þau sáttmálans ord, sem hann med hátídlegu lofordi skuldbindur sig til.

Ad þessar trúar-greinir innihaldi høfudlærdóma kristilegrar trúar, þar á er enginn efi; þær innihalda lærdóminn um Gud, sem alls heimsins Skapara og stjórnara; lærdóminn um Krist, sem Guds eingétinn Son, Guds sendibóda og heimsins Endurlausnara; um hans pínu, hans dauda, hans upprisu, hans himnafør, hans almennilegu stjórnun yfir heiminum; lærdóminn um heilagann Anda, um Guds almennilegu nád, um þad ókomna líf, um upprisuna, og um dóminn. Ad þessi trúarjátníng sé ýfrid gømul, þar um kunnum vér allt eins lítid ad efast; jafnvel þad, ad hún er svo einfaldlega og vidhafnarlanst samansett, gefur til kynna hennar elli. En hvørt hún þar fyrir er upprunnin frá Krists Postulum, þar um kynnu menn ad efast, ad minnsta kosti verdur þad ecki sagt med fullkominni vissu. Þad var fyrst á fjórdu øld, er menn fóru ad álíta Postulana fyrir hennar høfunda, og á þeim tíma gátu menn ecki framar skorid úr þessu spursmáli med fullkominni vissu. Vér þurfum ecki heldur ad skéra úr því. Þetta einúngis, ad hún er grundvøllud á Krists og Postulanna lærdómi, gefur henni fullann rétt til

að heita postulleg trúar = játníng, hvört sem Postularnir hafa samantekið hana eður ecki. Þó vér ecki hefðum þessa trúar = játníngu, þá þyrftum vér hennar ecki heldur við til að þeckja vorn skírnar = sáttmála, eður þær skyldur, sem á oss liggja, þegar vér með skírninni erum innteknir í Jesú Krists kirkju. Sáttmálans loforð liggja berlega í sjálfum innsetníngar = orðunum: farið, gjørið allar þjóðir að mínum lærisveinum, og skírið þær uppá nafn Føðursins, Sonarins og heilags Anda. Sú fyrsta krafa, sem liggur í þessari skipun, og øllum er auðsjen, er þessi: skírið þá uppá játníngu þeirrar heilögu þrenníngar. Sú ønnur krafa, sem ecki er strax auðsjen, er þessi: skírið þá uppá það loforð, að þeir vilji uppfylla þær skyldur, sem þeir eru þeim þríeina Guði um skyldugir. Sú fyrri krafa áhrærir skilníngin, hin síðari hefir tillit til hjartans.

Þá fyrri krøfu sjá allir auðveldlega: skírið þá uppá nafn Føðursins og Sonarins og heilags Anda, það er: þegar þér með skírninni inntakið nockurn í mína kirkju, þá skulu þeir skuldbindast til að játa þeim þrí = eina guðdómi, Føðurnum, Syninum og heilögum Anda. Þess vegna er það markverðugt, að þegar Postularnir skírðu Gyðínga, þá skírðu þeir þá einúngis uppá Jesú nafn, Post. g. b. **19. 2.** Orsøkina, hvar fyrir þeir viku hér frá Jesú skipun, er auðveldt að sjá. Høfuð = søkin við þeirra inntøku í kristilega kirkju var sú, að þeir skyldu játa Jesú Kristi, sem þeirra Messías; því í hinum øðrum grundvallar lærdómum, kom þeim saman við þá kristnu. Þeir trúðu á einn Guð, þeir viðurkénndu heilagann Anda, þeir viðurkénndu Guðs forsjón,

annad líf eptir þetta, upprisu framlidinna, þann sídasta dóm, og svo framvegis. Þess vegna, þegar Gydíngarnir medtóku Jesúm Krist fyrir þann, sem hann sagdist vera, og hina adra lærdóma um hans persónu, þá var engin misklíd framar á milli Gydínganna og þeirra kristnu, þá vóru þeir hæfilegir til ad verda medlimir Jesú Krists kirkju. Þess vegna var þad nóg ad Gydíngarnir væru skírdir uppá Krists nafn, þegar þeir gjørdust limir kristilegrar kirkju. Ödruvísi var því háttad med Heidíngjana; bædi var þad, ad þeir trúdu á fleiri Gudi, og líka høfdu þeir enga þekkíngu á þrenníngunni í þeirri guddómlegu veru, um guddóm Sonarins og heilags Anda. Og þennann Gud áttu þeir þó ad vidurkénna, og med þessum hætti áttu þeir þó ad dýrka hann. Þess vegna áttu Heidíngjarnir ad skírast uppá nafn Fødursins, Sonarins og heilags Anda, med skírninni áttu þeir ad vidurkénna, þann þríeina Gud, og afneita øllum þeirra fyrri afgudum.

Þetta er lærdómurinn, sem þeir skírdu kristnu eiga ad vidurkénna; þetta er fyrri partur vors skírnar-sáttmála, sem strax blasir á móti hvors manns sjónum án frekari eptirgrenslunar. Hinn sídari parturinn er ecki eins augljós; en er þó þar fyrir engu sídur óefanlegur. Gétum vér leidt oss í hug, ad Gud skuli ekki heimta meira af þeim skírdu kristnu heldur enn einúngis þetta, ad þeir skuli vidurkénna þrí-einann guddóm? edur gétum vér hugsad, ad vér høfum uppfyllt þennann sáttmála ad øllu leiti, þegar vér einúngis høfum medtekid þennann lærdóm? allt þetta vidkémur einúngis vorum skilníngi; í hjartanu gétur enn þá verid øll þess fyrri spillíng, og betrun

hjartans er þó adal-tilgángur allra Jesú lærdóma. Hvørninn kunnum vér þá ad þenkja, ad þegar Kristur skipar ad inntaka bædi Gydínga og Heidíngja í sína kirkju, þegar hann fyrirskrifar þeim þá skilmála, undir hvørjum hann vill álíta þá fyrir sanna þegna í sínu andlega ríki, ad hann þá ecki skuli heimta meira af þeim, heldur enn einúngis þetta, ad þeir skuli vidurkénna þrenníngu guddómsins? annadhvørt hljótum vér, ad hafa gleymt øllum trúarbragdanna áminníngum ad betra hjartad, edur vér hljótum ad játa, ad þegar vér erum skírdir uppá nafn Fødursins, Sonarins og heilags Anda, þá skyldumst vér þar med undir eins til ad heidra, þjóna og hlýda Fødurnum, sem himins og jardar stjórnara, til ad heidra Krist, sem Guds Son, heimsins Lærimeistara, mannkynsins Endurlausnara, og med fúsri og fortakslausri hlýdni ad undirkasta oss hans heiløgu skipunum; til ad heidra heilagann Anda, sem þá guddómsins persónu, er leidir oss í allann sannleika, styrkir oss til ad lifa eptir Jesú heiløgu løgum, og vidheldur vorum kroptum á dygdarinnar og heilagleikans hlaup-skeidi. Í stuttu máli: med hátídlegum hætti skuldbindum vér oss til ad strída á móti spillíngu vors hjarta, dempa vorar girndir, andiroka vora gédsmuni, temja vor skilníngar-vit og þeirra tillockanir, hreinsa oss frá saurgun holdsins og Andans, og fullkomna vora helgun í Guds ótta. Þar fyrir bætir Kristur þessu vid: skírid allar þjódir uppá nafn Fødursins, Sonarins og heilags Anda, og kénnid þeim ad halda allt, hvad eg hefi bodid ydur.

Þetta er sá sátt-máli, sem manneskjurnar

gjøra vid Gud, þegar þær med skírníni eru inn=teknar í Krists kirkju, og uppá þennann sáttmála er sjálf skírnarinnar handtéríng hid héntugasta bí=læti, sérdeilis eins og hún var framin af Jesú Krists Postulum. Þó á seinni tímum hafi verid gjørd umbreytíng á þeirri útvortis athøfn, ad ausa vatninu yfir þann, sem skírist, í stadinn fyrir ad honum var ádur dýft nidur í þad, þá gjørir þad enga umbreytíngu á sjálfum sátt=málanum, enga umbreytíngu á þeim skyldum, sem þeim skírdu verda uppálagdar. Ad menn eptir Postulanna daga hafa gjørt þvílíka umbreytíngu í þessu út=vortis skicki, hefir ecki skéd án gyldra orsaka. Menn vildu þar med koma í veg fyrir, ad þeim fullordnu ecki þyrfti ad orsakast blygdan af því ad gjøra allann líkamann beránn; menn vildu fyrirbyggja þann skada, sem ídýfíngin í vatnid kunni ad gjøra líkamans heilsu í hinum kaldari løndum. Þad sýnist einnig sem Jesú Postular hafi sjálfir í vissum krínguinstædum einúngis brúkad ádreifínguna; þad sýnist, sem Korneliusi, Lydiu og ødrum, sem skírdir vóru í þeirra húsum, hafi ecki verid dýft ofan í vatnid, heldur ad þeir hafi einúngis verid yfirausnir med vatninu. En þó hefir sú sidvenja verid almennari á Postulanna tímum, ad dýfa þeim ødrúngis nidur í vatnid, sem áttu ad skírast, og allstadar útleggja þeir þessa ídýf=íngu, sem bílæti þess sátt=mála og þess loforðs, sem vér gjørum Gudi í skírninni, sem bílæti þess hjartans hreinleika, sem Gud heimtar af þeim kristnu, er skírdir eru. Þar af koma þessir tals=hættir: ad hreinsast, ad þvost af sínum syndum.

Þess vegna sagdi Ananías vid Pál: stattú upp, og lát skíra þig, og afþvo þínar syndir, og vidurkénn trúarbrøgdin, Post. g. b. 22. Þess vegna segir Páll: ad Kristur hafi hreinsad søfnudinn í vatnslauginni med ordinu, Eph. 5. Þess vegna segir sami Postuli: þér erud afþvegnir, þér erud helgadir, þér erud réttlættir med lærdómi Drottins Jesú, og med Anda vors Guds, 1 Cor. 6. Þessi orda-tiltæki hafa tillit til skírnar þeirra kristnu, og til hvørs annars skyldi Postulinn hafa brúkad þau, nema til ad minna þá fyrstu kristnu á, ad þegar þeir med skírninni vóru inntéknir í kristilega kirkju, þá hafi þeir gjørt þad hátídlega loførd, ad þeir þadan í frá vildu hreinsa sig frá þeirra spillíngu, hreinsa sig frá þeirra fyrri løstum, hreinsa sig frá allri saurgun holdsins og andans, Þar af eru upprunnir þeir talshættir: ad deyja, ad greptrast, ad uppríſa med Kristi, þegar Páll segir: vitid þér ecki, ad vér, svo margir, sem erum skírdir uppá Jesúm Krist, erum til hans dauda skírdir: vér erum þess vegna grafnir med honum med skírninni til daudans; uppá þad, ad líka sem Kristur er uppvakinn frá daudum fyrir Fødursins krapt, svo skulum vér einnig gánga í nýju líferni, Róm. 6. Hvørsu vandskilin, sem þessi orda-tiltæki sýnast, þá skiljum vér þau þó audveldlega, þegar vér eingúngis vitum, ad Páll lítur hér til skírnarinnar, og sidvenju þeirrar fyrstu kristni, ad dýfa þeim skírda eldúngis nidur í vatnid. Þessa idýfíngu í vatnid álítur Páll, sem bílæti þess heilagleikans lofords, sem vér gjørum Gudi í skírninni; þegar ydur, vill hann segja, var

dýft nidur í vatnid, þá líka sem dóud þér, þá vór-
ud þér líka sem grafnir, þá lofudud þér Gudi, ad
þér vildud deyja frá syndunum, ad þér vildud af-
leggja ydar fyrri syndsamlega lifnad; þegar þér
komud upp úr vatninu, þá líka sem upprisud þér
og fengud nýtt líf, þá gjørdud þér Gudi þad heit,
ad þér framvegis vildud ástunda øldúngis nýtt og
betrad framferdi.

En þad var líka sidvenja vid skírn þeirra
fyrstu kristnu, ad sá, sem átti ad skírast, lagdi af
sér vid skírnina sín fyrri klædi, og þegar skírninni
var aflokid, var hann færdur í nýjann hvítann
búníng, (hvíta=vodir), sem bílæti þess heilagleika,
þess sakleysis, þess hjartans hreinleika, sem hann
framvegis átti ad ástunda. Þess vegna var sagt
vid þann skírda, um leid ad hann var færdur í
þennann hvíta búníng: tak vid þessu hvíta og ó-
saurgada klædi, og fær þad sídarmeir bletta=laust
fram fyrir Krists dómstól, svo þú kunnir ad ødl-
ast eilíft líf. Þad sýnist, sem Páll líti til þessar-
ar sidvenju, þegar hann áminnir þá fyrstu kristnu
til ad afklæda sig þeim gamla, en íklædast þeim
nýja manni. Þad sýnist, sem hann hafi þessa sid-
venju fyrir augum sér, þegar hann skrifar til þeirra
í Galata: Svo margir af ydur, sem erud skírdir
uppá Krist, þér hafid íklædst Kristi, Gal. 3.
Hvad vill Páll kénna oss med þessum talshætti ef
þad er ecki þessi sannleiki, ad vér í skírninni gjør-
um þad hátídlega loford, ad vér, fyrir Guds Anda
krapt, viljum kappkosta ad afleggja vora gømlu
medfæddu spillíngu, viljum ástunda ad íklædast apt-
ur Jesu Krists þenkíngar= máta, hans heilagleika,

hans sakleysi; viljum leitast vid ad afleggja sinnislag þess fyrra Adams, og aptur íklæda oss Jesú Krists bilæti. Þess vegna er þad líka, ad þeir skírdu kristnu kallast nýjar skepnur í Kristi. Nú er allur þeirra þenkíngar-máti umbreyttur. Nú hata þeir þad, sem þeir ádur elskudu, og elska þad, sem þeir ádur hötudu. Ádur hölldlegir í öllum þeirra tilhnegíngum, nú andlega sinnadir; ádur þrælar skilníngar-vitanna, nú andans þénarár; ádur heimsins þrælar, nú frelsíngjar Jesú Krists; ádur afguda-musteri sérhvørtar hólldlegrar girndar, nú vígt musteri heilags Anda. Sjá ecki allir hér af, ad sú heilaga skírn, er þad hentugasta nádarmedal sem Jesú vísdómur gat útvalid til ad innstaka manneskjurnar í sína kirkju. Handa manneskjunum, sem gángast meir fyrir því sýnilega enn því ósýnilega, þurfti á medali ad halda, til ad gjöra þessa athöfn rétt hátídlega fyrir þeirra augum; og þessi sidvenja var ordin alkunnug, Gydíngar steyttu sig ecki á henni, þar þeir vóru vanir vid hana og brúkudu hana, þegar þeir inntóku Heidíngjana í þeirra kirkju. Þessi sidvenja var þar hjá, sem ein tegund af hreinsun, þad hentugasta bilæti, til ad þýda þad loford, sem vér egum ad gjörá Gudi í skírninni, og þann hjartans hreinleika, sem allir þeir eiga ad ástunda, sem vilja álítast sannir limir hans kirkju.

---

Þad er tilgángur þeirrar heilögu skírnar, ad manneskjurnar skuli med henni inntakast í kristilega kirkju, þess vegna kunna þeir ecki, sem ei eru skírd-

ir, að álítast hennar meðlimir. Þar af flýtur, að menn ecki án nauðsynja eiga að skjóta á frest skírn sinna barna. Eg vil lángt frá ecki segja þar með, að þau børn fordæmist, sem deyja óskírð; því hvørninn skyldi Guð vera bundinn við þetta náðar-meðal? skyldi hann ecki géta frelsað barnsins sálu án þessa meðals? skyldi þá engin sáluhjálp vera møguleg fyrir utan samneyti kristilegrar kirkju, af því þar er engin skírn? eður skyldi barnsins sáluhjálp vera komin undir foreldranna sérsinni, hvørt þeir vilja láta skíra það eður ecki? en svo lengi børnin eru ecki skírð, kunna þau ecki að álítast, sem limir Krists kirkju; hvar fyrir skyldu menn þá draga það lengi undan, að láta inntaka þau í samneyti þeirrar kirkju, hvørrar limir vér sjálfir erum? ef vor børn deyja óskírð, og hvørsu auðveldlega kann slíkt að ské á meðan þau eru svo korn-úng? þá efumst vér að sönnu ecki þar fyrir um þeirra sáluhjálp; en hvørsu hætt er við því, að vér hneixlum vorá veiku meðbræður? hvørsu hætt er við því, að vér kynnum að verða álitnir sem þeir, er lítils virðtu þessa heilögu athøfn? í þessu tilliti stendur það þess vegna ecki á sama, hvørt vér flýtum skírn vorra barna, eður undandrøgum hana. Kristileg forsjálni útheimtir, að vér ecki skjótum þeirra skírn lengur á frest, enn stærsta nauðsyn útkrefur.

Það er tilgángur þeirrar heilögu skírnar, að þeir, sem inntakast í kristilega kirkju, skuli með þessari hátíðlegu athøfn ingáuga sáttmála við Guð, við kirkjunnar stiptara; sá sem skírist, gjørir þess vegna Guði þau hátíðlegustu heit, heit kjær-

leikans, heit trúskaparins, heit hlýdninnar og heilagleikans; og þessi heit høfum vér Gudi gjørt, edur adrir hafa gjørt þau vor vegna, þegar vér í skírninni vórum innteknir í kirkjunnar samfélag. Einúngis med þeim skilmála, ad vér høldum þennann sáttmála, kunnum vér ad álítast, sem sannir þegnar í þessu andlega ríki; ef vér brjótum hann, ef vér bregdum út af honum af ásettu rádi, þá erum vér ecki undirsátar, heldur upphlaupsmenn í Jesú Krists ríki. Einúngis med þeim skilmála, ad vér høldum þennann sáttmála, kunnum vér ad verda hlut-takandi Evangelíi fyrirheita, sem géfin eru þeim skírdu kristnu; ef vér brjótum hann, ef vér bregdum út af honum af ásetníngi, þá erum vér meinsærismenn, og med voru meinsæri gjørum vér oss óverduga, já, ecki einúngis óverduga, heldur öldúngis óhæfilega til ad taka á móti þeim nádar fyrirheitum, sem Gud gaf oss á sína sídu, þegar vér í skírninni vórum innteknir í hans sáttmála. Ef vér alvarlega þenktum eptir þessu, mundum vér þá med svo frekri ofdyrfsku yfirtroda þær heiløgu tilskipanir, sem Jesus Kristur hefir fyrirskrifad þegnum síns ríkis? sérhvørr syndsamlegur þánki, sérhvør vanheiløg girnd, sérhvør óregluleg sinnis-hræríng er yfirtrodsla þess, á milli Guds og vor, gjørda sáttmála; ættum vér þá ecki ad hrædast þánkann, girndina og sinnis-hrærínguna, allteins vel, sem þá útvortis lastafullu athøfn? ættum vér þá ecki ad segja til sjálfra vor: eg er eid-rofi, eg hefi brotid minn sáttmála, eg hefi slitid þá sameiníngu, sem var á milli mín og míns Guds, þá sameiníngu, sem øll rósemi minn-

ar samvitsku, öll mín von, öll mín fársæld er undir komin.

Skuli þéssi vigtuga athøfn ætíd verda oss ó- forgleymanleg, skuli þessi hátídlegi sáttmáli ætíd verda oss í fersku minni, þá hljótum vér ad láta oss vera annt um ad grípa sérhvørt tækifæri, sem gétur þénad til ad endurnýja þessa endurminníngu hjá oss. Hvílíkt tækifæri frámbýdur sig í hvørt sinn, sem vér erum vitni til annara skírnar, í hvørt sinn, sem vér undirbúum oss til ad gánga til Guds bords, já, í hvørt sinn, sem vér höldum vorn eginn afmælis-dag. Vór náttúrlega fæding gjørdi oss ad borgurum í heiminum, í skírninni fæddumst vér and- legá, í henni urdum vér borgarar í Jesú andlega ríki hér á jørdunni, og fengum hátídlegt loford um borgar-rétt í hans dýrdar-ríki sídarmeir. Skyldi þá sá dagur, á hvørjum vér urdum borgarar í nádarinnar ríki, ecki vera oss allt eins hátídlegur, sem sá dagur, á hvørjum vér urdum borgarar í heiminum? vor fædingar-dagur edur vór skírnar- dagur ætti þéss vegna ad vera innvígdur til hátíd- legrar endurminníngar vors skírnarsáttmála; á þeim degi ættum vér sérílagi ad minnast allra þeirra stóru loforda, er vér gjørdum Gudi, þegar vér vórum inn- teknir í Jesú Krists kirkju, rannsaka sjálfa oss náqvæmlega, hvørt vér líka höldum þessi loford, tøkum fyrir oss nýjann ásetníng ad halda þau, og bidjum Gud um krapt til ad géta haldid þau. Med svoddan ítrekadri vidleitni mundi vor skírnar-sátt- máli verda oss ætíd í fersku minni; þessi endur- minníng mundi styrkja oss í strídinu vid sjálfa oss og vid heiminn; þessi endurminning mundi fæla oss

frá sérhvørju syndsamlegu áformi, sem oss flýgur í hug; vér mundum smámsaman verda varkárari í øllum vorum athøfnum, og heilagari í øllu voru framferdi.

## 35. Kapítuli.

Um Trúarinnar naudsyn fyrir þá skírdu kristnu.

Þad, sem eg hér leitast vid ad sanna, er einúngis þetta: ad trúin á Krist sé fyrir þann kristna naudsynleg til sáluhjálpar. Um Heidíngjana, Gydíngana og alla þá, sem lifa fyrir utan samfélag kristilégrar kirkju, tala eg ecki, og varla meinar Ritníngin til þeirra, þegar hún útilykur þá frá von eilífs lífs, sem ecki medtaka Krist med trúnni. Í þvílíkum greinum gétur líklega ecki verid talad um adra enn þá, hvørjum Jésú lærdómur hefir bodadur verid. Á Krists og Postulanna tímum var Evángelíi ljós uppruunid heiminum, þad átti eptir Krists tilgángi ad bodast øllum mønnum; hann gaf sínum lærisveinum þessa skipun: farid út um allann heiminn og kunngjørid Evangelium øllum lýd. Hér var þessi dómur réttvís, hvørjum Kristur bætt, ir vid skipunina: hvørr, sem trúir og verdur skírdur, sá skal hólpinn verda; en hvørr, sem ecki trúir, sá skal fordæmast, Marc. 16. Þessi dómur, segi eg, var hér réttvís, því ad hafna frambodinni nád, er ad forakta hana, og med hennar forakti ad gjøra sig óverdugann til ad njóta hennar. En þó þessi dómur væri réttvís á Krists og Postulanna tímum, þá fylgir ecki þar af, ad hann sé réttvís á vorum tímum. Margar þúsundir lifa í heiminum,

sem ecki eru kristnir, hvörjum Evangelíum hefir aldrei verid bodad, margir, hvörjum Jesú nafn er ødúngis ókunnugt, margir, hvörjum Evangelíum er ad sönnu bodad, en ecki med sannfærandi og medtækilegum hætti; og yfir høfud kunna menn ad segja, ad þær sannfærandi røksemdir, vanti á vorum tímum hvar med Jesú Postular vóru útbúnir; þessar røksemdir tøludu til skilníngar-vitanna, sá einfaldasti gat skilid þær. Ad þær grundudustu fortølur, hvar med vér á vorum tímum leitumst vid ad kalla Heidíngjana frá myrkrinu til ljóssins, ávinna lítid edur eckért, er ecki svo undarlegt, þar sá hópurinn er stærstur, sem ecki gétur skilid þær. Á Krists tímum kunni þad þess vegna vel ad segjast: hvørr, sem ecki trúir, sá skal fordæmast; en þetta gyldir þar fyrir ecki eptir þann tíma, bædi þar krapta-verkunum hefir slotad, og líka er Evangelii bodun ecki framar svo almenn.

Menn framfæra ad sönnu hér á móti, ad Heidíngjanna forfedur hafi haft Evangelii ljós, og hafi af ásettu rádi hrundid því frá sér; en sumpart kann þad ecki ad segjast um alla, því mjøg er þad efanlegt, ad Jesú trúarbrøgd hafi á Postulanna tímum verid bodud þeim, sem búa í Vestur-álfunni og í þeim løndum, sem liggja vid þad sydra heims-skaut; sumpart kunna ecki nidjarnir ad straffast fyrir illsku þeirra forfedra. Eins og vorir forfedur, sem vóru Heidíngjar, hafa ecki ordid sáluhólpnir fyrir þad, þó þeirra afkomendur hafi tekid trúna á Krist, svo kunna ecki heldur afkomendurnir, sem fæddir eru í heidni, ad fordæmast fyrir þá skuld, þó þeirra forfedur hafi kastad henni frá sér. Páll vidurkennir

þetta, er hann segir: eckért manngreinar álit er hjá Gudi; því þeir, sem hafa syndgad, án þess ad hafa lögmálid, þeir munu ecki verda dæmdir eptir lögmálinu; og þeir, sem hafa lögmálid, og syndga á móti því, þeir munu eptir lögmálinu dæmdir verda, Róm. 2. Eptir Páls meiníngu munu bædi Heidíngjar og kristnir dæmdir verda; en þó hvörr einn eptir þeirri þeckíngu, sem hann hefir, og ecki eptir þeirri þeckíngu, sem hann ecki hefir. Heidíngjarnir munu þess vegna ecki dæmast fyrir þá skuld, ad þeir ecki hafa trúad á Krist, heldur fyrir þad, ad þeir ecki hafa lifad eptir náttúru lögmálinu, sem Gud hefir innskrifad í þeirra hjörtu. Ödruvísi er því háttad fyrir þeim kristnu. Vér erum fæddir í kristilegri kirkju, vér erum uppaldir vid Jesú Krists lærdóm, trúarbrágdanna sannindi eru oss daglega bodud, vér höfum nóg medöl til ad verda stadfastir í þeim sönnu; um oss má þad heita: hvörr, sem á hann trúir, fordæmist ecki; en hvörr sem ecki trúir, er þegar dæmdur, því hann trúdi ecki á Guds eingétinn Son, Jóh. 3. En hvörs vegna er trúin á Krist svo öldúngis naudsynleg fyrir þá kristnu? hvörs vegna er hún sá skilmáli, án hvörs engrar sáluhjálpar er ad vænta? ádur enn eg svara upp á þetta spursmál, hlýt eg fyrst ad útskíra, hvar í trúin sé innifalin, og hvílík trú þad sé, sem útheimtist af þeim kristnu.

Ad trúa, merkir yfir höfud ad medtaka einhvörn vitnisburd, meiníngu edur lærdóm fyrir sannann. Þegar vér samsinnum öllum þeim lærdómum, sem Ritníngin inniheldur, þegar vér höldum þad fyrir satt, ad Gud sé til, ad hann hafi skapad alla hluti,

ad hann vidhaldi þeim, ad hann hafi sendt sinn Son í heiminn, ad hann hafi forlíkad mannkynid vid Gud, ad sálin sé ódaudleg, ad vorir líkamir munn sídarmeir upprísa, o. s. fr. Þegar vér medtøkum alla þessa lærdóma fyrir sanna, af því vér vitum, ad Gud sjálfur hefir opinberad oss þá, og ad Gud ecki kann ad draga oss á tálar, þá trúum vér, og þessa trú køllum vér þá almennilegu trú. Þessi trú hlýtur ad byggjast á þeckíngu; því eg gét ecki trúad því, sem eg þecki eckért til; en þeckíngin sjálf er þó ecki ísama og trúin. Þess vegna gétur þeckíngin verid veik og lítil, en trúin kann þó ad vera mikil. Sú kanverska qvinna hafdi vissulega ýfrid litla þeckíngu á Kristi, og þó gaf Kristur henni þann vitnisburd: ad hennar trú væri mikil, Matth. 15.

Þegar vér nú vitum, hvar í sú almenntilega trú er innifalin, þá er audveldt ad skilja, hvar í sú sérdeilislega trú sé innifalin, sem kallast trúin á Krist. Vér trúum yfir høfud, þegar vér medtøkum einhvørn vitnisburd edur lærdóm fyrir sannann; vér trúum þess vegna á Krist, þegar vér med fullu trúnadartrausti medtøkum hann fyrir þá persónu, sem hann sagdist vera. Nú sagdist Kristur vera Guds Sonur, heimsins Frelsari, og heimsins Lærimeistari. Þegar vér þess vegna medtøkum hann fyrir þvílíka persónu, fyrir þann, sem hann sagdist vera, þá trúum vér á hann. Þessi trú er ad sønnu øldúngis naudsynleg til sáluhjálpar fyrir þá kristnu, en hún er samt ecki einhlýt. Ef vér ecki høfum þessa trú til ad bera, ef vér neitum því, ad Kristur sé Guds Sonur, heimsins Frelsari og heimsins Lærimeistari, þá kunnum vér ecki heldur ad hafa þá sáluhjálp=

legu trú á Kristi; en vér kunnum gjarnan ad hafa þá fyrri, og oss kann samt ad vanta þá síðari. Á medal þess mikla fjölda kristinna manna eru þeir ecki utan fáir, er ecki medtaka Krist fyrir allt þetta, en lítil mun þó vera þeirra tala, sem hafa þá trú, er til sáluhjálpar útheimtist. Ræníngin, ofdryckju-madurinn, ofáts-madurinn, hór-karlinn, saurlífis-madurinn, efast ecki um, ad Kristur sé Guds Sonur, heimsins Endurlausnari og Lærimeistari; þeir samsinna fullkomlega þessum lærdómum; en þó mun enginn vilja standa uppá þad, ad þeir hafi þá trú, sem til sáluhjálpar útheimtist. Þá brestur þetta á bord, ad þeirra trú er eiríngis í heilanum, en færir enga ávexti í hjartanu.

Þad er augna-mid allra trúarbragdanna lærdóma, ad þeir skuli audsýna þeirra krapt í hjartanu. Þau vísindi meta menn ecki mikils, sem hvörki gagna almenníngi, né honum sjálfum, er leggur sig eptir þeim; og hvada verd mun þá vor audlega þecking hafa í Guds augliti, þegar hún einúngis er í skilníngnum, en hnegir ecki viljann? þess vegna heimtar Ritníngin allstadar verkandi, ávaxtarsama og lifandi trú, og telur trúna gagnslausa, ef hún ecki hefir þessa eginlegleika til ad bera. Umþenkíng edur þeckíng vigtugra gæda, sem oss þykir mikid til koma, uppvekur ætíd sterka eptirlaungun hjá oss, ad eignast þessi gædi, og þessi eptirlángan er leyfileg, þegar þessi gædi í raun og veru standa oss til boda. Nú hefir Kristur sagt sig vera heimsins Endurlausnara, þegar vér þess vegna medtökum þennann sannleika, og hann uppvekur hjá oss sanna og innilega laungun eptir ad verda adnjótandi hans forþénustu,

þá er vor trú lifandi. En, þessi eptirlángan, skyldi hún ecki finnast jafnvel hjá andvaralausum syndara? enginn er svo vondur, að hann ecki elski sjálfann sig; enginn er svo vondur í lífinu, að hann ecki óski að verða sáluhólpinn eptir dauðann, og þar ecki er sáluhjálp í neinum øðrum enn Kristi, hvørr skyldi þá vera svo spilltur, að hann ecki óski að verða hluttakandi Krists forlíkunar? en sá, sem er spilltur, og elskar sína spillíngu, gétur samt ecki orðið aðnjótandi Krists friðþægíngar, þó hann óski þess; øll Ritníngin setur sig á móti þessum þánka. Þessi trú er ecki fullkomin; að meðtaka Krist fyrir sinn Endurlausnara, og finna hjá sér einslags laungun eptir að verða aðnjótandi hans forþénustu, það innibindur ecki í sér trú þeirra kristnu að øllu leiti.

Jesús Kristur sagðist ecki einúngis vera heimsins Frelsari, heldur sagðist hann einnig vera heimsins Lærimeistari. Að trúa á hann, er að meðtaka hann fyrir þá persónu, sem hann sagðist vera. En þessi trú hlýtur að vera lifandi, bera ávøxt, og sýna sig í verkunum. Þegar hún ecki einúngis nemur staðar í skilníngimum, heldur verkar líka í hugarfarinu heilaga og sterka girnd, til að breyta eptir øllum þeim heiløgu boðorðum, er Jesús Kristur, sem heimsins Lærimeistari, hefir gefið oss, þá er hún lifandi, þá er vor trú á Krist hið fyrsta sáluhjálpleg. Þess vegna heimtar Ritníngin verkin, þess vegna heitir það: hvað stoðar, þó einhvørr segist hafa trúna, þegar hann ecki hefir verkin, mun þessi trú géta gjørt hann hólpinn? þess vegna heitir það svo: að trúin sé dauð án verkanna, Jac. 2. Þess vegna samtengdu Jesú Postular í

þeirra áminníngum apturhvarf og trú hvört við annað. Páll segir: eg hefi prédikað bæði fyrir Gyðíngum og Grykkjum, að þeir skuli snúa' sér til Guðs, og trúa á Drottinn vorn Jesúm Krist, Post. g. b. 20. Þess vegna heimtar Páll þá trú, sem augl'ýsir sig í kjærleikans verkum, Gal. 5. Trúin á Jesu endurlausn á að uppvekja í kristins manns hjarta sanna og innilega elsku til Endurlausnarans; og elskan til Endurlausnarans á að gjöra hann fúsann og viljugann til að uppfylla allar Jesú Krists heilögu lífs-reglur; fúsann og viljugann í ydkun sinnar skyldu og allra góðra verka. Þegar vér nú tökum allt þetta til samans, þá vitum vér hvar í sú sanna og sáluhjálplega trú er innifalin. Þegar vér eckí einúngis með skilnínginum meðtökum Krist, sem heimsins Endurlausnara og heimsins Lærimeistara; heldur finnum þarðauki hjá oss innilega laungun eptir að verða aðnjótandi Jesú endurlausnar, og sterka girnd til að lifa eptir Jesú Krists heilögu' boðorðum, þá trúum vér á hann, þá uppfyllum vér þá skilmála, sem á vora síðu útheimtast, til að verða hlut-takandi í von eilífs lífs, sem oss er gefin í Jesú endurlausn.

Af þessari úlmálun, sem eg hefi gjört yfir þá sáluhjálplegu trú, sjáum vér nú auðveldlega, hvörsu trúin og sáluhjálpin hánga nákvæmlega saman, og hvörsu Jesú dómur er sanngjarn: hvörr, sem trúir á hann, fordæmist ecki; en hvörr, sem ecki trúir, er nú þegar fordæmdur, því hann trúði ecki á Guðs eingétinn Son, Jóh. 3. Eg hefi sagt, að trúin á Krist innibindi í sér þetta þrennt, sem nauð-

synlega verdur hvørt ødru að fylgja, ef trúin skal vera fullkomin og af þeirri réttu tegund. Madur hlýtur, nefnilega; að medtaka Krist fyrir heimsins Endurlausnara, og heimsins Lærimeistara; madur hlýtur að hafa innilega laungun eptir að verða aðnjótandi hans forþénustu; madur hlýtur að hafa stadfasta og sterka girnd til að lifa eptir hans heiløgu bodordum. Vanti einn edur fleiri af þessum pørtum þeirrar sáluhjálplegu trúar, þá er það ecki sú trú á Krist, sem Guð heimtar af þeim skírðu kristnu. Sá, sem ecki trúir á Krist, er þess vegna vantrúadur, annadhvørt af því, að hann neitar øldúngis, að Kristur sé sú persóna, sem hann sagdist vera, hvar af náttúrlega flýtur, að hann ecki gétur haft hið annað til að bera, sem til trúarinnar útheimtist; ellegar af því, að hann ecki finnur hjá sér neina sanna og innilega laungun eptir að verða aðnjótandi Jesú forþénustu; ellegar líka af því, að hann ecki hefir neina støduga og sterka girnd til að lifa eptir Jesú heiløgu bodordum. Á hvørja síduna, sem vér athugum hann, er þvílíkur madur óhæfilegur, og gétur ecki annað enn verið óhæfur til eilífrar sælu. Eg vil stuttlega færa sønnur á mál mitt.

Sá, sem skal hafa þá sáluhjálplegu trú á Krist, hlýtur að medtaka hann fyrir þá persónu, sem hann sagdist vera, fyrir heimsins Lærimeistara og heimsins Endurlausnara; neiti hann því fyrra, þá álítur hann Krist fyrir svikara, hans stóru krapta-verk, með hvørjum hann stadfesti sína guddómlegu sendíngu, fyrir eintómar sjón-hverfíngar, það góða og nytsamlega, sem menn þykjast finna í hans guddómlegu kénníngum, fyrir mannlegar mein-

íngar, hvar af menn megi medtaka svo mikid eda lítid, sem þeim sjálfum sýnist, en burtkasta hinu, sem ecki gétur stadist med þeirra eginn þaunkum og tilhneigíngum þess spillta hjarta; en ad sá, hvørs hjarta er svo hrædilega spillt, ad sá, sem spottar Krist og foraktar þau sannindi, sem honum vóru til betrunar gefin, ad þvílíkur madur gjøri sig óverdugann Guds nádar og sælu þess eptirkomanda lífs, þar á er enginn efi. Neiti hann þarámóti því sídara, neiti hann, ad Kristur hafi verid heimsins Endurlausnari, þá neitar hann annadhvørt Guds almennilega yfirherradæmi, og heldur, ad Gud horfi adgjørdalaus á sín handa-verk, skipti sér eckert af, hvørninn framfer medal mannanna, og séu menn honum þess vegna ecki skyldugir um elsku, hlýdni edur lotníngu, ellegar hann neitar Guds heilagleika og réttlæti. Stundum á Skaparinn ecki ad hafa fyrirskrifad síuum skynsemdarfullu sképnum neitt løgmál; stundum á þad ad standa á sama, hvørt menn uppfylli edur yfirtrodi þad; stundum á Gud ad géta fyrirgéfid syndurunum þeirra afbrot, án nockurs forlíkunar-medals; í Gudi, hvørs fullkomlegleikar eru allir eins stórir og eins óendanlegir, á þó hans miskunsemi ad vera stærri enn hans réttlæti. Þess vegna þarf engrar fridþægíngar vid, einkis endurlausnara, einkis medalgángara á milli Guds og manna. Sá þess vegna, sem neitar, ad Jesús Kristur sé heimsins Endurlausnari, hann hryndir ecki einúngis frá sér því einasta medali, fyrir hvørt hann kann ad frelsast, heldur neitar hann einnig øllu því, sem er stórt og óendanlegt í þeirri guddómlegu veru; hvørsu sanngjarn er

þá ecki Ritníngarinnar dómur: hværr, sem ecki trúir, hann skal fordæmast.

Sá, sem skal hafa sáluhjálplega trú á Krist, hlýtur ad hafa sanna og innilega laungun eptir ad verda adnjótandi Krists endurlausnar. Finni kristinn madur ecki hjá sér þessa laungun eptir Guds náð í Kristi, hvørninn géta menn þá hugsad, ad Gud muni géfa þeim sína náð, er virdir hana svo lítils? Nær hefir þad heyrst, ad nockurr hafi naudgad uppá annann sínum velgjørníngum, þegar hann med allri sinni hegdun sýnir, ad hann foraktar þá? vér sjáum fátækann mann, vér vitum mikid vel, ad hann þarf vid vorrar ølmusu, vér erum reidubúnir ad géfa honum hana; en vér verdum ecki varir vid neina laungun hjá honum eptir ad njóta hennar, vér gaungum fram hjá honum, hann hrópar ecki eptir oss. Vér køllum til hans, hann kémur ecki; vér sýnum honum vora gáfu, hann útréttir ecki høndina til ad taka á móti henni; vér gaungum eptir honum, vér gaungum á móti honum, og hann skilur vid oss og géngur burt øldúngis áhyggjulaus, eins og hann vanti eckért. Mundum vér troda vorum velgjørdum uppá þennann tilfinníngarlausa og óþackláta mann? edur kunnum vér segja, ad sá sé ómiskunsamur, sem heldur sínum gáfum inni í þvílíkum kríngumstædum? og rétt eins og þetta, hegdar sér vid Gud sá syndari, sem ecki finnur til neinnrar sannrar og innilegrar laungunar eptir Guds náð í Kristi. Hann spottar ad sønnu ecki Gud, hann finnur sig sannfærdann um, ad ecki sé sáluhjálp í nockrum ødrum enn Jesú Kristi; en af því hann er bundinn vid jørdina, tryllur

af skilníngar-vitunum og nidursockinn í veraldlegar sýslanir, þá þenkir hann hvørki til Krists né þeirrar sælu, sem hann hefir útvegad, hann finnur ecki hjá sér neina laungun eptir Guds nád, ellegar hans eptirlángan er køld og hálf-volg; hún er ecki svo alvarleg, svo innileg, sem hún ætti ad vera. Hvad er þá ad undra, þó Gud naudgi ecki uppá hann þeirri nád, sem hann lítils virdir og skeytir ecki um! med Krists endurlausnar-verki hefir Gud tekid oss í sátt vid sig; hann hefir brúkad þau kroptugustu medøl til ad draga oss upp úr þeirri grýfju, í hvørja vorar syndir høfdu nidursteypt oss; hann hefir aptur opnad oss himininn og inngáng til ævarandi gledi, hann lætur kunngjøra oss þessa sælu; hann upprø.far oss til ad keppast eptir henni; trúin er sú hønd, sem vér egum ad útrétta til ad taka á móti henni; ef vér ecki viljum gjøra svo mikid, sem útrétta þessa hønd, ef vér ecki finnum hjá oss neina laungun eptir þeirri frambodnu nád; ef vér skeytum henni ecki; í einu ordi, ef vér ecki trúum á Krist, þá er þessi trúarskortur forakt-an Guds nádar. Og hvørsu stór er mismunurinn á milli þess, sem neitar øldúngis Guds nád í Kristi, og þess, sem trúir henni ad sønnu, en foraktar hana? sá fyrri foraktar þessa nád, af því hann ecki trúir henni, hinn sídari trúir henni, og for-aktar hana samt. Bádir eru vantrúadir, bádir eru foraktarar Guds nádar i Kristi; Ritníngarinnar dómur er þess vegna allt eins samgjarnlegur yfir þeim eina, sem hinum ødrum: hvørr, sem ecki trúir, sá skal fordæmast.

Ad sídustu hlýtur sá, sem skal hafa þá sálu-

hjálplegu trú á Krist til ad bera, einúig ad hafa innilega og sterka girnd til ad lifa eptir Jesú heiløgu bodordum, og þessi girnd hlýtur ad vera allt eins stór, sem laungunin, er hann finnur hjá sér til ad verda adnjótandi Jesú Krists fridþægíngar. Sá, sem ecki finnur hjá sér neina sanna og drottnandi girnd til ad undirkasta sig Jesú Krists tilskipunum; sá, sem metur þad meir, sem hans spillta náttúra eggjar hann á, heldur enn þad, sem trúarbrøgdin bjóda, hann hefir vondt og spillt hjarta, hann elskar sjálfann sig meira enn Gud, heiminn meira enn himininn; hann er ánaudugur þræll sinna skilníngar-vita og gédshræríngа. Hvørninn getur þvílík sála verid hæfileg til þeirrar eilífu sælu? þó Jesú forþénusta hafi óendanlegann krapt, þá megnar hún þó ecki ad gjøra hann farsælann. Sú sála, sem færir alla sína holdlegu fýsn, sínar óordulegu girndir, sínar óstjórnlegu géds-hræríngar med sér inn í eilífdina, mundi í sjálfum himninum engann himin finna, af því hún gétur þar ecki fundid neina mettun fyrir sína fýsn, sínar girndir og sínar gédshræríngar. Høfud-tilgángur Jesú trúarbragda er, ad vísa oss á þau bestu medøl til ad uppræta vora lesti, og íklæda oss þeim dygdum, sem eiga ad skarta á oss í eilífdinni, af því lestirnir færa med sér þeirra egin fordæmíngu, eins og dygdin hefir sín egin laun í rósemi samvitskunnar, fridi hugskotsins og medvitundinni um sín egin gódverk. Þad er þess vegna adal-tilgángur allra trúarbragdanna bodorda ad leida oss til dygdanna, til þess ad gjøra vor hjørtu med dygdunum

hæfileg til þeirrar eilífu sælu; og þess vegna, sá, sem ecki undirkastar sig boðorðnum Jesú heilögu trúarbragða, hann elskar lestina meir enn dygðirnar, hann gengur þann veg, sem við hvört fótmál leiðir hann lengra frá sáluhjálpinni, en nær fordæmíngunni. Guð sjálfur, og öll himnaríkis sæla kann ecki að gjöra hann luckulegann; því hann hefir óluckuna innvortis hjá sér, í spillíngu síns egin hjarta. Hans drottnandi girndir, sem hann hér í heimi ecki hefir viljað undirþrycka, og sem hann síðarmeir ecki gétur mettað, þessar girndir eru eilífðarinnar qvalir, sem eru allt eins óaðskiljanlegar, sem dygð og farsæld. Ályktanin verður þar fyrir þessi: sá, sem skal verða hluttakandi í sælu eilífs lífs, hann hlýtur að trúa á Krist, hann hlýtur að hafa stoðuga og sterka girnð til að uppfylla það, sem Jesú heilögu trúarbrögð honum fyriskrifa. Þar, sem þessi girnð er ecki, þar er engin trú, og þar, sem engin trú er, þar er engin von sáluhjálparinnar. Ritníngarinnar dómur er þar fyrir sanngjarn og réttvís: hvörr, sem ecki trúir, sá skal fordæmast,

Svo nauðsynleg er trúin til að verða hluttakandi þeirrar sælu, sem Kristur hefir útvegað manneskjunum. Sá, sem ecki trúir, neitar annaðhvört, að Kristur sé heimsins Lærimeistari og heimsins Endurlausnari; hann álítur þess vegna Krist fyrir svikara, og hans forlíkun fyrir heimsku: ellegar hann með svívirðilegasta hyrðuleysi forakter þá náð, sem honum er framboðin í Kristi, þó hann ecki neiti henni, ellegar hann gengur á lastanna, og þar fyrir einnig á fordæmíngarinnar vegi, þó hann

æski sér þessarar náðar. Hvørninn gétur manneskjan með slíkum þenkíngar-hætti orðið sáluhólpin? að standa uppá það, er sama og að segja: að í þeirri æðstu veru sé enginn vísdómur, enginn heilagleiki, eckért réttlæti. Ef Guð gæti gjørt manneskjurnar sáluhólpnar án trúarinnar, þær manneskjur, sem þeckja Krist, sem eru sannfærðar um þann guðdómlega uppruna hans trúarbragða, eður, sem að minnsta kosti gætu sannfærst um hann, ef þær einúngis sjálfar vildu; ef Guð, segi eg, gæti gjørt þvílíkar manneskjur sáluhólpnar án trúarinnar, þá gæti hann líka gjørt þær sáluhólpnar án forlíkunar-meðals; það eina stríðir ecki meira á móti Guðs fullkomlegleikum, heldur enn hið annað. Að veita þeirri manneskju náð vegna Krists verðskuldunar, sem foraktar þessa frambóðnu náð; að nauðga uppá manneskjunna hlutdeild í Krists endurlausn, sem enga hlutdeild vill hafa í hans friðþægíngu; að draga manneskjuna nauðuga til sáluhjálparinnar, sem af ásetníngi gengur á gløtunarinnar vegi; það er með øðrum orðum: að frelsa manneskjuna frá fordæmíngunni, og leiða hana til sáluhjálparinnar með ómótstæðilegum hætti, með øllum hennar drottnandi girndum, á móti hennar ósk og vilja, þvílík gæðska í Guði, ef það annars kann að kallast gæðska, kann allt eins lítið að sameinast við Guðs vísdóm, sem það, ef hann án friðþægíngar vildi taka til náðar fallna og mótþróanlega syndara.

---

Eg vona nú, að allir sjái auðveldlega, hvað

Guð heimtar af þeim kristnu, til að gjöra þá hluttakandi í Jesú Krists friðþægíngu, og hvar fyrir hann heimtar þvílíkt af þeim. Vér hljótum þess vegna að afleggja allar þær raungu meiníngar, sem menn almennt gjöra sér um þá sáluhjálplegu trú, hverjar eru stór hindran í þeirri sjálfs prófun, sem útheimtist til kristins manns betrunar. Flestir kristnir efast enganveginn um, að þeir trúi á Krist, því þeir eru skírðir, þeir eru með skírninni innteknir í Krists kirkju, þeir eru uppfræddir í grundvallarlærdómum hans trúarbragða, þeir hafa verið staðfestir í þeirra skírnar-sáttmála, þeir halda Jesú endurminníngar-máltíð, þeir koma einusinni í hverri viku í Guðs hús, þeir biðja, þeir lesa, þeir syngja lofsaunga Guði og Jesú til dýrðar, þeir gjöra allt með, sem útheimtist til þeirrar útvortis Guðsþjónustu; munu þeir þá ecki hafa trúna á Krist? og munu þeir þá ecki, prýddir með þessari trú, vera þócknanlegir þeirri æðstu veru, og hafa grundaða von um það eilífa líf? nei, allt þetta getur sá vanheilagi haft sameginlegt við þann heilaga. Sá vanheilagi er einnig skírður, hann er líka inntekinn í Krists kirkju, hann er líka uppfræddur í trúarbragðanna saumindum; sá vanheilagi krýpur opt fram við hliðina á þeim heilaga fyrir Herrans altari, sá ósvífni syndari og sá sannkristni gánga báðir til Guðs húss, eins og Pharisæinn og Tollheimtumaðurinn, þeir biðja báðir, þeir heyra báðir Guðs orð, þeir syngja báðir kristninnar lofsaunga; og með öllu þessu munum vér þó ecki leiða oss í huga, að þeir séu báðir jafn hæfir til eilífðarinnar, að þeir báðir hafi sömu von sáluhjálparinnar.

Sú almennasta ránga meiníng, sem blindar þá kristnu, þegar heimtuð er af þeim trúin á Krist, er þessi: að þeir blanda saman trúnni á Krist við þeckínguna á Kristi og þá fullkomnu sámsinníngu, með hvörri þeir meðtaka þessa þeckíngu. Ef vér spyrjum alþýðu, hvört hún trúi á Krist, þá munum vér án efa fá þetta svar: já, eg trúi, því eg efast ecki um, að Guð hafi skapað heiminn, að hann stjórni og stýri øllum hlutum og øllu því, sem framfer í heiminum. Eg trúi; því eg efast ecki um, að Kristur sé Guðs Sonur, að hann hafi forlíkað heiminn við Guð, að Hann hafi dáið fyrir mannanna syndir og fyrir mínar syndir, að Hann hafi uppríśið frá dauðum, uppstígið til himna, og svo framvegis. Øllu þessu trúi eg, eg er øldúngis viss um það, og eg hefi aldrei efast um það í nockurn máta; hvað vantar mig þá framar til þess, að eg hafi þá trú, sem til sáluhjálpar útheimtist? já, mikið vantar enn þá, það vantar, sem mest áríður, nefnilegá þetta: að vor trú á að vera lifandi, frjóssöm og kroptug til að betra vorn vilja. Það vantar enn þá, sem Postulinn heimtar: sýn mér trú þína af verkum þínum, Jac. 2.

Ef vér þess vegna viljum vita, hvört vér høfum þá trú til að bera, er til sáluhjálpar útheimtist, þá hljótum vér að prófa, ecki vora þeckíngu, heldur vor verk; og þó einúngis þau verk, sem eru trúarinnar ávextir. Til eru þau góðverk, sem einúngis eru ávextir náttúrufarsins. Að sá vellystíngi er víngjarnlegur, viðqvæmur, meðaumkunarsamur, mannúðlegur, góðgjørðasamur, það eru optast náttúrn-farsins, en ecki trúarinnar ávextir.

Ad sá stollti er hreinlyndur, þénustuviljugur, vandlátur, trúfastur, það eru optast náttúrn-farsins, en ecki trúarinnar ávextir. Ad sá ágjarni er hóffamur, reglu-bundinn, sparsamur, hatari alls fællífis og lystisemda, það eru optast náttúrufarsins, en ecki trúarinnar ávextir. Sú sáluhjálplega trú auglýsir sinn krapt þar í, ad hún uppvekur hjá oss stöduga og sterka girnd til ad uppfylla allar Jesú heilögu skipanir, ecki einúngis þær, sem koma saman vid vort náttúrn-far, þess girndir og tilhneigíngar — því hér getur sá vantrúadi gjört það sama — heldur einnig þær, sem strída á móti voru náttúrufari og þess tilhneigíngum. Þegar sá vellystugi, upphvattur af Jesú Krists kjærleika, dempar sín skilníngar-vit, strídir á móti þeirra freistíngum, og heldur þeim í taumi, þá er trúin kroptug í hans hjarta, hann verdur var vid hennar verkanir, og efast ecki framar um orsøkina. Þegar sá stollti, uppørfadur af Jesú kjærleika, umbreytir sinu stollti í andmýkt, sinni hefndargirni í hógværd, sinni øfund yfir annara lucku í gledi yfir þeirra velgengni, þá er trúin krøptug í hans hjarta, hann verdur var vid hennar verkanir, og efast ecki framar um orsøkina. Þegar sá ágjarni, tilknúdur af Krists kjærleika, brúkar sínar nægtir til ad metta þann húngrada, svala þeim þyrsta, klæda þann nakta, þá er trúin krøptug í hans hjarta, hann verdur var vid hennar verkanir, og efast ecki framar um orsøkina.

Þessi eru kénniteikn þeirrar sønnu sáluhjálplegu trúar, sem Gud heimtar af þeim kristnu; því þessir eru hennar ávextir. Þó megum vér í þessu

voru veikleikans standi ecki svo mjøg prófa vor verk, sem þá heiløgu girnd, er vér høfum til ad gjøra þau. Sá veiki kristni mundi annars opt og tídum finna orsøk til ad ørvænta um sitt sálar-ástand; hvørsu opt hrasar hann, hvørsu hætt er honum vid ad detta, og hvørsu torveldt veitir honum ad standa upp aptur. Sá besti kristinn madur finnur opt orsøk ad qvarta med Páli; viljanu hefi eg ad sønnu; en ad gjøra þad góda, megna eg ecki. Því þad góda, sem eg vil, gjøri eg ecki; en þad ílla, sem eg vil ecki, þad gjøri eg, Róm. 7. En sá, sem enn þá er trúar-veikur, er þó allt eins vel trúadur, sem hinn trúar-sterki; eg hefi þess vegna til þeirrar sáluhjálplegu trúar einúngis útheimt innilega, stødugu og sterka girnd til ad uppfylla bodord Jesú heiløgu trúarbragda. Sé þar einúngis þessi girnd, sé hún krøptug og alvarleg; sé sú girnd, sem vér finnum hjá oss til ad uppfylla Jesú løgmál, sterkari og ríkari enn sú girnd, sem vér finnum hjá oss til ad uppfylla løgmál vorrar spillíngar; hafi Krists kjærleiki gjørt oss hughrausta til ad strída á móti sjálfum oss, og yfirvinna sjálfa oss; ef vér ángrumst í hvørt sinn, sem náttúran sigrar oss, og gledjumst í hvørt sinn, sem vér sigrum náttúruna, þá er þessi støduga girnd til ad uppfylla þad, er Jesús Kristur hefir oss bodid, ávøxtur trúarinnar, sem er upptendrud í vorum hjørtum; vér vitum þá líka, ad vér med øllum vorum veikleika høfum þó þá trú til ad bera, sem Gud heimtar af kristnum mønnum, til ad gjøra þá hlut-takandi þeirrar sælu, sem Kristur hefir þeim afrekad. Vér efumst þá ecki um vora

trú; vér efumst einúngis um hennar krapta, og þetta vantraust, sem vér høfum á sjálfum oss, gjørir oss þess árvakrari yfir sjálfum oss, og þess forsjálli í voru framferdi, svo ad vér ecki yfirføllumst óvidbúnir, og vorir óvinir verdi oss yfirsterkari.

## 36. Kapítuli.

### Um naudsyn Guds medverkunar til þess sanna góda.

Eg hefi nú sýnt, hvad á vora sídu útheimtist, ef vér skulum verda adnjótandi Jesú fridþægíngar, og vegna hans endurlausnar hafa grundvallada von um sælu þess ókomna lífs. Vér hljótum, nefnilega: ad hafa trúna á Jesúm Krist: vér hljótum ad sýna þad, ad vér trúum á hann med sannarlega gódum og kristnum manni verdugum verkum. En er oss þetta møgulegt af vorum eginn krøptum? edur er þad naudsynlegt, ad annar ædri kraptur komi oss til hjálpar? þetta spursmál hlýtur ad ransakast, svo ad vér ecki tilreiknum sjálfum oss hvørki oflítid né ofmikid. Séti eg sannad, ad vér sjálfir séum of vanmáttugir til ad betra vor hjørtu og helga þau af vorum eginn krøptum einúngis, þá er þar med undir eins sannad, ad Guds medverkan er naudsynleg fyrir oss til þess sanna góda.

Þegar sagt er: ad vér af náttúrunni séum vanmáttugir til þess sanna góda, þá er ecki þar med neitad, ad manneskjan hafi vissann náttúrlegann hæfilegleika til þess góda, án hvørs Gud sjálfur gæti ecki betrad hana, utan hann med sínu ómótstædilega almætti vildi umbreyta hennar náttúru,

sem stríðir á móti vísdómi þeirrar æðstu veru. Manneskjan hefir skilníng, sem kann að upplýsast og sannfærast; hún hefir vilja, sem með frøptugum røksemdum kann að svegjast. Maðurinn er að því leiti líkur leirnum, að hann hefir hæfilegleika til að mindast, en gétur þó allt eins lítið, sem leirinn, mindað sig sjálfur. Hann er þarámóti ólíkur leirnum þar í, að hann gétur misbrúkað sitt frelsi til að mótstanda þeim krapti, sem leitast við að betra hann, en leirinn þarámóti lætur minda sig án mótstøðu. Þar fyrir segir Stephanus við Gyðínga: *þér harðsvíraðir og óumskornir í hjørtum og eyrum, þér mótstandið jafnan heiløgum Anda, svo sem yðar feður, svo og líka þér,* Post. g. b. 7.

Þegar sagt er: að manneskjan hafi af náttúrunni ekkért frjálsræði til þess sanna góða, þá hljóta menn að gjøra mismun á milli sjálfs kraptarins og hans brúkunar. Ef vér hugleiðum manneskjunnar frjálsræði einúngis sem krapt, þá er það verulegur eginlegleiki mannsins sálar, er allt eins lítið kann að missast vegna syndarinnar, sem allir hinir aðrir sálarinnar kraptar, svo lengi manneskjan skal vera manneskja. En manneskjan gétur ekki, af sjálfri sér til, brúkað þetta frjálsræði til þess sanna góða. Manneskjan er í sínu náttúrlega tilstandi lík sjúkum manni, sem að sönnu hefir enn þá skynsemi, ímindunar-krapt, sansa, að því leiti, sem þessir eginlegleikar álítast sem kraptar í manneskjunni; en þessir kraptar eru aflagaðir; hann brúkar þá annaðhvørt ekki, eður hann brúkar þá ránglega.

Þegar sagt er: að manneskjurnar séu af náttúrunni vanmáttugar til þess sanna góða, þá neitast ecki þar með, að það standi í þeirra valdi, að ásetja sér vissar góðar athafnir; t. d.: að biðja, lesa, heyra Guðs orð, og svo framvegis; sá stolti Pharísæari gjörði í þessum pósti það sama, sem sá guðhræddi Tollheimtumaður, en samt var þeirra hjartalag ólíkt. Vér neitum ecki heldur, að þær kunni að hafa eina og aðra góða eginlegleika til að bera, og fremja einar og aðrar útvortis dygðugar athafnir. Reynslan sýnir það, sem er þvertámóti. Náttúrleg manneskja kann mikið vel án Guðs aðstoðar að vera örlát, þénustuviljug, hreinlynd, hóffsom, meðaumkunarsöm. En þessar dygðir koma stundum af óhreinum tilgángi, stundum eru þær einúngis náttúrufars dygðir, hverjar eru allt eins nauðsynlegar, sem það, að trén beri ávextina, og dýrin elski þeirra afqvæmi. Þvílíkar manneskjur eru í vissann máta dygðugar, af því þeim er ómögulegt að vera lasta-fullar. En með öllu þessu er hjartað ecki betrað.

Nei, þegar sagt er, að manneskjan sé af náttúrunni vanmáttug til þess sanna góða, þá má leita að þessum vanmætti framar í viljanum enn í kroptunum. Vér erum vanmáttugir til þess góða, framar vegna þess, að vér ecki viljum, heldur enn að vér ecki gétum gjört það. Sú meðfædda tilhnegíng vors vilja til þess vonda er svo megn, svo rík, svo drottnandi, að eckért náttúrlegt meðal orkar að snúa henni til þess sanna góða. Og þetta er það, sem eg hér vil færa sönnur á.

Öll heilög Ritníng samfærir oss um þenn-

ann svo mjøg audmýkjandi sannleika. Hún segir: ad holdsins þánkar séu fjandskapur á móti Gudi, ad þeir séu ecki Guds løgmáli undirgéfnir, og þeir géti ecki heldur verid þad, Róm. 8. Ad sansalegur madur géti ecki skilid Guds Anda lærdóma, ad þeir séu honum heimska, og hann géti ecki gripid þá, 1 Cor. 2. Ad enginn géti komid til Krists, nema fadirinn dragi hann, Jóh. 6. Ad enginn kunni ad gjøra neitt án Krists, Jóh. 15. Ad vér ecki séum duganlegir af sjálfum oss til ad þenkja neitt, svo sem af sjálfum oss; heldur komi vor dugnadur frá Gudi, 2 Cor. 3. Ritníngin kallar manneskjunnar betrun fædíngu, Jóh. 5. sköpun, 2 Cor 5. upprisu, Col' 3; til ad kénna oss þar med, ad vér allt eins lítid gétum sjálfir betrad vor hjørtu, sem vér af vorum eginn kröptum gétum skapad oss sjálfir, edur uppvakid oss aptur til lífsins þegar vér einusinni høfum misst þad í daudanum; og ad Guds medverkandi kraptur útheimtist þess vegna til þess eina, sem til hins annars. Ritníngin kénnir þar fyrir allvída, ad vér sjálfir séum vanmáttugir til þess sanna góda, og ad Guds medverkandi kraptur sé øldúngis naudsynlegur til ad betra vor hjørtu.

En Ritníngin kénnir þó í þessu efni ecki annad enn þad, sem madur med réttri brúkun skynseminnar gétur audveldlega sjed. Eins og þar er til einúngis ein dygd, sem er innifalin í almennilegri, stødugri og sterkri girnd til þess góda, af hvørri allar adrar dygdir og gódar athafnir útqvíslast eins og smá-lækir; þannig er líka mannsins náttúrlega medfædda spillíng innifalin í drottnandi og sterkri

tilhneigingu til þess illa, er skiptist í ýmsar greinir, og lætur sig í ljósi hjá einni manneskju undir þessari, og hjá annari undir annari ásýnd; hjá einni manneskju í ysirdrottnun skilníngarvitanna, hjá hinni í hofmóð; hjá einni manneskju í ágirnd, hjá hinni í eydslusemi, og s. frv. Sæti þessarar sterku tilhneigingar til þess illa er í viljanum; og í viljanum hlýtur líka að vera sæti þeirrar gagnstædu tilhneigingar til þess góða. Og er það þá møgulegt að tvær gagnstædar tilhneigingar, af hvørri sú eina midar á það góða, og hin ønnur á það illa, géti verid sameinadar í þeim sama vilja? edur er það møgulegt, að sálin, hvørri að er medfædd sterk og drottnandi tilhneiging til þess illa, géti af sínum eginn kreptum uppvakið hjá sér sjálfri gagnstæda sterka tilhneigingu til þess sanna góða? það er allt eins ómøgulegt, sem að myrkrið géti framleidt ljósið.

Að sønnu má hafa hér á móti, að madur med skynseminni géti svo greinilega sett sér fyrir sjónir það skammarlega og skadlega í løstunum, og það heidurlega og nytsamlega í dygdunum, að viljinn hljóti um sídir af þessari umþenkíngu að snúast frá því illa til þess góða, frá løstunum til dygdanna. Þetta er hægt að segja, en torveldt að framqvæma, og án þess að ædri kraptur sé í verkinu med, mun það án efa verda øldúngis ómøgulegt. Já, ef vér einúngis tølum um øptrun vorra girnda, sem vér høfum mætur á, að þær ecki brjótist út í verknadinum, þá medkénni eg, að skynsemin kann að gjøra nockud að verkum. Lifandi og sterk umþenkíng, hvørsu svívirdilegir og skadlegir lestirnir eru, kann að koma svo miklu til

leidar í vorum vilja, ad vér dempum þá, svo þeir brjótist ecki út í verkunum, ef vér erum hræddir um, ad þeir verdi oss til skada edur skammar. Dryckjumadurinn kann ad fordast vínsins, og sá lausláti frídleikans tillockanir, þegar sá eini sjer, ad hann skadar þar med heilsu sína, og hinn annar, ad hans heidur skérdist. Sá stollti kann ad sýna sig lítillátann og vidmóts-gódann vid þá, sem eru minnihattar, sá ágjarni kann stundum ad gjøra kjærleikans verk, bádir til þess, ad þeir ecki skuli sýnast ad vera þad, sem þeir eru í raun réttri. Svo miklu kann skynsemin til leidar ad koma, jafnvel þó hún ecki ætíd géti áunnid svo mikid yfir mannsins hjarta. En er hugar-farid þar fyrir ordid betra? erum vér gódir og dygdugir fyrir þad, þó vér af ótta edur egingagni ecki látum þad allt eptir oss, sem oss til-lángar, edur þó einn løsturinn strídi á móti ødrum og yfirvinni hann? er ecki tilhneigíngin til þess illa samt fyrr í viljanum? elskum vér þad ecki enn þá? óskum vér ecki, ad þær hindranir væru úr vegi rýmdar, sem standa á móti mettun vorra girnda. Þess vegna hefir skynsemin einúngis lagfært útvortis sidsemina, en ecki umbreytt hjartanu. Tilhneigíngin til þess vonda dylst enn þá, eins og eldurinn, undir øskunni, og bídur einúngis eptir óhultu tækifæri til ad brjótast út.

Ef vér þarámóti tølum um hugar-farsins innvortis betrun, þá stend eg uppá, ad skynsemin af sjálfrar sinnar kroptum megni oldúngis ecki ad framqvæma þessa betrun, sé hún ecki styrkt af ødrum ædra krapti. Skynsemin hefir mektugann óvin, þar sem skilníngarvitin eru, og þær tilhneigíngar, er þau

uppvekja, hvørjar að eru skynseminni yfirsterkari, og gjøra hana ósjálfráða að brúka fullkomlega hennar krapta. Vorar girndir byrjast strax eptir fæðínguna; eptir því sem áin fjølga, verða þær daglega sterkari, og þess vegna bágara að yfirvinna þær. Af vananum, æfíngunni, heimsins tilloðkunum og vondum eptirdæmum dafna þær ýðuglega. Þannig hafa vorar girndir næstum því náð fullum þroska, áður enn maður getur neytt skynseminnar. Hvørsu mørg ár líða ecki, þángað til sálarinnar æðri kraptar eru orðnir nockurnveginn þroskaðir? hvørsu mørg ár hlaupa ecki af æfi vorri, áður enn vér førum að þenkja skynsamlega um vorar athafnir og vort sálar ástand? og á meðan hafa vorar girndir og vorar geðs = hræríngar náð fullum krøptum. Hvørsu náttúrlegt er þá ecki, að geðs = hræríngarnar daufheyrist við skynseminnar raustu? skynsemin hefir að vísu enn þá krapt til að gjøra greinar-mun á milli ílls og góðs, á milli dygða og lasta. Vér erum að vísu ecki svo spilltir, að vér ecki álítum ágirni, stollt, vellyst, øfund, hefndargirni og baktal fyrir lesti; allir vitum vér, að hóffsemi, auðmýkt, hógværð, trygð, réttvísi, meðaumkan og mann = elska eru fagrar og elskuverðar dygðir. En þegar vér eigum nú að heimfæra þessa þeckíngu uppá sjálfa oss, þá draga vorar girndir, hvørra raust lætur lángtum hærra enn skynseminnar raust, skýlu fyrir øll þessi alkunnu sannindi. Vér dæmum nú ecki framar eins og áður, vér gefum sømu hlutunum øll ønnur nøfn. Það, sem hjá øðrum heitir stollt, er hjá oss skickanleg sóma tilfinníng, ágirnd er forsjál meðferð Guðs gáfna, og hefndar=girni er rétt=

vísi. Vér álítum lestina á allann annann kant, þegar vér dæmum um adra, heldur enn þegar vér dæmum um sjálfa oss. Af því vér elskum sjálfa oss og vorar girndir, erum vér ætíd hnegdir til ad afsaka þá, og álíta vora lesti fyrir mannlegann veikleika. Hvad er þá ad undra, þó vor náttúru-spilling fái sigur yfir skynseminni? vegna synda-fallsins er skynsemin í sjálfri sér veik, villu og raungum meiníngum undir-orpin; vorar girndir þarámóti, hafa allt frá barnæsku vorri á hvørjum degi ordid sterkari, ráðríkari, torsóktari til ad yfirvinna. Vorar girndir fá lidveitslu af vorri spilltu sjálfs-elsku, skilníngarvitanna tilloekunum og heimsins eptirdæmum; vor skynsemi hefir alla þessa óvini á móti sér, og af sjálfri sér til hlýtur hún ad strída med biludum kroptum. Hvad skyldi skynsemin þá géta áorkad á móti svo öblugum óvinum, ef Guds medverkan styrkir hana ecki til þess sanna góda?

Reynslan sýnir líka, hvørsu vanmáttugir vér erum af vorum eginn kroptum ad framqvæma vora betrun, þó vér ecki gætum sannad þad af edli vorrar medfæddu spillíngar. Ef ad vér sjálfir værum fullfærir til ad byrja og fullkomna vora betrun, þá ættu allir þeir ad verda gódir og dygdugir, sem medtaka trúarbrøgdin og álíta þau guddómleg. Allir þeir, sem kannast vid, ad trúarbrøgdin hafa guddómlegann uppruna, hljóta naudsynlega ad vita þessi alkunnu sannindi: ad án helgunar kann enginn Drottinn ad sjá; ad ávaxtarsøm trú er naudsynlegur skilmáli sáluhjálparinnar; ad þeir, sem Kristi tilheyra, hljóta ad krossfesta þeirra hold med þess girndum og tilhnegíngum. Allir þeir,

sem meðtaka Jesú trúarbrøgð fyrir guddómleg, hljóta að vita: að hórdómur, skjæki = lifnaður, saurlífi, lauslæti, afguða = dýrkan, kukl, hatur, deilur, képpni, offtæki, þráttanir, tvídrægni, flocka= dráttur, øfund, morð, ofdrykkja, óhófs = veitslur, eru þvílíkir lestir, sem útilykja oss frá Guðs ríki, Gal. 5. Allir æskja sér að verða aðnjótandi þeirr= ar sælu, sem Ritníngin lofar oss; allir vita, að jafnvel sá minnsti undandráttur í betrun síns hjarta er hættulegur, og að sú betran, sem nú er auðveld, verður með undandrættinum fyrst ørðug, og síðan ómøguleg. Í þessum almennu meiníngum kémur øll= um saman; en hvað stoðar oss þessi þeckíng, þegar vorar girndir fara að hreyfa sér? eru þeir þá allir góðir og heilagir, sem hafa þessa þeckíngu til að bera? eður kénnir ecki reynslan miklu framar, að vorar girndir og géðs = hræríngar sveypa þann bezt uppfræðda skilníng í þoku, sem hann ecki gétur þreyngt sér ígégnum?

Það er þess vegna óneitanlegt, að vér af vor= um eginn kroptum og af sjálfum oss til, erum old= úngis vanmáttugir til þess sanna góða, Ritníngin, skynsemin og reynslan sannfæra oss um þennann van= mátt; og sé skynsemin ecki megnug um að betra vor hjørtu, og hreinsa þau af þeirra meðfæddu spill= íngu; sé skynsemin ecki megnug um að uppvekja sanna, sterka og staðfasta tilhneigíngu til þess góða hjá oss, sem af náttúrunni høfum sterkari tilhneg= íngu til þess illa, hvað skyldi þá géta framqvæmt þessa betrun hjá oss, þegar skynsemin með sínum kroptum yfirgéfur oss? sannarlega eckért annað, enn: hjástoð þeirrar æðstu veru, sem verkar í og með

oss; og þannig eru þad sannmæli, sem Páll seg-
ir: ad Gud, eptir sinni velþóknun, verki í oss
bædi vilja og máttinn, Phil. 2. Vér eigum
ad brúka vora skynsemi, þess vegna hefir Gud géf-
id oss hana; en vér drøgum oss á tálar, ef vér
einúngis leitum hjá henni ad ánægjanlegum lækn-
isdómi á móti sjúkdómi vorrar sálar. Skynsemin,
styrkt af nádinni, kann ad gjøra nockud ad verkum
til ad betra vort hugar-far; en af sjálfrar sinnar
ramleik mun hún aldrei géta upprætt þad vonda
ásamt med rótinni; aldrei munum vér fá fullkomid
herra-dæmi yfir sjálfum oss, ef vér ecki brúkum ønn-
ur vopn enn þau, sem skynsemin frambýdur oss.
Ætíd munum vér verda þrælar vorra girnda, ef
vér ecki leitum þeirrar øblugu nádar, sem upphef-
ur oss yfir sjálfa oss.

---

Þessi kraptur, med hvørjum Gud verkar bet-
run mannsins hjarta, er í sjálfum sér nógu máttug-
ur til ad yfirvinna vora spillíngu, væri hann ecki
í sjálfum sér nógu máttugur, hvørninn kynni Gud
þá ad frambjóda hann? hvad mundum vér dæma
um þann læknir, sem frambydi oss þann læknis-
dóm, er hann fyrirsæi, ad mundi verda gagnslaus?
hvørninn kynni Guds vilji um vora sáluhjálp ad
vera rétt alvarlegur, ef hann vildi ad vér yrdum
hólpnir, og gæfi oss þó ecki þau kreptugustu medøl
oss til betrunar? sé þad satt: ad Gud hafi enga
velþóknun á syndarans dauda, Ezech. 33; sé þad
satt, ad Gud vilji, ad allir menn verdi sáluhólpn-
ir, 1 Tím. 2; þá hlýtur þad líka ad vera allt eins

satt, ad sá kraptur, sem Gud brúkar til ad betra mannsins hjarta, hlýtur í sjálfum sér ad vera ánægilegur; því ad vilja augna-midid og vilja þó ecki undir eins þau ánægilegu medøl, sem útheimtast til ad ná þessu augnamidi, getur ecki stadist med vísdómi þeirrar ædstu veru. Og séu þau medøl, sem Gud brúkar til ad betra oss med, ánægileg til ad ebla þetta augnamid, þá er skuldin hjá oss, ef vér ecki brúkum þessi medøl til ad løsast vid vora spillíngu.

En þó ad Guds betrandi nád sé í sjálfri sér ánægileg, þá er hún samt ecki ómótstædileg; Skaparinn hlýtur, eptir sínum vísdómi, ad verka med hvørri sképnu samqvæmt hennar náttúru. Vér erum frjálsrádar verur, med vorri fríviljugu hlýdni eigum vér ad vegsama vorn Skapara; hvørninn kynni Gud þá med ómótstædilegum krapti ad betra vor hjørtu? vér mundum ad sonnu betrast, en hvad yrdi þá af manneskjunnar frjálsrædi? og hvørninn yrdi Skaparinn þá vegsamadur med vorri fríviljugu hlýdni? vér yrdum þá ad vísu dygdugir, en varla mundi vor dygd verdskulda ad bera þetta nafn; vér værum þá einúngis dygdugir smídisgripir; en þvílík dygd gæti aldrei unnid til neinna launa. Nei, skuli vor dygd og vor hlýdni umbunast sídar meir, þá hlýtur hún ad vera fríviljug, Guds nád hlýtur ad verka med krøptugum, en ecki ómótstædilegum hætti. Manneskjan hlýtur ad leidast, yfirtalast, og uppørfast til þess góda, en ecki þvíngast; hún hlýtur ad halda sínu frjálsrædi til ad fylgja þeim krapti, sem leidir hana til dygdarinnar, og til ad setja sig á móti honum. Ritn-

íngin kénnir líka, ad vér høfum þetta frjálsræði, og misbrúkum þad til vorrar egin ógjæfu. Þess vegna segir Lúcas um Pharísæana og hina skriftlærdu: ad þeir hafi ónýtt Guds tilgáng sér sjálfum til skada, Lúc. 7. Þess vegna kastar Stephanus Gydíngunum þessu í nasir: þér hardsvíradir og óumskornir á hjørtum og eyrum! þér mótstandid jafnan heiløgum Anda, líka sem ydar forfedúr svo og líka þér, Post. g. b. 7. Þess vegna qvartar Gud þannig yfir sínu fólki: eg útbreiddi mínar hendur allann daginn til óhlýdugs fólks, til þeirra, sem géngu eptir þeirra eginn þankum, á þeim vegi, sem ecki er gódur, Es. 65. Hér af sjáum vér gløggt, ad þó Gud brúki krøptuga vidleitni til ad betra oss; þá høldum vér samt voru frjálsræði til ad ónýta Guds vidleitni, og til ad mótstanda þeirri krapti, sem reynir til vid oss. Þar í er orsøkin innifalin, ad sumir betrast vid Guds ord, en sumir ecki. Ad nockrir betrast vid þad, er røksemd fyrir því, ad sá kraptur, sem verkar med manneskjunum, er í sjálfum sér ánægilegur, og ad nockrir betrast ecki, sýnir, ad vér gétum stadid á móti Guds nád, og ad hún þess vegna verkar ecki med ómótstædilegum hætti í mannsins hjarta.

Já, því midur! kénnir dagleg reynsla, ad vér, oss sjálfum til fordæmíngar gétum mótstadid Guds nádar-ríku vidleitni, og því lengur, sem vér mótstøndum henni, þess hardara verdur vort hjarta, þess torveldari verdur vor betran. Sú náttúrlega mótstada, med hvørri vér fædumst í heim þennann, vex daglega af vananum og æfíngunni. Því er eins háttad med þad vonda, sem þad góda; því

meira, sem vér æfum oss í bygðunum, þess bygðugri verðum vér, þess hægra veitir oss að uppfylla vorar skyldur, þess stærri lyst fáum vér til að halda áfram á heilagleikans hlaup-skeiði. Eins er því líka varið með það illa; sú manneskja, sem dag frá degi lætur sína náttúrlegu vanart við sig ráða, hún æfist smamsaman í hinu illa, af æfinguuni kémur syndsamlegur ferdugleiki, með ferdugleikanum eykst lystin til þess illa, hún verður dag frá degi megnari, og loksins ósigrandi. Nú er skynsemin rekin úr hásætinu og samvitskan af dómstólnum. Náðarmeðølin verka ecki framar, Evangelii fyrirheit vinna ecki á, og løgmálsins hótanir skélfa ecki. Þannig søckur manneskjan ætíð dýpra ár frá ári; en svo lángann tíma þarf þó ecki; sú manneskja, sem dag frá degi stríðir á móti þeirri náð, er leitast við að betra hana, søckur þannig ætíð dýpra, frá breyskleikans til ásetníngs synda, frá ásetníngs syndum til forherðíngar. Sigurinn yfir hans hjarta, sem í fyrstunni var auðveldur, verður smámsaman torveldari, þar til hann að síðustu verður eldúngis ómøgulegur. Því nær sem hún kémur grøfinni og eilífðinni, þess harðara verður hjartað. Gamall syndari er forherðtur syndari. Ef vér þess vegna viljum nockurn tíma betrast, hreinsast og helgast undir eilífðina, hvar fyrir viljum vér þá undandraga það svo lengi, þángað til það, sem nú þegar er orðið ørðugt, verður enn þá ørðugra? skyldum vér stríða svo lengi á móti Guðs náð, þángað til vor spillíng er orðin svo møgnuð, að Guðs viðleitni vinnur eckért á vor hjørtu? vér hræsnum fyrir sjálfum oss með þeirri svikulu von, að vér undir vora

síðustu endalykt gétum géfið Guðs betrandi krapti rúm í vorum hjörtum; en hvørsu hættulegur er þessi undandráttur! hvørr veit, hvað lángt eða skammt hann á eptir ólifað? hvørr veit, hvørt hann muni sofna útaf rólega með fullkominni brúkun sinnar skynsemi, ellegar burtsviptast í rænuleysi, sem ecki leyfir honum að þenkja um sitt sálarástand? hvørr veit, hvørt hann muni enda sína lífdaga á sóttar-sænginni, ellegar snøgglega burtkippast midt í sínum syndum? og uppá alla þessa óvissu skyldum vér byggja vor kjør um alla eilífð! hvílík ofdirfska sem ecki kynni að væntast utan af þeim, sem í ørvæntíngu hefðu fráſvarið sér eilífa sælu; en ecki af þeim manneskjum, sem í litilvægari hlutum brúka forsjálni og framsýni.

## 37. Kapítuli.

Um kræpt Guðs orðs til að betra hjartað.

Eg hefi sannað, að Guðs medverkan sé øldúngis naudsynleg til að betra mannsins hjarta; en Guð verkar ecki medals-laust; manneskjurnar eru skynsemdarfullar og frjálsar verur, þær hljóta að leiðast til þess góða með skynsamlegum og kræptugum røksemdum, með skírum og sterkum fortølum, sem ígégnum skilnínginn þreyngja sér inní hjartað; þar fyrir hefir Guð géfið þeim kristnu sitt orð; með því upplýsir hann skilnínginn, með því hneigir hann viljann. Fyrir Guðs orð skiljum vér ecki þá heilögu Ritníngu sjálfa; því Guðs orð er eldra enn Ritníngin; heldur nefnum vér Guðs orð øll þau guddómlegu sannindi, sem Ritníngin inniheld-

ur, sem eru bygd á Ritníngarinnar lærdómum, og eru þeim samhljóda. Þetta Guds ord, sem er géfid manneskjunum til ad upplýsa þeirra skilníng og betra þeirra hjarta, hefir ecki ad eins sameiginlegann krapt med ødrum mannlegum skrifum, heldur hefir þad þaradauki guddómlegann, ølduúngis himneskann og yfirnáttúrlegann krapt. Viturs og skynsams manns ord hafa náttúrlegann krapt til ad sannfæra skilnínginn og beygja viljann. Tali hann um sannindi, sem menn eiga ad trúa, leggi hann til grundvallar alkunnar og almennt vidteknar ástædur, dragi hann þar af réttar og skiljanlegar ályktanir; bæti hann þar vid óneitanlegri reynslu, og gjøri hann þar med sannleikann sýnilegann, þá verdur skilníngurinn tekinn til fánga, hann sannfærist og medtekur sannleikann. Tali hann um dygdir og løsti, útskíri hann hvørt um sig greinilega, leidi hann oss fyrir sjónir, hvílíkann heidur og nytsemi dygdirnar færi med sér, hvílíka skømm og skada løstirnir dragi eptir sig, færi hann sønnur á hvørttveggja med ódrækum eptirdæmum, þá sannfærist skilníngurinn, og viljinn finnur einslags krapt, sem ad minnsta kosti um nockurn tíma, kann ad hindra løstina frá ad brjótast út, þó hann ecki géti fullkomlega upprætt þá. Hvílíkann krapt kunna mannsins ord ad hafa, þennann krapt hefir einnig Guds ord. Vér finnum í Ritníngunni trúar-lærdóma og lífernis-skyldur. Þeir fyrri koma svo vel saman hvørr vid annann, sem og vid skynsemina, ad sá skilníngur, sem er réttsýnn, og hvorki af raungum meiníngum ellegar vanart hjartans hindrast í sínum dómi, hlýtur naudsynlega ad sannfærast. Þær

sídari koma svo vel saman vid mannsins náttúru og hans sønnu velgengni, ad þad hjarta, sem enn þá ecki er fullkomlega spillt, hlýtur ad verda vart vid heimuglegann krapt, sem í því verkar.

En Guds ord hefir ecki einúngis náttúrleg-ann krapt sameginlegann med ødrum mannlegum sannindum; þad hefir líka yfirnáttúrlegann og guds-legann krapt. Þess vegna kallast þad hamar, Jer. 23, þruma, Psálm. 68; eldur Jer. 5; ófor-gengilegt sædi og lifandi ord, 1 Pét. 1. Þess vegna tileinkast ordinu, ad þad öpni augu þeirra blindu, Es. 42; og uppveki þá andlega daudu, Eph. 2. Kénna oss ecki þessi orda-tiltæki, ad þau guddómlegu sannindi hafi yfirnáttúrlegann krapt, sem engir mannlegir lærdómar hafa til ad bera. Guds ord opnar augu þeirra andlega blindu; Guds ord uppvekur þá andlega daudu; og getur þá blindur madur gésid sér sjálfum sjónina? getur daud-ur madur upprísid aptur af sínum eginn kroptum? og þetta er Guds ords verkun. En sé verkanin yfirnáttúrleg, þá hlýtur krapturinn einnig ad verda þad. Þess vegna segir líka Páll: ad Evangelí-um hafi guddómlegann krapt til ad frelsa sérhvørn, sem á þad trúir, Róm. 1. Og í ødrum stad seg-ir hann: lærdómurinn úm krossinn er ad sønnu álitinn, sem heimska af þeim, sem tapast, en fyrir oss, sem frelsumst, hefir hann guddómlegann krapt, 1 Cor. 1.

Og þó Ritníngin tillegdi ecki Guds ordi þenn-ann yfirnáttúrlega krapt, mundum vér þá ecki samt af skynsemi vorri géta sjed, ad þad naudsynlega hlýtur ad hafa hann? þad guddómlega ord, sem

Drottinn hefir géfid mannesskjunum, hlýtur ad hafa vigtugt augná=mid, og þad medal, sem Gud brúkar til ad framqvæma þvílíkt augná=mid, hlýtur ad vera þad hentugasta og krøptugasta. Hvørt er nú augnamid Guds ords? óneitanlega þetta, ad þad skuli betra, helga vor hjørtu, og gjøra oss hæfilega til eilífdarinnar. En ad guddómlegur kraptur útheimtist til ad betra mannsins hjarta, þad hefi eg hér ad framan sannad. Ad helga sálina, sem af náttúrunni er vanheiløg, er í nádarinnar ríki allt eins stórt krapta=verk, sem í náttúrunnar ríki ad umbreyta vatni í vín. Þar fyrir ségir Dróttinn fyrir munn Spámannsins Jeremiæ: gétur Mórlendíngurinn skipt um sitt hørunds=lit, edur Pardus=dýrid um sína flekki? svo kunnid þér líka ad gjøra þad góda, sem lært hafid ad gjøra þad illa, Jer. 13. Þad eina, vill Dróttinn ségja, et fyrir manneskjurnar allt eins ómøgulegt, sem hid annad; hvørt=tveggja er yfirnáttúrleg verkan, þad hid illa lodir allt eins fast vid oss af náttúrunni, sem svarti liturinn vid Mórlendínginn og dýlarnir vid Pardusdýrin. En þar Gud hefir géfid oss sitt ord, sem medal til ad framqvæma yfirnáttúrlega verkun, þá hlýtur þad líka ad hafa yfirnáttúrlegann krapt; annars væri þad ecki hentugt, krøptugt og Guds vísdómi verdugt medal til mannanna sálu=hjálpar.

En, vilji einhvørr spyrja: hvar í þessi yfirnáttúrlegi kraptur sé þá innifalinn, sem Guds ord hefir fram yfir alla mannlega lærdóma? þá svara eg þar til: ad Guds ords mikli kraptur til ad betra mannsins hjarta, er sumpart innifalinn í þeim lángt=

um sterkari tilknýjandi røksemdum, með hvørjum vér hér upporfumst til dygdanna og fælumst frá løstunum, sumpart í Guðs sérdeilislegri meðverkun. Þegar skynsemin vill upporfa oss til hlýðni og kjærleika, þá getur hún sett oss fyrir sjónir Guðs velgjørnínga, sem vér í þessu lífi meðtökum af Guðs ørlætis-hendi; en hvørsu lifandi og sterkar, sem þessar hugleiðíngar eru, þá hefir vor stollta sjálfs-elska þó alltíð nógar afbatanir til að setja á móti þeim og dempa þær með. Eru þeir margir, sem þykjast hafa meðtekið nóga velgjørnínga af Guði sínum? svo lengi vér sjáum aðra, sem eru luckulegri enn vér, þá álítum vér oss sjálfa óluckulega. Hvørsu, sem luckan leikur við oss, þykja oss þó launin varla svara til þess, sem vér høfum tilunnið. Hvørsu føgur og glæsileg, sem vor farsæld sýnist að vera, þá er hún þó aldrei fullkomin í þessu lífi, og svo lengi, vorar ósefjanlegu girndir vantar nockuð, þá þykir oss, sem vér høfum eckért. Gleðin yfir því góða, sem vér egum, dofnar af hrygðinni yfir því góða, sem oss enn þá vantar. Sú sál hlýtur áður að vera helguð, hjá hvørri hugleiðíng Guðs velgjørnínga í náttúrunni skal gjøra ávaxtarsama verkun. En hvørsu miklu krøptugri hlýtur ecki að vera hugleiðíng Guðs kjærleika í Kristi? Þetta er þvílíkur velgjørníngur, sem er allt eins stór, sem óskiljanlegur; þvílíkur velgjørníngur, hvørs vér njótum um alla eilífð, þegar Guðs velgjørníngar í náttúrunni hafa enda tekið. Þvílíkur velgjørníngur, sem øllum án mismunar stendur til boða, háum og lágum, ríkum og fátækum, lærðum og fáfróðum. Lifandi umþenking

þessa Guds kjærleika, hvörsu kröptug má hún vera til ad upptendra í vorum hjörtum heitann kjærleika aptur á móti? og af þessum kjærleika hlýtur aptur ad fædast glød hlýdni, fús afneitan sjálfra vor og heimsins, og röskur framgángur á dygdanna og heilagleikans hlaupskeidi. En þessa tilknýjandi röksemd er einúngis ad finna í Guds ordi, en skynsemin veit eckért af henni ad segja.

Þegar skynsemin vill upphvörfa oss til dygdar og heilagleika, þá kann hún ad sönnu ad útmála oss dygdirnar med fögru, og lestina med þeirra ljóta lit; hún kann ad setja oss fyrir sjónir dygdanna nytsamlegu, og lastanna skadlegu afleidíngar; en hún sýnir oss ecki þessar afleidíngar lengra enn til grafarinnar. Hvad hvört um sig leidir eptir sig hinumegin grafarinnar, veit skynsemin lítid edur eckért. En þær hugleidíngar, sem ná svo skamt til, hvad mikid munu þær géta áunnid yfir spilltu hjarta? dygdirnar hafa ad sönnu í þessu lífi góda og sælufulla ávexti; fridur sálarinnar, rósemi samvitskunnar, medvitundin um sína egin rádvendni og Guds velþóknan eru dygdanna laun, þvílík laun, sem eckért tilfelli gétur frá oss tekid. En, sá vanheilagi sem er þræll sinna lasta, gétur enn þá ecki smackad þessi laun hins dygduga, hann kann þess vegna ecki af dygdanna sælufullu ávöxtum, sem hann ecki þeckir, ad upphvörfast til ad ástunda þær. Lestirnir hafa líka í þessu lífi þeirra náttúrlegu ógédfeldu afleidíngar; en opt eru lastanna afleidíngar svo veikar, ad varla finnst til þeirra, og þó stundum finnist til þeirra, þá sýnist þó húngur ómettadra girnda ad vera lángtum sárara, heldur

enn allar þær ógéðfeldu afleiðíngar, sem fylgja á eptir þeirra mettun. Hvað miklu mun skynseminn þá géta til vegar komið með þessum tilknýjandi rökksemdum? nærsta lítið, þegar spillíng hjartans hefir náð vissum þroska. Þær kunna að álítast, sem hjálpar-meðöl, en géta ómögulega einsamlar framleidt neinn sannann og hreinann heilagleika. Þær géta máské stemmt stiga fyrir, að lestirnir brjótist ekki út í vondum verkum, en þær géta ekki þar fyrir hreinsað hjartað. Já, þegar skynsemin er styrkt af Guðs Anda krapti, þá gétur hún máské komið því til vegar, og þvílíkrar sérdeilislegrar aðstoðar kann hún að vænta hjá Heiðíngjunum, sem ekki hafa Guðs orð' sér til leiðarvísirs og uppörfunar. Hvörsu miklu stærri er Guðs orðs kraptur, það hefir í sjálfu sér þann krapt, með hvörjum það styrkir þann kristna í freistíngunna áströðu. Það setur oss fyrir sjónir alvitsku þeirrar ædstu veru, fyrir hvörri allir, jafnvel vorir heimugleguistu þánkar eru berir og naktir; það setur oss fyrir sjónir heilagleika, réttlæti og yfirherra-dæmi þeirrar ædstu veru, fyrir hvörri vér síðarmeir eigum að standa reikníng af sérhvörjum syndsamlegum þánka, sérhvörri hvarflandi girnd, sérhvörri ofsterkri géðs hræríngu, sérhvörju ónytju orði, sérhvörri lastafullri athöfn. Það gefur dygðarinnar og heilagleikans elskendum von um himneska og eilífa sælu, og lángtum ypparlegri laun enn þau, hvar með dygðin umbunar sínum dýrkendum hér á jörðunni. Það útmálar oss takmarkalausa eymd, sem liggur fyrir öllum forherdtum syndurum. Hvörsu miklu kroptugri hljóta

þessar tilknýjandi røksemdir að vera, heldur enn allar þær afleiðíngar dygda og lasta, sem skynsemin gétur oss fyrir sjónir sett. Géti ecki þessar røksemdir uppørfad oss til dygdanna og fælt oss frá løstunum, hvad skyldu hinar þá géta ad verkum gjørt? en þessar tilknýjandi røksemdir eru einúngis ad finna í Guds ordi, en skynsemin veit lítid eda eckért af þeim ad segja.

En þessi kraptur, med hvørjum Guds ord verkar med svo sterkum og oblugum røksemdum, er fólginn í ordinu sjálfu, þad er lærdómsins eginn kraptur; en Gud verkar líka sjálfur med sérdeilislegum hætti med súnu ordi, og gésur því øldúngis yfirnáttúrlegann og guddómlegann krapt. Sjáid, segir Kristur, til sinna lærisveina, eg er med ydur alla daga allt til veraldarinnar enda, Matth. 28. Þad, sem Kristur lofar hér súnum lærisveinum, því lofar hann øllum kénnendum í þeirra persónu; hann vill vera med þeim, hann vill verka med þeim, hann vill leggja sína blessun til þeirra orda. Ritníngin vitnar líka allvída ad Guds Andi verki med ordinu í mannanna hjørtum. Hún segir: ad Guds børn leidist af Guds Anda, Róm. 8. Hún segir: ad heilagur Andi búi í oss, 2 Tím. 1. Og hvørninn býr Guds Andi í oss? hvørninn leidir hann oss? látum oss ecki þenkja til neinnar yfirordulegrar verkunar, þar hann hefir géfid oss orduleg medøl; nei, hann leidir oss, hann býr í oss fyrir sitt ord, med hvørju hann verkar í mannsins hjarta, og leitast kroptuglega vid ad betra þad. Þess vegna er ordid, fyrir utan þess eginn náttúrlega krapt, þaradauki styrkt med Guds

Anda krapti. Skynsemin hefir eckért á móti þessum lærdómi, hún hlýtur miklu framar ad samfinna honum. Vér kunnum ecki ad efast um, ad Gud verki í náttúrunnar ríki med øllum sínum sképnum, og med øllum þeim medølum, hvar med hans gódi og vísdómsfulli tilgángur á ad framqvæmast; mun Gud þá verka sídur í nádarinnar enn náttúrunnar ríki? þar Guds Andi hefir gésid manneskjunum sitt ord, sem medal, móti þeirra náttúrlegu spillíngu, til ad betra þeirra hjørtu, mun hann þá ei verka med þessu ordi? mun hann ecki láta fylgja því allann þann krapt, sem medþarf til ad framqvæma þetta augna=mid? og þess vegna hefir Guds ord guddómlegann krapt til ad betra hjartad.

---

Sé þad satt, ad Guds ord verki med guddómlegum og yfirnáttúrlegum krapti í mannsins hjarta, þá má leita ad orsøkinni hjá oss sjálfum, þegar Guds ord gjørir enga verkun hjá oss. Guds ord er sædi, þad hefir í sér sjálfu lifandi krapt; en þad hlýtur ad sást, þad hlýtur ad nidurleggjast í þá jørd, hvar þad gétur sprottid; falli þad á hellu edur á medal þyrna, þá kæfist þad, og ber engann ávøxt. Vér heyrum máské kostgæfilega Guds ord, vér lesum þad enn optar; en hvørninn heyrum, hvørninn lesum vér þad? med hvílíkum undirbúníngi, med hvílíkri andakt, af hvada tilgángi? Guds ord er gésid oss til ad upplýsa vorn skilníng, ad dempa vorar gédshræríngar, ad hreinsa vorn inníndunar=krapt frá øllum syndugum hugrenníngum ad

halda í taumi vorum offvæfnu girndum, og ad koma vorri af syndinni afløgudu náttúru í hennar fyrra lag og blóma. Þetta er tilgángur Guds ords, og þessi tilgángur hefir líka luckulega uppfyllst á svo mørgum þúsundum; þad hefir í svo mørg hundrud ár sýnt, ad þad verkar med guddómlegum krapti hjá þeim, sem trúa; þó vér ecki hefdum adrar røksemdir uppá þess guddómlega krapt, þá kynnum vér samt af verkuninni ad dæma um orsøkina; sé verkanin guddómleg, þá gétur sá verkandi kraptur ecki verid mannlegur. En, hvar fyrir sýnir Guds ord ecki þá sømu verkun hjá øllum? orsøkin til þess er hjá sjálfum oss; vér heyrum annadhvørt ecki Guds ord, vér lesum þad ecki, ellegar vér hugleidum þad ecki med þeirri kostgæfni, þeirri andakt, þeirri athygli, þeirri heimfærslu uppá sjálfa oss, og þeim heilaga ásetníngi ad lifa eptir því, hvar med vér eigum ad hugleida gudleg sannindi. Vér høfum þad annadhvørt gálauslega um hønd, svo þad gjørir enga djúpa edur varanlega innþryckíngu í vorum hjørtum, ellegar vér forherdum oss af ásettu rádi á móti þess betrandi og helgandi verkunum; og hvad er þá ad undra, þó nockrir betrist vid þad, en adrir ecki.

Ef Guds ord á ad sýna sinn guddómlega krapt á vorum hjørtum, þá hljótum vér ad hugleida þad med lotníngu; aldrei megum vér gleyma þess himneska uppruna, aldrei megum vér gleyma, ad þad er frá sjálfum Gudi komid, frá þeirri hreinustu sannleikans uppsprettu, ad þad er sú regla, eptir hvørri vér eigum ad hegda oss hér á jørdunni, og þad løgmál, eptir hvørju vér eigum ad dæmast sídarmeir. Ef Guds ord á ad sýna sinn gud-

dómlega krapt á vorum hjørtum, þá hljótum vér að yfirvega það með sannri andakt og eptirþánka, svo það géti fyrst fest djúpar rætur í skilnínginum, því hvørninn gétur það annars sprottið í viljanum; að lesa eður heyra Guðs orð án andaktar, er røksemd uppá lauslyndt sinnislag og það virdíngar- og hyrðu-leysi, hvar með menn hugleiða þau guddómlegu sannindi. En hvørninn kunna þessir heiløgu lærdómar að betra hjartað, þegar þeir jafnvel ekki fá inngaungu í skilnínginn? ef Guðs orð á að sýna sinn guddómlega krapt í vorum hjørtum, þá hljótum vér að hugleiða það með innilegri girnd, ekki einúngis að muna það, heldur einnig að breyta eptir því. Guðs orð er ekki géfið oss til að fylla auðt rúm í minninu, heldur til að bera áverkti í hjartanu, ekki til að prýða skilnínginn einúngis, heldur til að snúa viljanum frá løstunum til dygðanna; til að styrkja oss í stríðinu við sjálfa oss og vinna sigur á oss sjálfum og vorri spillíngu. En skuli þessi góðgjarni tilgángur uppfyllast, þá hljótum vér líka að hafa þann ásetníng að uppfylla hann. Góður ásetníngur er fyrsta trappa til vorrar betrunar. Ef að Guðs orð á að sýna sinn guddómlega krapt í vorum hjørtum, þá hljótum vér opt að ítreka þau sømu sannindi; í hvørt sinn, sem vér ítrekum þau, festa þau dýpri rætur, og innþrykkjast enn betur í hugskotið, svo þau um síðir verða óútslettanleg. Ef vér forsómum þetta, þá líða þau auðveldlega úr minni, þau verða smámsaman óljósari í skilnínginum, og eptir því, sem þau verða myrkvari, þverrar þeirra kraptur. Ef Guðs orð á að sýna sinn guddómlega krapt í vorum hjørtum, þá hljótum

vér að biðja. Sé það satt, að Guðs meðverkun með orðinu sé nauðsynleg, ef það á að auglýsa þess fulla krapt til að betra vor hjörtu, hvað er þá viðurqvæmilegra, enn að vér biðjum um þennann Guðs meðverkandi krapt? ef vér metum hann svo lítils, að vér ecki viljum gjöra svo mikið, sem biðja um hann, hvörninn kunnum vér þá að vænta hans? og vanti oss þennann krapt, sem orðinu á að vera samfara, hvaða betrunar kunnum vér þá að vænta? þér kristnar manneskjur! látum oss hafa Guðs orð þannig um hönd, og þá þurfum vér ecki að leiða mörg rök til þess, að það hafi yfirnáttúrlegann krapt, vor egin reynsla mun þá ánægilega sannfæra oss, að sá kraptur, með hvörjum það verkar í vorum hjörtum er ecki mannlegur, heldur guðdómlegur.

## 38. Kapítuli.

### Um sálarinnar ódauðlegleika.

Að lærdómurinn um sálarinnar ódauðlegleika sé allvíða útbreiddur um bækur heilagrar Ritníngar, er hvörjum kristnum manni alkunnugt; það er gamla Testamentisins lærdómur: duptið, segir Salómon, hlýtur að koma til jarðarinnar aptur, hvar það var áður; og andinn hlýtur að koma aptur til Guðs, sem gaf hann, Préd. 12. Það er nýja Testamentisins lærdómur: svo elskaði Guð heiminn, segir Kristur, að hann gaf út sinn eingétinn Son til þess, að allir þeir, sem á hann trúa fyrirfarist ecki, heldur hafi eilíft líf, Jóh. 3. Þessi lærdómur hlýtur líka að hafa nockurn grundvöll í skynseminni; því annars er varla mögulegt að skil-

ja, hvørninn næstum því allar heidnar þjódir hafa gjørt sér þánka um annad líf eptir þetta, nema þessir þánkar hafi verid erfda-góts eptir þeirra forfedur, sem høfdu Guds munnlega opinberun. En, hvørt sem þeir nú hafa haft þessa von um ódaudlegleikann frá þeirra forfedrum, frá gudlegri opinberun, ellegar af skynseminnar egin eptirgrenslun, þá er þad þó óneitanlegt, ad skynsemin, þegar vanart hjartans glepur ecki sjónir fyrir henni, gétur gjørt þessa von ad næstum því ósefanlegri vissu.

Ad vísu eru þær røksemdir, sem skynsemin framfærir til ad stadfesta þennann sannleika, ecki allar jafn-sterkar; menn vitna til þeirrar medfæddu laungunnar, sem allar manneskjur finni hjá sér eptir ad vera ódaudlegar; menn vitna til sálarinnar veru, sem er oldúngis andleg, án efnis, án parta, og án samansetníngar, sem er allrar annarar náttúru enn líkaminn, og hljóti þess vegna ecki naudsynlega ad forgánga ásamt med líkamanum. Menn vitna til samlíkingar milli dýranna og manneskjanna; menn finna, ad ef annad líf lægi ecki fyrir manneskjunni, þá væri hún med øllum hennar ágætari eginlegleikum lángtum vesælli enn dýrid. Þessar røksemdir eru ad sonnu sterkar, þegar þær eru vel útlistadar; en sá, sem heldur vill deyja eins og dýrid, af því hann í hjarta sínu finnur orsøk ad óttast fyrir eilífdinni, finnur audveldlega nockrar ástædur til ad veikja þessar røksemdir. Eg vil þess vegna einúngis framfæra tvær eptirfylgjandi, sem eptir mínum þaunkum sýnast ad vera oblugastar og ómótmælanlegastar; ønnur er dregin af vissum eiginlegleika,

sem vér finnum í vorri sálu, hin af einum eginlegleika, sem vér finnum í Gudi.

Ef vér adgætum þær skynlausu sképnur; þá finnum vér ad þær allar, ad engri undantekinni, hafa visst mál af kröptum, og viss takmörk fyrir þeirra framförum, sem þær ecki géta yfir komist. Þær þurfa einúngis stuttann tíma til ad ná þeirra fulla þroska, og nú eru þær ordnar svo fullkomnar, sem þær géta ordid. Hvorsu lengi sem þær lifa eptir þann tíma, þá verda þeirra kraptar ecki fullkomnari heldur enn þeir eru, þeim fer ecki meira fram; þær vaxa ecki framar. Ødruvísi er því háttad fyrir manneskjunni; hvar eru þau takmörk, sem hennar skynjandi andi nemur stadar vid? minnid audgast daglega med nýrri þeckíngu; skilníngurinn verdur daglega upplýstari; viljinn styrkist daglega í því góda; allir hennar kraptar vaxa daglega, edur ad minnsta kosti géta med ástundun og æfíngu daglega varid; þad kénnir reynslan. Þó madur nædi Methúsalems aldri, þá nær hann þó ecki sínum fulla vexti, aldrei verdur hann svo fullkominn, sem hann gétur ordid. Þó hans aldur tvöfaldadist, þá væri mogulegt ad hans þecking líka tvöfaldadist. Um þetta kann enginn ad efast, sem þeckir manneskjuna. Þó vér finnum þær manneskjur, hvörra sálar-kröptum sýnist ad fara aptur vid ellina, þá sannar þad eckert á móti þessum sannleika. Svo lengi sálin býr í líkamanum, hlýtur hún ad ega hlut í líkamans umbreytíngum. Þegar verkfæri heilans veikjast, sem sálin brúkar til sinna verkana, á medan hún er bundin vid líkamann, þá hlýtur sálin naudsynlega ad finna til þessa veikleika.

En þar af fylgir ecki, ad sálarinnar kraptar veikist í sjálfum sér. Sjúkur madur þenkir ecki med samá styrkleika sem sá heilbrygdi, og þó hefir hann í sínum sjúkdómi sama þenkíngar-krapt, sem þá hann er heilbrygdur. Þó madur géti ecki sjed á albjörtum degi, þegar hlerarnir eru látnir fyrir gluggana, þá fylgir ecki þar af, ad madur sé steinblindur þegar hann er kominn út úr húsinu, ednr ad hann hafi mist sjónina í húsinu. Allt eins lítid gyldir þad, ad sjálfir sálar-kraptarnir þverri, þó þeir vegna líkamans þurdar géti ecki lengur verkad med þeirra venjulega styrkleika. Ef vér gætum lítid eitt ad sálunni, þá sjáum vér ad hún er sköpud, til eilífs vaxtar í fullkomlegleikanum, og ad hún einúngis um stuttann tíma hættir ad taka framförum, af því hún er bundin vid líkamann, sem hindrar hana í hennar verkunum. En látum oss þá gjöra þessa skynsamlegu álygtun: þar Skaparinn hefir prýdt mannsins sálu med þeim kroptum, sem skapadir eru til eilífs vaxtar, þá getur sálin ecki verid sköpud fyrir þetta tímanlega líf einúngis; þar allar adrar skepnur ná þeirra fulla þroska, þá hlýtur manneskjan, svo sem ædri skepna, einnig ad ná sínum, og fyrst þad skédur ecki í þessu lifi, þá hlýtur ad liggja fyrir henni annad líf eptir þetta, hvar hún stígur á þá fullkomlegleikans tröppu, sem hún eptir sinni náttúru getur á móti tekid, en aldrei hér á jördunni til kémst. Í stuttu máli: þar reynslan kénnir, ad sálin er sköpud til ódaudlegleikans, til sífeldra framfara alla eilífd, þá getur hennar tilvera ecki verid bundin vid þau fáu augnablik þessa lífs. Þvílíkt gæti ecki stadist med vísdómi þeirrar ædstu veru

Menn kynnu máské ad hafa þad hér á móti, ad þad sé þó ætíd komid undir frjálsrædi þeirrar ædstu veru, hvört hún vill vidhalda sálunni eptir líkamans dauda, edur gjøra hana ad engu. Menn kynnu máské ad hafa þad á móti, ad þó ad Gud hafi skapad sálina til ódaudlegleikans, þar hans tilgángur var, ad hún med sjálfviljugri hlýdni skyldi dýrka sinn Skapara, þá fylgi ecki þar af, ad hún nú ecki kunni ad gjørast ad engu, þar hún med sinni óhlýdni vanheidrar hann. En rétt vegna þessa hins sama útheimtir jafnvel Guds heilagleiki og réttlæti, ad sálin hljóti ad vera til eptir ad líkaminn er daudur. Þar um kann enginn ad efast, ad Skaparinn er vor Yfirherra, ad hann vill vegsamast af oss, sem sínum skepnum, ad hann hefir fyrirskrifad oss sín løg, ad vér, sem frjálsrádar verur, erum skyldugir ad hlýda honum; ad vor hlýdni hlýtur ad launast, og þó vor hlýdni vinni ecki til neinna launa, ad vor óhlýdni hlýtur samt naudsynlega ad straffast; enginn kann ad efast um, ad Guds heilagleiki og réttlæti útheimtir þetta. En, gétum vér med sanni sagt, ad hlýdni og óhlýdni, dygdir og lestir fái þeirra straff í þessu lífi? edur sýnist ecki opt og tídum, ad þessir gagnstædu hlutir fái sømu umbun? menn mættu næstum því leidast til ad trúa, ad Gud legdi ad jøfnu dygdir og lesti. Opt er dygdin forøktud, ofsókt, spottud; opt eru lestirnir lukkulegir og virdtir. Dygdanna og trúarbragdanna foraktari lifir stundum í lucku og velgengni, á medan sá dygdugi Lazarus hlýtur ad samansáfna þeim molum, sem detta af hans bordum. Satt er þad, ad dygdin hefir sín eigin laun

í sálarinnar rósemi, í friði samvitskunnar, í vissunni um síns Guðs velþóknun, í meðvitundunni um sína ráðvendni. En, hvörsu lítið finna menn til þéssara dygðarinnar launa, þegar húngur, klæðleysi, sjúkdómur, og heimsins forakt umkríngir á allar síður, og óssækir oss án afláts. Þégar vér nú sjáum, að þeim lastafulla vegnar vel, og vér hefðum einkis betra lífs að vænta í eilífðinni, mundum vér þá ecki hygsa að vér hefðum þjónað Guði forgéfins. Það sama megum vér segja um lestina. Varla mun néinn géta sagt, að léstirnir fái ætíð þeirra straff hér í heimi. Líkamans vanheilsa ætti maklega að vera hið náttúrlegasta straff fyrir sællífið, og hvörsu opt krýnast ecki sæl-lífis þrælarnir með hreysti og heilbrygði, á meðan sá hóffsami dregur eptir sér hálf-visinn líkama til grafarinnar á miðju vori æsskunnar? heimsins forakt ætti maklega að vera lastanna brenni-merki, og hvörsu opt eru ecki sjálfir léstirnir hafðir í hávegum, þegar þeir sitja í völdum, sem þá drýgja? samvitskunnar órósemi ætti að minnsta kosti að véra það náttúrlegasta straff fyrir lastafullann lifnað, og hvörr er sá, sém ecki viti, að mannesskjurnar eru opt nógu skarpar til að dempa samvitskunnar raustu í svima vellystínganna? stutt að segja: reynslan kénnir oss, að Guð gjörir ecki ætíð hér í heimi mismun á milli þéss dygðuga og þess lastafulla, þéss hlýðna og þéss óhlýðna. Hvörninn skiljum vér þetta? er þá enginn Yfir-herra yfir heiminum? er þá eckért réttlæti í þessum Yfir-herra? gyldir hann þá einu, hvört hans lög eru uppfyllt eða yfirtroðin? er sá vanheilagi og sá heilagi honum jafn-kjærir? já, ann-

adhvørt hljótum vér ad trúa þéssu, annadhvørt hljótum vér ad samsinna þessu gudlasti, ellegar vér hljótum ad trúa, ad annad líf sé eptir þetta, hvar dygdin mun fá sín laun og lestirnir þeirra straff. Ef ecki væri neins ódaudlegleika ad vænta, ef øldúngis væri útgjørt um oss þá vér dæum, þá kynnum vér ad yfirtroda allar Guds skipanir, trássa á móti himninum, spotta allt hvad heilagt er, og enda sídan vort líf med hnífnum; þad stædi oss þess vegna í sjálfs valdi, hvørt vér vildum umflýja Guds réttlæti, edur ecki. Nei, þann eilífa gétum vér ecki umflúid; einhvørntíma hlýtur Gud ad sýna, ad hann ecki hafi géfid sín løg forgéfins, einhvørntíma hlýtur hann ad gjøra mismun á sínum hlýdnu undirsátum, og upphlaupsmønnunum í sínu ríki, einhvørntíma hlýtur hann ad gjøra bert fyrir øllum sínum skynsemdarfullu verum, ad hann allt eins vel launi þad góda, sem hann straffar þad vonda. Og þar Gud ecki ætíd sýnir þad í þessu lífi, þá hlýtur naudsynlega ad vera annad líf eptir þetta; þetta er þvílík álycktan, sem jafnvel sá einfaldasti gétur skilid, sem hefir nockra þeckíngu á Guds yfirherradæmi, heilagleika og réttlæti; annadhvørt hljótum vér ad trúa því fyrra, edur vér hljótum ad neita því sídara.

Sé þad satt, kynni einhvørr ad spyrja, ad daudinn ecki gjøri enda á allri vorri veru, sé þad satt, ad vor skynjandi andi umflýi forgengilegleikann og komist af þó líkaminn nidurbrotni, hvørt er þá sálarinnar ástand eptir líkamans dauda? liggur hún í dái, edur svefni? edur er hún enn þá medvitandi um sjálfa sig og sitt nærverandi tilstand? heldur hún enn þá áfram sínum þaunkum og sýsl-

unum? þetta spursmál orsakar opt óróſemi hjá þeim, ſem liggja fyrir daudanum, og er þeſs verdt, ad uppá þad ſé ſvarad. Svo lítid, ſem vér þeckjum náttúru vorrar ſálar, þá kénnir þó vor egin tilſinníng oſs, ad hún er eintómis líf. Hún upplífgar ecki einúngis vorn jardneſka líkama, heldur þenkir hún ſífeldlega, ſífeldlega er hún eitthvad ad ſýſla, aldrei þreytiſt hún; og þó þad ſýniſt, ſem hún þreytiſt, þá liggur orſökin til hennar þreytu ecki í þeirri þenkjandi veru ſjálfri, heldur í heilans verkfærum, ſem hún brúkar til ſíns erfidis. Einninn þegar líkaminn hvíliſt, hættir ſálin ſamt ecki ad erfida. Gétum vér leidt oſs í hug, ad þeſsi ſtarfſama vera, ſem í ſinni náttúru er eintómis líf og ſtarfſemi, ſkuli falla ølduúngis í ydjulauſt tilſtand, og liggja ſvo í nockur hundrud edur þúſund ár, án ſtarfſemi, án þánka og án tilſinníngar, undir rúſtum líkamans? á milli þvílíks ſálar-ſvefns og virkilegs dauda, ſje eg engann mismun.

Eg bæti þeſsu enn þá vid, ad ef ſálin ſkyldi liggja í þvílíku dái frá því líkaminn deyr til þeſs hann rís upp aptur, þá hlyti hún naudſynlega á þeſsum tíma ad týna nidur allri þeirri þeckíngu og ferdugleika, ſem hún í þeſsu lífi hefdi med ſvo mikilli fyrirhøfn útvegad ſér, og hvar med hún hefdi leitaſt vid ad undirbúa ſig til eilífdarinnar. Hvørſu lengi erum vér ad læra nockud, og hvørſu fljótt gleymum vér því aptur, ſem vér høfum lært? hvørſu mikla fyrirhøfn koſtar þad oſs ad útvega oſs ferdugleika, jafnvel í þeim audveldustu og almennuſtu hlutum, og hvørſu fljótt miſsum vér hann aptur, þegar vér nockra ſtund høfum ecki æft oſs

í honum? hvörninn mundi þá fara fyrir oss, ef sálin ætti í nockur hundrud ár, eptir líkamans dauda, ad liggja í dái án þánka, án tilfinníngar, án sýslana? mundi hún ecki öldúngis missa alla þá þeckíngu, þann ferdugleika og fullkomlegleika, sem hún í þessu lífi hefir svo mikid fyrir haft ad eignast og yfirkomast? hvar fyrir kappkostum vér þá ad prýda vora sálu med svo mörgum ágætum og fögrum fullkomlegleikum, ef vér eigum ad missa þá aptur, þegar líkaminn deyr, sem ské kann í dag, eda á morgun? hvörninn kémur þad saman vid Guds vísdóm, ad þær verur, sem eru skapadar og ætladar til eilífra framfara í fullkomlegleikanum, skuli med nockra hundrad ára svefni falla til baka frá þeirri fullkomlegleikans hæd, til hvörrar þær í þessu lífi hafa med svo mikilli mædi uppflogid? þær ættu þá í upprisu hinna daudu, ad byrja ad nýju og taka upphafid á því, sem þær hefdu ádur lært, öll þeirra fyrri mæda ætti ad vera til forgéfins, fullordnir menn, ættu þá í öllum hlutum ad vera jafnir börnum, er dáid hefdu í móudurlífi. Gétur þessi þánki stadist med Guds vísdómi og gædsku?

Vér gétum ad vísu ecki sagt med fullkominni vissu, hvört sálin skilur vid líkamann á sama augnabliki, sem líkamans inn- og útvortis hræríngar þverra; vér gétum ecki heldur sagt med vissu, hvört adskilnadur sálar og líkama skédur hjá sumum fyrr, hjá sumum sídar; en þad gétum vér, eptir Ritníngarinnar vitnisburdi, sagt med vissu, ad þessi adskilnadur skédur ecki laungu eptir líkamans dauda. Kristur gaf ræníngjanum á krossinum þad fyrirheit: ad hann á þeim sama degi skyldi vera med hon-

um í Paradís, edur sælunnar samastad, Lúc. 23. Kristur setur fyrir sjónir í eptirlíkíngunni þann luckulega fátækling, og þann ólukkulega ríkismann, sem þvílíka, er strax eptir líkamans dauda komust í þeirra nýja tilstand, og medtóku hvad þeirra gjördir vóru verdar, Lúc. 16. Af þessum vitnisburdum álýktum vér þar hjá med fullkomnustu vissu, ad sálin sefur ecki eptir hennar vidskilnad vid líkamann. Ræníngin fékk af Kristi þad fyrirheit, ad hann skyldi vera med honum í Paradís, í sælustandinu, hans sál átti þess vegna ecki ad sofa, heldur framhalda hennar þaunkum, hennar tilfinníngum, hennar sýslunum; hún átti ad vera sér medvitandi um hennar farsæld og nýja ástand, annars kunni þad ecki ad segjast, ad hann skyldi vera med Kristi í Paradís. Um þennann huggunar fulla sannleika sannfærumst vér sömulejdis af eptirlíkíngunni um þann ríka og fátæka. Hvört heldur þad er eptirlíkíng edur sannarlegur atburdur, þá hlýtur hún ad innihalda sannindi. Eptir daudann var sá fátæki fluttur í Abrahams fadm, þad er: í þad sama farsældar-stand, í hvörju allir sannir Ísraelítar eru hluttakandi med þeirra forfödur Abraham. Þeim sæl-lífa ríkismanni þarámóti var nidurhrundid í þær ólídanlegustu qvalir; hann fann til sinnar eymdar, hann óskadi linunar, hann mundi til síns umlidna, og var medvitandi um sitt nærverandi ástand. Bádir fundu þess vegna til þess sem þeirra fyrra ásigkomulag eptir sig leiddi, þeirra sálir sváfu þess vegna ecki eptir líkamans dauda.

Páll óttadist ecki heldur fyrir þessum svefni sálarinnar. Kristur er mitt líf, segir hann, og

daudinn minn ávinníngur. En med því ad lifa í holdinu þénar meir til ávøxt ad sýna, þá veit eg ecki hvørt eg skal kjósa; því hvørttveggja þreyngir ad mér; eg hefi girnd á frá ad skiljast og vera hjá Kristi, því þad væri miklu betra; ad blífa í holdinu, væri þarámóti naudsynlegra fyrir ydar sakir, Phil. 1. Þessi mikli Postuli finnur hjá sér stríd á milli tveggja óska, sem ecki gátu bádar uppfyllst undir eins. Honum þókti mikid fyrir ad deyja vegna síns safnadar, sem hann elskadi, og gat verid nytsamlegur; hann óskadi sér þarámóti daudans sjálfs síns vegna, til ad vera hjá Kristi, sem fyrir hann sjálfann var miklu betra. En hefdi hann verid hræddur um, ad sálin mundi falla í dá, þegar líkaminn væri daudur, þá hefdi hann brádlega kunnad ad skéra úr þessari þrætu á milli sinna óska; honum hefdi þá verid betra ad lifa; því á medan gat hann þó þjónad Gudi, á medan gat hann þó eblt Guds dýrd og sinna medbrædra velferd; en ef hans sál hefdi átt ad falla í svefn eptir líkamans dauda, hvørsu gagnslaus var hann þá í náttúrunni; allt eins gagnslaus, sem líkaminn, er lá í grøfinni? Páll óttadist ecki fyrir þessum sálarinnar svefni; hann veit, ad hann á von á betra lífi: hann óskar ad skiljast hér frá og vera hjá Kristi; hann er fullviss um, ad daudinn er honum inngángur til þeirrar ómumrædilegu sælu, sem Kristur hafdi útvegad honum, og þess vegna álítur hann sinn dauda, sem ávinníng fyrir sjálfann sig. Svo gefur þá bædi Ritníngin og skynsemin oss þá fullkomnu vissu, ad sálin ecki einúngis verdur til eptir líkamans dauda, heldur ad hún einnig á þeim tíma, sem lídur á milli

líkamans dauða og hans upprisu, er meðvitandi um sjálfa sig og sitt ástand, og finnur til afleidínganna af síns fyrra lífs athøfnum, til sinnar sælu edur sinnar fordæmíngar.

---

Sé það satt, að vor skynjandi andi sé skapaður til ódauðlegleikans, og eilífra framfara í fullkomlegleikanum, hvørsu annt ætti oss þá að vera um, í þessu nærverandi lífi, að kappkosta að betra og upphæcka vora sálarkrapta, svo vér þar með búum oss undir því stærri farsældar-trøppu síðarmeir. Því æðri og stærri, sem vorir sálar-kraptar eru, þess stærri hlýtur líka vor hæfilegleiki að vera til að taka á móti himinsins hreinu og ødúngis andlegu gledi. Hottentottar og Newtonar géta að sønnu báðir orðið sáluhólpnir; en hvørsu ólík hlýtur að vera sú sælunnar trappa, sem báðir ødlast, og hvørsu ólíkur sá fljótleiki, hvar með þeir stíga upp til fullkomlegleikans? það stendur þess vegna ecki á sama, í tilliti til eilífðarinnar, hvørt vér hér á jørdunni látum vora sálar-krapta vera óbrúkaða og óæfða, ellegar vér høfum kappkostað að betra og upphæcka þá. Með því að forsóma betrun vorra náttúrlegu sálar-krapta munum vér að sønnu ecki verða útilucktir frá sælu þess eptirkomanda lífs; en vér munum þó án efa taka seinni framførum í fullkomlegleikanum, heldur enn þær sálir, sem hér í heimi hafa æft þá með kostgæfni.

Sé það satt, að vor skynjandi andi sé skapaður til ódauðlegleikans, hvørsu føgur og gledileg er þá vor tilhugsan? skyldum vér ecki kannast við vora

uppheſd, ſkyldum vér ei meta vora lucku, ad vér erum ſkapadir til eilífdarinnar? hér erum vér einúngis útlendíngar, þar er vort føđurland; hvørſu hægt ættum vér þá ad láta oſs um heim þennann? líkir þeim, ſem ferdaſt ígégnum framandi land; hann nýtur allra þeirra meinlauſu lyſtiſemda, ſem mæta honum á reiſunni; en engin af þeim er honum ſvo vigtug, ad hann gleymi þar fyrir ſínu fødurlandi, ſem hann er til ad képpaſt. Hér eigum vér þó ecki vid ad vera utan nockur augnablik; ſídar meir er oſs ætlud eilífdin; ſkyldum vér þá feſta vor hjørtu vid jørdina, ſem vér eigum þó einuſinni vid ad ſkilja? ſkyldum vér nema ſtadar hér nidri med vora von og óſkir? heimurinn med allri hans vegſemd er forgengilegur; vér erum óforgengilegir; ſkyldum vér þá gjøra þennann heim ad voru ædſta góda? edur ſkyldum vér, á medan vér erum ad gánga áfram til eilífdarinnar, ſnúa aptur til jardarinnar med vorum þaunkum?

Sé þad ſatt, ad vor ódaudlegi andi ſé ſkapadur til ódaudlegleikans, og ad vér í þeſsum ódaudlegleika eigum ad uppſkéra þad, ſem vér høfum hér niburſád í forgengilegleikanum; ſé þad ſatt, ad vér ſkulum þeſs eilíf not edur gjøld hafa, ſem vér høfum adhafſt í þeſsu lífi, hvørt þad er íllt edur gott, hvørſu forſjála ætti þeſsi tilhugſan ad gjøra oſs í øllu voru framferdi? ſkyldum vér vel géta ſyndgad af áſetníngi og þó verid ødlúngis rólegir? í hvørt ſinn þeſs vegna, ſem heimurinn vill tæla, ſkilníngarvitin blinda, og vort egid hjarta ſvíkja oſs, þá ættum vér ad ſegja med ſjálfum oſs: eg er ódaudlegur. Þegar holdid ſtrídir á móti andanum, og andinn á

móti holdinu, þegar oss í þessu hættulega stridi liggur vid ad detta, þá ættum vér ad hugsa um þetta: eg er ódaudlegur. Þegar vér ernm svo svæsnir og djarfir ad troda lög hins eilífa Guds undir fótunum, þá ættum vér ad segja med sjálfum oss: eg er ódaudlegur, og eg veit ecki nær þad augnablik ad höndum kémur, sem flytur mig í land hinna ódaudlegu, hvar eg á ad uppskéra ávextina af mínum fyrri athöfnum. Af þessum þánka mundum vér fá dug til ad yfirvinna sjálfa oss og heiminn.

Sé þad satt, ad vor skynjandi andi sé skapadur til ódaudlegleikans, til sælufulls ódaudlegleika; med hvílíkri huggun og hugarhreysti ætti þessi gledilega von ad brynja oss á móti öllum lífsins bágjindum og andstreymi? vér vitum ad vort mótlæti, sem er skammvinnt og létt, útvegar oss eilífa vigtuga dýrd; vér vitum, ad hörmúng þessara tíma er ecki verd þeirrar dýrdar, sem sídarmeir skal fram vid oss koma. Skyldum vér ecki í von eilífrar gledi géta þolinmódlega borid nockra fárra augnablika hryggd? sjálfur daudinn missir þá mikid af sinni beiskju, þar vér vitum ad vér ecki verdum ad engu, heldur einúngis umbreytumst. Daudinn er einúngis vor önnur fædíng, fædíng til ódaudlegleikans, og heimflutníngur til lífs þeirra réttlátu. Vor andi uppflýgur frá rústum síns niðurbrotna hreysis, og byrjar sitt sama líf, hann fer af sínu barnæsku skeidi og byrjar sinn fullordins aldur, ódum midar honum þá áfram frá einum fullkomlegleika til annars, af einni farsældarinnar troppu á adra.

# 39. Kapítuli.

## Um þá eilífu sælu.

Eg hefi leidt rök til þess af Ritníngunni og skynseminni, ad sálir vorar eru skapadar og ætladar til ódaudlegleika, en þessi ódaudlegleiki gétur ecki verid eins luckulegur fyrir alla. Þad, sem hvørr einn hefir hér nidursád, hlýtur hann þar ad uppskéra; fyrir þá, sem deyja í Drottni, hlýtur hann ad vera í hærsta máta gledilegur og sáluhjálplegur, eins og hann hlýtur ad vera í hærsta máta óttalegur fyrir hina, sem deyja án sameiníngar vid hann. Ad vilja gjøra fullkomna útmálun yfir ásigkomulag þeirra sáluhólpnu, væri ofdyrfska, þar Guds vísdómur hefir dregid skýlu fyrir vor augu. Ritníngin talar um þetta efni mestann part undir rós og í samlíkíngum; hún útlistar ecki fyrir oss ástand þeirra sáluhólpnu, heldur géfur oss einskonar málverk yfir þad; og hvad litid, sem vér vitjum hér frá Ritníngunni, þá eru þad ecki utan veikar gétgátur, sem standa edur falla, eptir því, sem þær koma saman edur ecki koma saman vid sérhvørs þenkíngarmáta. Ef barnid í módurlífi kynni ad þenkja, þá mundi þad gjøra sér marga ránga meiníngu um ástand þessa nærveranda lífs, og réttari munu vorar meiníngar ecki verda, þegar vér þenkjum sjálfir, án þess ad fylgja Ritníngarinnar handleidslu. Svo mikid gétum vér sagt med vissu, ad þeir sáluhólpnu eru fríadir frá øllum ógédfeldum og sárum tilfinníngum, ad þeir njóta allrar þeirrar saklausrar gledi, sem þeir í þessu ástandi géta móti tekid, og lángtum ædri gledi heldur enn sú er, sem heimurinn gétur géfid þeim.

Ad þeir sáluhólpnu hljóti naudsynlega ad vera fríadir frá öllum ógédfelldum og sárum tilfinníngum, þar á er enginn efi; því annars væru þeir ecki sælir. Hvört heldur vér álítum oss í þessu lífi, sem manneskjur, sem syndara, edur sem umvendta kristna, þá er heimur þessi þó einúngis samastadur mædunnar og óróseminnar. Hvörsu mikilli órósemi og ørdugleika 'ollir oss vor stétt og kallan? hvörsu verda ecki allflestir ad vinna baki brotnu til ad útvega sér sitt naudsynlegt lífs uppheldi? hvörsu margir hljóta ad eyda sínum líkamans kröptum til ad vidhalda þeim? sérhvörr dagur hefir nóg med sína þjáníngu, og þó aukum vér þessar vorar nærverandi þjáníngar med vorri gagnslausu hugsýki og qvída fyrir því ókomna. Hvörsu margfaldann ørdugleika gjørir oss sá jardneski og veiki líkami, sem vér á oss berum? eins mörgum pørtum, sem hann er samansettur af, eins margvíslegum sjúkdómum er hann undirorpinn, og opt fellur madur úr einum í annann. Hvörsu mikils beiskleika abla oss vorar syndir, og vorar óstjórnlegu girndir? þessar fylla vora sálu med ónægju, bædi þegar eptir þeim er látid, og líka þegar ecki er eptir þeim látid; hinar uppvekja hjá oss ótta og ángist fyrir Guds réttlæti, sem vér höfum módgad med vorum syndum. Og þó vér, fyrir Guds nád, séum ordnir helgadir, þá er vor mæda og órósemi ecki þar fyrir á enda kljád, þá byrjast kristins manns stríd fyrst fyrir alvöru. Hvörsu margar freistíngar umkríngja oss þá, sem ad sönnu opt yfirvinnast af oss, en fá líka opt sigur yfir oss? hvörsu mikil árvekni, bæn og stríd útheimtist, ef vér skul-

um berjast góðri baráttu, fullkomna vort hlaup og halda trúnni? og hvørsu mikið, sem vér vøkum, biðjum og stríðum, þá føllum vér þó opt og tíðum, þegar freistíngin kémur flatt uppá oss, og þó vér ecki føllum, þá gétum vér samt ecki orðið svo fullkomnir, sem vér gjarnan vildum vera. Nockurr partur vorrar spillíngar loðir ætíð við oss svo lengi vér búum í þessari jarðnesku tjaldbúð. Þetta er ný orsök til kristins manns ángurs og óróssemi. Þessi óróssemi, þessar sáru og ógéðfeldu tilfinníngar, sem undir svo margbreyttri ásýnd ossækja oss frá vøggunni til grafarinnar, hánga sumpart af heiminum, sem vér búum í, sumpart af byggíngarlagi þess líkama, í hvørn vor ódauðlegi andi er innsveypaður, og lokksins af því syndugа og ófullkomna ástandi, sem vér enn þá erum í staddir, á meðan vér erum sameinaðir við líkamann. Að skilja við líkamann, og ásamt með líkamanum við heiminn, hlýtur þess vegna nauðsynlega fyrir þá heiløgu að vera fullkomin frían frá øllum sjúkdómum, mæðu, óróssemi og ógéðfeldum tilfinníngum. Þá uppfyllist Guðs fyrirheit: Guð mun þurka allann grát af þeirra augum, og dauðinn mun ecki framar vera til; ecki heldur mun harmur, né qveinan, né heldur mæða vera framar til; því þeir fyrri hlutir eru umliðnir, Opinb. b. 21.

En, sáluhjálpin er ecki einúngis innifalin í frían frá øllu vondu, heldur er hún þaraðauki innifalin í nautn alls þess góða, sem eilífðarinnar innbyggendur géta móti tekið. Hvør þessi gæði eru, sem Guð hefir geymt handa sínum sigursælu stríðsmønnum, gétum vér ecki sagt til vissn. Ritníngin

brúkar samlíkíngar sem teknar eru af þeim hlutum í heiminum, er vér álítum, sem fagra og lystilega. Stundum kallast það eptirkomandi líf Paradís, vellystíngarinna aldingardur, hvar lífsins vatns hreina vatnsfall, skiært sem Kristall, framflýtur frá stóli Guds og Lambsins, hvar lífsins tré ber eilífa ávexti, hvar engin bölvan mun vera framar, hvar þeir sáluhólpnu standa frammi fyrir Guds og Lambsins stóli, sjá hans auglit, og bera hans nafn í þeirra ennum, Opinb. b. 22. Stundum kallast það ljós, þar vér ecki metum nockurn hlut meira enn ljósid, sem útbreidir líf og lystisemd yfir gjörvalla náttúruna. Stundum fésjódur, edur ríkdómur, en þvílíkur ríkdómur, sem mølur fær ecki grandad, né þjófar eptirgrafist. Stundum er því samlíkt vid géstabod, til ad sýna oss þá farsæld, sem þeir sáluhólpnu finna í mettun þeirra heilögu girnda, og þann sælu-auka, sem þeir ödlast af umgengni sinna vina. Stundum er það sett fyrir sjónir, sem hásæti, króna og Kóngsríki, til ad sýna oss það herra-dæmi, sem þeir sáluhólpnu hafa áunnid sér yfir sínum andlegu óvinum. En allt þetta eru þó eintóm bílæti, sem dregin eru af því nálæga, og heimfærd uppá það ókomna, jardneskur búníngur, sveypadur utan um himneskt sannindi.

En jafnvel þó þessi bílæti ecki géfi oss greinilegt hugar-grip um sælu þess eptirkomanda lífs, þá kunnum vér þó ad segja það til vissu, ad þeir sáluhólpnu verda ætíd fullkomnari, og eptir því, sem þeirra fullkomlegleiki vex, eykst líka þeirra farsæld. Það gétum vér sagt til vissu, ad þeir sáluhólpnu eru hid náqvæmlegasta sameinadir Gudi, því ædsta

góda, og í saméiníngunni vid hann, njóta óumrædilegrar sælu. Í þessu lísi erum vér einúngis börn, og þenkjum sem börn; í hinu ödru lísi byrjast vor fullordins aldur, þá stígur vor ódaudlegi andi frá einum fullkomlegleika til annars. Þar í er tign vors skynsemdarfulla anda innifalin, ad vér síseldlega vöxum frá einni birtu til annarar, ad vér óaflátanlega uppstígum frá einu ljósi til annars, og frá einni þekkíngu til annarar, ad tilhneigíngar vors vilja koma í náqvæmasta máta saman vid skilníngsins skíru hugrenníngar. Hér í þessu lísi erum vér undirokadir myrkri og villu. Síseldléga ráfum vér í myrkri; lengi á í því, ádur enn vér förum ad þenkja, og vorir fyrstu þánkar eru optast nær rángar og ógrundadar meiníngar. Á hvörjum degi villumst vér í vorum dómi um þad sanna og ósanna þad góda og þad ílla. Opt þeckjum vér þad ílla, og gjörum þad samt; vér þeckjum þad góda, og látum þad ógjört. En þegar vér erum ordnir innbyggjarar í heimi hinna sáluhólpnu; þegar þær hindranir eru úr vegi rýmdar, sem setja sig á móti þeirri upplýsíngu, sem vér eptir leitum; þegar vorir sálar-kraptar eru ordnir ædri og betri; þegar vér, sem nú sjáum óglöggt ígégnum skygndann stein-spegil, sjáum þar augliti til auglitis, 1 Cor. 13. Hvörsu fljótt midar oss þá áfram frá einni upplýsíngarinnar tröppu á adra, og vilsinn fylgir upplýsíngu skilníngsins. Vid hvört fótmál finnum vér, ad vér verdum ædri og fullkomnari, og eptir því, sem vér verdum fullkomnari verdum vér líka farsælli.

Þad kunnum vér enn framar ad segja med

vissu, ad þeir sáluhólpnu eru náqvæmlega sameinadir Gudi, því ædsta góda, og í sameiníngunni vid hann njóta þeirrar ædstu farsældar. Því hreinni, greinilegri og fullkomnari þekkíngu þeir hafa um Gud, þess elskuverdari hlýtur þessi vera ad sýnast þeim, þeirra elska vex jafnframt þekkíngunni. Þeir elska Gud, og finna ad þeir elskast af honum. Á sérhvørju auga-bragdi sannfærast þeir þar um med nýjum velgjorníngum, sem útstreyma frá gædskunnar uppsprettu, er rennur ad eilífu, án þess ad þverra. Nú eru þeir med náqvæmasta hætti samtengdir hinum óendanlega, þeirra elska samtengir þá vid hann, og hvad gétur þá nú vantad til ad njóta hinnar ædstu farsældar? hvør ædri sæla gétur upphugsast, enn sú, ad vera sameinadir því ædsta góda, ad ausa af þeim brunni, af hvørjum øll himnesk og jardnesk blessan framflýtur? nú brestur eckért á óskir þeirra sáluhólpnu; hvør heiløg girnd skyldi nú ecki mettast? hvør hrein eptirlángan skyldi nú ecki uppfyllast? og þær eru allar hreinar. Hvørsu óendanlegar, sem vorar girndir eru, þá hljóta þær þó ad sedjast, þegar þær njóta þess óendanlega góda. Þessi var Davíds von: eg mun skoda þitt augliti í réttlæti; eg mun mettast, þegar eg uppvakna eptir þinni mind, Psálm. 17.

Þad gétum vér lokksins sagt til vissu, ad endurminníng og medvitund vorra undanførnu gódu athafna hér í lífi, eykur stórum sælu þess eptirkomanda lífs. Þad vitum vér: ad það, sem vér hér høfum nidursád, munum vér þar uppskéra, Gal. 6. Þad vitum vér: ad vor verk munu fylgja oss eptir, Opinb. b. 14. Vor gódu verk fylgja oss eptir, þar medvit-

undin um vor gódu verk fylgir sálunni inn í eilífð-
ina. Hvørsu stór hlýtur ad vera farsæld þeirrar
sálar, sem í eilífdinni lítur aptur til jardarinnar,
sem hún skildi vid, þegar hún nú sjer, ad hennar
líf í heiminum hefir ecki verid forgéfins, ad hún í
þeirri stétt, sem Skaparinn hafdi sett hana í, hefir
eptir megni uppfyllt sína skyldu, og eblt dýrd síns
Skapara og sinna medbrædra heillir. Og hvørsu
ósegjanlega stór, má hennar sæla vera, þegar hún
veit med sér sjálfri, ad hún hefir eblt eilífa sáluhjálp
sinna medbrædra, ad hún hefir fordad nockrum frá
fortapuninni, leidt nockra frá myrkrunum til ljóssins,
frá Satans valdi til Guds. Þessi medvitund er
stór partur eilífrar sælu.

En sé þad satt, ad medvitundin um athafnir
vors fyrirfaranda lífs gjørir svo mikid ad verkum
til ad ebla sælu vors eptirkomanda lífs, þá gétum
vér álycktad hér af med vissu, ad jafnvel þó allir
þeir, sem deyja í Drottni, inngángi til sælufullrar
eilífdar, þá njóta samt ecki allir þar fyrir sömu
sælunnar tröppu. Sá, sem sáir sparlega, mun
sparlega uppskéra, og sá, sem sáir ríflega, mun
ríflega uppskéra, 2 Cor. 9. Sólin hefir annann
bjartleika, segir Páll, og túnglid annann bjart-
leika, og stjørnurnar annann bjartleika; ein stjarn-
an yfirgengur adra í bjartleika, eins er því líka
háttad med upprisu hinna framlidnu, 1 Cor. 15.
Þetta eru Ritníngarinnar lærdómur, og hvørsu
náttúrlegt er þetta? því fleiri, sem vor gódverk hafa
verid, því framar sem þau hafa eblt dýrd vors Skap-
ara, hans nafns helgun, og vorra medbrædra tím-
anlegu og eilífu farsæld; því lengur vér høfum

Gudi þjónad, því kostgæfnari vér høfum verid í hans þjónustu, því færri breyskleikans og ásetníngs syndir vér þurfum ad ásaka oss fyrir; því betur vér høfum vakad yfir sjálfum oss og vorum athøfnum; því fleiri freistíngar vér høfum haft vid ad strída, og því karlmannlegar vér høfum strídt; því meira mótlæti vér høfum lidid, og því þolinmódlegar vér høfum lidid þad, þess stærri og veglegri hljóta vor laun ad verda í eilífdinni. Já, eg má enn þá bæta þessu vid, ad því framar vér í þessu lífi høfum kappkostad ad yrka, hæcka og betra vora sálar-krapta, þess hæfilegri erum vér til ædri sælunnar troppu í eilífdinni; og því stærri sálarinnar hæfilegleiki er til ad taka á móti himneskri sælu, þess stærri verdur sú sæla, sem hún nýtur. Sælan er þess vegna í tilliti til hennar undirstødu hin sama fyrir alla; allir vaxa í fullkomlegleikanum; allir eru Gudi sameinadir; allir endurminnast med gledi sinna góð-verka; en í tilliti til trappnanna hlýtur hún ad mismuna yfrid mikid. Hvørjum einum fer þar fram eptir því undirlagi, sem hann hefir lagt hér í heimi; hvørr einn nýtur þeirra sælufullu ávarta af sameiníngunni vid Gud, eptir þeim hæfilegleika, sem hann hefir til ad taka á móti þeim, hvørr einn finnur meiri edur minni gledi af medvitundinni um athafnir síns fyrra lífs eptir því, sem athafnirnar hafa verid. Hvørr einn finnur sig þess vegna svo luckulegann, sem hann eptir sinu innvortis ásigkomulagi getur verid, enginn øfundast yfir annara sælu, sem eru luckulegri.

Vér sjáum af þessari útmálun yfir sælu þess eptirkomanda lífs, hvörsu ágæt sú von er, sem Jesús Kristur hefir útvegad oss. Hvört spursmál ætti þá ad vera vigtugra fyrir oss enn þetta: Hvad skal eg gjøra, svo eg erfi eilíft líf? vér spyrjum oss daglega ad þessari spurníngu: hvad skal eg gjøra, til ad komast hærra í heiminum? hvad á eg ad gjøra, svo eg verdi ríkari? hvad skal eg gjøra, til ad stadfesta mína tímanlegu lucku? en hvörsu opt framsetjum vér fyrir oss þetta spursmál: hvad skal eg gjøra, svo eg erfi eilíft líf? og á hvörju rídur oss þó meira enn þessu? þad vítum vér, ad vér daglega erum á hradri ferd til grafarinnar og eilífdarinnar. Vér þeckjum ecki þad augnablik, sem sviptir oss máské í skyndíngu í burtu hédan; vor daudi kann ad verda fyrir oss inngángur til eilífrar gledi, edur endalausrar eymdar. Allt þetta vitum vér, og skyldum þó aldrei af alvøru spyrja oss þannig: hvad skal eg gjøra, svo eg erfi eilíft líf? svarid uppá þetta spursmál er þetta: trúdú á Drottinn Jesúm Krist, þá munt þú verda hólpinn, Post. 8 b. 16.

Eg hefi sagt hér ad framan, hvad skilst fyrir trúna á Jesúm Krist, eg þarf ecki hér ad ítreka þad med mørgum ordum. Þegar vér medtøkum Jesúm Krist fyrir vorn Endurlausnara; þegar hugleidíng vorrar endurlausnar, Guds innilegu elsku, sem gaf oss þetta endurlausnar medal, og Jesú Krists kjærleika, sem dó fyrir oss, svo vér skyldum lifa vegna hans; þegar þessi hugleidíng upptendrar í vorum hjørtum sanna og innilega elsku til Guds og Jesú Krists; þegar vor elska til Guds

og Krists gjørir oss kappsama á bygdarinnar og heilagleikans hlaupskeidi, kostgæfna til þess góda, kostgæfna í því ad gjøra skyldu vora og góðverkin, þá hofum vér þá trú til ad bera, sem af oss útheimtist, til ad verda adnjótandi sælufulls ódaudlegleika. Engin daud, engin ávaxtarlaus trú gétur útvegad oss þessa sælu. Ef vér viljum ná hnossinu sídar meir, þá hljótum vér ad hlaupa á því skeidi, sem oss er fyrirsett; ef vér sídarmeir viljum krýnast med eilífdarinnar sigur=kransi, þá hljótum vér ad strída og berjast. Sæla eilífdarinnar vinnur til þess ad strídt sé fyrir hana nockur augnablik. Ef vér sídarmeir viljum fá ad skoda Guds augliti, og sameinast þeirri heiløgustu veru, þá hljótum vér ad hreinsa oss af vorum saurugleika, og keppast eptir helguninni; því án helguninar kann enginn Drottinn ad sjá. Þetta er svarid uppá þessa vigtugu spurníngu: hvad skal eg gjøra, svo eg erfi eilíft líf? þetta er skilmálinn, sem á vora sídu hlýtur ad uppfyllast, ef vor von á ad vera á grundvelli bygd.

En þad er ecki nóg, þó vér géfum oss í strídid vid sjálfa oss og heiminn; þad er ecki nóg, ad vér byrjum stríd þeirra heiløgu, vér hljótum líka ad fullkomna, vér hljótum ad standa stødugir allt til enda. Þegar hinn réttláti burtsnýr sér frá sínu réttlæti, segir Drottinn, og gjørir órétt, og breytir eptir øllum þeim svívirdíngum, sem hinn ógudlegi gjørir, skyldi hann þá lifa? alls hans réttlætis, sem hann gjørt hefir, skal ecki minnst verda, heldur skal hann deyja í sínum misgjørníngum og syndum, sem hann hefir drýgt, Ezech.

18. Stærd vorrar eptirkomandi sælu verdur vissulega komin undir þeim lengri edur skémri tíma, sem vér høfum Gudi þjónad, og þeirri kostgjæfni, hvar med vér um þennann tíma høfum þjónad honum; en sælan sjálf edur fordæmíngin er komin undir því sinnislagi, hvar med vér skiljum vid heiminn. Enkis manns misgjørdir eru svo stórar, ad hann ecki, eins og ræningimn á krossinum, kunni med sannri umvendun, jafnvel á lífsins seinustu augna-blikum, ad finna nád hjá Gudi; en enkis manns heilagleiki kann heldur ad frelsa neinn frá fordæmíngunni, þegar hann endar heilagt líf med ógudlegleika og vísvitandi yfirtrodslum. Vanheiløg sál er óhæf til sælunnar, í sjálfum himninum mundi hún verda vesæl, vegna þess hún í sér sjálfri, í órósemi sinnar samvitsku, og sínum spilltu girndum ber med sér sín píslar verkfæri.

Ef vér þess vegna viljum krýnast med eilífdarinnar sigur-kransi, þá hljótum vér ad vera trúir til enda. Sá einúngis, sem hefir gott stríd, fullkomnar sitt hlaup, og heldur trú sinni, kann ad vænta kórónunnar. Ad vísu er þad satt, ad þetta stríd er torveldt; en þess torveldara sem strídid er, þess vegsamlegri er sigurinn. Þad er ecki stór heidur ad vinna sigur, þegar vér høfum vanmáttugann óvin vid ad strída; en þad er skømm ad vinna hann ecki. Þad er ad sønnu satt, ad vorir óvinir eru máttugir, og þad, sem hættulegast er, vort egid hjarta situr á svikrádum vid oss; en, þó vorir óvinir séu máttugir, þá er nádin, sem styrkir oss í strídinu, enn þá máttugri heldur enn þeir óvinir, sem vér verdum vid ad

strída. Ad vísu er þad satt, ad skeidid, á hvörju vér hlaupum, er mædusamt; allstadar sjáum vér, hættur og torfærur á vegi fyrir oss; en þó skeidid sé mædusamt, hvörsu ágætt er þá ecki hnossid, sem á skeids-endanum blasir á móti oss? látum oss þess vegna í strídinu og á hlaupinu horfa á hnossid.

## 40. Kapítuli.

### Um þá eilífu ófarsæld.

Eins og heilög Ritníng setur oss ástand þeirra sáluhólpnu fyrir sjónir undir bílætum, svo útmálar hún oss líka eymd þeirra fordæmdu undir bílæti þess orms, sem aldrei deyr, og þess elds, sem aldrei slocknar, Marc. 9. Ad þetta ord ormur egi ad takast í óeginlegri merkíngu, og þýdi einúngis samvitskunnar nagandi bríxlanir, þar á er enginn efi; en svo er þá einnin líklegt, ad ordid eldur egi líka ad skiljast óeginlega, og meiki væntanlega tilfinníngu Guds reidi, er í Ritníngunni kallast eldur, og fortærandi eldur, 5 Mós. b. 4. Ebr. 12. Þad er og mikid náttúrlegt, ad þar sæla þeirra útvöldu, fær, auk þeirra náttúrlegu gódu afleidínga af þessa lífs athöfnum, nýjann vidur-auka af sameiníngunni vid nádugann Gud, og tilfinníngu hans nádar; þad er mikid náttúrlegt, segi eg, ad eymd þeirra fordæmdu aukist þá einninn af tilfinníngu Guds reidi, auk þeirra písla, sem eru náttúrlegar afleidíngar af þeim vondu athöfnum þess undanfarna lífs. Eins og sólin verkar med einum og sama krapti — en hennar verkanir eru þó ýmislegar, eptir því, sem hlutirnir eru ýmislegir, sem hún auglýsir sína verk-

un á; af þeim sama krapti blómgast sumir hlutir, aðrir visna, sumir harðna, aðrir bráðna — eins er því líka háttað með Guð og hans nálægð í sálunum. Eptir því, sem þær eru ýmislegar í þeirra siðferðislega ásigkomulagi, svo hljóta líka ávextir Guðs nálægðar hjá þeim að vera ýmislegir. Þeir heilögu finna til hans gæðsku og elsku; þeir vanheilögu til hans reiði og óblíðu. Setjum oss fyrir sjónir tvo undirsáta, sem báðir koma fram fyrir auglit síns Konúngs, annar er trúr og nytsamlegur undirsáti, hinn Drottins svikari; hvörninn er það mögulegt, að Konúngsins nálægð sé þeim báðum eins gledileg? hlýtur hún ecki að vera allt eins skélfileg fyrir þann eina, sem gledileg fyrir hinn annann, þannig líka í eilífðinni. Guð er allstaðar nálægur, en verkan hans nærveru hlýtur að vera allt eins ýmisleg, sem þær sálir eru ýmislegar, sem finna til hans nálægðar. Guð er í himninum, og fögnuður, gleði og eilíf sæla eru ávextir hans náðar-nálægðar á meðal hans útvaldra. Guð er einnig nálægur í samastað þeirra fordæmdu, og hræðsla, ángist, blygðan og eilíf örvænting eru þar ávextirnir af hans skélfandi nálægð. Þeim er hann eydandi eldur, sem ecki útslocknar. Sálir þeirra fordæmdu eru þess vegna ecki einúngis sviptar Guðs náðar-ríka samfélagi, og þess vegna sviptar því æðsta góða, sem einúngis gétur mettað skynsemdarfullar og ódauðlegar verur — því sú heilagasta vera gétur ecki sameinast vanheilögum sképnum — heldur finna þær líka, og hljóta nauðsynlega að finna til Guðs reiði og óblíðu, hvörn þeir með sínum vísvitandi syndum móðgað hafa.

Þetta einsamallt væri ærið nóg eymd; en sál-

in færir þaradauki með sér útúr heiminum og inn í eilífðina, efni og grundvöll til annara písla, sumpart í sínum óreglulegu girndum, sem hún hér ecki hefir viljað dempa, og þar gétur ecki mettað, sumpart í fordæmandi bríxlyrðum órólegrar samvitsku. Enginn sannleiki er óneitanlegri enn sá, að vorar girndir og tilhneigíngar hafa þeirra sæti í sálunni, en ecki líkamanum; þess vegna skilja vorar girndir ecki við oss, þó vér skiljum við líkamann. Ef vér í þessu lífi höfum ecki undirþryckt þeirra herra-dæmi yfir skynseminni, haldið þeim innann þeirra réttu takmarka, og gjört þær skynseminni og Guðs orði undirgéfnar, þá fylgja þær sálunni inn í eilífðina, eða enn þá, og uppvekja í henni það húngur, sem í hinu øðru lífi ecki kann að mettast. Setjum oss fyrir sjónir sæl-lífis-fulla sál, sem í skilníngar-vitunum og þeirra lystisemdum hefir leitað síns æðsta góða; nú er hún skilin við skilníngar-vitin og heiminn; hennar girndir fylgja henni inn í eilífðina, og þessi eilífð er fyrir hana tóm eyðimørk, hvar allar skilníngar-vitanna lystisemdir eru útilokaðar. Hvaða sælu gétur þessi sála fundið, þar hún ecki finnur það, sem hún hér í lífi áleit fyrir sína æðstu farsæld. Setjum oss fyrir sjónir stollta sálu, er álítur sig því luckulegri, sem hún sjer aðra lengra fyrir neðan sig, og þeckir enga æðri lucku enn þá, að stíga af einni æru-tröppu á aðra; nú flytst sálin inn í eilífðina, og hennar stollt fylgir henni; og þessi tilhneigíng kann ecki að mettast í andanna verøldu; hennar stollt verður hér hennar helvíti. Setjum oss fyrir sjónir ágjarnann mann, sem í hinum glæsilega málmi leitaði síns æðsta góða; hans of-

mikla elska til duptsins skilur ecki vid hann, þó hann hljóti ad skilja vid duptid; súnar eignir hér á jördunni, sem hafa kostad hann svo mikla mædu á daginn og stadid honum fyrir svefni á næturnar, hlýtur hann ad eptirláta vinum og óvinum, adrir uppskéra ávextina af hans sveita; og þar finnur hann ecki þetta, sem var einúngis takmark hans óska; hann finnur hjá sér húngur, sem í þessu nýja lífi ecki kann ad sedjast, og þetta húngur er hans helvíti. Setjum oss fyrir sjónir øfundsjúkann mann, sem leitadi sinnar gledi í annara hrygd, og hrygdist af annara gledi; hvada farsæld gétur hann fundid í eilífdinni, hvar hann sjer adra lucknlegri enn sig, og þess vegna álítur sjálfann sig óluckulegann, þó hann ecki væri þad. Þannig undirbúum vér oss í þessu lífi vora ólucku í eilífdinni. Þegar vorar drottnandi girndir, sem vér í þessu lífi ecki høfum viljad undirþryckja, fylgja sálunni inn í eilífdina, hvar vér hvørki gétum undirþryckt né mettad þær, þá æda þær enn þá í sálunni, og fylla hana med óróſemi og óánægju.

Sá annar grundvøllur, sem vér sjálfir leggjum hér í lífi til eilífdarinnar ólucku, er óróſøm og bríxlandi samvitska, sem án afláts offækir þær vesælu sálir med sinni fordæmíngu. Reynslan kénnir oss, hvørsu ógnarleg plága fordæmandi samvitska er, þegar hún vaknar af svefninum. Engin jardneskt vellysting smackast þeim, sem finnur til samvitskunnar óróſemi; sérhvørt fljúgandi lauf-blad er honum óttalegt og daudinn, sem øllum er svo óttalegur, er honum opt og tídum sætur; vér finnum þess vegna þær manneskjur, sem í fadmi daudans

leita sér skjóls og hælis til að umflýja samvitskunnar hótanir og ofsóknir. Hvílíka qvöl hlýtur sálin þá ekki að finna í eilífðinni, þegar hún í fyrsta sinni vaknar þar fullkomlega af þeim ólukkulega svefni, sem hún var haldin af, þegar nú minnið, sem ekki skilur við sálina ásamt með líkamanum, þar það hefir sitt sæti í sálunni, kallar aptur í hugann allar athafnir hins fyrra lífs, leiðir þær fram í öllum þeirra ljótleika, með allri þeirri ólukku, sem þær hafa eptir sig leidt; og þetta, sem þær hafa eptir sig leidt, verður nú ekki framar afmáð, og það, sem einusinni er gjört verður ekki apturtekið, og öll þau brögð, sem menn í þessu lífi hafa brúkað til að deyfa samvitskunnar hótanir, verða nú ekki framar brúkuð. Í þessu lífi finna menn opt uppá ýmislegt til að dempa samvitskunnar óróseml; skémtun vorra skilníngar-vita, vora vinnu, vor heimilis störf, gleði og glaum í annara manna umgengni og ótal fleira, sem vér finnum uppá til að sefa og svíkja oss sjálfa, og dempa samvitskunnar ógnandi raustu. Vér finnum ekki heldur ætíð svo sárt til afleiðínga vorra vondu athafna í þessu lífi, og þess vegna beita samvitskunnar bríxlanir enn þá ekki allri sinni makt við sálina. En í öðru lífi þekkir sálin enn greinilegar sína heimsku; þar finnur hún ekkért af þeim hlutum, sem hér á jörðunni hafa, henni til ólukku, dyllað samvitskunni í svefn; þegar hún er nú einsömul og komin til sjálfrar sinnar, hugsandi einúngis um sjálfa sig og sínar syndir, hefir hún nú tækifæri til að hugleiða sinn undanfarinn lifnað, og sýnist hann nú lángtum svívirðilegri og skélfilegri, enn áður, og sérhver vísvitandi synd, sem hún verð-

ur vør vid í sínu framferdi, eykur ógn á ógn ofan. Þetta er sá eilífdarinnar ormur, sem aldrei deyr.

Þetta er sú ímindan, sem vér med nockri vissu gétum gjørt oss um ástand þeirra fordæmdu. Eilíf útilokan frá Guds nádar-ríki sameiníngu; skélfileg tilfinníng nálægdar þess módgada Guds; ædandi og húngradra girnda óróssemi, og bríxlanir fordæmandi samvitsku. Med hvørjum fleirum strøffunum eilífdin er útbúin, gétum vér ecki med vissu sagt; en um þad erum vér fullvissir, ad sú eptirkomandi eymd, eins og sæla annars lífs, hefir ýmsar trøppur; eins og allir hafa ecki syndgad eins mikid, svo munu ecki heldur allir fá eins mikid straff; þetta flýtur af þeim þánka, sem vér naudsynlega hljótum ad gjøra oss um Guds réttlæti; þad flýtur líka af því, sem eg ádur hefi sagt. Því fleiri vondar girndir sálin færir med sér inn í eilífdina, og því meiri yfir-rád þessar girndir hafa fengid yfir oss; því fleiri vondar athafnir vér høfum til ad bríxla sjálfum oss um, og því skadlegri, varanlegri og almennari þeirra afleidíngar eru; því veikari freistíngarnar hafa verid, sem vér høfum haft vid ad strída, og því sterkari þær røksemdir hafa verid, sem styrktu oss í strídinu, þess stærri hlýtur sálarinnar óróssemi, þess sárari samvitskunnar bríxlanir, þess stærri hlýtur líka þess vegna hennar eymd ad vera. Og þetta er Ritníngarinnar lærdómur; þess vegna vitnar **Kristur: ad innbyggjurunum í Tyró og Sídon muni verda bærilegra á dómsdegi heldur enn Gydíngum, Matth. 11.** Því hinir fyrri høfdu ecki svo margar og sterkar uppørfanir til ydrunar og yfirbótar, sem þeir sídari.

Þannig er vort eptirkomandi ástand náttúrleg afleidíng af athøfnum og þenkíngar-máta vors nærveranda lífs. Vort nærveranda líf, er grundvøllur þess eptirkomanda, tíminn er undirbúníngur eilífdarinnar. Eins og vort framferdi hefir verid hér, eins hlýtur vort ástand ad verda þar; ekkért er skynsamlegra, ekkért náttúrlegra. Þannig eru allir hlutir í náttúrunni saman-hleckjadir hvørr vid annann. Barns-aldurinn undirbýr æskuna, æskan fullordins aldurinn, og allir lífdagarnir eilífdina. Forgéfins skúrskotum vér til Guds miskunar; því sá sami Drottinn, sem er óendanlegur í sinni miskun, er allt eins óendanlegur í sínu réttlæti. Hér er skilmáli á vora sídu; þessi skilmáli hlýtur ad uppfyllast, ef eilífdin skal ecki verda hin ófarsælasta fyrir oss; vér hljótum ad trúa á Krist, med trúarinnar krapti hljótum vér ad dempa vorar vondu girndir, yfirvinna sjálfa oss og heiminn, verda ávaxtarsamir í gódum og kristnum manni verdugum athøfnum.

Ef vér ecki seinna viljum útilykjast frá samfélagi þeirrar ædstu veru, frá nautn þess ædsta góda, sem einúngis gétur mettad vorar ósedjanlegar girndir, þá hljótum vér hér í lífi ad képpast eptir helguninni, og med Guds adstod hreinsa oss frá þeirri spillíngu, sem vid oss lodir; því saurug sála, sem elskar sinn saurugleika, gétur ecki komist í samfélag þeirrar heilogustu veru, sem einúngis kann ad elska heilagleika. Ef vér í eilífdinni viljum umflýja þá skélfilegu tilfinníngu Guds reidi, þá hljótum vér í þessu lífi, fyrir Guds medverkandi krapt, ad láta vor hjørtu þannig tilbúa, ad vér gétum ordid hluttakandi hans nádar. Ef vér sídar viljum ad

oss smackist vel sú himneska gledi, sem oss er fyrirbúin í ljóssins hýbýlum, þá hljótum vér fyrirfram ad dempa vora ofmiklu elsku til heimsins og hans lystisemda, þá hljótum vér ad kappkosta ad taka allann kjark úr vorum vondu tilhneigíngum og vorum óstjórnlegu geds-hræríngum, svo þær ecki fylgi sálunni inn í eilífdina, hvar þær ecki kunna ad mettast, og af mettunar skorti fylla þar sálina med órósemi og óánægju. Ef vér seinna viljum umflýja samvitskunnar fordæmandi bríxlyrdi, og smacka þá gledi, sem rósöm samvitska veitir oss, þá hljótum vér ecki einúngis ad fordast allar vondar athafnir, sem kynnu ad leggjast þúngt á vora samvitsku; heldur líka ástunda ydkun gódra verka, **Krists** blód hlýtur ad hreinsa vora samvitsku frá daudum verkum, ad vér kunnum ad þjóna lifanda Gudi, Ebr. 9. Annars mun vor samvitska ofsækja oss um alla eilífd, og sjálfur himininn mundi verda oss ad helvíti.

## 41. Kapítuli.

### Um Líkamanna upprisu.

Svo almennur sem þánkinn um sálarinnar ódaudlegleika var á medal Heidíngjanna, svo lítid þecktu þeir þarámóti til lærdómsins um líkamanna upprisu. Í sjálfri Athenu-borg, hvar sá veraldlegi visdómur hafdi sína skóla, var blegid ad Páli, af því ad hann taladi um upprisu hinna daudu, Post. g. b. 17. Þessi lærdómur er, og hlaut ætíd ad vera hulinn fyrir skynseminni; þad er einúngis Ritníngin, sem vér eigum ad þacka þessa gledilegu von; og þessi Ritníng var í Gydínganna höndum, hvar

fyrir þessi lærdómur var og algenginn á medal þeirra. Daníel segir: margir af þeim, sem sofa í jardarinnar dupti, munu uppvakna, sumir til eilífs lífs, sumir til eilífrar skammar og smánar, Dan. 12. Davíd hafdi sömu von: eg mun, segir hann, skoda þitt aúgliti í réttlæti, eg mun, saddur verda, nær eg uppvakna eptir þinni mind, Ps. 17. Svarid, sem Martha gaf Kristi, sýnir ad Gydíngarnir líka trúdu upprisu hinna daudu á þeim tímum: eg veit, segir hún, ad bródir minn mun upprísa, þegar allir upprísa á efsta degi, Jóh. 11. Þennann vigtuga lærdóm, sem ádur var af Gydíngunum medtekinn, innleiddi Jesús í sína kirkju, sem grundvallar lærdóm; hann kénndi ecki einúngis ad þeir daudu mundu upprísa, heldur líka ad þeir mundu upprísa fyrir hans krapt. Sá tími mun koma, segir hann, þá allir þeir, sem í gröfunum eru, munu heyra hans raustu og koma fram; þeir, sem hafa gott gjört, munu upprísa til lífsins, og þeir, sem hafa illa gjört, til fordæmíngar, Jóh. 5. Ad Krists Postular hafi sídan bædi munnlega og skriflega útbreidt þennann lærdóm, vita allir, sem einúngis hafa lauslega bladad í nýja Testamentisins bókum.

Allar þær mótsagnir, sem skynsemin finnur uppá á móti þessum lærdómi, koma einúngis af þeim raungu hugar-gripum, sem menn gjöra sér um ásigkomulag þeirra upprisnu líkama. Ef vér þenkjum til þessara grófu jardnesku líkama, sem vér berum á oss hér á jördunni, ef vér væntum eptir ad þessir líkamir muni upprísa í sama ástandi, sem þeir eru nú, þá verdur þessi lærdómur óneitanlega

flæktur í þvílíkum mótsøgnum, sem gjøra hann oldúngis ómedtækilegann. En Ritníngin kénnir þad hvørgi; hún kénnir ad sonnu ad þeir sömu líkamir muni uppríſa; en hún kénnir þar hjá, ad þeir muni uppríſa med øllum ødrum eginlegleikum, heldur enn þeir hafa haft í þessu lífi. Heyrum hvad Páll segir, þegar hann er ad svara Korintu-borgar mønnum uppá þetta spursmál: hvørnin uppríſa þeir dauðu? og med hvada líkama koma þeir fram? Þú heimskíngi! segir hann, Þad Þú sáir, lifnar ecki, utan Þad deyi ádur, og Þad Þú sáir, er ecki sá líkami, sem verda skal, heldur bert korn, annadhvørt hveitis eda nockurs annars; en Gud géfur því líkama, eptir því, sem hann sjálfur vill, og sérhvørju fræi þess eginlegann líkama. Allt hold er ecki samaslags hold; heldur er hold mannanna annarsslags, dýranna annarsslags, fiskanna annarsslags, fuglanna annarsslags. Þar eru himneskir líkamir og jardneskir líkamir; en adra fegurd hafa hinir himnesku, en adra hinir jardnesku. Annann bjartleika hefir sólin, en annann túnglid; annann bjartleika hafa og stjørnurnar, því ein stjarna yfirgengur adra ad bjartleika; eins er því lika háttad med uppríſu framlidinna. Líkamanum verdur rotnanlegum nidursád, en hann mun upp aptur rísa ófor-rotnanlegur; honum verdur auðvirdilegum nidursád, en hann mun uppríſa vegsamlegur; honum verdur nidursád veikum, en hann mun upp aptur rísa kroptugur; náttúrlegum líkama verdur nidursád, en upp aptur mun rísa andlegur líkami, 1 Cor. 15.

Af þessari útmálun sjáum vér, ad hinn sami

líkami mun að sönnu síðarmeir uppríſa; en hann mun samt ecki uppríſa í sama áſtandi ſem hann er niðurlagður í jörðina; oſs mundi heldur ecki vera þént með því, ef vér um alla eilífð ættum að bera á oſs þennann jarðneſka, veika og forgengilega líkama. Páll tileinkar hér þeim uppríſnu líkömum fjóra eginlegleika, ſem þeir ecki hafa áður haft, neſnilega: að þeir verði órotnanlegir, vegſamlegir, kröptugir og andlegir. Líkamanum verður niðurſáð rotnanlegum, ſegir hann, en hann mun uppríſa órotnanlegur. En ſkuli vorir uppríſnu líkamir verða órotnanlegir, þá hljóta þeir að hafa alla aðra eginlegleika, heldur enn þeir líkamir, ſem vér nú höfum. Þeſsir hafa í þeirra náttúru grundvöllinn til þeirra rotnunar; og ſvo lengi þeir hafa þá ſömu eginlegleika, hljóta þeir líka nauðſynlega að vera rotnanlegir. Samanblöndun margſlags gagnſtæðra parta, partanna ſífeldi ſamanmúníngur, vaxandi harka í rennuſtockunum, ſem leiða veſsana um líkamann, og teppan í þeim, ſem ſmámſaman eykſt, allt þetta er orſök til vorrar rotnunar. Skuli þeſs vegna vorir uppríſnu líkamir verða órotnanlegir, þá hljóta orſakirnar til vorrar rotnunar að burttakaſt, vorir líkamir hljóta að leggja af ſér í gröfinni þeſsa ſtórgérðu jarðneſku parta, ſem hér á jörðunni hafa þá niður. Þetta kénnir Páll í ſama kapítulanum með útþrycktilegum orðum, þar hann ſegir: **hold og blóð er ecki hæft til að verða hluttakandi Guðs ríkis; ecki heldur mun þetta forgengilega verða hluttakandi þeſs óforgengilega.** Sá líkami, vill hann ſegja, ſem ſamanſtendur af holdi og blóði, eins og vor nærverandi líkami, ſá líkami, ſem er

af jarðnesku efni gjørður, eins og þessi, er ecki hæfur til þess eptirkomanda lífs; ecki heldur, vill hann segja, kann það, sem er forgengilegt í vorum líkama, að verða óforgengilegt, af því það hefir í sjálfu sér sæðið til dauðans og orsök til rotnunarinnar.

Sá annar eginlegleiki vorra upprisnu líkama er þessi: líkamanum verður niðursáð auðvirðilegum, en hann mun upprísa vegsamlegur. Hvar í vegsemð og fegurð þeirra upprisnu líkama verði innifalin, getum vér ecki með vissu sagt; en svo mikið kénnir Páll oss, að þau lýti og sá ófullkomlegleiki, sem opt gjørir vora jarðnesku líkami óálitlega, munu ecki finnast á þeim eptir upprisuna. Vora nærverandi líkami vantar opt þá reglu, fegurð og niður-røðun, sem þeir gætu haft, opt hafa þeir bresti og vanmeti; þessir brestir munu ecki lýta vora upprisnu líkami, á þeim mun verða hin fullkomnasta regla, fegurð og niður-raðan. Þetta flýtur jafnvel af því, sem eg áður hefi sagt. Sú óregla og misssmíði, sem finnast á líkömum vorum og gjørir þá óásjálega, eru einúngis brestur í blønduu og samansetníngu þeirra grófu jarðnesku parta; en þessa jarðnesku parta skiljum vér eptir í grøfinni, vér færum þess vegna ecki heldur þessa bresti með oss burt úr grøfinni.

Sá þriðji eginlegleiki vorra upprisnu líkama er þessi: honum verður veikum niðursáð, en mun upp aptur rísa kroptugur. Vor nærverandi líkami er óteljandi veikleikum undir-orpinn; eins marga limi, sem hann hefir, eins mørgum pørtum, sem hann samanstendur af, eins mørgum veikleika er hann undirkastaður. Þetta flýtur sumpart af svo

margra gagnstædra hluta samanblöndun og sameiníng í náttúru vorri, sumpart af fædunni, sem vér til vor tökum, vatninu, sem svalar oss, og loptinu, sem vér drögum til vor med andar-drættinum, hvört ed ecki ætíd á við vorn líkama, og loksins af vors líkama egin innvortis hræríngum. En þegar nú allir þessir stór-gérdu jardnesku partar, í hvörjum vorir veikleikar hafa sitt adsetur, verda eptir í grofinni, þá er þad skiljanlegt, ad líkaminn, sem veikum verdur nidursád, hlýtur ad uppríſa ölugur.

Loksins er þad sá fjórdi eginlegleiki vorra upprísnu líkama: náttúrlegum líkama verdur nidursád, en upp aptur mun rísa andlegur líkami. Náttúrlegur líkami er þvílíkur líkami, sem er útbúinn med stór-gérdum jardneskum skilníngar-vitum, sem lögud eru eptir líkamans nærverandi jardneska ástandi. Þannig er þeim líkama háttad, sem er nidurlagdur í jördina; en sá líkami, sem aptur upprís, er andlegur edur eins og hann kallar hann seinna, himneskur. Sá upprisni líkami mun þess vegna, eptir Páls lærdómi, verda ýfrid fínn og smágérdur líkami, sem er hreinsadur frá öllu því efni og pörtum, sem þessi jardneski líkami er samansettur af. Sá upprisni líkami mun þess vegna verda léttur á sér, fljótur í sínum hræríngum og samqvæmari sálarinnar andlegu veru. Vér sjáum þá hér af, hvörninn vorir líkamir, eptir Ritníngarinnar lærdómi, munu verda á sig komnir; ecki þessir grófu og af efni gjördu, heldur ýfrid fínir, andlegir og himneskir líkamir munu upp aptur rísa.

Og munu þad þó ecki verda vorir eginn líkamir? kynnu menn ad spyrja; eg svara: jú! vorir

eginn líkamir munu þad verda, og þad í hinni allra eginlegustu meiníngu. En, hvad köllum vér vorn líkama? þessir þycku, þúngu, af efni gjördu líkamir, sem vér á oss berum hér á jördunni, eru ecki í eginlegri meiníngu vorir líkamir; þeir eru teknir til láns hjá öllum Elimentunum (Frum-efnunum) og tilheyra þeim. En, í þessum gröfa af efni gjörda líkama liggur grundvallar-vera vórs líkama hulin; hún er yfrid smá-gérdur og fínn líkami, sem eginlega tilheyrir sálunni, er henni nákvæmlega sameinadur, og er vor eignarlegi líkami. Allt þad, sem smámsaman hefir bætst vid hann af fædunni, og hefir útþanid, aukid og útvíkkad þennann fína og smá-gérda líkama, eru framandi partar, sem ecki tilheyra oss, heldur heiminum, hvörja vér höfum um nockurn tíma tekid til láns, til ad fá þad form, abl og vöxt, er vér, sem heimsins innbyggjarar medþurftum. Þessi stóri líkami er einúngis klædi, í hvört vor smá-gérdi eignarlegi líkami er innvafinn. Þess vegna koma og fara þessir til láns teknu hlutir á hvörju augna-bliki. Þessi gröfi líkami, sem vér nú hofum, er ecki sá sami, sem vér færdum med oss út af módur-lífi; ad nockrum árum lidnum höfum vér aptur annann líkama, og samt heitir þad hinn sami líkami, af því hans grundvallar vera er ætíd hin sama. Þess vegna hverfa líka þessir til láns teknu partar med rotnuninni aptur til þeirra Elimenta, sem þeir eru afteknir. Lopt, jörd, vatn og eldur, sérhvört Eliment tekur til sín aptur þad, sem því tilheyrir, og eptir þeirri útmálun, sem Páll hefir gjört um eginlegleika þeirra upprisnu líkama, hljótum vér ad trúa, ad vorir

jarðneſku líkamir fái þeſsa jarðneſku parta aldrei framar, þar þeir ecki eiga framar að vera innbyggjarar í þeſsari veröldu, að minnſta koſti ecki eins á ſig kominni, ſem hún nú er. Það er þeſs vegna ecki þeſsi ſtór-gérði, þúngi og af efni gjørði líkami, heldur hans ſmá-gjørva grundvallar-vera, ſem er ſálarinnar nær-klæði, er hefir fyrirheit um upprisuna, og þá von, að verða ſíðarmeir í annari áſýnd innbyggjari hins annars heims; því annar heimur útheimtir aðra líkami. Nú finnum vér Páls ſamlíkíngu, er hann dregur af fræinu, ſem í jørðina verður niðurſáð, fullkomlega þaſsandi, eckért bílæti gat verið fegra og þar hjá réttara. Hann vill hér með kénna oſs, að eins og frækornið, ſem niður er ſáð, kémur ecki ſjálft upp úr jørðunni, heldur einúngis ſú litla, varla ſýnilega mind, ſem liggur innſveypuð í þeſsu korni, allt eins mun ecki heldur þeſsi ſýnilegi jarðneſki líkami upp aptur ríſa, heldur ſá óſýnilegi ſmá-gjørſi líkami, ſem nú liggur innvafinn í hinum, þegar þeir ſtórgérðari jarðneſku partar, ſem vóru eins og umbúðir utan um hann, verða eptir í jørðunni.

Af þeſsari útmálun, ſem eg hér hefi gjørt yfir áſtand þeirra upprisu líkama, ſjá allir, hvørſu lítið þeſsi lærdómur um upprisuna kann að ſkuldaſt fyrir það, að hann ſé fráleitur og ſjálfum ſér gagnſtæður, og hvørſu allar þær mótſagnir, ſem gjørðar hafa verið á móti þeſsum huggunar-fulla ſannleika, koma einúngis af rángri ímindun, ſem menn hafa gjørt ſér um áſigkomulag þeirra upprisu líkama. Sú almennaſta og í fyrſta áliti ſterkaſta mótſøgn á móti þeſsum lærdómi er þeſsi: þar eru

til manneskjur, segja menn, sem eta adrar manneskjur, þær næraſt og vaxa af ſinna medmanneſkna holdi, ſem rennur þeim í hold og hams. Adrar manneſkjur verda fuglum og fiſkum ad átu, og þeſsir aptur manneſkjunum ad fædu. Af náttúrunnar almennilega kríngs-róli dreifaſt þeir ønduðu líkamir víds vegar; sérhvørr partur kémur med rotnuninni aptur til þeſs efnis hvar hann á heima. Vatnid, jørdin, loptid fær ſinn hluta hvørt fyrir ſig; þeſsir partar gánga aptur til graſanna, ávaxtanna og dýranna, og lokſins, þegar þeſsir hlutir eru brúkadir til fædis, ſameinaſt þeir annara manna líkømum. Nú ſpyrja menn, hvørninn ſérhvørr géti fengid aptur ſinn líkama í uppriſunni, ef allir eiga þó ad fá þeirra líkami heila og óſkérdta? þeſsi mótſøgn ſýniſt ad víſu ad vera øblug og mikilvæg; en þó er hún einúngis grundvøllud á rángri ímyndun um áſigkomulag þeirra uppriſnu líkama. Strax, ſem menn fallaſt á þá útſkíríngu, ſem heiløg Ritníng géfur yfir náttúru og eginlegleika þeirra uppriſnu líkama, þá fellur øll þeſsi torveldni burt af ſjálfri ſér. Eptir Ritníngarinnar lærdómi, eiga ecki vorir ſtór-gérdu jardneſku líkamir ad upprísa, ecki þetta hold, þeſsi bein, þetta blód og þeſsir køgglar; heldur þeir andlegu og himneſku, þeir ſmá-gérdu líkamir, ſem liggja innſveypadir í því útvortis grófa hýdi, eins og þad ſljúgandi ſkor-qvikindi í ſilkimadkinum og pløntu-mindin i fræ-korninu. Þad, ſem mann-æturnar, þad, ſem fiſkarnir og dýrin eta, er einúngis þad útvortis grófa hýdi, ſem hefir verid ſvo ſem hjúpur vors andlega líkama; hid fyrra gétur þénad til fædis, en þad ſídara ecki.

Þad, sem med rotnuninni útdreifist í loptid, vatnid, eldinn, jørdina, eru einúngis þeir til láns teknu hlutir, hvørjir snúa þángad aptur, hvadan þeir vóru teknir, á medan vér þurftum þeirra vid. Þeir tilheyra ecki oss, heldur náttúrunni; vér kunnum þess vegna ad skila þeim aptur, þegar vér ecki þurfum lengur á þeim ad halda, án þess vor sanni og eiginlegi líkami missi þar vid hid minnsta. Hann verdur samt til í náttúrunni, og gétur þess vegna, fyrir Guds almættis-krapt, aptur framkomid úr moldunni, þegar hinn sídasti dagur upprennur, þá sérhvørr á ad heyra sinn sídasta dóm. Allar þær mótsagnir, sem menn uppþenkja til ad veikja þennann sáluhjálplega lærdóm, snerta þess vegna ecki vora líkami, sem eiga ad upprísa, heldur einúngis þessa jardnesku líkami, sem rotna í jørdunni, og eckért fyrirheit hafa um upprisuna.

---

Hvørsu sáluhjálpleg og tilhlǿckunar verd er þessi von, sem styrkir þann sannkristna og brynjar hann med djørfúng á móti daudans ógnunum. Vér gétum ad sønnu ecki hugsad til daudans án þess ad oss í vissann máta hrylli vid honum, þar hann nidurbrýtur vorn líkama, þennann part vors skapnadar, sem vér høfum svo miklar mætur á. En hvørsu øblug er von þeirrar eptirkomandi upprisu til ad dempa þennann hroll? samt væri þessi von ecki nógu upplífgandi, ef vér ættum ad fá hina somu líkami aptur, í sama ástandi, sem vér høfum vid þá skilid, þessa þúngu, jardnesku og stór-gérdu líkami, sem ala í sér sædi til svo margra sótta og

sjúkdóma, já, það sem er verra enn sóttir og sjúkdómar, sædi til svo margra syndugra girnda og ofsvæsinna gédshræríngа. Nei, sú er vor gledilega von og fagnadar-fulla tilhlackan, ad sá líkami, sem vér fáum aptur í upprisu hinna dauðu, á fyrst ad hreinsast frá hans kránka og synduga edli, svo hann géti ordid verdugur bústadur fyrir þá forklárudu sálu. Ættum vér þá ad qvída svo mjøg fyrir ad afklædast vorum jardnesku líkømum svo lengi, þángad til þeir fyrir Guds krapt, eru ordnir hreinsadir undir eilífdina.

Daudinn er oss nockud hryllilegur, þar hann skilur oss frá heiminum, í hvørjum svo mørg meinlaus gledi hefir streymt inn til vor ígégnum sérhvørt skilníngar-vit, og aukid oss yndæli. En hvørsu vonar-fullur er ecki aptur á móti þánkinn um líkamanna upprisu, þá vér med sálu og líkama eigum ad verda innbyggjarar í þeim nýja heimi, sem Dróttinn hefir tilbúid handa sínum heiløgu. Vér þeckjum ad sønnu ecki þennann heim, vér þeckjum ecki hans unadsemd og yndæli; en, svo mikils megum vér þó vænta, ad þar Gud géfur oss aptur vora líkami og vor skilníngar-vit, þó það séu forklárud skilníngar-vit, þá muni hann hafa tilbúid handa þessum skilníngar-vitum það yndæli, sem þeim sambýdur, en þvílíkt yndæli, sem er hreint, heilagt og verdugt þeirri forklárudu sálu, sem nýtur þess; svo mikid þorum vér ad segja til vissu, ad sá heimur, er Gud hefir tilbúid handa þeim upprísnu, sem sáluhólpnir verda, hlýtur ad vera lángtum fegri og vegsamlegri, heldur enn sá heimur, sem vér búum nú í. Mun-

um vér ecki með góðum rökum kunna að álykta af þessum heimi um hinn ókomna? þar þessi heimur er svo fagur, svo prýðilegur, svo fullur af gleði og yndæli fyrir oss, og hann er þó skapaður til að vera samastaður syndugra skèpna, sem gjöra uppreist á móti þeirra Skapara, og launa þá stærstu velgjörnínga með kaldsinni og vanþakklæti, hvörsu fagur og prýðilegur má þá sá heimur vera, sem Guð hefir ætlað sínum sonnu og sigri-hrósandi stríðsmönnum til bústaðar?

Dauðinn er oss nockuð hryllilegur, þar hann skilur oss frá vorum vinum; það er ætíð sárt að skilja við þá, sem vér með vináttu erum sameinaðir við; enn þá sárara er að skilja við þá, hvörja náttúran hefir samtengt oss. En vér höfum þá gleðilegu von, að vér aptur í upprisunni munum sameinast vorum sáluhólpnu vinum. Sé þessi ósk svo saklaus, kunni hennar uppfyllíng að auka svo miklu við eilífðarinnar gleði, mun Guð þá neita sínum sáluhólpnu um þennann sælu-auka? og hvílíkur ósegjanlegur fögnuður mun þá útbreiðast um hýbýli þeirra upprisnu réttlátu, þegar sá eini ektamaki umfaðmar hinn annann, og sá eini vinur leggur hendur um hálsinn á hinum? og þó vér þecktum hér ecki vora vini, mundum vér þar fyrir vera vinalausir? eru ecki allir eilífðarinnar innbyggjarar vorir vinir? eru ecki allir þeir endurleystu vorir vinir? hvílík ósegjanleg gleði mun það verða, þegar allir sáluhólpnir samtengjast óslítanlegu vinskapar-bandi? þegar sá eini af þeim sáluhólpnu innhellir sinni sælu í hins annars brjóst, og aptur inn-andar hans? hvörsu gleðileg og vegleg og vonarfull er þá sú

tilhlackan, sem þessi lærdómur um líkamanna upprísu veitir Jesú Krists sonnum tilbidjendum! hvørsu brynjar hún oss med djørfúng á móti øllum þeimhrolli og qvída, sem daudlegum mønnum stendur af dándanum; en skuli þessi lærdómur ecki á hina sídurna bæta daudans hrædslu á hrædslu ofan, þá hljótum vér hér í heimi ad lifa þannig, ad vér gétum haft grundada von um, ad finnast á medal þeirra, sem upprísa til eilífrar sælu, og ecki til fordæmíngarinnar.

## 42. Kapítuli.

### Um þann sídasta Dóm.

Ad vísu er þad satt, ad sérhvørrar manneskju daudadagur er hennar dómsdagur; en samt er þad óneitanlegt, ad fyrir heiminum liggur almennilegur dómur, þá allir í þeirra upprísnu líkømum eiga ad opinberast fyrir Krists Dómstóli, ad hvørr einn kunni ad fá sín laun, eptir því, sem hann hefir adhafst í líkamanum, hvørt þad er gott edur íllt, 2 Cor. 5. Þær sérdeilislegu kríngumstædur þessa dóms eru oss ecki allar augljósar. Vér hljótum ad halda oss vid Ritníngarinnar vitnisburd; ad víkja frá honum med djørfum tilgátum, væri hættuleg ofdyrfska. Kristur útmálar þennann mikla atburd med eptirfylgjandi hætti; Þegar mannsins sonur, segir hann, kémur í sinni dýrd, og allir heilagir englar med honum, þá mun hann sitja í sæti sinnar dýrdar, og allar þjódir munu samansafnast fyrir honum, og hann mun þá sundurskilja hvørja frá ødrum, eins og hyrdir sundurgreinir saudi frá kidum; og saudunum mun hann skipa til sinn-

ar hægri handar, en kidnunum til vinstri. Þá mun Konúngurinn segja til þeirra, sem á hægri hønd eru: komið hér, þér blessaðir føður mins! og eignist það ríki, sem yður var tilbúið frá uppvafi veraldar! Því húngraður var eg, og þér gáfuð mér að eta; þyrstur var eg, og þér gáfuð mér að drecka; géstur var eg og þér hýstuð mig; nakinn var eg og þér klæddud mig; sjúkur var eg, og þér vitjuðud min; í myrkvastofu var eg, og þér komuð til mín. Þá munu hinir réttlátu svara og segja: Herra! nær sáum við þig húngraðann, og mettuðum þig? eður þyrstann, og gáfum þér að drecka? eða nær sáum við þig géstkomandi, og hýstum þig? eða nakinn, og klæddum þig? eða nær sáum við þig sjúkann eða í myrkvastofu og komum til þín? þá mun Kóngurinn svara þeim: sannlega segi eg yður, hvað þér gjørðuð einum af þessum minum minnstu brædrum, það gjørðuð þér mér. Þá mun hann og segja til þeirra, sem til vinstri handar eru: farið burt frá mér, þér bølvaðir! í þann eilífa eld, sem fyrirbúinn er fjandanum og hans árum. Því húngraður var eg, og þér gáfuð mér ecki að eta; þyrstur var eg, og þér gáfuð mér ecki að drecka; géstur var eg, og þér hýstuð mig ecki: sjúkur og í myrkvastofu var eg, og þér vitjuðuð mín ecki. Þá munu þeir líka svara honum: Herra! nær sáum við þig húngraðann, eða þyrstann, eða gést, eða nakinn, eða sjúkann, eða í myrkvastofu, og høfum þér ecki þjónað? þá mun hann svara þeim: sannlega segi eg yður, hvað þér gjørðuð ecki einum af þessum hinum minnstu,

þad gjørdud þér ecki heldur mér. Þá munu þessir gánga í eilífar píslir, en réttlátir í eilíft líf, Matth. 25.

Allir sjá, ad þessi útmálan inniheldur bílæti, sem dregid er af veraldlegum dómstólum; hvørt eitt atvik má þess vegna ecki takast rétt eptir ordunum. Kristur er settur hér fyrir sjónir, sem dómari, er situr á sínum dómstóli, og lýsir fríkénníngar-dómi yfir þeim réttlátu, og fordæmíngar-dómi yfir þeim ránglátu, sem grenslast eptir sérhvørs athøfnunt, og géfur sérhvørjum til kynna orsøkina til þess dóms, sem hann fær, hvørt heldur hann fríkénnist edur fordæmist. Þessi bílæti hljóta ad takast í óeginlegri meiníngu; sú eginlega meiníng mundi uppvekja hjá oss þá þánka, sem eru þeirri ædstu veru óverdugir. Þetta dýrdar-sæti, hvad gétur þad þýdt annad, enn Jesú ótakmarkada vald til ad dæma heiminn, hans vald til ad umbuna sínum sønnu tilbidjendum, og straffa sína óvini; og þetta opinbera ransak, sem eptir útmáluninni á ad haldast yfir heimsins innbyggjurum, er fyrir heimsins dómara allt eins ónaudsynlegt, sem dómstóllinn; Jesú alvitska og sérhvørs egin samvitska gjørir þad ónaudsynlegt. Á þvílíku þarf ad halda fyrir dómstóli jardnesks Konúngs, en ecki fyrir Jesú Krists dómstóli, hvørs auga er alviturt.

En jafnvel þó ad nockud í þessari útmálun hljóti ad takast í óeginlegri merkíngu, þá kann þad þó ecki alltsaman ad útskírast óeginlega. Þad er ad sønnu eptirlíkíng; en hún hlýtur þó ad innihalda sannleika. Ef vér burttøkum þennann sýnilega útvortis búníng, hvørjum Guds vísdómur sveyp-

ar utan um sín andlegu sannindi, til ad lempa sig eptir manneskjunum, sem framar leidast af Kilníngar = vitunum enn skynseminni, þá finnum vér í þessu bilæti eptirfylgjandi lærdóma. Sá fyrsti: sá tími mun koma, þá Gud med hátídlegum hætti vill gánga rikt eptir sinna laga eptirbreytíngu og auglýsa sitt réttlæti med því ad launa sínum sønnu tilbidjendum, og straffa forakkara sinnar nádar. Nær þessi stóri tímans púnktur er áqvardadur, hefir Guds vísdómur hulid fyrir oss, svo vér ætíd skyldum vidbúnir vera. Þess vegna er gagnslaust, ad vilja grenslast eptir þessum tíma; ef vér hefdum átt ad vita hann, þá hefdi Gud vissulega opinberad oss hann, og þar Gud vill ecki, ad vér vitum hann, þá er forgéfins, ad vilja útreikna hann. Tíma=púnktur þessa stóra atburdar er kominn undir Guds frívilljugu rádi, skynsemin gétur þess vegna ecki fastsett hann; en þad gétur skynsemin séd, ad þad er naudsynlegt, ad þessi tíma=púnktur hljóti einhvørntíma ad koma. Skynsemin hlýtur ad álíta þad verdugt fyrir þann ædsta Løg = gjafara og Yfirherra, ad hann einhvørntíma auglýsi, opinberlega og med hátídlegum hætti, fyrir øllum sínum skynsemdarfullu skepnum sína misþócknun á því vonda, og sína velþócknun á því góda; þar med frelsar hann heidur sinn, sem vanvirdist med mannanna vísvitandi yfirtrodslum, þar med innþryckir hann hjá sínum skepnum þeirri heiløgu lotníngu, sem þær eiga ad hafa fyrir hans vendanlegu hátign. Þess vegna segir Páll: Þad er rétt hjá Gudi, ad endurgjalda þeim hørmúng, sem ydur hørmúng veita, en ydur, sem hørmúng lídid, hvíld med oss, þá er

Drottinn Jesús mun opinberast af himni med sínum mektugu englum, med elds-loga, til ad hegna þeim, sem ecki vilja adhyllast Gud, og þeim, sem ecki hlýdnast Evangelió vors Drottins Jesú Krists; hvørjir lída munu gløtun til straffs af Drottni, og af hans dýrdarlegri makt, þá hann kémur til ad vegsamast af sínum heiløgum, og til ad verda dásamlegur á medal allra þeirra, sem trúad hafa, 2 Thess. 1.

Sá annar lærdómur: sú persóna, sem heimurinn á ad dæmast af, er Jesús Kristur. Ad sönnu mun fadirinn einnig dæma heiminn; þess vegna kallar Páll hann allra dómara, Ebr. 12; og þann réttláta dómara, 2 Tím. 4. En hinn sami Páll segir líka, ad fadirinn muni dæma heiminn í Krists persónu: hann hefir, segir hann, tilsett vissann dag, á hvørjum hann ætlar ad láta þann mann, sem hann hefir þar til sett, dæma rétt alla jardarinnar innbyggendur; og þetta hefir hann gjørt trúverdugt fyrir øllum med því, ad hann uppvakti hann frá daudum, Post. g. b. 17. Pétur vitnar sømuleidis, ad hann sé af Gudi tilsettur til ad vera dómari lifandi manna og daudra, Post. g. b. 10. Jesús á þess vegna eptir Ritníngarinnar lærdómi ad dæma heiminn, og þad, sem Gud og madur, ecki einúngis eptir sinni guddómlegu, heldur líka eptir sinni manndómlegu náttúru; því bædi sem Gud og madur hefir hann endurleyst heiminn, þar med er heimurinn ordinn hans eigin eign, hann hefir líka þar med fengid þann fullkomnasta rétt til ad dæma heiminn sem Gud og madur. Enn þá hefir hann ecki sýnt sinn fullkomna sigur

yfir þeim, sem hann forakta, enn þá eru hans trúu tilbiðjendur foraktaðir og effóktir; skyldi hann þó ecki einhvörntíma auglýsa sig í sínu fullkomna sigur-hrósi? skyldi hann ecki einhvörntíma sýna öllum heiminum opinberlega, að hans Evangelíum hefir ecki verið heila-grillur, og að hans offur hafi verið gyld forlíkun fyrir þá, sem trúa?

Sá þriðji lærdómur: Mannsins Sonur mun koma til dómsins, umkríngdur af sínum heilögu englum. Hvörsu náttúrlegt er þetta; þeir vóru nálægir hjá honum í hans djúpustu niðurlægíngu; þeir vóru nálægir við hans fæðíngu, við hans freistíngar á eyðimörkinni, við hans pínu; þeir vóru nálægir við hans upprisu, við hans himnaför, og kunngjörðu Postulunum hans apturkomu til dómsins; skyldu þeir þá ecki líka vera nálægir við þetta Jesú viktuga verk í hans upphafníngu? þar þeir voru staddir við og horfðu uppá hans stríð, skyldu þeir þá eckj einninn sjá hans síðasta og fullkomna sigur? já, skyldu ecki allir himinsins innbyggjarar vera vitni til, að hann er réttlátur Dómari, sem géldur hvörjum eptir hans verkum, og hefir ecki géfið sín lög til forgéfins.

Sá fjórði lærdómur: á síðasta degi eiga þeir vondu að skiljast frá þeim góðu, þeir vanheilögu frá þeim heilögu, hafrarnir frá sauðunum. Þessum mun verða skipað á hægri, og hinum á vinstri hlið við hans dómstól. Vér sjáum auðveldlega, að þetta er mál-verk; en það hlýtur þó að innihalda sannleika, og sé nockur sannleiki fólginn undir þessu bílæti, þá hlýtur það að vera þessi: að þeir heilögu og vanheilögu, sem í upprisunni eru samanblandaðir sín á milli, munu þá, þegar Jesús kémur til

dómsins, verda adskildir hvorjir frá ødrum, adskildir, ecki einúngis med þeim ýmislega dómi, sem yfir þeim mun uppsagdur verda, heldur einnig ad stadnum til, sem hvørjum fyrir sig mun hlótnast. Páll útskírir oss þennann skilnad: Drottinn sjálfur, segir hann, mun koma af himnum ofán med strídshrópi, med høfud-engilsins raustu, og med sterku básúnu hljódi, og þeir munu fyrst uppríſa, sem dáid hafa í sameiníngu vid **Krist**; þar eptir munum vér, sem lifum og eptirblífum, ásamt med þeim verda uppnumdir í skýin, til ad mœta Drottni í loptinu, og munum svo vera hjá Drottni alla tíma, 1 Thess. 4. Þeir, sem dáid hafa í sameiníngu vid Krist, munu, eptir Póstulans lærdómi, verda uppnumdir í skýin til ad mœta Drottni í loptinu; þad er ecki sagt um þá vanheiløgu, sem deyja fyrir utan sameiníngu vid Krist; þeir verda eptir á jørdunni, þeir verda ecki uppnumdir í loptid á móts vid Drottinn, og þar med adskiljast saudirnir frá høfrunum, þeir vanheiløgu frá þeim heiløgu.

Sá fimti lærdómur: þad, sem áqvardar mannanna frikénníngu edur fordœmíngu á sídasta degi, er ecki svo mjøg þeirra þecking, svo sem sú ástundan og kostgæfni, hvar med þeir hafa breytt eptir þeirra þeckíngu. Enginn efi er á því, ad ásetníngs vankunnátta og vantrú vinnur til fordœmíngar; því þá er hjartad spillt og elskar sína spillíngu; í þessu tilliti segir **Kristur**: hvørr, sem á hann trúir, fordœmist ecki; en hvørr, sem ecki trúir, er nú þegar fordœmdur, af því hann trúdi ecki á Guds eingétinn Son, Jóh. 3. En þó mun ecki

verda spurt ad því á síðasta degi, hvørsu mikið vér høfum vitad; heldur hvørsu mikið vér høfum gjört af því, sem vér vissum. Sú trú, sem frikénnir oss, er einúngis sú trú, sem er kreptug fyrir kjærleikann, sú trú, sem er ávaxtarsøm ad dygdugum, ágætum og kristnum manni verdugum athøfnum. Þess vegna er það, ad Kristur í ádur framfærdri útmálun þess síðasta dóms, talar ecki um þeckíngu þeirra frikénndu og fordæmdu, heldur um þeirra athafnir, og um eptirbreytni þeckíngarinnar.

Sá sjøtti lærdómur: álýktanin af þessum dómi er sú, ad þeir heiløgu inngánga til eilífrar sælu, og þeir ógudlegu til eilífra písla. Beggja ástand mun, eptir Jesú lærdómi, vara eilíflega. Eins og orðið eilífur merkir endalausann varanlegleika, þegar það brúkast um ástand þeirra sáluhólpnu, þá hlýtur það líka ad hafa sømu merkíngu, þegar það brúkast um eymd þeirra fordæmdu. Vér finnum enga ástædu í Ritníngunni til ad taka orðið í sama stad í tveimur adgreindum merkíngum. Ritníngin géfur oss enga átyllu til ad vænta neinnar fríunar, og fyrir utan Ritnínguna veit skynsemin eckért til vissu í þessu efni. Svo mikið veit hún einúngis, ad svo lengi þeir fordæmdu halda áfram ad syndga, þá hljóta þeir líka ætíð ad vera ófarsælir; en eckért medal þeckir skynsemin, af hvørju þeir fordæmdu skyldu géta betrast, hún gétur þess vegna ecki heldur sýnt oss neitt medal, med hvørju þeir géti fríast frá fordæmíngunni. Oss er þess vegna óhultara, ad halda oss við Ritníngarinnar útþryckilega lærdóm, heldur enn vid skynseminnar óvissu tilgátur.

Þetta er Ritníngarinnar lærdómur um þann síðasta dóm, sem liggur fyrir höndum; meira kénnir hún oss ecki, og meira þurfum vér ecki að vita; uppá þau spursmál, sem framar kynnu að gjörast, mun egin reynsla svara síðar meir. Þessu eina bætir hún við, að heimsins eydileggíng egi að fylgja á eptir dóminum; því nú er tilgángur-inn með þennann heim uppfylltur, nú þarf ecki framar á honum að halda. Sá himin og jörð, sem nú eru, segir Pétur, verða fyrir hans orð geymð eins og fésjóður, og eru ætluð eldinum á degi dómsins og til vondra manna eydileggíngar. Vér kynnum hér að spyrja: hvört það einúngis sé vor jarðar hnöttur, sem þá á að eydileggjast, eður vor gjörvalli sólheimur? sólin með öllum henn-ar plánetum, ellegar gjörvalla heimsins víðt út-þanda bygging? vér kynnum að spyrja: hvört sá heimur, sem á að eydileggjast, muni öldúngis verða afmáður og að engu gjörður, eður hvört hann má-ské einúngis muni missa sitt núverandi form, muni umbreytast og setjast í betra og ágætara tilstand? vér kynnum að spyrja: hvört þessi heimur, þannig endurnýjaður, muni verða bústaður þeirra sálu-hólpnu eptir upprisuna, ellegar í hann verði settir nýir innbyggjarar? um þessi spursmál er nú búið að stríða svo lengi, og enn þá eru menn ecki komnir til neinnrar vissu; hafi manneskjurnar lyst til að þrátta um ávaxtarlausar eptirgrenslanir, þá hafa þær hér nóg að þrátta um til veraldar enda, því fyrri verða þessi spursmál ecki útkljáð. Ritníngin þegir, hvöreð einúngis gétur géfið oss vissu í þessu efni, og skynsemin ráfar innanum ógrundaðar til-

gátur. Sá, sem neitar þeim, hefir allteins litlar rökfemdir vid ad styđjast, sem hinn, er játar þeim, og sá, sem játar þeim, sem hinn, er neitar þeim. Þad besta í þessu efni er, ad hvørki vor hegdan, né vor farsæld er komin undir úrlausn þessara spursmála, og þess vegna hefir Gud ecki heldur útskírt þau fyrir oss. Heimurinn vard til, og vard þad, sem hann er, án þess ad vér hefdum þar nockurn hlut med ad gjøra, hann mun líka sídarmeir án vor verda þad, sem hann á ad vera.

---

Í stadinn fyrir ad hnýsast eptir þessum mikilvægu atburdum, ættum vér ad kappkosta med kristilegri hegdun ad búa oss undir þá. Þeir heilögu eiga, eptir Jesú dómi, ad inngánga til eilífs lífs, og þeir vanheilögu til eilífrar pínu. Hvørsu skélfilegur hlýtur þá þessi dómur ad verá fyrir þá sídari! þegar þeir nú koma fram fyrir dómarans auglit, þegar engrar nádar er nú framar ad vænta, engin tár hræra framar dómarans hjarta, sú þreytta og forsaktada miskunsemi er nú umbreytt og ordin ad straffandi réttlæti, og eckért hæli er ad finná fyrir reidi þess, sem á stólnum situr. Þegar þeir nú líta til síns umdanfarna lífs, og sjá heilann her af ásetnings yfirtrodslum, sem hrópa um hefnd yfir þeim, og nú þegar upptendra eilífdarinnar loga innvortis hjá þeim; nú líta þeir aptur til þess ókomna, og hvad sjá þeir hér? Gud; en þann Gud, sem ecki er lengur þeirra fadir, ecki lengur miskunari, heldur strángur dómari allra þeirra, sem allt til þeirra sídustu endalyktar hafa mótstadid hans nád, sem

kroptuglega hefir leitast vid ad betra og frelsa þá. Hvørsu stór hlýtur syndarans skélfíng þá ad verda! og hræsnarinn, hvad hlýtur hann ad finna hjá sér? Þegar gríman dettur nú frá andlitinu á honum, þegar hann nú í allri sinni skømm og nakleika framkémur fyrir Krists dómstól, þegar hann nú sjer, en sjer þad allt offseint, ad hann ad sønnu gat dregid manneskjurnar á tálar, en ecki þad alvitra auga, sem skygnist inní hjartad í gégnum þann útvortis dularfeld, þegar þad nú leidist í ljós, sem í myrkrunum er hulid, rád hjartnanna opinberast, og sérhvørr fær sín laun af Gudi. Ættum vér ecki í tíma ad leitast vid ad umflýja þessa yfirhángandi hættu? edur kunnum vér ad heita forsjálir kristnir, þegar vér vitum ad hún vofir yfir oss, og leitumst ecki vid ad umflýja hana, og ecki ad búa oss undir hana? hvad, ef þessi stóri og ógnarlegi dagur Drottins nú upprinni, ef þad sídasta lúdurs-hljód qvædi vid, og mannsins sonur birtist í skýunum med øllum sínum heiløgum, ef fjøllin tæki nú til ad rjúka, og bylgjurnar ad brúsa undir løg-gjafarans fótum, hvad mundum vér þá finna hjá oss, hvørt meiri von edur meiri ótta? høfum vér grundada von um, ad verda vid Jesu hægri sídu, eda þurfum vér ad qvída fyrir, ad oss verdi vísad til hans vinstri hlidar? hvørsu margir munu þeir vera, sem med fullkominni vissu géta svarad uppá þessa spurníngu, og þó erum vér svo rólegir eins og engin hætta væri á ferdum. Hvílík blindni! hvílíkt skammarlegt laus-lyndi! hvílík ólucku leg rósemi! ætlum vér þá ecki ad vakna, fyrr enn þad sídasta lúdurs-hljód vekur oss? já, þá voknum vér ad vísu, en þá

mættum vér óska oss að géta sofið til eilífðar. Ættum vér ecki í tíma að géfa gætur að sjálfum oss? ættum vér ecki við sérhvörn syndsamlegann þánka, sem oss flýgur í hug, við sérhvörja vanheilaga girnd, sem hreifir sér í vorum hjörtum, við sérhvört ógætilegt orð, sem saurgar vorar varir, að hugsa með sjálfum oss: þessi þánki, þessi girnd, þetta orð, mun seinna auka minn reikníngskap, seinna mun það koma fyrir dóminn, og auka mína fordæmíngu. Ef vér í hvört sinn, sem vér syndgudum, temdum oss þessa þánka, mundum vér þá ecki verða hræddir við sjálfa oss, mundum vér ecki skyndilega snúa aptur, auðmýkja oss fyrir Dómaranum, biðja fyrirgéfníngar á vorum afbrotum, með trúnni leita Endurlausnarans, svo að vorar misgjörðir mættu útsléttast af vorum reikníngskap.

Til að upprvorfast rétt kröptuglega til þessarar árvekni og forsjálni í voru framferði, hljótum vér lifandi að setja oss fyrir sjónir Dómarans persónu, hans alvitsku, fyrir hvörri vorir heimugleguftu þánkar ecki eru huldir, hans allstaðar nálægð, sem með allri sinni hátign umkríngir oss; hans heilagleika, fyrir hvörjum jafnvel syndarinnar skuggi er viðurstyggð; hans réttlæti, sem hlýtur að gánga eptir sinna laga eptirbreytni; hans almætti, sem vér hvörki kunnum að umflýja né móti standa. Til að upprvorfast kröptuglega til þessarar árvekni, skulum vér daglega setja oss alvarlega fyrir sjónir, hvörsu skammvinnt og óstödugt þetta líf er. Hvörr veit, hvörsu skyndilega oss kann að verða burtu kippt, og krafinn af oss reikníngskapur? hvörr veit, í hvaða ástandi vér munum skilja við heiminn? hvörr

veit, hvørt Gud á vorum sídustu líf-stundum vill géfa oss tíma til umvendunar, ef vér allt þángad til høfum forherdt oss á móti hans umvendandi náð? og hvørr veit, nema vor forherðíng sé þá kannské svo stór ordin, ad umvendunin yrdi jafnvel ómøgu-leg, þó Gud vildi unna oss tíma til hennar. Til ad uppørfast kroptuglega til þessarar árvekni, hljót-um vér ad setja oss alvarlega fyrir sjónir, hvørsu óendanlegur missir þad er, sem vér lídum vegna vors ydrunar-leysis, hvørsu ógnarleg sú bølvan er, sem á þeim sídasta degi mun dynja yfir þá for-dæmdu, hvørsu stór þeirra skømm mun verda í augsýn allra engla og allra heilagra manna, hvørsu óþolandi sú ángist og ørvænting mun verda, sem bídur þeirra í eilífdinni, og hvørsu ómrædileg þar-ámóti sú gledi mun verda, sem þeir trúudu þá munu ødlast í Jesú sídustu tilkomu.

Þegar þessir þánkar hafa kroptuga og ávart-arsama verkun í vorum hjørtum, þá er tilhugsan þess sídasta dóms oss í engann máta óttaleg; því Dómarinn er vor vinur, vor Frelsari, vor tals-madur; sá, sem á ad dæma oss, er hinn sami, sem dáid hefir fyrir oss. Þad er sá Jesús, á hvørn vér hofum trúad, hvørn vér høfum elskad, hvør-jum vér høfum þjónad, hvørjum vér þolinmódlega høfum eptirfylgt. Þad er sá Jesús, sem ætíd hef-ir verid vort ædsta góda, vor von og vor styrk-leiki. Hvørs megum vér nú ecki vænta af honum, nú, þegar hann kémur til ad umbuna sínum trúu þjónum, og útbýta eilífdarinnar sigur-krønsum á medal sinna sønnu strídsmanna? nú, þegar hann situr í hásæti sinnar dýrdar, ber himneska sælu og

helvítíska pínu sína í hvørri hendi, úthlutar þessa sínum óvinum, en hina sínum vinum. Hvørsu stór mun þá vor gledi, hvørsu ósegjanlegur vor føgnudur verda, þegar vér heyrum hans sídasta fríkénníngar-dóm: komid híngad, þér blessadir míns Fødurs! eignist þad ríki, sem ydur er fyrirbúid frá upphafi veraldar.



